villdu eigi fa reidi erchibyskups ok korsbrædra enn annari hendi kuaduz þeir vilia veita konungi lydni ok alla sæmd þa er þeir mætti. Jarl suarar her fá vm ok kuat þa litlu varda mundu huart þeir gerdi helldr. Dagfinnr suarar. ef þeir fara med sliku her fram sem þeir hofu i þrondheimi þa mun braatt af þuaz oll su sæmd sem konunginum heyrir til. þa mællti konungr. þu Dagfinnr bondi far inn til bearins ok seg sua korsbrædrum at ek vænti af þeim einna manna bezst þeirra er i eru landinu. enn ef þeir gera odruviss þa skal eigi langt til at þeir skulu vita huart oss likar vel edr illa. Dagfinnr reri þa inn til beiar ok segir korsbrædrum ord konungs ok sua huat jarl mællti.

## Radagerdir S(kula).

19. Korsbrædr segia sua at þeir villdu giarna konungi alla sæmd gera kuoduz eigi sua skylldu kaupa vingan erkibyskups edr korsbrædra or þrondheimi at tyna þar i mot konungs vingan. Siþan reri konungr inn til beiar ok var ringt[1] vm allan stadinn. enn lærdir menn geingu sem sæmiligaz i mot konungi. þangat var stefnt ollum lendum monnum ok hirdstiorum þeim er i Gulaþingslogum voru ok nefndir menn or herudum ok settr stefnudagr a Seliumanna vokudag at allir skylldu til Biorgyniar. Enn medan þessa var bedit voru þeir i bænum konungr ok jarl. Konungrinn var vngr ok fyrir bernsku sakir sinnar gaadi hann meirr leiks enn landraada. enn jarl var allar þessar stundir i raadagiordum vid sina vine ok sendi bref bædi i Suiavelldi ok sudr ok nordr i landit. var þat flestum monnum vkunnigt huat a þeim var ok faa voru konunginum synd. þa voru menn sendir austr i Vik til Philippus Bagla konungs. leitadi jarl þangat vinaattu ok felagskapar. Enn er vinir konungs kærdu þetta fyrir honum at slik vmleitan væri grunsamlig at leita þangat vinaattu sem iafnan hafdi fiandskapr verit. þa suarar konungr at Skuli jarl var sua vitr madr at hann mundi sia kunna vine ser til handa. ætla ek mer þat meinlaust at hann eigi ser marga vini þuiat hann mun vel hallda vôr einkamaal af sinni hendi ætla ek ok eigi fyrr þau at brigda.

## Fra Hakoni konungi ok hans monnum.

20. Skuli jarl let gera bref vestr vm haf til Jons jarls i Orkneyium ok var þar fyrir konungs innsigli ok vissi konungr eigi til þess ok eigi huat aa var brefunum. sa madr for med brefunum er Josteinn þomb het. hann var gestr. Ok þa er brefin komu til hafs vrdu menn varir vid a skipum konungs ok gerdu ord inn til beiar til Juars bodda ok

[1]) ringn *Cd.*

Dagfinnz bonda raadgiafa konungs ok sogdu þat konungs jnsigli var fyrir brefum þeim er Josteinn for med. Juarr geck þa til konungs ok spurdi ef hann vissi nockut til þeirra brefa. konungr kuez eigi vita. Juarr sagdi betr vera at konungr vissi þau bref ok sei er med konungs insigli voru send i onnur lond. Konungrinn gerdi þa menn til Herdluvers eftir brefum. Jarlinn vard þessa varr gerdi hann þegar menn sina a odru skipe. vrdu þeir skiotari ok naadu brefum adr konungsmenn komu til. ok þegar sem þeir komu inn til beiarins þa let jarl blaasa til hirdstefnu ok hafdi miklar kærslur aa Juar ok adra konungs raadgiafa sagdi at þeir villdi koma sundrþycki milli konungs ok sin. enn mistryggia jarl i sinum raadum. þa stod vpp Gregorius Jonssun frændi jarls ok þa enn litill vin konungs. hann mællti akafliga til Juars bodda med þessum ordum. ek var med þeim monnum i tali er fyrst sôru eida konungi ok jarli til trunadar ok hugdu ver at allt skylldi eitt vera. enn nu vill einn prestr spilla voru samþycki allra Birkibeina ok skal þat alldri hlyda. tokum hann ok refsum honum fyrst sua at allir siai vid siþan. Eftir þat liop vpp mikill fioldi frænda Skula jarls ok vina ok kuoduz skylldu rifa i sundr kuikann Juar bodda. Juarr stod vpp ok beiddi ser hliods ok feck ecki. þa lupu fram fyrir hann vinir konungs ok vordu hann sua hann sakadi ecki ok var þa kurr mikill af hirdinni. Siþan stod konungr vpp ok mællti. ek kann faatt tala enn þo vil ek þess bidia at þer hlydit Juari fostrfedr minum ok suarit siþan sem ydr likar. Roarr konungs frændi sagdi at sua skylldi vera vist.

### Fra ordum Juars.

21. Eftir þetta tekr Juarr til ordz. þat er fornum Birkibeinum kunnigt [667] sagdi hann at ek kom þat vaar til Suerris konungs aadr enn barizst væri vid Strindsio. hafdi ek af konungi gott yfirlæti medan hann lifdi ok ek þionadi honum sua at vm sidir vissa ek flest oll leyndarraad med honum. ok þa er hann hafdi hia ser raad sitt ok ena æzstu raadgiafa sina þa var ek eigi vti byrgdr ok mundi hann eigi sua gert hafa ef hann hefdi mik reynt at nockurum falsara edr vdygdarmanni. slikt sama gerdi Hakon konungr sun hans ok þann sama haatt hafdi Guthormr konungr siþan. ok er þeir toku riki Jngi konungr ok Hakon jarl þa gerdu þeir med sama hætti ok þui framar þo at mer væri i moti skapi at þeir letu mik hafa brefagerdir ok var ek iafnan vm þat ræddr at minir vuinir mætti þat nockut til finna er mer stædi haaski af þuiat þa var sem nu at eigi skorti ôfundarmenn þa er mer villdu fyrirkoma. ok þui vil ek skiota minu maali til allra manna vitnis er

nu eru her. at alldri vard þui enn aa mik komit er til fals edr flærdar væri vid minn hofþingia. enn ek veit sialfr sauk mina. þessi enn vngi konungr vaarr er bernskr ok þarf i helldra lagi heilla raadgiafa ok tryggra naavistarmanna þuiat þeir sitia ærit nær er þa villdi fra honum spenia er honum væri hollir ok heilraadir ok mætti þeir i sialfrædi vm leika at skipa hans maali sem þeim likadi. nu med þui at þessi min sauk er sua mikils verd at ek se makligr at vera rifinn kuikr i sundr sem þu sagdir Gregorius Jonssun ok þu Paall flida fyrir þat er ek bad konung sia bref sin þau sem send voru i onnur lond med hans innsigli þa skal eigi optar þurfa þess þuiat ek skal mik skilia brott or konungsgardi ok ecki spilla þeirra samþycki konungs ok jarls. gefi gud at þeir einir se eptir er baadum verdi hollir ok þui raadi at þa sæmd hafi huerr sem til er borinn. Sua lauk þessi stefnu at konungs vinir voru vgladir enn ofundarmenn kaatir.

## Landaskipti med konungi ok jarli.

22. Hakon konungr kom sua til rikis at hann feck eigi meira af faudurarfi enn eina sylgiu ok fingrgull af lausafee. enn Skuli jarl komz at ollu þui fe er aatt hafdi Jngi konungr ok hann tok eftir Hakon konung ok Suerri konung. Enn sua sem at leid þingstefnu þeirri er Gulaþingsmenn aattu at hallda ok hofdu sett Seliumanna vokudag komu fyst til Biorgyniar lendir menn hirdstiorar ok enir bezstu menn or landinu vm oll Gulaþingslǫg. Ok einum degi fyrir þingit hittaz þeir konungr ok jarl ok raadgiafar þeirra. sogdu sua konungs raadgiafar at þeir villdu at jarl sueri konungi trunadareida eftir fornri sidueniu. enn jarl sagdi at hann villdi eigi fyrr sueria enn hann vissi huat hann skylldi aa mot taka ok beidir þegar haalfs Noregs ok haalfra allra skattlanda. enn raadgiafar konungs budu þridiung af Noregi enn ecki af skattlondum. Gregorius Jonssun ok Paall flida suorudu af jarls hendi at hann skylldi et minzsta hafa þridiung af huǒrutueggia skattlondum ok Noregi ella skylldi hann þagat snua med sinn styrk sem hann fengi þat er hann beiddiz. Nu saa raadgiafar konungs at honum [1] var ofrefli at standa i mot þeim baadum Skula jarli ok Philippo Baglakonungi er þa hafdi Vikina ok Vpplond med miklum styrk ok var þat til raads tekit af konungs hendi at Skula jarli var iattadr þridiungr af ollum Noregi ok skattlondum. lauk med þui þessarri stefnu. Annan dag eptir var blasit til þings vt i Cristz kirkiugardi var þingit [2] skipat nordan at kirkiu ok siþan var vt borit skrin innar helgu Sunniuu ok margir adrir helgir domar.

[1]) hann *Cd.* [2]) þangat *Cd.*

þa stod vpp Sigurdr af Vnnarheime af hendi allra Gulaþingsmanna ok fagnadi konungi ok jarli. for þar vm morgum fogrum ordum. ok þar eftir taladi Dagfinnr bondi ok hafdi þat i sinu maali. þo at þeir i þrondheimi læsti inni skrin Olafs konungs ens helga þa var þat ecki raad bænda edr vili. skulu Gulaþingsmenn gera gladliga alla þa sæmd er þeir mega veita Hakoni konungi bædi lærdir ok leikir.

### Hakon konungr sor monnum logh.

23. Eftir þat stod vpp saa madr er Steingrimr stryllr heitir sniallr madr ok vitr. hann gaf Hakoni konungsnafn ok þauckudu flestir honum þat verk. siþan sor konungrinn at hallda landzlaug enn jarl hafdi skipat eidinn aadr sem honum likadi ok var sua eidrinn at konungr skylldi hallda vid jarl oll einkamaal þau sem i milli þeirra voru gerr. Siþan stodu vpp lendir menn Gregorius Jonssun Paall flida Bryniolfr Knutzson Gautr Jonsson Aarni sturla ok adrir hirdstiorar ok soru konungi eida. eftir þat suoru bændr. enn jarl sôr þat at hann skylldi hallda laug vid landzfolkit ok þat fylgdi hans eid at hann skylldi vera hollr ok trur Hakoni konungi sua leingi sem hann helldi þau einkamaal er i milli þeirra voru mællt.

### Fra Hakoni.

24. þa er Hakon var til konungs tekinn var aar mikit i landinu. Sumar þat var sua gott at þat var vida vm landit at alldinvidrinn bar tvennann avoxt ok vtifuglarnir wrpu tysuar. Sua kuat Olafr Huitaskaalld.

Mærir glodduz miklu aari
menn baaru þa auoxt tuennan
veglig syndr vidr ok fuglar
visa grein a sumri einu.

Sua kuat Sturla i Hakonarkuidu.

Bar taallaust
tuennan bloma
alldinvidr
einu sumri
ok okallt
vtifuglar
aunduert aar
vrpu tysuar

þa er allvalldr
vid konungs nafni
tirargiarn
of tekit hafdi
ok hans (gipt)
hæstrar tirar
vegi valit
vaxa naadi.

Saa huerr madr
at haufudskepnur
fylkis tign
fagna villdu
ok gǫfuglaatz
gialfyrir kringdu
a vinkers
vidum botni.

Litlu eftir þingit komu menn or Vik austan fra Philippo Baglakonungi med brefum til Skula jarls ok var þat aa at hann beiddiz helmingskiptis a Noregi vid Skula jarl ok Birkibeina enn at odrum kosti mundi hann reisa vfrid i moti þeim. enn ecki var konungs [668] getid i þessu brefi. enn þess var getid at fleiri bref ok ordsendingar hofdu austr farit i milli þeirra jarls. Jarl gaf þau anndsuor þessum monnum med raadi hirdstiora at Philippus skylldi hafa þann luta landz þau misseri ok þa .xij. manadi sem hann hellt aadr. enn þeir skylldu finnaz at sumri ok skylldi þa vera stefna milli allra byskupa ok inna vitrozstu manna i landinu. Fara nu sendimenn med þessum brefum austr aftr til motz vid Philippum.

## Andlat Philippus Bagla konungs.

25. Sigurdr konungs frændi var settr til gæzslu i Vikinne af hendi Birkibeina ok for hann þetta sumar til Jorsala. þessir voru sueitarhofþingiar eftir i Vikinni af Birkibeinum Lodinn Paalssun Halluardr bratti Baardr bri(m)steinn Karl suangi. þeir saatu vid mikinn otta. þeir Baglar hetu þeim huersdagliga dauda ok auarkostum. Enn aadr sendimenn Bagla kæmi austr med bref jarls feck Philippus sott i Tunsbergi. siþan var hann fluttr inn til Laufeyia. hann laa litla rijd adr hann andadiz. Baglar leyndu andlaati hans sem mest. enn Lodinn Paalsson vard varr vid ok sendi sem skiotligaz skutu nordr ok styrdi saa madr er Gunnarr banamadr het. hann var eigi leingr aa leid enn .iij. nætr til Biorgyniar. hann hafdi bref til konungs ok jarls þau er sogdu andlaat Philippus enn Birkibeinar þeir er i Vikinni voru baadu konunginn ok jarl skunda þannig austr. þeir Bagl.r leitudu hueruetna ser vm konungsefni. þeir gerdu ok menn til Danmerkr. kuoduz hafa spurt at þar se sa madr er Sigurdr het son Erlings steinueggs. nu ef þer komit skiott austr higat þa munu þer slitid faa flocki Bagla enn ella mun verda meira fyrir ef þer komit sidarr.

## Vidtal konungs ok Bagla.

26. þegar sem konungr ok jarl hofdu lesit brefin biuggu þeir ferd sina sem huatligaz ok hofdu vel .xl. skipa ok flest oll stǫr. þeir hofdu baadir eitt skip er kalladr var Ognarbrandrinn haalfþritugt at

rumatali. þeir foru austr eftir Mariumesso ena fyrri ok byriadi vel. Baglar voru allir austan fiardar þa er Birkibeinar komu i Vikina. þessir voru sueitarhofþingiar Bagla. herra Andress brodir Philippi konungs Rögnualldr Hallkelsson systurson Magnus konungs Arnbiorn Jonsson. Margir voru adrir godir menn med Boglum. Nichulas byskup hafdi lagt allt nordr i Jfasund [1] ok nockurir sueitarhofþingiar med honum. enn (er) Hakon konungr ok Skuli jarl sigldu austr i Vikina þa reri i mot þeim Nichulas byskup ok hittuz þeir inn vid Rossanes. voru þa sett grid milli Birkibeina ok Bagla. Siþan komu Baglar austan vm fiordinn. herra Andress Rögnualldr Arnbiorn ok margir adrir. þeir logdu sin skip vid Gunnarsbæ ok geingu sua til beiar. var fundr þeirra i Mariukirkiu i Tunsbergi. þar voru margir lutir taladir milli þeirra Hakonar konungs ok jarls. buduz Baglar til at geraz handgeingnir Skula jarli ok hafa slikar sæmdir sem þeir hofdu aadr. enn Baglar beidduz þess luta af landi sem þeir hofdu aadr ok kuoduz varla trua Birkibeinum fyrir sakir fornra vandræda. enn þessar vrdu maalalyktir þeirra i milli at Baglar skylldu hafa þann vetr allar þær haalfar syslur er Philippus hafdi aadr enn huorirtueggio skylldu senda menn nordr til erchibyskups ok skylldi hann stadfesta þetta ok setia frid i milli þeirra vm sumarit eftir. ok reduz til þessar ferdar af hendi Birkibeina Gregorius Jonsson ok Dagfinnr bondi enn af hendi Bagla Eindridi bekill ok Grundi fehirdir. Hakon konungr ok Skuli jarl skipudu þeim syslur er til þeirra koma. Siþan var stefnt Haugaþing ok var Hakoni þar gefit konungs nafn. Eftir þat visudu þeir konungrinn ok jarl flestu lidinu nordr aftr. enn þeir foru austr yfir Folldina ok aattu Borgarþing ok þadan i Vestraherat til Stofna ok aattu þar þing. þadan til Hornboraþings ok austr til Elfarbacka. var Hakoni þar gefit konungs nafn a ollum þessum þingum ok gerdu menn vt allan almenning med godum vilia ok enn giafir aa ofan vm alla Vikina. þeir saatu langa hrid i Konungahellu vm haustid. Fru Kristin er aatt hafdi Hakon galinn var gift austr i Gautland feck hennar Aaskell logmadr son Magnuss minniskialldar brodurson Birgis jarls brosu. þar fæddiz vpp med þeim jungherra Knutr son Hakonar jarls ok fru Kristinar. Vm haustid er þeir saatu i Konungahellu Hakon konungr ok Skuli jarl sendu þeir bref vpp i Gautland til logmannzins at hann skylldi senda þeim iungherra Knut ok kuoduz þeir til hans sæmiliga gera skylldu ok var fundr lagidr milli þeirra ok kom jarl enn logmadr eigi þuiat hann trudi varla Birkibeinum. Eftir þetta foru þeir konungr ok jarl nordr til Tunsbergs ok þadan nordr i land.

[1]) *r.* Luasund.

### Fra ferd Hakonar konungs.

27. Sumar þat er þeir voru i Vikinni for Roarr konungs frændi vt i Jorsalaheim. hann hafdi mikit lid ok fritt. Erlendr þorbergssun het madr hann for med honum. hann styrde audru skipe. þat hofdu beiarmenn gera laatid af sinum kosti. þat skip er Roarr aatti kom til Akrs. enn bearmanna skip kom allt til Darmatar ok sysludu huorirtueggio vel i þessi ferd. Aadr Hakon konungr ok Skuli jarl foru or Tunsbergi stefndu þeir til sin ollum lendum monnum þeim sem i Vikinni voru. uar þeim varhygd mikil aa bodin at þeir skylldu varir vm at Baglar hefdi einga vrð vppi sua ok at þeir gætti sialfra sinna vel at eingum suikum væri komit at þeim. Eftir þetta sigldu þeir til Biorgyniar konungr ok jarl ok komu .vij. nottum fyrir jol til bearins ok satu þar vm vetrinn. vm iol gerdu þeir .ij. lenda menn Jon staal ok Juar nef. þotti þa flestum monnum likt at vel mundi fara med þeim.

### Drepinn Rogvalldr.

28. Baglar skiptu med ser syslum þeim er þeir hofdu hlotid a Vpplondum ok i Vikinni. Rogualldr hlaut Folldar syslu ok vm Oslu enn hann hafdi aadr haft syslu vppi aa Raumariki. Raumar kolludu hann helldr hardann i syslunni þurfti hann ok mikils vid þuiat hann hafdi sueit mikla. Enn er Folldungar spurdu þetta þa kurrudu þeir illa ok sogdu at Rogvalldr mundi þeim eigi godr er hann var hinum illr. Rogvalldr for vt i Haugsvik ok stefndi Folldungum þing sem siduenia er til syslumanna. enn er þingbodit kom i bygdina þa sneru bændr þui i heraur ok stefna saman huerium manni er vapn maatti bera ok sottu þing med aluæpni. Rogualldr for med faa menn til þingsins. hann bad [669] bændr setia þing. enn þegar hann villdi nockut tala æptu bændr ok baadu hann þegia. sumir brugdu suerdum ok veittu honum atgaungu. Rogualldr villdi þa vndan leita. enn bændr sottu eftir ok drapu hann enn særdu nockura menn adra. enn allir hans menn leitudu til skipa ok foru i brott. Folldungar foru heim enn lik Rogualldz var flutt til Osloar ok þar iardat.

### Her hefr af Slittungum.

29. Vm sumarit þa er Hakon konungr ok Skuli jarl voru i Vikinni þa var prestr sa med Rognvalldi er Benedict het. hann var kalladr Bene ættadr austan af Morkum. hann for med leika ok var miok kaatr. hann leet þat ord fara fra at hann væri sun Magnuss konungs Erlingssunar. enn Rogualldr hafdi hann med ser ok virdi hann meirr fyrir daara enn

frænda. Enn er Rogualldr var fallinn for Beni austr aa Markir ok safnadi ser þar lidi. hann sneri nafni sinu ok kuez heita Magnus eftir fedr sinum. dreif þa mikit lid til hans. sa madr styrdi honum mest at onduerdu er Haralldr prestr het aa Rackastodum. Beni hafdi verit leigu-prestr hans. þat folk er Bena fylgdi var miok faatækt voru þeir bædi illa klæddir ok vopnadir ok fyrir þui voru þeir kalladir Slittungar. þeir liopu vm markir ok vbygdir enn sialldan vm herud. miok voru þeir vspakir i raanum ok launstuldum. Vm vetrinn reduz i lid med þeim Slittungum þorbiorn aa Lumalondum ok Helgi brodir hans. þeir voru bædi ferikir ok ættstorir ok sialfir vel mentir. reez þa ok mart i flock-inn af bondum med þeim ok bondasynir. hugdu þat allir at Beni hofþ-ingi þeirra væri sannr sonr Magnuss konungs sem hann sagdi. foru þeir þa vida vm bygdir med raan ok stuldi ok marga vspekt adra. Baglar voru i Tunsbergi vm vetrinn ok gættu bæiar. voru þeir þar fyrir herra Andres ok Arnbiorn Jonsson ok enn fleiri.

## Bardagi Birkibeina ok Bagla.

30. Enn i føstu feingu Baglar niosn af þui at Slittungar voru aa skip komnir ok ætludu til bearins. biugguz Baglar at veria bæinn ok litlu sidar helldu Slittungar skipum sinum austan vm Folldina til Tuns-bergs ok logdu inn at Skeliasteins grunni ok geingu vpp vid Gunnarsbæ. Baglar fengu her niosn af ok letu blasa ollu lidinu vpp aa Hauga vm kuelldit med vopnum. enn er myrkua tok þa for mart lidit fyrir ofan Thomaskirkiu ok suaf þar vm naattina. Beni sendi menn a fund Arn-biarnar Jonssonar ok sagdi sua at hann mundi eigi þess vænta at hann mundi beriaz i moti brodur Erlings konungs steinueggs er hann hafdi fyrr þionat. Arnbiorn suarar. rett segir Beni þat at mer samir illa at beriaz i moti brodur Erlings ok þat mun ek eigi gera ef ek ueit þat med sannindum at hans brodir er. enn ek hygg ath Beni þessi se i annarri ættartolu. skulu þer sua segia Slittungum ef þeir leita higat til bearins at ver Baglar munum koma i mot þeim ok hallda vpp orrostu. Fara sendimenn Bena aftr med þessum erendum. Nockuru fyrir dag vrdu Baglar varir vid at Slittungar voru aa Gunnarsbæ ok hofdu ner .d. manna. þa letu Baglar blaasa ok geingu vpp aa Hauga ok hofdu ner .cccc. manna. þeir mættuz a akrinum vid Gunnarsbæ. þar vard hord orrosta ok fellu huorirtueggio ok miklu fleiri af Slittungum. Beni var aa hesti ok eigi i orrostu. Arnbiorn feck saar var hann lagidr i haalsinn fyrir nedan eyrat. herra Andres vard ok saarr i kinninne. enn er hann feck þat kastadi hann skilldinum. hann var manna sterkazstr. hann tok vinstri

hendi skiolldana ok dro af þeim enn hio hinni hægri hendi huern til bana med suerdi þui er Skardi het allra suerda bazst. Arnbiorn geck þa hart fram ok sotti at merki Slittunga. þar fell þorbiorn af Lumalondum ok Helgi brodir hans. þar fell meirr enn .xiiij. tigir manna enn allir flydu þeir er eftir voru af Slittungum. Beni komz vndan vid litinn ordztir. lik þorbiarnar ok Helga voru flutt til kirkiu. enn oll onnur lik af lidi Slittunga voru þar reyrd sem þeir fellu. Eftir osigr þenna sneri Beni austr a Markir ok dro þa lid at ser aa nyia leik. Herra Andres ok Arnbiorn ritudu til Hakonar konungs ok Skula jarls baadu þa skynda i Vikina sagdi at lid dreif huersdagliga til Bena ok hann styrktiz miok.

## Slittungar rǽntu.

31. Vm vorit eftir paascha komu Slittungar ofan af landi til Osloar. Juar i Vik hafdi þa Osloar syslu. ok byskupsmenn foru i mot þeim ok skutuz aa yfir aana. þar fell meistari Stefnir af byskupsmonnum enn faair menn adrir enn mart vard sárt ok flydu byiarmenn i bæinn. Slittungar lupu vpp i bæinn ok rǽntu morgu. þeir toku langskip er byskup aatti ok nockur skip onnur ok foru siþan vt eftir firdi sua sudr i Vikina ok rǽntu huar sem þeir foru ok maattu. enn er þeir kuomu sudr fyrir Elfarkuislar þa logdu þeir i ena eystri quislina. Askell logmadr var þa i Liodhusum. hann hafdi fengit kuitt nockurn vm ferd Slittunga ok þeir rǽntu vida. hann skipadi skutur ok rere vt or aanni ætladi hann at banna þeim raanin. vissi hann at eigi mundi lid skorta af herudum ef hann þyrfti. þar var med honum jungherra Knutr. þeir laagu vid land vt i anni. þeim var sagt at meiri vôn var at langskip nockur færi wt eftir aanni. let logmadr þa iungherra Knut a land ok rann hann aa skog. Litlu sidar rendu at þeim skutur Slittunga. tok logmadr ok allir hans menn a land vpp vndan. enn Slittungar toku þar skip hans ok gott landtialld ok messofaut ok marga adra goda gripi ok foru siþan leidar sinnar. enn menn laugmannz leitudu leingi Knutz aadr þeir fundu hann. enn Slittungar foru vt til siofar ok sua sudr a Halland ok foru helldr vspakliga.

## Fra Birkibeinum ok Slittungum.

32. Birkibeinar þeir i Vikinni voru spurdu huat Slittungar hofduz at. stigu þeir þegar aa skip ok fara sudr at leita þeirra. þar voru þessir sueitarhofþingiar Guthormr Gunnason Lodinn Paalsson Lodinn Gunnason Halluardr bratti Juarr Vtuik Karl suangi. þar voru ok Baglar Andres ok Arnbiorn. Ok er þeir komu sudr i Vikina spurdu þeir at Slittungar

hofdu farit sudr til Hallandz ok helldu þeir þa sudr eftir ok hittu þa þar sem heitir Bardafiordr. ok fundu Slittungar eigi fyrr enn skipin rendu fyrir hofnina. foru þeir þa þegar vpp aa land ok flydu vndan enn Birkibeinar ok Baglar toku skip þeirra ok allt þat er aa var enn fengu ecki af monnum. Herra Andres lagdiz siukr litlu sidar ok opnadiz saar þat er hann hafdi [670] feingit aa Gunnarsbæ tok þa at suella ok þrutna. Sem hann kendi at miok leid at honum þa leet hann gera bref ok sendi til Skula jarls ok voru þar a vinsamlig ord sem þeir hofdu aadr vid mælltz. hann sendi jarli suerdit Skarda ok skiolld gulllagdann. Litlu sidar andadiz herra Andres. lik hans var flutt til Osloar ok iardat i Halluardz kirkiugardi. hann var miok harmdaudi.

## Fra erchibyskupi.

33. Uetr þann er Slittungar voru i Vikinni sat Hakon konungr i Biorgyn. þessi var enn fyrsti vetr konungdoms hans. Aadr vm sumarit var þat til tiþenda aa Jslandi at Sæmundr Jonssun i Odda gerdi noræmum monnum vfrid aa Eyrum. hann for at þeim med .d. manna ok tok fyrir þeim .ccc. hundrada vadmaala. enn hann fann þat til saka at Paall son hans hafdi tynzst aadr vm vetrinn. þa tyndiz Aslaakr Haukssun ok nockur .vj. skip edr .vij. aunnr. enn Sæmundr þottiz þat spurt hafa at Biorgyniarmenn hefdi gert honum vnaadir nockurar ok hefdi hann þui nordr farit enn eigi af fysi sinni. Margan vfrid annan gerdu Oddaueriar kaupmonnum enn þenna. Hakon konungr ok Skuli jarl biuggu ferd sina er vora tok norþr i þrandheim ok komu til beiarins haalfum manadi fyrir paaschir. ecki var ringt i mot þeim ok enga processionem villdi erchibyskup gera i mot konungi ok þa er þeir mættuz þa veitti byskup konungi einga blidu. enn jarl ok erchibyskup funduz huersdagliga ok var þar enn mesti blidskapr. þann dag er jarl var einn saman i Kristzkirkiu þa var honum veitt hofþinglig tign. Paalmsunnudag voru þeir baadir i Cristzkirkiu konungr ok jarl ok saatu i haasæti ok var konungi engi tign veitt ok huorigum þeirra. ok er þeir voru leiddir til alltaris at offra þa villdi erchibyskup eigi snuaz i moti konungi ne vid hans offri taka. konungrinn lagdi offrit a alltarit ok geck siþan vt aftr til sætis sins. Siþan voru Birkibeinar fiolordari vm enn aadr at þeim þotti sin suivirding mikil allzkostar. Litlu sidarr hofdu þeir stefnu i erchibyskups gardi. þa spurdi konungrinn erchibyskup hueria sauk hann gaf honum er hann villdi eigi veita honum konungliga tign. Erchibyskup suarar sua. þetta er eigi mitt eins raad. allir ver byskupar erum þessu raadi ok þeir sumir er innan hirdar eru med ydr ok finnum

ver þat til at ver hofum heyrt ympt nockurn aa huart þu ert son Hakonar konungs edr eigi. Konungr suarar. eigi er þetta ollum monnum at kenna ne byskupum ok faam monnum innan hirdar. enn af þeim er þetta komit er mer vill nidra enn sialfr sik til mins fődurarfs draga. Erchibyskup suarar. þegar ver erum sannfrodir vm þat er ver efumz nu i þa skulum ver veita þer alla tign þa er ver megum. Jarl þagdi ok lagdi med huorigum til. enn þessarri stefnu lauk sua at eftir vm sumarit skylldu þeir koma til Biorgyniar Hakon konungr ok Skuli jarl ok erchibyskup ok allir lydbyskupar lendir menn ok laugmenn ok allt et bezsta mannval ok skylldi þa taka af þessu maali þat er likazst þotti. Dagfinnr bondi var þa næstr konungi vm allar raadagerdir. Erchibyskup let gera Dagfinni ord leyniliga eftir stefnuna ok sagdi honum sua. gudi er þat kunnigt at ek vil giarna vera vin konungsins ok eigi væri þessir lutir sumir taladir er nu eru ef ek redi. enn þo skulu þer þat raada konunginum at hann taki þessu vel ok þolinmodliga fyrir guds sakir. þuiat sua segir mer hugr vm at þetta skal honum verda mest til sæmdar enn þeim til vanvirdu er honum vilia nidra i þessu.

### Greinir milli konungs ok jarls.

34. Hakon konungr ok Skuli jarl duolduz vm vorit i þrondheimi. enn er sumra tok biugguz þeir nordan ok foru til Biorgyniar sem ætlat var. enn er þeir komu til beiarins vrdu margar greinir milli þeirra ok geingu Birkibeinar þa miok sueitum. enn þa er lendir menn komu þa voru þeir flestir er at sneru med odrumhuorum konungi edr jarli. enn þa var sem fyrr at sa hafdi folkit fleira sem feit hafdi meira. Konungsmenn gættu konungs med mikilli varhygd sua at þeir foru vt i konungs gard med sueitum sinum at sofa. Andres skialldarband ok Vegardr veradalr letu huern dag fylgia konunginum .xij. menn væpnta vmfram þa er fylgd helldu. Sua sem aa leid sumarit komu allir til beiar byskuparnir Guthormr erchibyskup Nicholas byskup Heinrekr byskup af Stafangri Juarr byskup af Hamri Biarni byskup af Orkneyium ok margir adrir lærdir menn ok laugmenn ok enir bezstu bændr er þangat voru nefndir. Konungr ok byskupar voru sialldan aa tali milli sin enn þeir optliga jarl ok byskuparnir. Einn dag er konungr sat aa tali vid raadgiafa sina þa komu sendimenn fra erchibyskupi ok jarli ok voru þar þeir Haauardr byskup af Biorgyn ok meistari Biarni or þrondheimi. bar byskup fram erendit med þeima ordum. herra sagdi hann erchibyskup ok jarl baadu þess ydr at iarnburdr sa er bodin var af yduarri hendi þat vőr er þer vorut kosnir til rikis at hann skylldi nu fram

koma til þess at þeirra manna sǫgn se vnyt er aadr hafa nockurn efa aa vm yduart faderni. nu ef þer vilit sua gert hafa ok beri gud ydr vitni vm þetta maal þa vilia þeir ydr tigna sem sinn herra sannan ok veita ydr alla konungliga tign. Konungrinn suarar sua. ek veit eigi huart mer þickir þui kaupandi tign ydr at ganga vndir slika afarkosti. þa ræddu lendir menn ok raadgiafar miok ymissliga vm þetta maal. enn þær lyktir fellu aa at vm morgininn eftir skylldu þeir finnaz i skrudhusi konungr ok erchibyskup ok lydbyskupar. Ok er þeir funduz taladi erchibyskup þat sama sem aadr var sagt. siþan taladi Dagfinnr sua. varla munu dæmi til finnaz at bonda synir ok kotkarla skulo gera einualldzkonungi ok konungs syni slika afarkosti vfridarlaust ok þraungua honum til iarnburdar þadan fra er hann var konungr vordinn yfir ollu landi ok allir menn hafa honum eida suarit. ok ætla ek oss þickia litlu verra vera at laata bera ecki iarn nema þeim kallt er hans vuinir eru ok laata allzvalldanda gud skipta milli konungs ok vuina hans sem hann skipti milli Suerris konungs ok hans motstodumanna. Eftir þetta suarar konungrinn med þeim hætti. þat er vist satt Dagfinnr at þetta mundi þickia mikill afarkostr morgum konungi at taka nu iarnburd aa hendr ser eftir stadfest riki sitt. enn þa ek baud þetta af minni hendi ok modur minnar ok var ek þa eigi fastliga til konungs tekinn enn þa var þui ollu nidr drepit ok voru þeir enir somu þa er þui volldu ok þessu. ok kunnigt er þat ollum monnum ok þeim er þa voru med jarli [671] er ek ok modir min komum fyrsta sinni nordr til þrondheims til Jnga konungs ok sua þa er hon kom til Hakonar jarls baud hon af sinni hendi at þessar somu skirslur skylldi fram fara ef þeim væri nockut mistrunadr a minu maali. enn þat villdu þeir med engu moti heyra ok Hakon jarl sagdi þat at þeir brædr saatu i minum faudurarfi. nu skulum ver þo þetta eigi til afarkosta virda þuiat þenna iarnburd vil ek giarna laata fram fara þegnum minum til sæmdar. sa lutr geingr mer ok annarr til at margir menn megu þat hyggia at þetta se þui vndan dregit at ver sialfir hafim nockurn efa a voru faderni. enn þessi er hinn þridi lutr er mest dregr til at ek er auruggr vm þann domarann er þetta maal er vndir skotid er alldri braazst nockurum manni til rettinda at hann ottaz engann at satt at segia ok geingr ek þui sua gladliga vndir hans rettdæmi. þetta erendi vottudu allir vel er vid voru. Eftir þessa stefnu geck konungs modir til kirkiu at fasta til iarns. þessir menn fostudu med henni Sigurdr konungs frændi Dagfinnr bondi Andres skialldarband ok enn fleiri bædi lærdir menn ok leikmenn. enn .xij. menn voru feingnir til at gæta vtan kirkiu bædi nætr ok daga at eingir spillendr kæmi til.

enn jarl var miklu blidari til konungsins þessa daga enn fyrri enn eigi vissu menn huat þui volldi.

## Fra Jngu konungsmodur.

35. Sa madr var med jarli er Sigarr het hann var ættadr af Braabrand. hann var vel hagr ok margra luta kunnandi ok vitr til raadagerda. Sigarr kuez vera vin konungs mikill. hann geck um morgininn snemma til Dagfinnz bonda ok kallar hann aa eintal. þat var Odinsdag aadr bera skulldi iarnit. hann mællti sua. veit ek at þer erud hugsiukir miok vm yduart maal. enn fyrir þui at ek vil konunginum gott þa vil ek faa til eina list þa er ecki skal til saka. ek hefir þat eitt gras ef ek rijd þui aa hond konungsmodur at ecki skal til saka ok hon skal oruggliga bera mega þetta jarn ok skir verda. Dagfinnr suarar. gud þacki þer sannan godvilia þu ert vitr ok skynsamr. seg mer huar þetta gras vex er sua mikinn kraft hefir. Sigarr suarar. þetta vex a þinum husum ok huers annars mannz her i Biorgyn. Dagfinnr suarar. engi lyf edr lækningar skulum ver til þess hafa nema þær einar sem Jesus Kristr vill gera med sinni miskunn ok aarnadarordi ennar helgu Marie meyiar ok enns heilaga Olafs konungs ok ennar helgu Sunnifu ok allra guds heilagra manna. enn þu far i brott med skrum þitt ok vit þat sannliga at þu skallt fara nockura vaanda ferd ef þu mælir þetta oftar. Siþan geck Dagfinnr bondi til konungsmodur ok til þeirra manna sem nestir voru henni ok mællti til hennar leyniliga. ef Sigarr kemr her edr annarr madr at bioda ydr nockur lyf edr uelar ok variz þat sem enn mesta andskota þuiat ek veit sannliga at fals ok flærd er vndir þessu bodi ok opinber suik vid sialfa þik ok konunginn.

## Skirsla fru Jngu modur Hakonar konungs.

36. Einn dag eftir primamaal þa bar konungsmodir jarn eftir rettum tima ok greiddiz þat it bezsta af hennar hendi. þar var vid konungr ok erchibyskup jarl ok adrir hofþingiar. þar var ok jarl af Orkneyium. Enn þann dag er leysa skylldi hondina var konunginum sagt at jarls vinir hofdu kurr aa nockurn at bera vopn vm daginn leyniliga ok af þui baud konungr Joni staal Guthormi Gunnasyni Vegardi or Veradal ok Baardi brimstein at þeir leti vopnaz sueit sina alla ok gera ord gestum at þeir vopnadi sik ok væri vt vid Kristzkirkiu medan hondin væri leyst. Vm daginn at rettum tima þa kom konungr ok erchibyskup jarl ok adrir byskupar ok hofþingiar med odru folki vt til Cristzkirkiu. ok er leyst var hondin konungsmodur þa gerdi gud þar

miklar iarteinir med sinni miskunn at hon var vel skir ok sogdu þat allir þeir er saa at myklu var þa fegri hönd hennar enn aadr hon tok vndir iarnit. saunnudu þat bædi vinir ok vuinir.

### Sættir konungs ok Skula jarls.

37. Eftir þetta voru a nyia leik giorfar sættir milli Hakonar konungs ok Skula jarls ok var þing at Kristz kirkiugardi drottinsdag eftir ok voru þar allir hofþingiar. lysti þa erchibyskup skirslu konungs ok lagdi þar bann vid huerium manni er nockurn vtrunat legdi þar aa. lysti hann ok enndrnyiadi saattmaal milli konungs ok jarls. Her eftir biuggu þeir ferd sina konungr ok jarl med miklu fiolmenni þuiat þa hofdu komit bref til þeirra austan fra Birkibeinum ok Boglum at Beni ok Slittungar styrktuz miok ok drogu saman mikit illþydi ok gerdu mikinn vfrid. þeim byriadi seint austr. sem þeir komu til Tunsbergs var þeim sagt at Beni ok herr Slittunga var i Oslu ok eingar niosnir foru fyrir konungi. þeir villdu þa þegar hafa sik inn til Osloar þuiat byrr var aa godr. var þa blaasit ollum monnum til brottferdar ok sum skipin logdu wt. Jofreyr het profastr sa er þa var i Tunsbergi. hann geck þegar til konungs ok jarls ok hafdi med ser suein einn ok kuat vera miok modann. sagdi at Nichulas byskup hafdi sent hann vt til Tunsbergs til profastz ok beiarmanna at gera þa vara vid at Slittungar villdu fara vt til beiarens. sueinninn kuez skiliaz vid þa er þeir foru sumir or Oslu. Sumir Birkibeinar kuodu þetta vera mundu prett Nichulas byskups at hepta sua ferd þeirra. profastr ok beiarmenn baadu konunginn eigi fara or bænum ok duolduz þann dag. ok var leypt monnum it efra aa hestum ok mættu þeir monnum er rakleitt hofdu farit or bænum ok sogdu at þetta var hegomi ok vpplostningar byskups.

### Fra Slittungum ok Birkibeinum.

38. Jvarr vtuik ok Aasbiorn kopr laagu þaa vid Hofudey. enn þeir hofdu Osloar syslu af konungs hendi. þeir hofdu gert vt leypiskutu at vita ferd konungsins ok jarls. enn (er) þeir fundu konunginn sogdu þeir at Slittungar voru i Oslu ok letu sem kyrrazst. Siþan var heflat a konungsskipinu ok var sagt aa onnur skipin at oll skylldu sigla iafnfram ok leggia sua at bænum. siþan sigldu þeir sem mest. enn þau skipin sem seinfærri voru gerdu bædi at sigla ok roa. Slittungar hofdu vord vppi i Halluardzkirkiu stopli ok saa þadan skipin þegar vtan foru fyrir Nesodda. skunda þeir Beni þa sem mest or bænum. Enn er Birkibeinar komu inn vm Hofudey þa sa þeir skipin giorla at sumir

Slittungar foru aa leid. þa var lagt at bryggium sem akafaz bædi sunnan ok nordan lupu menn þaa vpp i bæinn. voru þa allir Slittungar or bænum. sumar sueitir Birkibeina sottu eftir þeim allt nordr til Frysiu ok fengu ecki af þeim.

## Af konungi ok Slittungum.

39. [672] Baglar saatu margir i kastala byskups ok gættu sin enn huarki voru þeir i moti þeim Slittungum ne med. þuiat þeir voru þa handgeingnir Birkibeinum. enn þegar Hakon konungr kom iafnfram kastalanum þa geingu þeir ofan ok budu honum sina þionustu. Nichulas byskup var i bænum ok gerdi þegar baat til konungsskipsins ok let fara Jngu konungsmodur i gard sinn ok hellt hana sæmiliga ok var enn blidazsti. enn vm morgininn eftir gerdi hann processionem i moti konungi med allri sæmd. Eftir þetta voru bref gerr til Arnbiarnar Jonssunar ok allra Bagla. komu þeir þa til Osloar ok gerduz handgeingnir Hakoni konungi ok Skula jarli ok gaafu vpp nafn þess folks er þeir hofdu aadr med farit. Enn þessir voru þa sueitarhofþingiar med Boglum er til handa geingu Arnbiorn Jonssun Gunnbiorn Jonsbrodir Simon kyrr Eysteinn Roasun Gudolfr a Blackastodum Eindridi bekill Finnr Kaalfssun Botolfr Aufurssun Finnr Bergþorssun Gudleikr skreidungr Siguardr sefuill Gunnarr Aasusun Eilifr kembr þorir Amundasun. Nu spurdi Hakon konungr at Slittungar voru vppi i Eyiavatni. let þa konungrinn draga .xiiij. skip vpp i vatnit ok þessir sueitarhofþingiar Guthormr Gunnasun Olafr mok Gunnbiorn Haralldr stangarfylia ok enn nockura adra. Slittungar fengu niosn af vm ferd þeirra ok flydu þegar vpp a Markir sem þeir mattu. Birkibeinar skipudu skip sin þegar sem Birkibeinar komu til vatssins. enn sumir sneru vt aftr til Osloar til konungs. voru þa dryckiur miklar i bænum ok gerduz morg tiþendi.

## Auerkar med konungs(monnum).

40. Hakon konungr aatti modurbrodur er Gunnolfr het. hann var ecki vitr madr vid dryck. hann mætti eitt kuelld godum manni er sira Eilifr het. kurteis madr ok vel sidadr. hann var enn mesti vin jarlsins ok raadgiafi. Gunnolfr bra suerdi ok hio til Eilifs miok sua af honum hondina hægri. þetta var skiott sagt jarli enn þeir hofdu baadir eitt skip konungrinn ok jarl. enn jarl het aa sina menn þegar ok bad þa vapnaz. enn Gunnolfr komz midskipa til hirdar ok skutu þeir yfir hann skialldborg ok vǫrdu hann. Skipit laa vid byskupsbryggiu ok morg skip vmhuerfis ok þegar þeir heyrdu brakit a konungsskipit

toku þeir til vopna. Jarlinn villdi ganga fram at Gunnolfi enn hirdin gætti hans. ok er hann saa at hann kom þui eigi fram þa sneri hann aftr til fyrirrumsins med sina menn. Sem hirdin saa at hann for þangat sua akafliga aluopnadr þa ottuduz þeir at hann mundi vilia at konunginum ok hlupu þeir vpp allir ok aftr til konungsins. enn jarl sneri þa vpp eftir skutbryggio ok þeir menn er honum fylgdu. enn þar laagu næst skip þeirra Aasolfs konungsfrænda ok þordar drafla ok þorfinnz illa. fleiri manna skip laagu ner þeirra sem allir voru viliadir jarli. ok er þeir komu vpp a bryggiornar til jarls þa spurdi hann huat til raads væri. kuez vilia hefna Eilifs. Madr het Reidulfr Barda brodir. saa liop med Jnga konungi er hann suam yfir aana Nid þa er slagit vard i þrondheimi. hann var engi vin konungs. hann mællti til jarls. ver munum slika fara fleiri ok þui nest þer herra ok er þat raad at ver verdum fyrr at bragdi ok drogum vpp skipin vndir þeim ok drepum konunginn ok alla þa er fyrir honum standa. Aasolfr jarls frændi suarar. ofhefnt verdr þa einnar handar ok vilium ver med engu moti a konungi nidaz þuiat hann er sannliga saklauss. Enn er þetta var tiþenda komu þeir vpp aa bryggiornar Dagfinnr bondi ok Guthormr Gunnasun Vegardr veradalr Andres skialldarband med sueitum sinum ok viku þegar at konungsskipinu. Sem jarl sa þat sneri hann i mot Vegardi ok lagdi til hans suerdi. þat lag kom i kinnina. Vegardr bar af ser ok skar vt or kinninni. Eftir þetta geck jarl af bryggium ok þagat sem Eilifr laa ok var þar vm stund. þetta ser Arnbiorn Jonssun Lodinn Paalssun ok mestr þori lidsins. toku nu til vopna sinna þuiat allir hofdu skiolldu fyrir stǫfnum fyrir ofridar sakir. þeir gerdu menn aa baatum til konungs ok kuoduz allir vilia honum fylgia. Dagfinnr bondi ok Guthormr med sinum felogum foru til konungs enn letu sueitir med vopnum. Jarl kom vt aa skip reidr miok. konungr stod vpp i mot honum ok baud bod fyrir Gunnolf frænda sinn bædi jarli ok Eilifi. enn jarl æmti þui litt. þa mællti Dagfinnr bondi. ef þer herra jarl vilit eigi laata vera grid a þessu maali i naatt til allra manna þa megi þit eigi vera baadir samt aa þessu skipi konungrinn ok þer ok skal konungrinn oss fylgia. Konungr suarar þegar. fyrir engann mun vil ek flyia mitt skip i naatt. þa mællti hirdin at þeir villdu þar vera sem konungrinn var. Jarl suarar þa godum ordum. sagdi allt þetta skylldu standa til morgins med gridum. enn vǫrdu hofdu huorirtueggio vm nattina.

Fra konungi ok hans monnum.

41. Um morguninn eftir er sungnar voru formessur geck konungr til Eilifs ok baud honum bod af hendi Gunnolfs. Eilifr suarar vel ok

selldi grid til þess er menn sæi huersu honum skipadiz. Konungr let þaa blasa til hirdstefnu ok sagdi þetta Dagfinni bonda huat vm hafdi lidit. logdu menn miok misiafnt til. Vegardr veradalr stod þaa vpp ok birti fyrir hirdinni hueria vanvirding[1] hann hafdi saklaust feingit. þat let hann ok fylgia at hann mundi þetta fyrir engum kæra ef honum væri nockur sæmd fyrir bodin. lendir menn ok hirdmenn sogdu at þeir villdu med engu moti at suo buit væri. Kom þa sua at jarl festi godra manna dom. var Vegardi dæmt bædi fe ok eidar ok vndi jarl verr sinum lut ok lagdi siþan mikinn fiandskap aa Vegard sem siþar segir.

## Fra konungi ok Skula jarli.

42. Hakon konungr ok Skuli jarl skipudu eftir þetta allar syslur aa Vpplondum enn af þui at miok var vfridligt þa voldu þeir menn til. var þeim skipat yfir Hadaland Gunnbirni Jons brodur ok þorbergi byskupsefni. enn yfir Raumariki Haralldi stangarfyliu ok þoralldi Augurssyni. yfir Heidmork Olaafi mok ok Fridreki slafsa. enn Gudbrandzdali Endrida bækli ok Baardi hala. Hakon konungr ok Skuli jarl foru til Tunsbergs enn sendu menn til Biorgyniar at segia at þeir ætludu at sitia i Tunsbergi vm vetrinn. skipadi konungr Dagfinni bonda at bua til jolaveitzslu af sinni hendi. enn jarl skipadi Grunda fehirdi. Enn þeir foru i Vikina austr til Elfar ok rannsokudu eftir fornum maalum ok nyium konungdomsins vegna. enn siþan fara þeir nordr til Tunsbergs ok saatu þar vm iolin. þetta sama haust vard Gautr Jonssun aftrreka or Jorsalaferd. konungr gerdi vel til hans ok feck honum Elfar syslu.

## Fra hirdmonnum Hakonar konungs.

43. [673] þessi var annarr vetr rikis Hakonar konungs. þa gerdi hann lenda menn Guthorm Gunnason Paal vagaskaalm. þann vetr var Gregorius Jonsson fyrir þrændalogum af konungs hendi. hann ritadi til konungs ok jarls vm vetrinn eftir jol ok sagdi at vpp hafdi brunnit bærinn i Nidarosi. þessir voru þa raadgiafar konungs Marteinn konungs frændi Gunni Lodinssun Guthormr son hans Dagfinnr bondi Baardr brimsteinn. konungrinn var þa .xv. vetra. þessir raadgiafar konungs gerdu ord Arnbirni Jonssyni ok Guthormi brodur hans Paali vagarskaalm. þeir tauludu a þessa lund. oss þickir maal konungsins vera miok hættligt sua buit. þar sem jarl hefir bædi forsio fyrir sialfum honum ok rikinu. enn þeir eru margir at þeirra i millum ganga verr enn vera skylldi ok stundum verda þeir eigi vid staddir er konunginum eru

[1]) ok *tilf. Cd.*

oruggir. ok fyrir þui villdum ver giarna fa sua saman komit þeirra vinaattu at þar þyrfti eingann mistrunat aa at gera. kuodu þat likaz efni til þess at konungrinn bædi Margretar dottur jarls. sogdu at þa mundi allt aurugt vera af jarls hendi ok hann mundi þa vnna konungi sem sinum syni. þeir toludu þetta fyrir konungi ok hafdi hann faatt vm i fyrstu enn kuez þetta vilia ef þa væri trygt ok traust vm alla luti. enn vm þat er ek ræddr sagdi hann. at allt komi til eins. enn þar likar mer vel sem þer siait fyrir. Siþan geingu þeir til jarls ok fluttu þa fyrir honum. Jarl tok þessu vel ok skaut þo til modur hennar ok til hennar sialfrar ok annarra þeirra frænda. enn þau fellu lykt aa þetta mal at konungrinn festir ser fru Margretu. saugdu þa bædi vinir ok sua adrir at ecki mundi skilia mega þeirra vinattu ef þetta tækiz.

## Af Jslendingum.

44. Vm haustid aadr kom vtan af Jslandi Snorri Sturluson. þa komu vtan Saurli ok Grimarr med knaurr þann enn micla er þeir hofdu (haft i Vestmannaeyjum ok sogdu þau tiþendi at þeir hefdi af lifi) tekit gofgann mann Orm Jonsson brodur Sæmundar i Odda ok son hans ok prest fyrir þann viafnat er Sæmundr hafdi gert austmonnum ok var þo Ormr saklauss þuiat hann hafdi iafnan bætt med þeim.

## Brudhlaup Hakonar.

45. Hakon konungr ok Skuli jarl foru vm vorit or Tunsbergi til Biorgyniar ok saatu þar vm sumarit. þa kom Jonn staal til Biorgyniar med skip þat er hann hafdi gera laatid konunginum halfþritugt at rumatali. þat skip hafdi konungr lengi siþan ok var skipa bezt. Vm Mariumessu skeid for konungr ok jarl nordr i land ok hofdu fiolmennt ok godmennt or Gulaþingslogum. enn Michialsmessudag var jumfru Margret pusat konunginum ok var veitt i hallinni sæmiliga. Saatu þeir þann vetr i þrondheimi konungr ok jarl ok foru þa allir lutir vel med þeim ok blidliga. þessi var enn þridi vetr rikis hans. þa var þeim skiput sysla i neyrdzstu þingaa Vegardi veradal ok Andresi skialldarband. var þeim þui þessi sysla fengin at þeir voru mestir hofudvinir konungs.

## Her hefiaz Ribþungar.

46. Eftir þat er Baglar hofdu geingit til sættar vid Haakon konung sem fyrr segir var engi sysla fengin Gudolfi aa Blachastodum þuiat hann var miok illa þockadr af bændum þar sem hann hellt syslu. ok er

Gudolfr sa at hann feck engar sæmdir af Birkibeinum þa mislikadi honum ok settiz vm kyrt. Enn vetr þann er nu var frasagt ok þeir saatu i þrondheimi Hakon konungr ok Skuli jarl sendi Gudolfr son sinn Eilif kęnni sudr a Hallland ok med honum Eirek farra ok enn þridia Jon raudd at leita sueins þess er Sigurdr heitir. hann var kalladr son Erlings steinveggs. þeir fundu hann ok tok hann sæmiliga vid þeim. dreif þegar lid til Sigurdar. Gudolfr var þa hofudraadgiafi Sigurdar enn Erlingr romstafr merkismadr hans. enn þessir komu fystir sueitarhofþingiar til þeirra Sandulfr Haukssun þorleifr brudr Erlingr ringr Helgi a Solbiorgum Gauti gottsmior Gaasi vndir Fiallinu Grimr suangi. þeir hofdu mikit lid ok voru kalladir Ribbungar. Nockuru adr hofdu þeir gerdz eid(brædr) Juarr or Vik ok Gudolfr blackr ok voru godir felagar. Juarr hafdi enn vinstra lut Osloar syslu ok sat i syslunni ok vardi engis nema gods. Gudolfr safnadi lidi aa laun ok for at Juari til Hofudeyiar vm nætr ok kom aa vuart ok ellti Juar af skipi. þar fellu margir vaskir menn ok fornir Birkibeinar Smidr kippa Halluardr kurt. Juarr komz i brott i bati einum enn sueitungar hans sumir komuz i kirkiu. Gudolfr tok skipit ok oll vǫpn ok morg onnur fong.

## Buinn hernadr til Jslandz.

47. Ðenna vetr saatu þeir i þrondheimi sem fyrr var ritad Hakon konungr ok Skuli jarl. enn er voradi foru þeir sudr til Biorgyniar ok saatu þar lengi vm sumarit. þa gerdi jarl ord aa þui at hann mundi gera her til Jslandz. þa hafdi Biorn son þorvalldz Gizsorarsunar dreginn mann norænann or kirkiu i Midfirdi ok laatid drepa. þottiz hann þat lata gera i hefnd Orms þuiat hann aatti Hallueigu dottur hans. Jarl ætladi morg skip til ferdarinnar enn menn voru miok vfusir ferdarinnar. þa kuad Gudmundr Oddzson visu.

Huat skal ek fyrir mik hyriar
hreggmilldr jofurr leggia
gram fregn at þui gegnann
geirnetz (sumar) þetta
byriar hafs at heria
hyrr sueigir mer eigi
saars vinnr jarl aa orar
ættleifdir suan reifdan.

Snorri Sturluson ok þeir islendzkir menn sem þar voru baadu Dagfinn bonda flytia fyrir konunginum at þessi ætlan felli nidr. ok kom sua at stefna (var) tillogd ok taladi konungr aa stefnunni ok hǫf sua. herra jarl segir hann ætlan þessi sem her hefir verit i sumar syniz ecki vitrlig voru raadi at herr se giorr til Jslandz þuiat su ferd þickir torsottlig enn land þat hefir hedan bygdz ok vǫrir frændr ok forelldrar hafa

cristnat landit ok veitt landzmonnum mikil lunnindi. eru þar ok flestir menn saklausir fyrir oss þott sumir hafi illa gert til varra þegna enn þat mun verda allra skadi ef landit er heriat. nu vil ek bidia ydr herra at þer laatid nidr falla þessa ætlan fyrir sakir mins flutnings. Sem konungrinn hafdi þetta mællt þa fluttu margir med honum. gaf þa jarl vpp þessar raadagerdir. var þat þa raad gert at Snorri Sturluson var vt sendr at frida fyrir Austmonnum. Gaf Hakon konungr (honum) lendz mannz nafn. tauludu þeir jarl mart vm maal manna a Jslandi. var þa fyrsta sinni rætt af jarli at [674] Snorri skylldi koma landinu vndir Hakon konung. Enn vm haustid er Snorri kom vt vrdu þeir vsaattir siaalfir Sunnlendingar ok vm vorit eftir drap Loptr i Skardi Biorn þoralldzsun a Breidabolstad. þat sumar sendi Snorri vtan Jon son sinn jarli sem mællt var med þeim. enn engu kom Snorri aleidis vid landzmenn flutti hann ok litt. enn frid hofdu kaupmenn godann þann tima aa Jslandi.

## Fra Hakoni ok Skula jarli.

48. Vm sumarit er þeir saatu i Biorgyn Hakon konungr ok Skuli jarl kom bref austan or Vik fra lendum monnum at þeir skynde austr þangat þuiat Ribbungar styrktuz miok. biugguz þeir skiott ok vrdu bunir at Michialsmesso. þeir hofdu .xxx. skipa. þessir voru lendir menn. Paall vogarskaalm Jonn staal Juarr nef. þeir fengu hardann byr fyrir Jadri. siþan laagu þeir i haalfann manud i Lykri. geck þa vpp dryckr miok ok sua vist. var þa hoggit bu fyrir morgum monnum i bygdinni. Gerdiz þa illr kurr i herinum. leiddiz þa morgum langlegan. var þaa þat raads tekit at þeir skiptu lidinu ok sneri konungr nordr til Biorgyniar med storskipum enn jarl for med enum smærum skipum ok hafdi hann meira lid. Sua var skilit med þeim at jarl skylldi taka landzskylldir vm alla Vikina ok flytia nordr til jolaveizslu ok maalagiafa. þa er Hakon konungr kom nordr i Eikundasund fann hann þar Heinrek byskup ok toludu þeir marga luti sin i milli ok stadfestu sina vinaattu. var Heinrekr byskup siþan stadfastr ok ðruggr vid konung. Hann mællti þa i skilnadi. þat vil ek at þer vitid herra at engan aattu þer meira (u)vin i litlum manni enn mik enn hedan af skal ydr engi traustari vin af oss byskupum þott þat megi litid. Konungi byriadi vel til Biorgyniar hann hafdi litid (fe) a skipum med ser þat er hann mætti hallda sik vid enn med ollu ecki fyrir. þa kalladi hann til sin Dagfinn bonda ok tok hann fehirdzslu ok at bua til iolaveitzlu. voru þa tekin stðr laan bædi til bordhalldz ok jolabunadar. þa voru ok morg bref gior til syslumanna ok vard þat at litlum skilum þuiat syslumenn rædduz litt konung ok

jarl enn synzsta þridiung allt nordr til Sallzsyriu. enn konungr sagdi at þo væri meira enn fyrr væri dæmi til þott hann hefdi fra Rygiarbiti ok austr til Landzenda enn kuaz þo þat vilia sakir felagsskapar ok fridar. ok skilduz þeir ath þui sinni. Her eftir geingu lendir menn Andres Jonssun Lodinn Gunnasun ok syslumenn or Vikinni ok baadu konung at hann skylldi siaalfr hafa austr þar enn skipa jarli nordr vm Þrændalög. Nichulas byskup bad ok þess hins sama ok het konunginum at hann skylldi i ollum lutum hans vin vera bædi opinberliga ok leyniliga.

## Fra konungi ok Skula.

82. Eftir þetta funduz þeir konungr ok jarl ok sagdi konungr at hann villdi fara austr i land enn hann villdi at jarl færi nordr i Þrandheim. Ok þa er þessi kostr kom vpp ok vm þridiungaskipti var talat þa sagdi konungr at her skylldi lagaskipti aa vera ok skylldi hinn nordazsti þridiungr vera nordan til Sunmæriss. enn jarl villdi at allt væri til Sognsiors. ok þa er skynsamir menn hugdu at þa skildi eigi meira enn .x. skipreidur at konungr hefdi meira enn haalft. Konungr mællti þessu i mot ok sagdi at ecki maatti sua vera. þa bad erchibyskup at þat skipti skylldi standa med þeim sem skildi riki erchibyskups ok Biorgyniar byskups. enn ef ofridr geingi a riki konungs þa skylldi jarl skylldr at fara sua austr i land sem nordr þegar konungr villdi ok med erchibyskups raadi. Var þessi skipan stadfest ok bref vm gert ok sett fyrir jnsigli konungs erchibyskups jarls ok liodbyskupa. ok at þessum lutum skipadum biugguz heim byskupar ok lendir menn. Tok konungrinn menn nordan or landi þa er honum voru traustazstir ok setti austr i Vikina. enn jarl tok sina vine ok hafdi med ser. Konungrinn tok Gullbringuna er hann aatti mest skipa ok sendi austr fyrir ser ok styrdi Biorn modurbrodir hans ok Olafr Jnguson enn hann biozst nockuru seinna. Sigurdr er verit hafdi Ribbunga konungr bad at hann skylldi fylgia honum i Vik austr. konungr iattadi honum þui. ok er jarl vissi þat taladi hann þat fyrir Sigurdi at eigi mundi allt trygt vera ok siþan for Sigurdr med jarli nordr i land. Hakon konungr mællti sua til jarls aadr þeir skildu. medr þui at þer vilit Sigurd med ydr hafa þa halldit hann sæmiliga ok siait sua fyrir at hann geri oss einga afarkosti. Jarl kuez þat fullkomliga varda skylldu. Jarl ferr nu nordr i land med lendum monnum sinum ok lidi. enn konungrinn for austr i Vik ok kom þann sunnudag til Tunsbergs er vpp hof aduentus domini. þar toku allir menn vel vid honum. Nichulas byskup var þa i Tunsbergi fyrir

konunginum ok fagnadi honum sæmiliga ok gaf honum margar giafir. enn konungr veitti honum enn nerdra lut Osloarsyslu ok gaf honum .xviij. sessu med ollum reida. for Nichulas byskup eigi fyrr or Tunsbergi enn .iij. nottum fyrir jol ok laa i Laufeyium joladaginn. þaa sendi konungr til hans Jofray profast ok Dagfinn bonda at bioda honum aftr til konungs vm jolin. byskup quez þann kost giarna taka skylldu ef honum byriadi eigi heim fyrir enn þridia dag. enn byskupi gaf þa byr inn til Osloar. hann sendi þa Juar profast med morgum fogrum sendingum. Hakon konungr gerdi þessa lenda menn vm jolin Halluard bratta Symon ku. þessi var enn .vij. vetr konungdoms hans.

## Andlat Guthorms erchibyskups.

83. Hakon konungr for i moti paschum inn til Osloar ok var þar miok leingi vm vaarit i gardi þorleiks spaka þui at konunggardr var þa eigi vppsmidadr siþan brunnit hafdi. þa komu menn norþan fra korsbrædrum ok jarli med brefum ok sagdi andlaat Guthorms erchibyskups ok þat med at þeir hofdu i stad hans kosit Sigurd er verit hafdi aboti i Tautro. hann var þa vtanlandz. þeir baadu konunginn þar til leggia sitt samþycki [683] ok skrifa med honum til pafa. Konungr taladi þetta maal fyrir Nichulasi byskupi ok fanz þeim sua i at med þui at Sigurdr var appelladr þui er aadr hafdi hann þotti þeim hann eigi til sua storra luta fallinn. bar þat ok til at hann var litill vin konungs. Konungr ok byskup ritadu bref til pafa þau er i moti stodu Sigurde. enn þeir baadu at Petr aa Husastodum skylldi vera erchibyskup er þa for med brefum jarls ok korsbrædra til pafa at flytia maal Sigurdar. ok sua vard med guds miskunn at hann vard erchibyskup.

## Vermar suordu eida.

84. Austr i Vermalandi hafdi Sigurdr ribbungr laungum verit þa er hann striddi vid Birkibeina ok þadan gert vspecktir a riki Hakonar konungs. Hakon konungr sendi bref vm vorit austr þannig ok stefndi til betr enn .xx. monnum þeim er bezstir voru þar til vmbotar þessa maals. þeir komu til konungs a Tunsbergi. þa komu þar ok margir af bændum ok kærdu aa þa afarkosti ok raan er þeir hofdu af Vermum lotid. Vermar logdu allt aa konungs valld enn konungr lagdi a þa gialld enn gaf þeim vpp fyrir miskunnar sakir. enn eida soru þeir konungi at þeir skylldu honum iafnan tryggir vera ok laata alldri hans vuini þrifaz i sinu landi. Konungr giordi menn austr med brefum ok var þessi sætt lyst a ollum þingum ok iattad. Hakon konungr bioz vm vorit

or Oslu ok til Tunsbergs. ok trinitatisdag er hann veitti sueitungum sinum gerdiz hark nockut i bænum med hirdinni ok gestum ok huskorlum. fellu þar .v. menn enn margir vrdu saarir. konungrinn kom þar i mikinn harska aadr hann fengi skilit þa. Eftir þat for konungr til Biorgyniar. þar kom til motz vid hann Gillicristr ok Ottarr Snækollzsun ok margir Sudreyingar ok hofdu morg bref vm naudsyn þeirra landz. þa kom ok jarl Jonn af Orkneyium ok sættiz vid konunginn vm þau maal er þeirra voru aa millum ok setti Haralld sun sinn i gisling ok var hann vm sumarit med Hakoni konungi.

## Skuli for til þrondheims.

85. þetta sumar for Skuli jarl nordr a Halogaland ok kom at stefnu i Vaaga. med honum var Sigurdr ribbungr. Juarr vtvik var a skipi jarls (i) stafni. hann lagdi at i Kirkiuvagum. Vm morgininn er jarl vaknadi voru brottu allir menn af skipi hans fyrir framan austrum. hann spurdi huar þeir voru. honum var sagt at þeir hofdu stefnur i Vogum ok voru flestir med vopnum. Jarl liop vpp med suerd i linklædum einum. þeir foru med honum er eftir voru med jarli a skipinu. Sem hann kom i Vaga var þat þar tiþenda at Baardr fleckr ok þordr sun Eiriks prestz baaga hofdu vegit Aarna systursun Paals vagarskalms ok hirdmann fyrir þat er hann hafdi vegit Audgrim agdanes laugunaut þeirra saklausann. Jarl vard illa vid þetta. enn Juarr vtvik hafdi til farit med þeim ok hellt vpp suorum af hendi hirdarinnar. Paall bondi hafdi komit vt vm nottina ok likadi storilla. Vm morgininn er þingit var baud Juarr bod fyrir vigit enn Paall bondi suarar quat Juari meiri naudsyn at hafa betr gætt siglingar sinnar er hann for af Biarmalandi ok hafa eigi þar tynt enum bezstum bondasunum enn gerazst fyrirmadr at þessu at drepa hird konungsins ok jarls ok laugunauta sina ok kuad eigi bod mundu þegin af honum. ok sleit sua þessu þingi.

## Brotthuarf Sigurdar ribbungs.

86. þa er lokit var erendum jarls aa Halogalandi hellt hann nordan. ok er hann kom vt til Nidaros þa voru komin leyndarbref af Vermalandi til Sigurdar ribbungs fra þeim summum er aadr hafdi suarit Hakoni konungi trunadareida ok þeim summum sem Sigurdi hofdu fyrr þionat. at hann skylldi leita brott or valldi jarls ok austr til þeirra. Erlingr romstafr var þa raadgiafi Sigurdar ribbungs er fyrr hafdi verit merkismadr hans. þeir gerdu þat raad at vm morgininn snemma fyrir Olafsvoku aftan fengu þeir ser korkaapur af klerkum ok geingu sua vt

vm akra ok vt vm Steinbiorg ok vpp aa Gaularaas ok leynduz þar vm rijd. þa er sungnar voru tiþir i bænum var jarli sagt at Sigurdr var i brottu. Jarl let þa menn fara alla vega fra bænum bædi aa skipum ok hestum ok fanz hann eigi. Jarl let taka islendzkann mann er verit hafdi med Sigurdi Andres þorsteinssun brodursun Sæmundar i Odda ok sagdi at hann mundi nockut vita til huar Sigurdr var. enn hann villdi ecki fra segia ok let (jarl) hengia hann. hann gaf ok sauk klerk þeim er Baardr het er kaapuna hafdi leed. Gudmundr byskup af Jslandi var þa þar i bænum ok gaf hann morg haurd ord Skula jarli fyrir aftoku Andres þuiat hann hafdi aadr iafnan verit med Gudmundi byskupi. Jarl gerdi nu bref til konungs ok sagdi at Sigurdr var þui moti brott laupinn at hann hafdi aadr iafnan kyrrliga ok spakliga med ser verit ok kuaz þat hyggia at hann mundi ofrid gera. Konungr let þa gera bref ok let bædi fara it efra ok it ytra austr i Vikina ok bad menn gæta sin.

## Ribbungar foru i Vermaland.

87. Sigurdr Ribbungr for austr vm fiall ok kom i Eystridali. þa kom i mot honum mart hans manna eftir þui sem þeir hofdu aadr raad fyrir gert ok hof hann þa flock ok reisti merki ok for sua austr i Vermaland. Dreif þa mikit lid til hans. þessir sueitarhofdingiar quomu til hans i Vermalandi þordr austmadr Eirikr laati Oddr son hans Halluardr suadde þorbiorn ringr ok þorgeirr rigr. þeir voru allz .xij. sueitarhofþingiar ok hofdu allir marga menn. þa kuomu þeir i mot honum Haralldr af Skotyn Aalfr Styrssun ok Giardarr brodir hans Amundi a Folauelli med miklu lidi. Vermar toku vid ollum er þangat komu ok gerdu honum sialfir mikinn styrk ok alla lidueizslu sua sem þeir maattu framazst. Siþan lyptu þeir ferd sinni no(r)dan i Noreg ok kuomu fram a Raumariki. þeir komu aa vuart at Olafi mok frænda Hakonar konungs i bygd þeirri er Skaun heitir. hann var at brudlaupi aa bæ þeim er Leyring heitir. þeir toku hus yfir þeim ok byrgdu þa inni. Olafr hafdi mikla sueit ok goda hirdmenn konungs gesti ok marga adra goda menn. Ribbungar budu Olafi grid enn engum odrum. enn hann kuaz eigi vilia grid þiggia (nema) med þui moti at[1] allir hefdi grid. þeir iattudu honum þui. Siþan geck Olafr vt ok toku þeir hann ok helldu enn drapu huern hans mann sem vt geck. þar fellu .lx. manna ok .xx. hirdmenn. Sua kuat Sturla[2].

[1]) ok *Cd.* [2]) Sturli *Cd.*

Hliop sa er hersum steypa
[684] hyrgialldandi villdi
ygr fra allualldz maagi
iarnsueims or þrondheime.

endr leet Erlings frændi
Vpplond farit brondum
strid lutu staala meidar
storþung af Ribbungum.

Ribbungar baadu Olaf sueria ser eid at hann skylldi alldri a mot þeim vera ella mundi hann drepinn. hann sor eid ok sagdi þo at eigi mundi godr vera edr vel særr. þegar sem Olafr komz i brott sofnuduz menn til hans feck hann ser i annat sinn mikla sueit ok goda ok for at Ribbungum ok drap af þeim nockura menn. enn fyrir þui at Ribbungar aattu frændr i hueriu husi a Raumariki þa vrdu þeir skiott varir vid huar Olafr var ok quomu þar aa vuart. Olafr komz vt ok fell þar skamt fra husunum. þeir drapu flesta alla sueitunga hans er hann hafdi þa nyfeingit. þessir menn hofdu Heidmork af hendi Hakonar konungs Juarr a Skeidahofi Fridrekr slafsi. Heinir lystu þa mikinn dreingskap skaaru vpp heraur ok nefndu menn or þridiungum ok helldu vǫrd aa ser nott ok dag ok toku samhelldi sitt vm alla Heidmork at sa skylldi vera landraadamadr vid konung er eigi væri þegar vppi er naudsyn krefdi. þeir hofdu .c. manna ok huerium þridiungi at gæta bygdanna. komuz Ribbungar þui huergi fram helldr reistu þeir ferdir sinar at Ribbungum austr i Vermaland ok vt a Raumariki ok gerdu þeim marga bakellda.

## Ribbungar drapu Olaf.

88. Hakon konungr ok Skuli jarl hofdu sua mællt milli sin at þann sama vetr skylldi konungrinn gera brudlaup sitt i Biorgyn ok skylldu þeir þar finnaz. Konungr gerdi sua raad fyrir sem þeir hofdu talat aadr fyrst vm jolaueitzsluna ok siþan vm brudlaupit. Enn konungrinn for vm haustid austr i Vik ok feck haurd vedr þa er (hann) sigldi or Rotti fyrir Jadar. kom konungr vm dagsetr i Seleyiar. þeir hofdu storm vedrs ok þo hellt konungr heilu skipi sinu. hann hafdi Sættaspillinn. þegar konungrinn kom til hafnar þa rere hann vt i moti skipunum a eftirbaati. Hakon kaafuis kom fyst eftir ok visadi konungrinn honum til hafnar. hann hafdi laatid flesta skiolldu sina þa er vid framstafn voru ok miok lekat skipit af siglingu. konungrinn beid til þess i sundinu er oll komu skipin. Vm morgininn sigldi hann inn vm nesit ok er hann kom i Hornborusund laagu þar fyrir honum byrdingar ok sogdu menn konungi at Ribbungar voru komnir austan af Vermalandi med mikit lid ok hofdu drepit Olaf mok. þat þotti konungi skadi mikill þui at hann var godr dreingr ok frændi konungs sua at faudurmodir hans var dottir Haralldz konungs gilla. Oli vargr het faudurfadir hans lendr

madr a Raumariki. Konungr for til Tunsbergs ok kom þar til hans Arnbiorn Jonssun ok Simon kyr ok adrir lendir menn or Vikinni ok syslumenn. konungr sagdi þeim ætlan sina at þegar sem hann hafdi syst erendi sin þa vill hann nordr til Biorgyniar ok gera brudlaup sitt eftir einkamaalum þeirra jarls. enn þeir segia at sua mikill ofridr var i Vikinni at þeir villdu med engu moti at hann færi þadan ok quoduz þegar skylldu i brottu fara ef hann færi. þa gerdu þeir þat raad at konungr sendi nordr Dagfinn bonda ok Hakon kaauis at segia huat taalmadi ferd konungsins. þa gerdi konungrinn annat sinn bref til Suia konungs ok minti aa huern skada hann hafdi feingit af Vermum ok bad hann eigi laata vuini sina styrkiaz i hans riki. kuat þau einkamaal verit hafa inna fyrri konunga at huarr skylldi reka annars vuini or sinu riki.

## Hakon konungr baud Knuti.

89. Hakon konungr sigldi þa austr til Konungahellu. en allir Ribbungar er þa voru i Vikinni stucku vndan vpp a Markir var þa kyrt i Vikinni. þa kom til konungs Aaskell logmadr er aatti fru Kristinu modur iungherra Knutz. konungrinn baud þa Knuti frænda sinum til sin ok kuez honum sæmdir miklar gera skylldu ef hann væri med honum. logmadr tok þui vel enn beiddiz þo þeirra kosta er konungr maatti varla laata. þeir toludu mart vm vfrid þann er Vermar ok Markamenn gerdu i Noregi med Ribbungum. Her voru lendir menn konungs ok kærdu fast huern skada Nordmenn hofdu feingit af Vermum ok Gautum sogdu þeir sua at Noregsmenn maattu medr engu moti þenna skada leingr þola. Lǫgmadr suarar sua. þat er ecki mitt riki ne valld enn þo vil ek at þer ritid med mer austr til Eiriks konungs at hann segi sinum vmbodsmonnum at þeir reki her þenna or landinu[1] ok leggi þeim vid afarkosti. Hakon konungr suarar. ver hofum ritad .ij. sinnum til Eiriks konungs ok hafa saumu suðr i moti komit at hann skylldi vm bæta enn þo hefir þat ecki vordit þuiat æ er verr ok verr ok þeirra afli vex huersdagliga i vorum skiptum enn ver hofum laatid marga goda menn af þeirra volldum. Lǫgmadr bad gera it þridia bref til Suiakonungs ok kuez hia vilia vera er lesit væri ok leggia til slikt er honum syndiz. Hakon konungr gerdi þa bref med þui moti at Eirikr konungr skylldi fyrir atta dag jola hafa rekit vuini hans or sinu riki. ella sagdi hann efanarlaust at hann mundi sialfr hefna sins skada. Laugmadrinn het at hann skylldi saunn tiþendi hafa til konungsins fyrir enn aatta dag jola. Hann var .ij. daga med konunginum i sæmiligri

[1]) or *tilf. Cd.*

veizlu. Siþan skildu þeir. konungr for nordr til Tunsbergs ok kom þar .vij. nottum fyrir jol ok stefndi til sin syslumonnum aa Raumariki ok Hadalandi ok odrum þeim sem voru a Vpplondum ok kom þar mikit fiolmenne.

## Bref fra Suiakonungi.

90. Hakon konungr hafdi mikla rausn vm jolin ok þessa raadgiafa huersdagliga aa tali med ser Eystein lǫgmann ok Simon i Vetrvikum[1]. Jafnliga komu þeir menn til konungs er kærdu raan ok stuldi er feingit hofdu af Ribbungum Vermum ok Markamonnum. J jolunum kom bref austan fra Suiakonungi. ok fanz Hakoni konungi sua i hans brefum sem hann mundi litlar bætr aa raada vm þat sem konungr taldi at ok eftir (þat) lysti konungr þui at þegar eftir jolin mundi hann rida austr at Vermum ok Ribbungum ok hefna þess skada er þeir hofdu honum gert. gerdi þa ord Arnbirni Jonssyni at hann kæmi til hans vid Eidaskog. enn Simon kyr ok Baardr brimsteinn ok Halluardr bratti skylldu koma til hans aa Morkum ok allir Vikueriar. hann stefndi til sin ollum syslumonnum er aa Vpplondum voru. hann [685] aatti huersdagliga stefnur vid sina menn ok bad þa bua sik ok vopn sin. konungr sendi ok bod vm alla Folldina at þeir skylldu bua honum reidskiota. enn Vestfylldir gerdu sua mannliga at þeir fluttu til hans .cc. hesta ok gaafu honum alla fyrir godvilia sakir.

## Ferd Hakonar konungs.

91. Hakon konungr byriadi ferd sina or Tunsbergi .iij. nottum eftir jol. þessir voru þar formenn Nichulas Paalssun Gunnbiorn bondi Haralldr stangarfylia. enn konungr skipadi eftir a berginu Olaf Jngusun Eystein Roasun Onund Bryniolfssun ok .cc. vaskra manna þeirra er þungfærazstir voru. Hakon konungr for et ytra or bænum a skutu. þessi var enn .viij. vetr konungdoms hans. Hann var .iij. nætr aa leid inn til Hauksvikr. þar komu reidskiotar a mot honum ok reid hann þar vpp med lidi sinu ok sua inn i fiordinn Skiaaldr. sem hann kom vndir Eikabergs skog komu þeir i mot honum er it efra hofdu farit ok mart beiarmanna or Oslu. þa aatti konungr tal vid lid sitt ok setti grid ok lysti þui at hann mundi eigi leingr dueliaz i Oslu enn .ij. nætr. bad menn sua vid buaz. Nichulas byskup var i bænum. hann hafdi spurt at konungr ætladi austr a Vermaland eftir jolin. Prestr einn var kominn austan af Vermalandi er Jonn het. byskup let kalla hann til sin ok sagdi sua at Hakon konungr ætladi at fara med allann her af Noregi

[1]) r. Vervikum.

austr til Vermalandz ok brenna bædi konur ok born enn presta skylldi leggia a stiga ok hyda. Prestrinn ferr skiott i brott ok berr þessi tiþendi huar śem hann kemr. hann for .ij. daga or Noregi i Vermaland ok kom þessi niosn fyrir konunginum. Hakon konungr sendi Haralld stangarfyliu fyrir ser til byskups ok bad konungr at hann skylldi vera i gardi konungs ok kostnadi þær .ij. nætr er hann væri i bænum. Byskup suarar sua at ecki maatti vera allt saman vlfar ok kaalfar. enn þo reid byskup i mot konungi ok baud honum alla sæmiliga luti af sinni hendi. enn konungr for i gard Haralldz syslumannz sins enn huersdagliga sendi byskup honum vist ok dryck af sinum gardi. Dagfinnr bondi bioz þa skyndiliga ok for jolaaftan or Biorgyn i Hauksvik ok for med konungi inn til Osloar ok baud konungi fylgd sina til Vermalandz. enn konungr villdi þat eigi enn þackadi honum sinn godvilia margfalldann er hann hafdi þa birt med miklu erfidi sem iafnan. konungrinn taladi þa marga luti fyrir honum ok sua huat raad hann sæi fyrir Sigurdi syni sinum ef honum yrdi eigi audit aptr at koma i Noreg. hann atti þa eingann sun annan enn þau born Kaungu vngu ok Ceciliu konungsdottur.

## Ferd i Vermaland.

92. Dagfinnr bondi sneriz siþan aptr ok er hann kom vestr fyrir Nesiar rak at þeim isa ok vard hann at snua til meginlandz. enn þar voru Ribbungar fyrir i flestum stodum med storum sueitum. enn Sudrmenn laagu fiolmennt a kuggum i Sandafirdi ok er þeir spurdu til Dagfinnz letu þeir hann fara til sin ok helldu hann vel enn logdu skip hans i milli kugganna. Ysakr i Bæ hafdi syslu i Sogni hann hafdi verit med konungi vm iolin ok fengit orlof til nordrferdar. hann kom ok i þenna sama isreka. enn fyrir sakir Ribbunga atti hann eingann kost annan enn snua til Sudrmanna ok toku þeir vid honum sem bezst. setti hann þar vpp skip sitt ok for inn til Tunsbergs enn Dagfinnr beid til þess er minkadi isana ok foru siþan nordr til Biorgyniar. Konungr for or Oslu manadag. hann for vpp a Raumariki ok var vm nottina at Gunnars aa Bergi enn lid var vmhuerfis i bygdinni. konungr var adra naatt vppi vid Elfi at þess mannz er Kolbeinn heitir aa Fyri ok vm midnættisskeid komu menn af hestverdi til konungs ok sogdu at vfridr for. konungrinn klæddiz skiott ok lupu menn vpp ok vt. enn tunglskin var biart ok maattu menn vida sia. villdi konungr þui eigi blaasa laata at monnum syndiz ecki vfridligt enn þo gerdi hann menn fra ser alla vega aa hestum. enn nockurir menn hofdu ridit af Hadalandi ok

hugdi þui hestvordrinn vfrid. Vm morgininn reid konungrinn vid herinn austr med aanni til þess bæiar er Nes heitir mikill kirkiubær. þar komu i mot honum syslumenn af Heidmork Fridrekr slafsi Juarr a Skediuhofi med halft þridia hundrat manna vel buit. Vm daginn eftir foru þeir austr med konungi til Elfar ok voru a þeim bæ er Stormr heitir enn herrinn vmhuerfis. þa var konungi sagt at Vermar hofdu safnat mikinn ok hofdu sanna spurn af ferd hans. þa kalladi konungr til sin alla sueitarhofþingia ok voru þa skipadir verdir ok niosnir i brott. Klemetr a Holmi for a fremsta vord med .lxxx. manna alla ridandi. hann hellt haalfa raust fra konunginum. annarr vordr var nær konunginum ok voru .xxx. manna a þeim. enn þar næstr voru .vij. menn sua at sia maatti til beiar. Vm morgininn eftir for konungrinn austr i bygd þa er Vigr heitir ok eru þat skammar .ij. rastir. konungr dualdiz þui þar vm naatt at hann vænti at nockurir menn mundu koma i mot honum ok bioda bod af hendi Verma. þat sama kuelld hliopu Ribbungar a nockurar sueitir konungs ok drapu nockura menn fyrir honum.

## Enn fra Hakoni.

93. Hakon konungr kalladi til sin sueitarhofþingia sina ok skipadi med hueriu moti herrinn skylldi rida i Vermaland þuiat þau ord foru fra at bædi mundi moti standa landherrinn ok Ribbungar. þeir menn voru er þat sogdu ok afeggiudu at hann skylldi rida i annars konungs riki ok sagdi at. mikill herr var i Vermalandi. enn ef Suiakonungr sialfr stædi i mot quadu þeir standa til meira haaska. Hakon konungr taladi þa fyrir lidinu. engi ofkæti dregr oss til þessar ferdar. enn þo at Ribbungar ok Vermar standi i mot oss þa ottumz ek ecki þeirra motstodu þui at ver megum vel mæla eftir voru fe ok vorra forelldra. kemr ok siaalfr Suiakonungr i moti. þa verdr annathuart at ver sættumz skiott ella skulu vôr skipti fara sem gud vill. enn at visu skulum ver eftir leita at hefna þeirra skada sem oss hafa gerfir verit or Suiavelldi vtan vorar tilgerdir. þessi skipan .var fyrir ger ferdinni at konungsmerkit skylldi fyrst fara ok þar med .lxxx. manna skutilsueinar ok hirdmenn vel vaapnadir ok allir ridandi ok fylgdi huerium hesti laupandi sueinn. niosnarmenn fara fystir ok hafdi huerr þeirra .ij. hesta. her næst foru .cc. manna. enn eftir þat sledamenn af Vpplondum. voru þat .d. manna. enn þar næst reid Nichulas [686] Paalssun ok Haralldr stangarfylia ok hofdu .ccc. riþandi manna. þar næst foru allir sledamenn vtan fra sæ meirr enn .dccc. enn sidazst reid Lodinn Gunnasun ok Erlingr liodhorn Haralldr Vesetasun Gunnolfr huiti Guthormr Erlendzsun ok hofdu .d.

manna. þui var þessi skipan gerr at ridandi menn foru fyrst ok þa sledamenn ef vfridr kæmi i mot þa skylldu riþandi menn veriaz medan sledamenn tæki vapn sin. skylldu huorirtueggio sledamenn ef vfridr kæmi hialpa odrum ef aa væri laupit. Ok eftir þat er konungr hafdi skipat her sinum i Vermaland .v. hundrat ok .xx. villdarlids ok vel .d. vopnadra manna þar var ok fioldi reidskiotamanna. lidit syndiz þo miklu meira enn var fyrir sledanna sakir. enn þat var mikill þori lidsins er .ij. hofdu edr .iij. hesta ok fylgdi huerium hesti reidskiotamadr. Enn þo at iss væri tueggia rasta langr aa einhueriu vatni þa var fyrr annarr endir hersins af isinum enn annarr endir kæmi aa. Vm kuelldit er sueitarhofdingiar skildu vid konung þa var sua fyrir sagt at allir skylldu mettir at midri nott. þaa let konungr blaasa ok fluttiz herrinn eftir þui sem aadr var skipat. vedr var vindligt ok miok kallt. J moti degi gerdi konungr fram aa skoginn midiann menn. þar var mikil saaluhusstofa vid kirkiuna. hann bad þar gera ellda stora i gardinum. þat var allt senn at dagrinn rann vpp ok konungrinn kom til elldanna ok vermdu menn sik þar vid (vm) rijd þuiat flestir voru frosnir nockut aa hondum edr fotum edr andliti. Hakon konungr reid þadan fyrr enn alliost var med allann herinn. Eidaskogr er þriggia rasta langr ok er kirkia aa midium skoginum. þar er godr vegr ok slettr þa er isar liggia. Sem konungrinn kom af skoginum i Vermaland þa komu niosnir hans i mot honum ok sogdu at engi safnadr var fyrir i landinu ok allt folk hafdi flyit fyrir honum aa markir vt or bygdinni. sua (voru ok) Ribbungar allir i brottu. þa fluttiz herrinn til beia þeirra er Morastir heita. þat er neyrdzst i landinu þar var allt folk heima. þar beid konungrinn til þess er allr herrinn kom saman ok var þat vm nonskeid. þa taladi konungr vid sueitarhofþingia ok siþan var blasit til þings ok lysti konungr þa raadagiord sinni fyrir herinum at hann villdi med fridi fara til allra bænda i landinu ef þeir villdi aa hans valld ganga ok til miskunnar festa sitt maal. ok med þui sagdi hann at vorir ouinir eru huergi fyrir oss þa vilium ver eigi akafliga fara ok vita ef landzfolkit vili ganga til yfirbota vid oss.

## Fra Hakoni konungi.

94. þar dualdiz Hakon konungr litla rijd ok gaf þar grid ollum monnum. enn annvirki geck vpp fyrir hestum. Hann reid vm kuelldit til bygdar þeirrar er Eidar heita ok var vm nottina aa bæ þeim er Medalbær heitir er aatti Oddr Eirikssun. þetta var friadag fyrir niu vikna fostu. Hakon konungr hafdi marga sueitarhofþingia i bodi sinu vm

kuelldit þuiat (hann) hafdi vel flutt vin nordan med ser ok var ecki leingra flutt fyrir frosta sakir. þa gerdiz saa atburdr vm nottina at ollum verplum var kastad vt i gardinn ok var driugum þridiungr frosinn af huerium. reidskiotamenn toku verplana til sin ok brutu i sundr. siþan toku þeir ioklana ok bræddu enn summa aatu þeir. af þessu vrdu þeir sua drucknir at þeir borduz vm nottina ok vrdu þar .xiiij. menn saarir enn margir lamdir. ok var þat fyrst gert vm morgininn at konungrinn feck menn til at setia þetta nidr i milli þeirra. Syslumenn villdu gefa þeim sakir aa enn konungr (gaf þeim) vpp allar. Laugardaginn komu allir sueitarhofþingiar til konungs ok var herrinn þa miok aakafr ok villdu þa brenna bygdina. enn konungrinn frestadi a morguninn ok hugdi at bændr mundu koma til hans ok bidia miskunar ok bioda yfirbætr. Ok er honum þotti sin vaan þrotin þa foru menn or bygdinni sua at aa eingum bæ fanz madr nockurr. Sua quat Sturla.

Vara landraad
litlu golldit
vid allualld
austan markar
þa er lofdungr
leystann hafdi
elris garm
eski mettann.

Sualg huert hus
heitum munni
vidar hundr
Verma bygdar
ok suipgarr
seliu racki
vm gardzhlid
greniandi for.

Sua kuat Olafr Huitaskaald.

Vigstorma namt Vermum
valldr flarædi giallda
letu ræsir gunn geisa
geck elldr vm siot recka.

bændr lutu kuol þa er kyndiz
kapp spaar logi saara
gagn letu hyr hegna
bialldrels fromudr velar.

Nær vatni nockuru liop vpp kerling nockur ein gomul ok spurdi. huar er konungr Nordmanna. Henni var sagt. hon geck fyrir konunginn diarfliga ok bad at hann skylldi (eigi) laata brenna bæ dottur hennar fyrir þat at hon ein þordi heima at vera. Konungr kuad sua vera skylldu ok kalladi til sin gest þann er Jonn vmagi het ok þria adra ok bad þa þar vera til þess er allr herrinn væri vm farinn ok sagdi at þar skylldi allt i fridi vera ok bad hana fara eftir hiuum sinum ok hafa þau heim med ser ok segia sua at fleiri bygdir mundu vbrendar ef nockurir hefdi aa konungs fund komit miskunnar at bidia.

### Konungr for yfir brotann.

95. Eftir þetta komu menn til konungs ok sogdu at Vermar hofdu fellt mork fyrir hann skamt fra kirkiu þeirri er Nyiakirkia heitir. þa

sendi konungr fram .c. ridandi manna ok bôgmenn. ok er þeir komu til brotans voru þar faair menn fyrir ok stucku þegar i brott. var þa brotinn hogginn i sundr med boleyxum enn konungr let medan gæta at eingir væri gerfir baksleltir. Enn þeir allir er fyrir stodu ok fyrir ridu med konunginum komu skiott yfir brotann enn siþan leiddu menn tomliga hesta sina þar yfir sem þynzstr var brotinn. þat var sagt huerium þeim er sidarr for at konungr var fyrir framan brotann ok bardiz vid Verma. geystiz þaa mugrinn fram at brotanum ok vard af þui mikill gnyrr enn sledar brottnudu. enn er konungrinn heyrdi til harksins þa hugdu þeir at vfridr væri ok sneru þegar aftr sem akafaz ok hafdi þar nær miklum vôda aadr menn kenduz. þeir foru þa i þa bygd er Aarvikr heita vt i landit.

## Ferd konungs.

96. Hakon konungr kom þar snemma vm kuelldit ok þat folk er honum fylgdi ok er hann var afklæddr var blaasinn herblaastr ok var sagt at Vermar voru komnir ok baurduz vid lidit a skogin(um) aftr. Konungrinn liop vpp ok sa herinn er honum fylgdi ok ridu aftr. kom þa allr herrinn i mot þeim ok hofdu ecki heyrt vfridligt enn þeim var buit sialfum vid dauda er þessu hofdu vpp slegit. foru menn þa til buda sem ætlat var. Fyrir dag komu .vj. menn til konungs [687] af bygd þeirri er Strond heitir. sa het Geirr er fyrir þeim var. þeir baadu konunginn miskunar ok logdu allt aa hans valld. Konungr iattadi þeim gridum ok sættum ok gaf þeim þat mark yfir alla þa bæi er i þeirri bygd voru at þeir skylldu taka staung eina mikla ok binda vid huita blæiu ok reisa a þat hus er hæst væri i bænum ok skylldu allir af þui kenna þa bæi er grid voru gefin. enn i þeirri bygd voru eigi meirr enn .xiiij. bæir enn þo gerdu fleiri bændr slikt sama mark ok fengu allir grid.

## Fra ferd Hakonar.

97. Siþan reid Hakon konungr med allann herinn vt i Vermaland ok var brent huar sem þeir foru. enn menn voru huergi heima i bygdum. þeir foru allt vt i þa bygd er Gladaþros heitir ok brenndu. sem konungr (var a) þeim bæ er Knollr heitir þa quomu þeir bændr a mot honum ok beiddu miskunar er landzmenn sendu ok budu allt a konungs valld. enn med þui at Ribbungar voru ecki leingra vt i landit enn þar þa tok hann sættir af þeim ok settu þeir honum atta gisla þa er konungi fylgdu heim i Noreg. Hakon konungr sneri þa aftr ferd sinni ok var

vm nottina aa Strond at Gils bonda þar sem vbrent var. Sua segia Vermar at þar huili heilagr madr er þorgeirr heitir. Konungrinn for þadan vm morgininn ok var þa brent huar sem þeir foru. þui (at þa) komu eingir menn miskunar at bidia. Vm nottina eftir var herrinn þar sem Saurbæir heita vid Kiolinn ok for vm morguninn i þa bygd er Holmadalr heitir ok var þar giorr samnadr i mot þeim þar sem hellz voru kleifar ok skogar þraungasztir ok skutuz menn aa vm rijd. þa lupu Nordmenn af hestum ok i skoginn at þeim enn Vermar toku skiott vndan ok vard af þui þeirra lutr hardari enn hinna er ecki hofdu i moti tekit at þar var sua vandliga brent at þar stod ecki kot vpp. þessi bygd var (skiput) miok af Ribbungum ok flestir bændr voru þar handgeingnir Sigurdi ribbung. (Sua kuat Sturla.)

Eim leggr hyrr med himni
liop elldr i sal felldan
vitt hygg ek þegnum þotti
þeim markar bôl sueima.
eydduz allar þiodir
eidualldr konungr reidi
baugsendir raud bryndann
brand i Vermalandi.

þa er Hakon konungr reid at vestra Holmadali þa komu þar i mot honum bædi prestar ok bændr ok baadu miskunar. konungr let þa blaasa ollu lidinu a vatziss einn. þa lysti konungr þui at menn skylldu hætta brennu ok lagdi vid lif edr limalaat huerium er hans bod bryti. Vm nottina var konungr i vestra Holmdali at prestz eins i godum fagnadi. enn ecki var at drecka nema blanda ok huergi fengu þeir mungaat i Vermalandi. enn slaatrvist skorti eigi þuiat buit var eigi aa brott rekit. Vm morgininn for konungr vestr a skoginn ok kom at midium degi i sitt riki ok var vm nottina j bygd þeirri er heitir Aansmark i Borgarsyslu a bæ þeim er Folkinsberg heitir. hafdi hann þar allt nôg medr goduilia.

## Ribbungar gerdu vfrid.

98. Arnbiorn Jonssun hafdi .cccc. manna ok ætladi hann at mæta konungi vid Eidaskog sem raad var fyrir gert. ok er hann for austr af skoginum þa kom hann þar a farueg Ribbunga ok sneriz þegar eftir þeim. enn þeir foru enn beinsta veg vt til Osloar. enn Ribbungar hofdu aadr vm morgininn brott farit. þar kom til motz vid hann .c. manna vel buit enn hann sendi aftr .c. annat þat er lettazst var. Nichulas byskup var fostrfadir Arnbiarnar ok kærr vin. Byskup dualdi Arnbiorn leingi vm daginn ok kuaz kenna honum morg heil raad. enn þat sogdu flestir at þui gerdi hann sua at hann villdi at Ribbunga drægi sem leingzst vndan. Arnbiorn reid seint or bænum ok var lid hans miok

druckit ok þui for hann skamt vm nottina. Enn Ribbungar skundudu sinni ferd sem mest ok er þeir komu vt i Lidir var þar fyrir bondi einn or Tunsbergi er Reidulfr het gullkroppr. Ok er hann spurdi til Ribbunga skundadi hann sinni ferd aftr ok kom at midium degi til Tunsbergs. var þa þegar blaasit ok sagt vôn vfridarins. þeir Olafr hofdu haalft þridia .c. manna a berginu. Varla var truat ordum Reidulfs ok var þui minni gæzsla aa hofd. Paalsmesso aptan at kuelldi komu Ribbungar i bæinn. Eysteinn Roasun komz nauduliga vndan vpp aa bergit ok er hann kom i kleifina þa felldu þeir skutilsuein konungs er Gunnolfr het. þar fell ok Grimr huiti ok enn fleiri konungsmenn voru drepnir her ok huar i bænum .xiiij. menn fellu. Ketill staurr het hirdmadr ok Eilifr duergr. hann var gestr. þeir voru i loptstufu ok vorduz vel ok dreingiliga alla naattina sua at varla munu dæmi til finnaz at .ij. menn hafi betr variz enn þeir. enn Ribbungar rufu husin yfir þeim ok logdu þar inn spiotum ok fellu þeir þar med dreingskap.

### Ribbungar ræntu.

99. Vm nottina er Ribbungar hofdu rannsakat bæinn foru þeir nordr vndir berg ok brendu þar skip konungs tuitugsessu goda ok Sættaspillinn ok allz brendu þeir .xvj. skip. þeir draapu .ij. kaupmenn saklausa. þegar sem dagr kom foru þeir i brott ok vestr a Folldina. þeir toku leidangr konungs huar sem hann var ok ræntu bændr ok kaupmenn huar sem þeir komu. Vm daginn at midium degi kom Arnbiorn i bæinn. var honum þa sagt at hann mundi ecki faa af Ribbungum at sinni. sneri hann þa austr aftr til Valldisholma med ollu lidi sinu. Simun kyr ok Halluardr bratti hofdu farit vpp aa Markir med .dc. manna eftir bodi konungs. ok er þeir komu þar var konungrinn nordr farinn. sneru þeir þa aftr. Hakon konungr sneri enn beinsta veg af Folkisbergi til Osloar ok sidla vm kuelldit komu menn or Tunsbergi ok sogdu þau tiþendi er þar hofdu gerzst. Konungr var vm nottina i bygd þeirri er Leirheimsskogr heitir. enn vm morguninn for hann vt til Osloar ok aatti þar stefnu vid sueitarhofþingia ok sagdi sua. ek hefir spurt at Ribbungar ætla at snua vpp aa Heidmork i mot safnadi þeim er bændr hafa þar. vil ek nu skipta herinum i þridiunga. skal Lodinn Gunnasun ok Gunnbiornn ok Vpplendingar hafa einn þridiung ok snua vpp a Raumariki eftir Ribbungum ef þeir hafa stefnt a Heidmork edr þadan austr. enn ef þeir hafa eigi komit a Hadaland þa skulo þer snua vestr aa Aasaskog i moti þeim ok vt eftir Hadalandi. enn ek mun fara med annan þridiung vpp i Hakadal ok it beinsta vpp a Hadaland. þessir

sueitarhofþingiar skolu mer fylgia Nichulas Paalssun Haralldr stangarfylia Fridrekr slafsi. enn Erlingr liodhorn ok Klemetr af Holmi ok Haralldr [688] Vesetasun ok nefndarmenn af Folldinni skulu fara sem skiotaz til Tunsbergs ok eigi leingra nema þeir spyri nockut til Ribbunga.

### Fra Ribbungum.

100. Lendir menn þeir er vpp foru a landit spurdu at Ribbungar voru ecki vpp komnir ok þui sneru þeir vestr vm Aasaskog ok fengu hardann veg ok laagu vti vm nottina þuiat skogrinn var ecki vel ruddr. ok er þeir komu af skoginum sneru syslumenn vpp a Heidmork enn logmenn ok Gunnbiornn foru it beinsta vt eftir konungi. þa er konungr kom vt i Hakadal quomu þar niosnir i mot honum ok sagdi at Ribbungar hofdu farit af Vestfolld vpp a Ringariki. enn siþan vissu þeir eigi huert þeir sneru. konungr let segia ollum sueitarhofþingium at þeir væri bunir i ottu. ok var sua. Konungrinn kom snemma i Vppdal ok er hann kom i Hadaland spurdi hann at Ribbungar hofdu ecki vpp farit ok sneri hann þa vt aftr eftir bygdinni. hann var vm nottina þar sem Brattagrof heitir. hann sendi Ogmund Olmodssun vt i bygdina aa niosn vid .xij. mann ok hofdu þar goda hesta. Vm kuelldit er matr bioz sagdi sa er vid liorann sat ok vaurd hellt at niosnarmenn leyptu aftr i gardinn ok sagdi at vfridr for at bænum. þeir er fystir liopu toku til vopna ok hofdu leypt i laas hurdinni ok var þui sein vtgangan. Sniorr var mikill ok bad konungrinn menn snua aa hæd nockura at troda ser gadd þar til er sueitir kæmi til hans er vmhuerfis voru i bygdinni. þa kom Augmundr til konungs ok quez hafa mætt Ribbungum er þeir foru vtan enn eigi vissi hann huersu fiolmennir þeir voru. Konungr mællti styggiliga til niosnarmanna sinna at þeir hefdi fyrr flyit enn þeir þurftu er þeir vissu eigi sönn tiþendi at segia. Voru þa greiddar adrar niosnir sterkari med Ogmundi. hann mællti þetta er hann skildi vid konung. gud laati mik sua aftr koma at ek kenna einhuern Ribbung ella kenni hann mik.

### Fra Hakoni konungi ok Ribbungum.

101. þa er Ribbungar foru af Vestfolld stefndu þeir it beinsta aa Vpplond ok koma vtan a Ringariki ok stefndu beint i moti Birkibeinum enn huoregir hofdu sannar niosnir af odrum aadr enn þessir niosnarmenn er nu var fra sagt. Ribbunga niosn sneri ok aftr ok sogdu at þeir hofdu seed vapnada menn enn eigi vissu þeir huersu margir voru.

Sigurdr sendi þa Erling romstaf aa niosn med .vi. menn. hann reid vpp i bygdina ok spurdi at Birkibeinar voru komnir aa Hadaland miok margir. sneri þa Erlingr vt aftr til Sigurdar. hann var aa þeim bæ er Sotrangr heitir. sagdi hann Ribbungum at Hakon konungr var i Hadalandi ok hafa þui niosnir sua diarfliga farit i nott at hann er nær. Sigurdr let þa gera ord i bygdina ok let saman kalla lid sitt. voru þeir vm nottina aa haugi einum ok hofdu þar illa bud. hann gerdi .v. menn þa er kunnazst var fram aa niosn ok mættuz þeir Ogmundr ok hans felagar a bæ þeim er Jafnakr heitir. þat var i onduerda dagan. þar fellu allir niosnarmenn Ribbunga vid kirkiugardinn.

## Fra Hakoni konungi ok Ribbungum.

102. Hakon konungr reid i ottu af bænum med allt lidit. þa mætti hann Ogmundi. var hann þa vid annan mann. konungr spurdi ef hann vissi nockud til Ribbunga. hann sagdi at þeir hofdu set niosnir þeirra vid kirkiugardinn ok munu þer nu skiott finna þa ef þer ridit mikinn. Vegrinn laa beint med gardinum ok laagu Ribbungar þar drepnir. Ogmundr mællti til konungs. her bidr niosn Ribbunga yduar. Konungr sagdi hann vel hafa syst. Birkibeinar hugdu þa gott til at þeir mundu finna Ribbunga þuiat þeir vissu glogt huar þeir hofdu verit vm nottina ok foru þa akafliga. Ribbungar hofdu stadit vpp vm nottina ok snuit til vatzsins Thyri ok voru þeir i brottu er konungr kom þar sem þeir hofdu verit. Sneru Birkibeinar þa eftir farueg þeirra ok foru mikinn. ok er þeir komu at vatninu foru Ribbungar af isinum ok stefndu vestr aa dali. konungr reid þa sem mest eptir þeim þuiat þa var eigi langt i milli þeirra. sniorr var mikill ok vegrinn sua miorr at eigi maatti meirr rida enn .ij. menn iafnfram. þeir Ribbungar er seinstir voru hofdu bædi kastat vopnum ok klædum aa isinum. þeim var kunnigt vpp aa dalina ok sneru þannig fyrst sem mestar voru vfærdir ok þreyngstir vegir. ok er þeir komu a brecku nockura haafa sua þeir sa lid Birkibeina aa isinum þa gerdu þeir raad huart þeir skylldu vpp a þelamork edr vpp i Hattingiadal ok sua vpp aa Valldres. ok þat toku þeir þuiat þa þottuz þeir mega snua nordr i Sogn til siofar edr austr i Eystridali. þeir fara sem mest maattu þeir. Hakon konungr stoduadi lid sitt þa er hann kom i vatzbotninn. var þaa rannsakat lidit ok var eigi meirr enn .cc. fyrir vtan sueina. konungr aatti þa tal vid menn sina ok aflðttu flestir at fara leingra þuiat reidskiotar voru miok farnir. konungr sneri þa et beinsta vt til Tunsbergs. dreif þaa enn lid til hans. fystu Vpplendingar at konungr skylldi fara vpp aa Heidmork ok gæta þess

styrks er þar var þuiat Heinir hofdu sua dreingiliga saman halldit at Ribbungar komu þar alldri sinum mætti vid. sumir fystu at konungr færi vt i Vikina ok redi þar til skipa. enn þeir er konungi hofdu nordan fylgt baadu hann fara vt til Tunsbergs ok bæta at þeim skipum er brend voru ok fara siþan nordr ok taka ser skipastyrk. þa quomu ok menn or Tunsbergi ok sogdu at bref voru komin nordan fra Skula jarli ok þui sneri konungr þangat.

### Bref jarls til konungs.

103. Bref jarls vòttudu sua er hann sendi konungi. at honum þotti eigi ollum einkamaalum halldit vid sik er konungr var eigi i Biorgyn vm jolin. enn hann for nordan eftir þui sem mællt var at konungr skylldi gert hafa brudkaup sitt eftir jolin. þat let jarl ok fylgia at hann mundi bida konungs til pascha enn ef hann kæmi þa eigi þotti honum þa eigi halldit trunadi vid sik. mundi hann þa ok gera sem honum likadi huart hann helldi nockurn trunad i mot edr engann. Allir konungs vinir baadu hann allt hallda af sinni hendi ok þui aflattiz ferd hans aa land vpp. Jslaug voru sua mikil i Vikinni at engi mundi slik ok þo at menn geingi aa enu hæstu fioll þa sa huergi til vaka enn skip sa þeir morg frosin i isum bædi kugga ok onnur skip ok geingu menn af skipum sudr i Vikinni ok voru aa leid tua(u) dægr edr haalft annat ok vissu ecki til vaka vt fra skipum. morg skip hurfu vm vorit sua at ecki spurdiz til.

### Fra ferd Gauta prestz.

104. Hakon konungr sendi Gauta prest austr i Vettaherad at taka leidangr ok reid hann austr yfir Folldina it beinsta. ok innan faarra naatta kom hann aftr ridandi med .ccc. hesta ok var þat .vij. nottum eftir midfostu [689] ok voru þaa enn oruggir isar vm alla Vikina ok Folldina. Konungr le(i)tadi til at bæta skip þau er brend voru Sætta-spillinn ok enn fleiri þau er bætandi voru. þat skip er Vxinn het stod i þui vppsaati er nerdz er vndir berginu vid Danakleifina. þat hofdu Birkibeinar varit feingit sua at eigi var brent ok sua vel er su vpp-saat komin at þat skip verdr vart elldi af berginu.

### Fra Ribbungum.

105. Sigurdr ribbungr er hann heyrdi at Hakon konungr hafdi setz a berginu stefndi hann til sin ollu lidi sinu. enn bændr a Heid-mork laagu i safnadi ok gættu sin vel ok dreingiliga enn Ribbungar

saatu þess meirr vm. Enn eftir þat er Hakon konungr hafdi ellta Ribbunga af Ringariki var þat nockura rijd at ecki spurdiz til þeirra ok slitu þa bændr safnadinum ok hofdu þo vordu vm bygdir sinar. Sua er sagt at þeir voru nockurir menn er sua voru vtryggir bændum ok litlir konungs vinir at þa sendu ord Ribbungum leyniliga. foru þeir þa af Raumariki med ollum her sinum ok komu vpp aa Heidmork i bygd þa er Skaun heitir eftir midia naatt. enn su bygd var fiolskipad af kirkium ok godum bæium. Ok iafnskiott sem vardmenn vrdu varir vid þa ringdu þeir herklockunni at hofudkirkiunni aa Stongum. enn fyrir þui at Ribbungar voru þa komnir i midia bygdina þa var illt at safna lidi þui at þeir draapu huern er til villdi hlaupa safnadarins. þeir brendu .ij. bæi mikla Ottastadi ok Hervinn. þar biuggu .ij. konungsmenn þeir er mestu redu med bændum. Enn er þeir saa brennuna sneru þangat sumir til enn sumir til Ribbunga ok drapu huern er þeir fengu. enn þar sem syslumenn voru ok hellzst var safnadrinn þa ridu þeir þangat sem þeir sa flesta Ribbunga fyrir. enn saa madr bar merki bænda er Jonn landhafr het vaskr madr. hann reid akafliga sua hann fell aadr enn lidit kæmi saman ok fleiri menn med honum. enn er bændr sa fall sinna manna þa sneru þeir vndan ok leitadi huerr fyrir ser. Ribbungar raaku flottan ok drapu sem mest máttu þeir enn þegar syslumenn komu leingra nordr i bygdina þa skaaru þeir vpp heraur aa nyia leik. enn þa for sem mællt er at illt er flyianda mann at hepta. nockurum .ij. sinnum edr .iij. komu bændr i safnadinn enn þegar þeir sa fiolmenni Ribbunga þa letu þeir vndan. Ribbungar voru þui diarfari sem þeir saa bændr ræddari ok eftir þetta leitadu Birkibeinar fyrir ser enn Halluardr byskup for þa til Ribbunga ok tok grid af þeim[1] til handa bændum enn konungsmenn leitadu vestr vm vatnit ok vt vm þotn ok sua til Tunsbergs. Juarr a Skediuhofi ok þorgeirr byskupsmadr sogdu konungi tiþendin sem gerst hofdu. konungi likadi þetta storilla. þeir baadu konunginn fara vpp a Heidmork at Ribbungum. enn þaa var sem fyrr at inir somu aftoldu fyrir konungi ok baadu hann nordr fara eftir einkamaalum þeirra jarls.

## Ferd Hakonar konungs.

106. Ribbungar toku fe þeirra manna allra er fariz hofdu enn logdu stor giolld aa bændr ok sættuz med þui moti. Ribbungar sneru þa enn vt aftr i Vikina ok foru miok diarfliga. nockurar sueitir voru sua nær bænum at eigi var leingra enn ein rôst. Sem konungr spurdi þetta

[1]) h'm *d. e.* honum *Cd.*

þa nefndi hann .ix. sueitir or bænum at fara at Ribbungum ok voru þessir formenn fyrir Gunnbiorn Haralldr stangarſylia Juarr aa Skediuhofi Guthormr Erlingssun Jsakr i Bæ. þeir fundu Ribbunga inn i Osloar heradi a bæ þeim er Agnlausa heitir. þar vard bardagi ok fengu Birkibeinar sigr. þar fell Nichulas Reidars brodir enn mesti madr af Ribbungum ok .x. tigir manna med honum. eftir þat þordu Ribbungar ecki at fara sua nær bænum i Tunsbergi sem aadr. þorsdaginn i paaschaviku let konungr draga skip sin vm nesit þuert fyrir vtan Skeliastein ok siþan vt i Hundzsund ok var þar þaa enn oruggr iss. hafisar voru leystir ok oll sund fyrir vtan. Eftir paschaviku sigldi Hakon konungr nordr ok var .v. nætr a leidinni. Jarl var i Biorgyn fyrir ok fagnadi vel konungi. var þa raadit til brudlaupsgerdar Hakonar konungs ok jungfru Margretar ok var (bodit) lendum monnum ok enum bezstum bændum vm oll Gulaþing. þar komu ok margir lærdir menn. brudlaupit var þrenningar messudag ok stod .v. nætr med sæmiligri veizslu sem til var ætlat. konungr veitti i jolahallinni ollum karlmonnum enn drottning var vppi i sumarhallinni ok konur med henni enn klaustramenn voru ser einir i stofu ok voru .v. abotar fyrir þeirri sueit. Fyrir brudlaupit sendi Hakon konungr .lxxx. manna vpp aa Valldres ok voru þessir formenn Alfr standreykr Gunnarr samr Klemetr langi. þetta var fyrir þa sauk gert at þeir skylldu hallda vaurd medan brudlaupit væri at Ribbungar gerdi ecki hark. enn er þeir komu aa Valldres þa voru þar fyrir nockurar sueitir Ribbunga ok foru Birkibeinar þegar at þeim ok baurduz vid þa. þar fellu margir Ribbungar ok .ij. formenn þeirra het annarr Vlfr skygnir. Eftir þat sneru Birkibeinar nordr i Gudbrandzdali. vrdu þa enn aaraasir med þeim ok Ribbungum ok hofdu Birkibeinar optar betr. enn þo letu þeir einn formann sinn Gunnar saam.

### Fra konungi ok Ribbungum.

107. Hakon konungr ok Skuli jarl voru leingi vm sumarit i Biorgyn þa let konungr bioda vt leidangri vm oll Gulaþingslaug bædi at lidi ok vistum. siþan bioz hann austr i Vik ok hafdi .xxxv. skipa enn Skuli jarl sneri nordr til þrondheims. Sua var raad fyrir gert at jarl skylldi þegar hann kæmi nordr fara vpp i land ok finna konunginn vppi vid Miors. enn sa þeirra er fyrr kæmi skylldi raada til skipagiordar. þa er Hakon konungr sigldi fyrir Jadar kom þar buzsa ein komin af Englandi er aa var Jonn staal. hann hafdi farit til voku til ens helga Thomas erchibyskups. þeir sigldu nær konungs skipinu. konungrinn spyrr eftir erchibyskupi enn þeir quodu hann i Englandi ok buinn til Noregs. konungr

spyrr huerr erchibyskup se vordinn. Jonn suarar. sa er þer villdut herra Petr aa Husastodum. konungr þackadi þat gudi. Vm quelldit er konungr kom til hafnar gerdi hann bref aftr i moti erchibyskupi huar sem hann kæmi at skylldi hann vera velkominn gudi ok sua honum. þa er konungr sigldi inn fyrir Lidandisnes kom þar i mot honum Fridrekr slafsi ok sagdi honum at Ribbungar voru þar vida i bygdum ok gerdu mart illt bædi konungi ok bændum. Konungr veik þa inn til sunda ok gerdi lettiskip [690] inn i Maurnadal at Ribbungum. þeir drapu þar nockura menn af þeim. Siþan foru þeir austr lengra ok fengu her ok huar menn af Ribbungum. enn er konungrinn sotti inn i Vikina var honum sagt at Ribbungar voru austr a Nesium ok i Skidunni. þa gerdi sa madr brudlaup sitt er Grimarr suangi het. Enn er konungr spurdi þat þa steig hann aa skutu ok for inn til Skidunnar at Ribbungum. enn þeir fengu niosn ok foru or bænum vm nottina. enn konungr kom i dagan ok er hann misti þeirra þar þa sneri hann vt eftir firdinum ok sigldi inn i Vikina ok austr eftir Grindholmasundum ok misti þeirra þar. ok þadan for hann til Osloar crossmesso aftan. kom hann inn til Nesodda med .xvj. skutur. þar skipti hann lidinu. reru .xij. skutur inn vndir þrælabiorg ok var þar fyrir Juarr a Skediuhofi. þeir geingu vpp ok lagu vm nottina i Elfuinareing. enn i dagan vm morgininn reyru þeir at bryggiunum. þeir stefndu vpp til beiarins. Ribbungar voru i bænum ok liopu vpp þegar er þeir vrdu varir vid at skuturnar reru at ok stefndu vpp or bænum. þeir Juar komu þar i moti þeim ok lupu Ribbungar þa aftr i bæinn. þa var konungr kominn a bryggiurnar. stefndu þeir vpp ok sueif þa vpp i bæinn. vard þa litil mottaka. Ribbungar fellu þar betr enn .xx. menn enn allir adrir komuz i kirkiur. enn vm morgininn gaf konungr þeim grid. Sua segir Sturla i Hakonar flocki.

**Rikr gaf hlenna hneykir**
**her þrungit Ribbungum**
**yss gerdiz i Oslu**
**eitt slag meginsueitum.**
**milldr kom heimskum haulldum**
**hervijgs a glapstigu**
**kendi langs i landi**
**lauf vikinga rikis.**

þegar vm kuelldit for Hakon konungr or bænum ok vt til Tunsbergs allt et beinasta.

## Bref fra Skula jarli til Hakonar konungs.

108. þa er Petr erchibyskup kom i land sendi hann bref til konungsins þau er pauinn hafdi ritad med honum at konungr væri vin erchibyskups. erchibyskup bad ok konunginn vinattu i sinum brefum ok het i mot sinni vingan med fostum truleik. J þenna tima komu til

konungs bref fra jarli ok korsbrædrum i Nidarosi ok sogdu þau sua at Petr suikarinn var kominn i land er keypt hafdi erchibyskups nafn med fe ens heilaga Olafs konungs ok baadu konunginn taka hann sem annann suikara heilagrar kirkiu. þessi somu bref sendi konungr til erchibyskups ok þar med sin bref ok bad erchibyskup fara austr til sin edr bida sin i konungsgardi. baud konungr sik sialfan til at fylgia honum nordr til stadarins. þa er Hakon konungr kom nordr til Tunsbergs komu þa til hans storskip þau er hann hafdi af geingit. var þar aa drottning ok konungsmodir. þa komu ok til hans lendir menn ok syslumenn or Vikinni. bioz hann þa sem skiotaz inn til Osloar. þa kom prestr einn danskr til konungs fra Sigurdi ribbung med brefum. hann baud konunginum hardstefnu vid vatn þat er Draufn heitir. enn monnum þotti konungr eigi mega þangat fara storskipum fyrir straumum. þa suarar prestr. baud hann ydr ok þann kost at þer skylldut fara inn til Osloar ok ganga nordr aa Leiru ok mundi hann þar koma ok beriaz vid ydr. þa fara allir iafnlangt til. Konungr iattadi þui gladliga. þa dro prestr maalit sagdi at Ribbungum þotti þat iafnt at konungr ridi vpp til eids enn þeir kæmi þar i mot ok berdiz aa Eidsvelli. Konungr suarar. leingra sækium ver þa Birkibeinar til er farit hofum norþan vr Biorgyn aa skipum enn ridum nu aatta rastir a landi til motz vid þa enn þeir fara .iij. vikr skammar eftir vatni. enn ef Sigurdr vill þar finna oss helldr enn i odrum stodum þa far nu sem skiotaz prestr ok seg Ribbungum at þeir skulu mega sia merki Hakonar konungs aa Eidsvelli þegar gud gefr tima til. Eftir þetta foru (þeir) inn til Osloar.

### Fundr Sigurdar ok Skula.

109. Skuli jarl gerdi sem þeir konungr hofdu talat sin i milli at hann for aa land vpp ok med honum Gregorius Jonssun ok Pall vogarskalm Nichulas son hans ok Petr vr Gizska. Jarl hafdi mikit lid ok fritt. hann hafdi laatid sla skipsaum margann ok var fluttr i klyfium. hann let fara marga smidi med ser ok for miok akafliga þar til er hann kom i sunnanverdan dalinn i Gudbrandzdolum. þa sendi hann fra ser haalft annat .c. manna. var þar fyrir Kolbeinn ketturyggr ok Juar vtvik[1]. þeir komu til Hamars at midium degi. þar var þa Sigurdr ribbungr i bodi ok komz naudugliga aa skip sitt. þar fellu nockurir menn af honum. (þ)aa reri (hann) vt aa vatnit ok kalladi aa Birkibeina ok spyrr huerr fyrir lidi væri þui er nordan kom. Juarr suarar. Skuli jarl er fyrir lidi þui segir hann. Eftir þat reri Sigurdr vt til eyiarinnar þar sem lid hans

[1]) or vik *Cd.*

var fyrir ok sendi Erling romstaf aa fund jarls ok var honum þar vel tekit. siþan funduz þeir Sigurdr ok jarl med faa menn ok toluduz vid vm rijd. Eftir þat tok jarl skip byskups ok sin ok oll onnur þau er hann feck. þa leet hann ok reisa ny skip þau er sua voru stôr at engi voru fyrr slik gior aa Vpplondum ok voru þo miok gior af rapadi. þa er Skuli jarl for or þrondheimi sendi hann gramunk einn med brefum til Hakonar konungs ok mætti hann konunginum a firdinum þa er hann for inn til Osloar. hann sagdi at jarl var farinn aa Vpplond ok bad konung huata til motz vid hann ok sagdi at jarl mundi raad fyrir gera at skip skylldi eigi skorta. bad þo konunginn hafa sum med ser ef til þyrfti at taka. Nichulas byskup var fyrir i Oslu ok gerdi ord a þui at hann villdi leita vm sættir med Birkibeinum ok Ribbungum. þa funduz bref þau at konunginum þotti eigi allr trunadr halldinn vid sik af byskupi eftir þui sem byskup hafdi iattad honum. enn byskupinn bad konung vægia ser vm þessi maal. Siþan for konungr aa land vpp ok allir lendir menn med honum ok allt et bezsta folk. enn Halluardr bratti ok nockurir adrir sueitarhofdingiar voru eftir at gæta skipa ok logdu þeir ollum skipunum i Elgiarnes. þær voru a konungsskipi drottning ok konungs modir. Konungr var ena fystu naatt at Gunnarsbergi enn adra at Amunda laugmannz i godum fagnadi. Vm morgininn foru Birkibeinar vpp til Eids komu þa niosnarmenn i mot þeim ok sogdu at Ribbungar mundu fyrir þeim a Eidsvelli.

### Stefnurof Ribbunga.

110. Hakon konungr aatti tal vid lid sitt. lysti þui er honum var sagt at Sigurdr ribbungr ætladi at hallda orrosto vid hann vm daginn. þui fôgnudu allir Birkibeinar at sa fundr yrdi sem skiotaz. Var þa farit aakafliga ok er þeir komu vpp at kirkiu þa leypti allr herrinn ofan eftir breckunni til aarinnar. þui at þeir hugdu at þar mundi herr Ribbunga fyrir vera eftir þui sem þeir sialfir hofdu bodit Hakoni konungi. Enn þeir helldu þenna stefnustad sem þeir hofdu adra halldit at engi þeirra var þar kominn i moti Birkibeinum. sneri þa konungrinn vpp til beiarins ok skipti þa herinum i garda enn hann var i presthusum. Hann sendi þa niosnir med bondum vpp vm vatnit at segia jarli at konungr var kominn ok bad hann senda skip moti ser sem skiotaz. Litlu sidar komu sendimenn fra jarli Nichulas tartr. þeir sogdu [691] konunginum at þar voru i ferd med þeim hirdmenn Sigurdar konungs ribbungs Erlingr rumstafr ok Aalfr Styrssun ok villdu hafa grid af Birkibeinum til vidtals med konung. konungr kuez ecki eiga vantalat vid þa. Nichulas kuad

þetta vera raad jarls at duelia sua stund fyrir Ribbungum ok raadagerdir þuiat skipin voru eigi fyrr buin enn eftir .iiij. daga lidna þa mundi oll a floti ok buin at ollu. Konungr iattadi þa at sendimenn skylldi koma i fridi til tals vid hann. þeir baaru vpp erendi sin ok sogdu at Sigurdr bydr sættir ok beiddiz skiptis aa landi. Hakon konungr suarar sua. meira kostadi Suerri konung faudurfaudur minn ok fleiri vosbudir hafdi hann enn ver hofum enn haft aadr hann fengi Noreg vndir sig af sinum vvinum ok leitudu þo margir aa hann siþan hann feck einvalldit ok let hann ecki skipti aa ganga annat en bad gud skipta eftir þui sem hans miskunn ok vili væri til. nu megu þer ok sua segia Sigurdi hofþingia ydrum at ecki skal annat skipti hafa enn þat sem gud gerir. vitum ver ok eigi huart Sigurdr er son Erlings steinueggs. enn þat vitum ver til viss at hann er eigi sun Magnuss konungs ok þat var fals eitt er hann for med sem þeim var kunnigt er nu sitia hia mer Arnbiorn Jonssun Gunnbiorn ok Simon kyr. Arnbiorn hafdi þar faatt vm en Simon sagdi sua. þat er engum manni iafnkunnigt sem mer at ecki þionudum ver þeim Erlingi sem ek sa i steinvegginum i Visinsey. þo þotti mer þessi godr medan ek var medr honum. Eftir þetta skiptuz þeir nockurum ordum Simon ok Ribbungar. þui næst baadu Ribbungar at fridr skylldi standa vm vetrinn ok hefdi þeir Vpplond til varnar. Konungr neitadi þui. þa beidduz þeir at hafa Heidmork ok Raumariki til vaars. konungr suarar. ef þer sitid i fridi til vaars þa dragi þer til yduar margan þiof ok vaandan dreing sem þer erut vanir ok mun þa þyngra at hrinda ydr brott enn nu. þa foru (þeir) ofan til skips enn konungr sendi þa menn til Nichulas ok sogdu þeir jarli vidrædur konungs ok Ribbunga. þeir sogdu jarli at konungr maatti med engu moti leingr dueliaz a Eidsvelli enn .viij. nætr enn a .ix. degi vard hann brott at fara ok var sa næstr eftir all(ra)heilagramesso. þa sendi jarl Nichulas Paalssun til konungs ok sagdi ath skip voru buin enn ecki quat hann þau mundu synaz miok þéttlig. Jarl bad at konungr skylldi senda til hans nockut lid. konungr sendi honum atta sueitir ok þa formenn Juar af Skediuhofi ok Saxa bladspiot. Konungr gerdi menn med honum til jarls ok bad hann koma til sin med skipum edr senda honum þau skip er fær væri. Sem Nichulas kom til jarls hafdi hann flotad skipum ok voru þau sua lek at varla feck ausit ok med engu moti voru þau herfær. þa hofdu Ribbungar farit or eyiunni med skipum sinum higat ok þagat i eyiar edr fiordu. ok er jarl spurdi þat for hann nordr aa Ringisakr aa skipum sinum ok voru þar sum brend enn sum

vpphoggin. enn jarl sneri nordr til þrondheims med allann her sinn ok komu eingar ordsendingar af jarls hendi til konungs.

### Fra Hakoni.

111. Hakon konungr beid aa Eidsvelli sua sem þeir jarl hofdu vid mælltzt. siþan for hann i brott med allann sinn her ok ætladi vt til skipa sinna. ok er hann kom aa Raumariki var honum sagt at Ribbungar hofdu farit vt vm þotn med skipum sinum ok sua vt vm Hadaland ok ætludu at draga skip sin i vatn þat er Tyri heitir a Ringariki. Nu sneri konungr ferd sinni ok for vt vm Hakadal ok sua aa Hadaland. mestr þori lids sneri vt til skipanna. voru þeir sumir er eigi vissu at konungrinn hefdi aftr snuit enn sumir hofdu eigi dreing i serk at fylgia honum. Konungr var ina fyrstu nott i Hakadal ok sua aa Hadalandi. enn vm morgininn at midium degi matadiz hann aa Gyllin. þat er aa Hadalandi. þa var konungi sagt at nockurar sueitir af Ribbungum drogu þar skip sin vt vm bygdina. konungr sendi þa fyrir ser Juar nef ok lid med honum enn konungr for seinna. ok er hann kom i bygdina þa er Brandabu heitir komu menn i mot honum ok sogdu at Juarr nef var elltr aa skoginum Kiolueg ok margir menn drepnir af honum. Litlu sidar kom Juarr ok kuaz ridit hafa austr aa skoginn vm rijd ok þa mættu Ribbungar honum. ok vissa ek eigi hue margir þeir voru sagdi hann ok foru þeir samfleytt enn ver sundrslita þuiat oss vardi eigi at sua skiott mundi at bera med oss. ok er ver fundumz fengu ver varla vopnum fyrir oss komit þuiat skogrinn var sua þyckr ok þui næst lupu vorir menn aa skoginn ok hulpu ser med þui. enn ek gat snuit minum hesti ok nockurir menn med mer ok ridum ver aftr eftir veginum.

### Fra Hakoni konungi ok hans monnum.

112. Hakon konungr hellt nu lidinu aa haugi einum vm daginn ok let skora lidit ok var þa eigi meirr enn .ccc. manna af þeim .xv. er honum fylgdu aa land vpp. Sua sem aa leid daginn komu þeir af skoginum er elltir voru ok þeir hugdu fallna ok þui beid konungrinn þar vm daginn. þa var honum sagt at Sigurdr ribbungr mundi þar koma med her sinn ok þui hellt konungr þar saman lidi sinu vm nottina þorbiorn gromr hirdmadr konungs kom vm dagsetrs skeid ok nockurir menn med honum ok voru allir flettir enn sumir særdir af Ribbungum. Vm morgininn i lysing gerdi konungr fra ser halft annat .c. manna med hestum aa niosn til Ribbunga ok komu þeir aptr at medium degi ok sogdu Sigurd hafa snuit ferd sinni vpp aftr a Hadaland ok ætladi vpp

til eyiarinnar med ollum skipum sinum ok lidi. konungr þottiz skilia þa at ecki mundi tia at rekazst eptir þeim vpp til vatzsins þar sem hann hafdi engi skip ok þui sneri hann vpp aftr aa Hadaland ok var vm daginn at Baardar profastz aa Gron[1] i godri veizlu.

### Andlat Nichulas byskups.

113. Nichulas byskup var þa miok siukr. hann gerdi ord Hakoni konungi at hann kæmi til hans. konungr hafdi fundit bref nockur i þessi ferd þau er honum þotti eigi allr trunadr a vera af byskupi til sin ok bar þat aa hann. enn byskup geck vid ok bad konung fyrirgefa ser. konungr kuaz þat giarna vilia gera fyrir guds sakir. konungr þottiz skilia huar þa var komit mætti byskups ok fyrir þui dualdi hann ferd sina þar til er gud kalladi byskup af heiminum. Hakon konungr fylgdi liki hans til graftar ok gerdi vel ok virduliga sem vera aatti. þuiat Nichulas byskup hafdi verit inn mesti agætismadr ok storræda vmfram alla lærda menn i Noregi. hann var ok kominn af enum stærstum ættum i Suiavelldi ok Danmork ok þo vel ættadr innan landz. enn þott hann væri litill vin Birkibeina þa sagdi Hakon konungr þo sua at varla [692] hefdi slikr madr verit sem Nichulas byskup til verallda vitz ok sæmdar.

### Fra Hakoni konungi.

114. Hakon konungr for til Tunsbergs ok gaf þaa heimleyfi Dagfinni bonda ok Gauti af Meli ok odrum monnum nordan or landi enn hann bioz austr til Elfar. Drottningin ok konungsmodir foru vpp aa bergit ok var Gunnbiorn þar forsiamadr medan konungr var austr. Sem konungr var i Konungahellu kom þar i mot honum Aaskell laugmadr ok fru Kristin. Laugmadrinn sagdi sua at Eirekr Suiakonungr ok allir Gautar hofdu storar aataulur vid Noregsmenn vm ferd þa er konungr for i Vermaland. Enn konungr sagdi at þat var laugmanni kunnigazst huersu opt hann hafdi bedit at Suia konungr skylldi brott reka þa þiofa er optliga staalu or hans riki ok ręntu Noregsmenn. Logmadr quez þat giorla vilia enn sagdi at Suiakonungr var miok bernskr enn hefir þaa fa raadgiafa er honum eru fullkomliga tryggir. hefdi þeir honum verit heilraadir þa mundi hann reinsat hafa land sitt af þessu illþydisfolki. Lǫgmadrinn var i bodi konungs ok foru allir lutir vingiarnliga med þeim at þui sinni. þa voru margir Baglar fornir med Hakoni konungi Lodinn Gunnasun Simon kyr Halluardr bratti. konungr hafdi þat til skemtanar at hann gabbadi þa vm þat at þeir hefdi eigi rettum konungssyni þionat þa er þeir voru med Erlingi steinuegg ok aattu margir

[1]) Guon *Cd.*

menn lut i þessa maali. enn logmadrinn lyddi til ok mællti til konungsins. vili þer herra lofa oss Gautum at eiga nockurn lut i gabbi ydru Nordmanna. enn þui iattudu allir. þa mællti hann. eigi skiptir mik miklu vm gabb yduart edr huat i Noregi ferr fram enn eigi villda ek vsatt segia þat er ek vissi. er mer vkunnigt vm þat huart Erlingr þessi var sun Magnuss konungs er Baglar þionudu. enn þat vissa ek sannliga fyrir gudi at eigi var hann sa Erlingr er sat i steinvegginum hia oss i Visinsey. enn sua segium ver at sa var sun Magnuss konungs ok hygg ek af þui at þer hafit rangt þionat. enn þessi hafi gefit ser nafn hans ok vidrnefni. enn þu munt þetta vita Symon kyr. þuiat þu vart þar inni byrgdr medr honum. Konungr mællti þa. seg nu Simon þat er þu veizst sannazst fyrir gudi vm þetta maal. Simon suarar. þat veit ek fyrir gudi at mer er þetta kunnigt þuiat ek sat i steinvegginum hia honum ok var ecki þessi sia Erlingr. enn þui þionudum ver þessum at ver villdum faa einhuern þann (er) i moti stædi Birkibeinum. Konungr skirskotadi þetta vndir þa menn er hia voru at Simon geck vid med hueriu falsi þeir hofdu farit ok þeir allir siþan sem þionat hofdu afkuæmi þessa Erlings.

## Ok fra Hakoni konungi.

115. Hakon konungr ok Aaskell logmadr skilduz med miklum kærleikum ok gaf huorr odrum godar giafir. þa baud konungrinn herra Knuti frænda sinum at fara med ser til Noregs ok het honum þar miklum sæmdum fyrir sakir faudur hans ok frændsemi þeirra. enn modir hans red er hann for eigi. Eftir þat for konungr nordr til Tunsbergs ok kom þar iola aftann ok sat aa berginu vm jolin. þessi var enn .ix. vetr konungdoms hans. Eftir jolin for konungr or Tunsbergi ok nordr til Biorgyniar at afla ser lids þuiat Ribbungar styrktuz miok i Vikinni ok aa Vpplondum. hann setti eftir Gunnbiorn aa berginu med .c. manna. Konungr hellt vt id eystra þuiat oll sund voru isud. hann laa .vij. nætr i Huollum. þa kom Gunnbiorn til hans ok sagdi at menn villdu eigi sitia aa berginu þeir sem hann hafdi til nefnt. konungr for þa aftr id efra til bearens ok aatti tal vid sina menn ok lagdi þeim vid stora afarkosti ef þeir gæfi vpp bergit. siþan for hann aftr til skipa sinna. Sa atburdr vard i Tunsbergi at reisa skylldi tre a konungsskipinu. enn þa er reist var tok treit at falla fram at stafni eftir stockinum. konungrinn stod vndir er treit reid ok tok madr i bellti honum ok kifti honum vt aa bordit. giordi gud þar mikla iartein þuiat engann mann sakadi enn margir voru nær. enn þat volldi at iss var i

stellingunni. þa er konungrinn sigldi i gegnum Eikundarsund villdi hann at leggia enn menn mælltu i mot ok sogdu at eigi skorti byr fyrir Jadar ne dag. konungr quez ecki vera fuss at sigla quaz sua dreymt hafa sem þeim mundi aa beraz adr þeir kæmi til Biorgyniar. enn þo sigldu þeir godann byr fyrir Jadar ok komu i Eyiar vm kuelldit. Vm morgininn var landnyrdingr huass er þeir toku til segls. þeir hofdu .iiij. langskip. Ok er þeir lidu Frekeyiarsund þa huesti sua at varla var vodhæft a konungsskipi ok kastadi fram seglinu aa ackerisfleininn ok reif seglit sua at þat for allt nidr i skipit. enn skipit rak at boda. hetu menn þa storheitum þeir sem aa voru enn engi vænti ser vndankomu ok þat hugdu þeir er hiaa saatu at huetuetna mundi laataz. Enn þa syndi gud storar iarteinir. þuiat medan at leid bodanum þa rak skipit akafliga ok sua siþan bodann leid enn medan iafnfram for bodanum þa rak med ollu ecki. Konungr lagdi til hafnar i eyiunum Aumum med mikilli naud. baatrinn var brotinn enn rifit seglit ok at flestu ollu hafdi nockut bilat. Konungr sigldi þa nordr til Biorgyniar ok stefndi til sin lendum monnum sinum or Gulaþings laugum ok sagdi þeim at hann villdi bua ferd sina austr aftr i Vikina. enn er þeir spurdu at bændr maattu eigi skiotliga gera leidangr bædi konunginum at vistum ok lidi ok þui beid konungrinn þar fram aa vorit.

## Fra Sigurdi ribbung.

116. Sigurdr ribbungr sat aa Vpplondum med miklum styrk. hann sendi bref nordr til Skula jarls ok Petrs erchibyskups ok bad þaa leita vm sættir vid Hakon konung. beiddiz hann landaskiptis ok þess at sættarstefna væri logd med Ribbungum ok Birkibeinum. Ok er hann hafdi nordr sent brefit þa stefndi hann til (sin) ollum her sinum ok for vt i Vikina med miklum styrk. ok er Birkibeinar spurdu þat þeir er i Vikinni voru þa treystuz þeir eigi at hallda Vikinni fyrir Sigurdi ribbung ok biuggu ferd sina nordr til konungs ok foru i brottu flestir allir. Konungrinn fagnadi þeim vel. þeir sogdu konungi slik tiþendi sem þar voru. konungr feck þeim aatta skip vel skipud. sneru þeir þa i brott austr aftr med lidi sinu. þa er bref Sigurdar ribbungs komu nordr þa sendu þeir bref austr it efra erchibyskup [6:3] ok jarl þuiat þeir hugdu at konungr væri i Vikinni. var þat aa þessum brefum at Hakon konungr skylldi taka sætt af Sigurdi ribbung. lagdi erchibyskup bann vid huerium manni er nockurn ofrid gerdi aadr enn sættarstefna væri reynd. þessi bref komu i moti lendum monnum austr fyrir Augdum ok for med korsbrodir einn af Nidarosi ok annarr af Oslu ok nockurir jarlsmenn.

þa er lendir menn hofdu heyrt brefin foru sendimenn nordr til konungs enn lendir menn austr i Vik. ok er þeir komu til Jarlseyiar var inn bezsti byrr inn til Osloar enn Ribbungar voru i Oslo. hefdi Birkibeinar vnnit enn fegrsta sigr ef þeir hefdi inn siglt enn þeir kuoduz eigi vilia verda fyrir banni byskups ok reidi jarls. enn þau atta skip er konungr hafdi austr sent villdu fara at Ribbungum þott þeir færi einir samt. enn lendir menn heftu þa ok villdu med eingu moti at þeir færi ok vard fyrir þui ecki af.

## Fra brefagerdum Hakonar konungs til jarls.

117. þa er bref komu til Hakonar konungs þa mislikadi honum miok ok suaradi sua. ecki mun ek iatta þessu landaskipti sua skiott. Siþan sendi hann menn med brefum nordr til jarls ok erchibyskups þeim er sua mælltu. þer ritudut til vaar ok hetud oss nockurum afarkostum ef ver villdum eigi sættaz vid Sigurd ribbung ok iaatta honum varri fedrleifd. enn oss þickir þat hardr kostr at iatta þeim manni landaskipti er ecki er til borinn. mun nu at þui koma sem þer ritudut til vaar i haust er erchibyskup kom i land. maatti þat þa finna at huorigir voru annarra vinir. mun þat ok sannaz er fornkuedit er at sækiaz ser vm likir ok saman skrida nidingar. þetta tal megit þer nu eiga felagar ok fylla. enn sua sem þat er þa skal gud skipta med oss enn eigi byskupar. Erlingr liodhorn var þa med konungi. hann var nockut skylldr Petri erchibyskupi. ok er hann heyrdi þetta þa suarar hann konungi sua at allir raadgiafar heyrdu. þat er ecki vndarligt þo at erchibyskup frændi minn bregdiz nockut i truinni þuiat þat fylgir oss ollum er af Standhala ætt erum komnir at vera eigi allzkostar tryggir.

## Hakon konungr baud (vt leidangri).

118. Enn er aa leid vorit baud konungr vt leidangri ok bio ferd sina i Vik austr. J þenna tima komu menn nordan fra jarli ok sogdu at jarl hefdi feingit harda sott ok tekit alla cristiliga þionustu ok kuodu hættligt vm hans maatt. enn þo bætti gud honum þeirrar sottar. þa er Hakon konungr bioz or Biorgyn reid hann vpp til Alreksstada einn sunnudag sem vandi hans var til. þa kom þar i mot honum einn hlaupandi madr miok akafliga ofan or fiallinu. konungi þotti vndarligt er þessi madr for sua akaft þui at konungr kendi manninn at hann var einn af Ribbungum. hann hafdi runakefli þat sem einn Ribbungr hafdi sent konungi. þat sagdi sua at Sigurdr ribbungr væri andadr ok bad konunginn gera nockut skiott raad fyrir at eigi kæmi jungherra Knutr

frændi hans at styrkia Ribbunga i annat sinn. Konungr let þegar gera bref austr til Knutz frænda sins ok baud honum goda kosti þa sem fyrr. hann skundadi þa sinni ferd austr i land ok kom eftir Seliumanna voku i Vikina. Sigurdr ribbungr andadiz i Oslu enn menn hans leyndu andlaati hans ok fluttu lik hans vpp aa land ok kuodu hann siukan ok i þessu bili gerdu þeir menn austr i Gautland Haralld af Lautyn ok Aalf Styrssun Erling rumstaf til Aaskels logmannz ok fru Kristinar ok baadu jungherra Knut bindaz fyrir flockinn sogdu landit mundu laust fyrir liggia ef hann kæmi til. Fru Kristin trudi þessu ok feck jungherra Knut i hendr Ribbungum. fylgdu honum margar sueitir af Gautum ok Vermum ok Markamonnum.

### Knutr let gefa ser konungs nafn.

119. þa er Knutr kom aa Raumariki let hann taka sik til konungs. dreif þa stormikit lid til hans sem Sturla quat.

Flock tok enn sa er ecki
ognmilldr fridaz villdi
eftir dolgstridi daudan
daadfanginn hofþingia.

Knutr reed baag at briota
baud hraustr vid gram traustann
geystr þuiat Gautar fystu
gedbraadir landraada.

Lendir menn i Vikinni ok Birkibeinar þeir sem þar voru hugdu at eingi vfridr nyrr mundi vpp hefiaz. enn er þeir spurdu þessi tiþendi þa efldu þeir at lidi allir bændr i Vikinni villdu eigi ganga vndir vtlendzkann hofþingia. Knutr for vt til Osloar ok let þar gefa ser konungsnafn. þeir hofdu þa Osloarsyslu Guthormr Erlendzsun ok Klemet af Holmi. þeir voru vestr i Lidum i syslum sinum. Sem þeir spurdu þessi tiþendi saufnudu (þeir) at ser[1] Birkibeinum ollum þeim sem þar voru i nand. Bændr stefndu þing ok nefndu menn or bygdinni at fara at Ribbungum or bygd til Osloar. þessir voru fyrir bændum Steinraudr prestr þorbiorn slodi Eirikr egnarbacki. hann bar merki bænda. þeir foru ferdar sinnar Birkibeinar ok bændr. Enn er Ribbungar spurdu þetta foru þeir i moti þeim or bænum ok mættuz þeir fyrir vestan Akr aa engium nockurum ok var þar enn fysti bardagi med Gautum ok Nordmonnum. Stadr vard aa bændum er þeir funduz ok villdu varla fram. sem Birkibeinar saa þat liopu þeir af hestum sinum ok geingu diarfliga fram. Ribbungar sottu miok at þeim þuiat þeir hofdu marga vaska menn. þeir sottu sua fast i fyrstu at þeir felldu Eirik ignarbacka merkismann bonda. Nu er Birkibeinar saa at Ribbungar baurduz vel ok diarfliga þaa lupu þeir af hestum sinum ok fylgduz vel. ok vaanum bradara helldu

[1]) þer *Cd.*

Ribbungar vndan ok fell þar mikill luti villdarlids þeirra. þar fellu ok flestir allir sueitarhofþingiar Gauta. Enn Knutr komz a hest ok .iij. Ribbungar med honum ok flydi. hann leypti yfir bru nockura ok fell þar hestr hans enn hann droz naudugliga vndan ok for vpp aa land. þuiat Ribbungar hofdu þa mestann lut Vpplanda ok skip oll i vǫtnum bædi i Miðrs ok i odrum vǫtnum. skipudu Ribbungar þar ollum syslum þuiat Birkibeinar voru engir aa Vpplondum. Hakon konungr sigldi austr til Vikr. hann hafdi skip þat er Drekinn het. hann sigldi fra ollum skipum sinum. ok er hann kom til Areyia lagdi hann þar at. ok er skip kom i lægi geck hann i baat ok for yfir til bearins ok spurdi tiþenda. Bondi suarar. segi ek tiþendi þau er ydr munu god þickia enn mer þickia ill. ek aatti .ij. sonu med Ribbungum ok eru baadir fallnir. Siþan sagdi hann konungi allann atburdinn fra bardaganum aa Akri. konungr beid þar skipa sinna ok sigldi siþan inn til Osloar.

## Ribbungar flydu.

120. Eftir þat stefndi Hakon konungr til sin lendum monnum ok syslumonnum or Vikinni ok for vpp aa land ok let draga .xxx. ok fiogur skip or bænum. Eftir þat er Knutr [694] hafdi flyit laagu bændr i safnadi vm alla Osloarsyslu ok gættu sin dreingiliga ok bidu sua konungs. Arnbiorn Jonssun ok Simon kyr drogu ok þriu skip vm Elfui. Hakon konungr var .ij. nætr a leidinni aadr þeir kæmi skipunum yfir et fyrsta eidit vpp til Stafsbiarga. þat eru .ij. langar rastir at draga vm myrar ok skoga adr hann kæmi i vatnit. þar kom i mot honum Arnbiorn Jonssun Simon kyr ok Lodinn Gunnasun. siþan drogu þeir rastar langt eid aadr þeir komu vpp i Elfina. Birkibeinar foru helldr vspakliga ok konungr hafdi nockut aamæli at hann refsaþi litt. hann let þa drepa gest einn er vspakazstr hafdi verit. eftir þat gat engi madr at vspeckt væri giorr. Vm morguninn er konungr kom til Eids gerdi hann fyrir nockurar lettiskutur ok toku þeir þar nockura niosnarmenn vpp i myrinni ok draapu þar .vij. menn. Vm kuelldit for Hakon konungr vt til vatzminnis med allann herinn. hafdi hann eigi sanna niosn af huar Ribbungar voru ok þui skipadi hann sua at hann reri sialfr med enu vestra landinu. þeir aa konungsskipinu saa huar rere eitt skip Ribbunga. logdu þeir at landi enn konungr tok skip þeirra. Siþan aatti konungr tal vid lid sitt ok baud ollum monnum at eigi skylldi drepa Knut frænda hans þo at þeir ætti kost fyrir sakir Hakonar jarls faudur hans. þa er liost var vm morgininn sa Birkibeinar skip Ribbunga roa i moti þeim akafliga ok hugdi konungr at þeir villdu beriaz þuiat þeir hofdu

skip miklu stærri enn Birkibeinar. enn þegar sem Ribbungar sa ferd konungsins sneru þeir aftr at landi ok flydu vpp i bygd þa er Hun[1] heitir enn konungr tok oll skip þeirra ok vistir ok mikit herfang. Eftir þetta for hann austr til Hamars ok laagu þar margir Ribbungar i saarum þeir sem barizst hofdu a Akri. konungr gaf þeim ollum grid. þui næst stefndi hann bondum til sin ok aattu þeir þa allir samhelldi vid konung i moti Ribbungum. Knutr flydi vpp a Hadaland. Hakon konungr sendi til hans Gudleik af Aski frænda hans ok stallara sinn ok þann annan er þorir heitir. baud hann Knuti þa enn sætt ok goda kosti ef hann villdi aa hans valld ganga. Ok þa er sendimenn fundu Knut ok Ribbungar vrdu varir vid at Knuti voru sættir bodnar þa gættu þeir hans sua at hann maatti eigi fra þeim komaz. foru þeir aftr sem þeir komu ok sogdu konungi slikt er þeir frettu.

### Hakon sendi bod.

121. Hakon konungr skipadi þa Vpplond ok let oll skipin vera i Miors ok setti menn til at gæta. enn hann bioz þa nordr til Biorgyniar til stefnu þeirrar er hann hafdi gert vid erchibyskup ok jarl. konungrinn hafdi spurt at þeir voru komnir. þa sendi hann þorstein heimnes merkismann sinn nordr fyrir at segia at þeir skylldu bida hans. þorsteinn var .viij. nætr a leidinni. ok er hann kom nordr þa þottuz þeir erchibyskup ok jarl hafa frett af at Hakon konungr mundi bera vpp bref nockur þau er honum mundi eigi þickia allr trunadr i til sin af þeirra hendi ok gerdu þeir þetta þa statt at erchibyskup færi nordr enn jarl bidi þar. Hakon konungr aatti þing i Oslu ok Tunsbergi ok geingu allir bændr i samhelldi vid konung i mot Ribbungum. Siþan for hann nordr. þa kom þorsteinn heimnes i mot honum ok hafdi verit .iij. nætr a leidinni nordan enn .ij. i bænum ok sagdi at erchibyskup ætladi at bida konungs aadr þeir jarl toluduz vid enn siþan var þat allt vti. þorsteinn sagdi sua at þar voru margir menn komnir vestan vm haf at finna konung ok bad hann skynda. þa er konungr kom til Biorgyniar var þar fyrir Skuli jarl ok Jonn jarl af Orkneyium Simon byskup af Sudreyium ok aaboti af Eyiunni helgu. skipadi konungr fyrst þeirra maalum er vestan voru komnir ok ollum med jarls raadi.

### Draap Guthorms ok Arna.

122. Herra Knutr flydi vestr i Daali þa er hann liop af skipum sinum i Miors. enn þa er hann spurdi at safnadr var fyrir honum aa Heidmork ok Hadalandi sneri hann þa nordr i Gudbrandzdali ok sua i

[1]) Him *Cd.*

Eystridali ok þadan i Vermaland. efldiz hann þa aa nyia leik at lidi for siþan i Noreg. komu fram i syslu Arnbiarnar Jonssunar þar sem Skaun heitir ok Heggin ok gerdu þar morg heruerki. enn er bændr villdu veria sinn kost þa fellu þar margir af bændum. Arnbiorn sendi bref til konungs ok bad hann skynda i Vikina ok sagdi at Ribbungar styrktuz miok. Sem konungr spyrr þessi tiþendi for hann austr i land enn jarl for nordr til þrondheims. þa er konungr kom til Tunsbergs setti hann eftir aa berginu Erling liodhorn at bua til jolaveizslu enn konungr for inn til Osloar ok laa vm nattina i Jarlseyium. þar kom i mot honum þorgeirr byskupsmadr ok Fridrekr slafsi. þeir voru syslumenn aa Hadalandi ok sogdu þau tiþendi at Ribbungar hofdu dregit skip austan vm Eidaskog ok komit þeim i Miors. þar i eyiunni voru syslumenn konungs Guthormr konungs frændi ok Aarni aa Holi at gæta skipa i vatninu. þeir hofdu fiolmennar sueitir. Ribbungar komu at þeim vvaurum ok felldu Guthorm inni enn Arni komz vt ok fell aa akrinum. þar fell aull sueit þeirra. Siþan toku Ribbungar skip oll bædi i Miors ok i odrum votnum. enn er bændr spurdu þat gaafu þeir vpp bygdina ok toku ser grid af Ribbungum. toku nu Ribbungar oll Vpplond. Hakon konungr sigldi vm dag inn til Osloar. þar var þa fioldi bænda i bænum meir enn .m. .cc. med bæiarmonnum. Konungr aatti tal vid þa ok sogdu bændr sua. at þeir hofdu þeim safnadi halldit siþan þeir borduz aa Akri vid Ribbunga. enn nu heita þeir oss afarkostum storum at brenna bygdir vorar enn þeir naa eigi sialfum oss. nu vilium ver bidia ydr herra at þer sitid her i vetr at gæta vor ok bygda vaarra enn ver vilium gera ydr allann almenning ok annan aa bak iolum. enn ef ydr þickir nockut aa vanta þa vilium ver gefa ydr haalf bu vaar ok haalfar allar vistir. enn ef þer vilit eigi her dueliaz þaa tokum ver oss grid af Ribbungum ok sættumz vid þa. Konungr þackadi þeim vel bod sitt enn kuaz þa skylldu gefa þeim orskurd þa er hann aatti tal vid hird sina. Sem konungr ræddi þetta fyrir raadgiofum sinum þa lauttu allir þar at sitia vndir trunadi þeirra bænda ok sogdu at Suerri konungi gafz þat eigi vel þa er bændr foru at honum til Osloar. Konungr sagdi bændum at hann villdi sitia a berginu enn seti(a) þar eptir lenda menn at gæta yduars varnadar. Bændr aattu tal sin i milli ok budu at nefna konungi gisla or kirkiusoknum ena bezstu bondasonu ef hann hefdi nockurn mistrunat aa þeim. aatti konungr þa enn tal vid sina menn ok baadu allir at hann trydi eigi bændum. Konungr gaf þa orskurd sagdi at hann mundi þar eingis mannz raad vid hafa nema sialfs sins ok kuez at visu skylldu sitia hia bændum þar sem þeir budu honum sua goda kosti ok

villdu sitt lif ok fee leggia vid hans lif. ok eftir þetta sendi hann nordr til Biorgyniar eftir fongum ok sua til Tunsbergs. Hakon konungr sat i gardi Hakonar gris enn jolin hellt hann i byskups [695] gardi. þessi var .x. vetr konungdoms hans. Arnbiorn Jonssun sat vm vetrinn i Valdisholma til niosnar ok landzgæzlu.

## Drepnir Ribbungar.

123. Herra Knutr for austr i Gautland ok sat þar medan hæst var vetrarins. enn setti eftir i Miors nockurar sueitir af Ribbungum ok drogu þeir skip at ser vm oll Vpplond. Hakon konungr sendi vm vetrinn bref leyniliga i lid Ribbunga til sueitarhofþingia ok margra annarra ok baud þeim grid ef þeir kæmi til hans. enn þessi grid tok fystr Erlingr rumstafr ok var vaskr madr ok vel sidadr. ok er hann kom aa konungs fund feck hann god grid ok sættir. Konungr gerdi nockurar sueitir i Soleyiar at leita at Ribbungum ok var Erlingr i þeirri ferd. þar felldu þeir .xl. manna af Ribbungum. Eftir þetta hellt Hakon konungr Erling fyrir tryggann mann ok quad hann hafa hoggit sik i lendann mann. þa var gerr onnur ferd austr i Vik it efra a hestum. var þar fyrir Simon kyr ok hafdi .ccc. manna ok komu austr i Beyiu. voru þar fyrir margir Ribbungar ok fengu niosn af Birkibeinum ok flydu þegar vndan. enn þo fengu Birkibeinar her ok huar menn af þeim. for þa Simon kyr aptr til konungs.

## Drepinn Gudolfr.

124. Vm sumarit eftir andlaat Sigurdar ribbungs skildiz Gudolfr af Blackastodum fra flockinum Ribbunga ok for heim til bus sins ok gætti sin i kirkiu nær bænum. þar var gott vigi. Gudolfr hafdi gert margar vspecktir þar i bygdinni þa er hann var med Ribbungum. Otryggr het bondi sa er hann hafdi bart miok ok tekit af honum hest godann. hann aatti .ij. sonu het annar Asolfr enn annar Gudleifr. þeir fengu ser sueit manna ok foru at Gudolfi. þeir toku stiga ok settu vid kirkiuna ok hiuggu raafit yfir honum ok lupu þar inn ok drapu hann. ok var Gudolfr litt harmadr af monnum fyrir sinn viafnat. þegar vm haustid er Hakon konungr settiz i Oslu gerdi Skuli jarl sendimenn til Valldimars konungs Kolbein ketturygg ok Grunda fehirdi. enn er þeir foru heim vm vetrinn þa laagu þeir i Maastrondum fyrir isa sakir. Knutr laa þa i Liodhusum. ok er hann spyrr til þeirra þa taka Ribbungar lettiskip ok fara at þeim ok koma aa þa vuara. þar laagu margir

kaupmenn i hofninni ok villdu ecki hialpa þeim enn þeir vorduz vel ok dreingiliga ok fellu þar baadir ok flest allt foruneyti þeirra.

## Birkibeinar vnnu kastala.

125. Nv er þat at segia þa er Hakon konungr spurdi þessi tidendi let hann hoggua isinn fra ok allt vm Slidholma ok var þat giort aa .ij. dogum. Siþan skipadi hann morg lettiskip austr til Liodhusa ok setti þessa menn fyrir lidit Lodin Gunnasun Simon ku Gunnbiorn Halluard bratta ok Olaf Jngusun. ok er þeir komu fram var Knutr i brottu ok allr meginherrinn nema faair menn voru eftir. sa het Biorn packi er fyrir þeim var. þeir saatu i kastala einum nordr fra bænum. Birkibeinar settuz vm kastalann ok vard hann skiott vpp gefinn þegar þeir fengu grid er i saatu. þar toku Birkibeinar mikit herfang ok brutu ok brendu kastalann. þeir logdu gialld aa bændr ok toku storfe af þeim monnum er verit hofdu med Knuti. eftir þetta foru þeir aftr til konungs. Sua quat Sturla.

Vitr let virki briota
valldr noræнna allda
austr þar er iofrar treystuz
ognfuser Liodhusum.

þat veit ek at gallt Gautum
gofugr odduiti iofra
þiod feck ræsis reidi
raan geck slikt at vaanum.

## Fra konungi ok Knuti.

126. Ribbungar sofnuduz nu saman vm Vpplond ok voru fiolmennir i Miors. þa let Hakon konungr draga skip nockur or Oslo ok vpp i Elfi ok voru þessir menn fyrir Juarr af Skediuhofi ok Saxi bladspiot. enn er þeir komu i Elfina þa skipudu þeir skipin sem bezst ok gættu siþan. Ribbungar hofdu þa flest skip i Miors ok voru flestir farnir or vatninu ok austr a Merkr til motz vid Knut. Hakon konungr for or Oslu vpp til Eidsvallar ok aatti þar þing vid bændr. geingu þeir þa i samhelldi vid hann a nyia leik. Konungr sneri þadan vt a Raumariki ok austr yfir Elfi þuiat honum var sagt at Knutr leti draga skip or Hellisfirdi ok ætludu vpp aa Markir ok þadan i Elfina. Enn er hann kom i bygd þa er Heggin heitir var honum sagt at þat var lygd. sneri hann þa aptr ok for vt til Osloar. þat var haalfum maanadi eftir paaschir. þa er Knutr spurdi er konungr var aptr horfinn let hann draga skip or Hellisfirdi þar sem alldri hofdu skip fyrr dregin verit ok kom þeim vpp aa Hamarker ok siþan nordr i Elfi ok kom þeim Juari aa vuart ok elltu þa af skipum ok foru þeir siþan vt til Osloar aa fund Hakonar konungs.

## Konungr feck sigr.

127. Sem Hakon konungr spurdi þetta let hann draga halfann fiorda tug skipa or Oslu ok fylgdi sialfr. hann gerdi ok ord Arnbirni Jonssyni ok odrum lendum monnum at þeir drægi skip vpp i Elfina ok mætti þeir konunginum i Eyiavatni. þat spurdu þeir Haralldr af Laatyn ok margir Ribbungar er voru i bygd þeirri er Skaun heitir. Konungr gerdi þa til þeirra nockurar sueitir. þeir mættuz aa skogi nockurum. vard þar bardagi ok flydu Ribbungar ok letu .l. manna enn Birkibeinar foru aftr til konungs. Konungr let draga skipit i aa eina þa er Kerma heitir ok þadan rastar langt eid aadr þeir kæmi i Elfui. þa var þeim sagt at Ribbungar hofdu snuit austr or Elfinni. helldu þa Birkibeinar eftir þeim ok drogu skipin vm eidit þat sem Fundueid heitir ok komu til þess beiar er Fala heitir. þa var þeim þegar sagt at Ribbungar voru austr a Vigrin. Geck konungr þa af skipum ok flest allt lidit enn setti eftir Gunnbiorn ok Saxa bladspiot at gæta skipanna ok bad þa vera þeim megin vatzsins er hann var. þetta var sunnunott. Ok vm morgininn i lysing komu þeir iafnfram kirkiunni a Vigri. þar var bondi einn er Gunnarr het vinr konungs. hann sagdi konunginum at Ribbungar laagu þar gegnt audrum megin enn þeir reru vm þuert vatnit at spyria tiþenda. þui næst bad konungr sina menn leynaz i skoginum vpp fra bænum. enn er solin tok at skina þa saa Ribbungar huar lidit laa i skoginum ok sneru þegar vt aftr skipunum þeim megin sem þeir voru. Birkibeinar skundudu sinni ferd þuiat þeir ottuduz at Ribbungar tæki skip þeirra. þa er konungrinn geck af skipunum sendi hann nockurar sueitir þangat sem hann spurdi til Amunda a Folavelli ok komu Birkibeinar at þeim vuaurum. voru sumir drepnir enn sumir a kaf elltir enn flestir letu vopnin. Vm morgininn er Birkibeinar lupu fram or skoginum syndiz Ribbungum meira lidit enn var. þa liop Haralldr af Laatyn vt aa aarbackann ok spurdi huerr [696] fyrir lidinu reedi. Haralldr stangarfylia suarar. kennaz munu vit frændr enn ver erum nu her kyllungar ok syslumenn af Vpplondum. Hann suarar. sialldan hafi þer sua mikit lid edr sua vel buit edr huar er Hakon konungr. Her er hann sagdi Haralldr. Hui villdi hann taka aa sik sua mikla vesolld at laani at rekazst allt aa Markir austr at oss Ribbungum. Haralldr suarar. meirr ætla ek naudsyn til bera enn ofkæti at stockua slikum oalldarflocki or landi sem þer hafit. Foru þa huorirtueggiu sem mest maattu þeir. skutuz aa þar sem aain var miost. þa gerdi gud sem iafnan mikla miskunn Hakoni konungi þuiat þeir sem aa skipunum voru geingu þar vpp sem konungr hafdi

raad fyrir gert ok fundu þar sueitir af Ribbungum ok drapu þaa alla. þa vrdu þeir ok varir at meginherrinn Ribbunga var þeim megin aarinnar. sneru þeir þa yfir aana ok mættu konunginum ok vrdu þa huorir odrum fegnir. Enn þegar sem Ribbungar sa þat at konungr hafdi naad skipum sinum þa sneru þeir austr aftr sinni ferd. enn þar var sua mikill straumr ok haasteint i aanni er konungr naadi skipum sinum ok þar sem Ribbungar voru komnir at huorirtueggia geingu aa land. ok leiddu þeir skip sin enn sumir styrdu med forkum ok ef nockur reip biladi aa einhueriu skipi var þat þegar i foradi ok þeir sem aa voru. Ok er þeir komu þar sem mest var aain huillduz huorirtueggiu ok ætladi konungr at snæda. enn Ribbungar skutu aa þa ok þui vard ecki af snædinginum. foru þa enn huorirtueggiu sem mest þar til er Ribbungar komu til bæiarins þess er þeir hofdu aadr verit. geck þaa enn fram Haralldr af Lautyn ok fleiri Ribbungar ok mælltu morg ord ferlig til Birkibeina. enn konungr kalladi til sin Olaaf sundramm sueitung Arnbiarnar Jonssunar ok bad hann segia Ribbungum at þeir hætti folsku ordum ok bad þaa bida þar til er skip hans kæmi ok mætti þeir þa fleira vid eigaz.

### Fra Hakoni.

128. þat er nu þui næst at .xiiij. skip komu til konungs ok skipadi hann þau sem bezst. ok medan hann gerdi þat logdu Ribbungar sinum skipum austr med kirkiunni ok vpp vm þuera Eyna litlu i vatn þat er Fingrsior heitir. þat geingr allt at Eidaskogi. Birkibeinar reru yfir aana ok er þeir komu aa midia saa þeir at Ribbungar hofdu fylkt fyrir þeim ok skutu aa þa i aakafa. ok ætludu Birkibeinar at þeir mundu vilia bida ok þotti flestum haaskasamligt at þeim at ganga þuiat backinn var sua haarr saa er þeir stodu aa at hann var þriggia spiotskapta hæd enn leiran var sua blaut at annar fotr stod fastr þa er annar var nidrsettr. enn Birkibeinar reru at sem diarfligaz. Enn er skipin rendu at landi þa flydu Ribbungar enn Birkibeinar geingu vpp ok hugdu at þeir mundi bida ofarr meirr. ok er þeir komu vpp aa backann voru Ribbungar huergi nær. Sneri þa Hakon konungr aptr til skipa ok ferr austr eftir vatninu þar sem Ribbungar fara vndan. reru huorir sem mest mattu. Knutr for it efra vm skoginn austr med vatni. enn er Ribbungar komu til vatzenda lupu þeir af skipum. konungrinn kom þa at ok felldi af þeim nockura menn ok tok aull skipin ok sneri aptr. kom hann vm morgininn i dagan þangat sem hann hafdi aadr aa skipin geingit. þetta var maanadaginn i gagndogum. Konungrinn bad menn þa snæda þuiat

þeir hofdu ecki þa etid siþan laugardag. þar komu til konungs niosnir þær er hann hafdi sent eftir Ribbungum ok sogdu at Knutr hafdi snuit et beinsta vt aa Markir. sneri konungr þa nordr aftr ok sua vpp aa Heidmork ok drogu skipin vm Fundu(eid) ok sua i Miors. Byskup var þa i Hamri Hallvardr[1] ok var konungr med honum vppstigningardag i godum fagnadi. skipadi Hakon konungr þa oll Vpplond ok setti menn til skipagæzslu. eftir þetta for hann til Eidsvallar ok þadan til Osloar. hann var þar haalfan maanud aadr han bioz austr til Elfar.

## Fra bodum Kristinar vid konung.

129. þa er Hakon konungr var buinn at fara austr til Landzenda kom þar bref fra Knuti ok fru Kristinu ok laugmanni ok leitudu grida til konungs ok sogdu at hann villdi koma aa valld hans þegar sem hann kæmi austr. þau letu þetta fara leyniliga at eigi yrdi Ribbungar varir vid þuiat þeir villdu hafa Knut at daudamanni ef hann færi fra þeim. Konungr fagnar þessu ok gerdi bref i moti ok het Knuti frænda sinum bædi gridum ok sæmdum ef hann kæmi aa hans valld. Ok er Hakon konungr kom i Elfina austr var honum sagt at Ribbungar voru i Væni. gerdi konungr þa niosnir til fru Kristinar at vita huart nockut skylldi þat halldaz er Knutr hafdi mællt. enn Kristin sagdi sua at hon mundi sialf koma at fridhelga fyrir Knuti syni sinum vid konung. þar var þa Ormr byskup med konungi ok margir adrir lendir menn er konungr ætladi vid þessa sættargiord hafa ok sat hann haalfan manud i Konungahellu ok quomu huersdagliga menn fra fru Kristinu ok sogdu þa ok þa at Knutr mundi koma a konungs valld.

## Capitulum.

130. Herra Knutr hafdi þaa raad med hondum þat er alldri hafdi Hakon jarl fadir hans slikt vraad at sua mikil suik fylgdu. hann let draga skip austr yfir Eidaskog sua at alldri voru fyrr dregin. ok komu aa vuart monnum konungs i aa þeirri er Varmaa heitir iafnfram Eidsuelli ok mundi þar hafa fyrirkomit miklum styrk konungsins aa Vpplondum ef eigi væri meiri guds miskunn enn truleikr Ribbunga. þar voru fyrir konungsmenn Juarr a Skediuhofi Jonn ketlingr Erlingr rumstafr þorgeirr byskupsmadr Andres huiti. þeir voru aa skipum enn bændr helldu at Eidsuelli. þaa er Birkibeinar fengu niosn af Ribbungum gerdu þeir ord böndum ok foru þeir sem fræknazstir voru or safnadinum vt aa skipin til Birkibeina. Ribbungar hofdu stor skip þeir hofdu dregit

[1]) Har' *Cd.*

.xiiij. sessu austan ok .xij. onnur. Birkibeinar hofdu smæri skip. enn er þeir funduz tokz þar in hardazsta rijd. veitti Birkibeinum þyngra i fyrstu atlǫgu ok sua at næsta voru þeir aa flotta komnir. þa kom til Jonn ketlingr ok Erlingr rumstafr aa karfa einum ok rettu Birkibeinar þa vid ok sneri þa mannfallinu i lid Ribbunga ok vaanum braadara toku þeir vndan. Knutr liop a kaf ok feck naudugliga fordat ser ok fell mart villdarlid af Ribbungum enn Birkibeinar vrdu miok saarir. Juarr bondi feck fotarsaar ok geck iafnan halltr siþan. Birkibeinar toku þar skip Ribbunga oll. Eftir þetta dirfduz bændr[1] miok i mot Ribbungum sua at þeir foru iafnan at þeim ok drapu menn fyrir þeim.

## Ribbunga aulld endaz her.

131. Nv er Ribbungar saa at alla vega þraungdi þeirra kosti þaa sendu þeir menn til Birkibeina þeirra sem aa Vpplondum voru ok beiddu sætta. enn Birkibeinar toku þui vel ok sellduz gisla aa milli. enn Birkibeinar sendu gislana þa er þeir toku af Ribbungum austr til konungs ok foru þeir med þeim Klemet af Holmi Guthormr Erlendzsun. ok fundu þeir konung i Hornborasundi ok sogdu þaa vera aa hans valldi ok miskunn huersu hann villdi fara med gislunum. Konungr tok þui vel ok sigldi vm daginn austr til Ysvikeyiar ok sendi menn aa nyia leik til Knutz ok het ollum Ribbungum gridum ef þeir villdi aa hans miskunn koma. Eftir þat for konungr til Osloar ok er hann hafdi þar litla rijd dualiz kom til hans Haralldr af Lautyn sendr af Knuti ok beiddiz þaa enn tryggra gisla til fastra sætta vid Birkibeina. Hakon konungr hafdi þa hirdstefnu ok sagdi sua. flestum monnum er þat kunnigt huern rekstr ok vaas ver hofum haft til Ribbunga ok margfalldann skada i laati godra dreingia þo at þeir hafi fleira laatid fyrir oss er betr er. nu bidia þeir oss grida ok vilia giarna koma aa vǫrt valld. enn ef ver (vi)lium þeim grid gefa þa skulum ver þat med þui moti gera at þeir skulu vera fyrir oss klandalausir vm alla luti þa er þeir hafa misgert vid oss sua sem sidr godra hofþingia er til ella iaattum ver þeim eingum gridum ok fylgium þeim nu sem rikazst. er nu minkadr styrkr þeirra ok er ek þess fusari enn þo skulu þer raada Birkibeinar. þeir quoduz giarna vilia fyrirgefa Ribbungum fe ok frænda laat helldr enn rekazst eftir þeim leingr. Sendi konungr nu eftir Knuti ok Ribbungum Eystein Roasun Guthorm Erlendzsun Fridrek slafsa. þeir fundu þa vppi i Eyiarvatni ok for Knutr med þeim til Osloar til Hakonar konungs ok fioldi villdarlids med honum. Eftir þat skipadi konungr aull

[1]) siþan *tilf. Cd.*

Vpplond. enn þeir Ribbungar er ser væntu eingra grida stucku or Noregi austr aa Markir. Saa madr het Magnus bladstackr er þaa batz fyrir þeim ok kallaz konungr. enn er Hakon konungr spurdi þetta sendi hann austr Haralld af Lautyn ok vita ef hann nædi Magnusi. enn er Magnus spurdi til Haralldz hafdi hann grun af at hann mundi honum eigi trur ok for til ok drap hann. Hakon konungr hafdi ok sent bref austr i Vermaland at bændr skylldu gera annathuart at reka valldarflock þenna or bygdum sinum. ella mundi hann til fara at gera þeim bakstrelld eingum mun minna enn fyrr. Sem bændr saa bref þetta sofnuduz þeir saman ok foru at Magnusi ok toku hann hondum ok festu hann vpp ok nockura menn med honum. ok lykr þar æfi Ribbunga.

## Fra Hakoni konungi.

132. Hakon konungr bioz or Oslu til Biorgyniar. hann gaf Knuti frænda sinum .ij. skip var annat .ij. rum (ok) .xx. ok feck honum alla luti þa er hann þurfti at hafa. Siþan for konungr nordr i land. ok er hann kom i Seleyiar kom i moti honum. Skuli jarl med morgum skipum ok storum hann hafdi ætlat sudr til Danmerkr. enn er þeir funduz rez þat af at jarl sneri nordr med konungi til Biorgyniar. þeir voru baadir i konungs gardi ok hofdu mikit fiolmenni. var þa miok blitt med þeim ok geck huarr til annars til skemtanar. þa voru dryckiur miklar i bænum. lendir menn hofdu storar sueitir. Paall vaagarskalm aatti son er Juarr het ok var kalladr grettir. honum vard eigi betra verk fyrir enn hann drap einn fornan Birkibein vm kuelldit eftir aptansóng ok fann þat til saka at son hans hafdi verit at vigi Aarna heriardals. enn þessi het Eirikr backi enn hitt vig vard nordr i Vaagum sem fyrr var ritad. Enn þegar sem hirdin vard vaur vid herklædduz allir handgeingnir menn. þessi tiþendi kuomu til Paals ok þeirra fedganna Nicholaas ok letu þeir illa yfir verkinu er saa vard fyrir er saklauss var. þeir fedgar foru inn i Nichulaskirkiu stopul ok biugguz þar vm. Hirdin geck at kirkiunni ok villdi vpp briota. þa var sagt konunginum. Skuli jarl var þa hia honum ok i bodi ok geingu þeir þegar til Nichulas kirkiu. enn er þeir komu þar þa hafdi hirdin tekit Juar nef. hann var frændi Nichulas Paalssunar. ok ætludu at drepa hann ok horfdi þar til mikilla vandræda aadr konungr kom til. Konungrinn tok þegar Juar nef aa sitt valld ok bad hirdina hætta at ganga at kirkiunni. Enn vm morgininn let konungr blaasa til hirdstefnu ok sagdi hirdmonnum at hann villdi med engu moti at Nichulas gylldi þessa verks þar sem hann var huarki valldandi ne vitandi. geck þa Nichulas or kirkiu ok aa valld konungs. enn Juari

brodur hans let hann skiota yfir til munklifis ok var hann þar til þess er hann for or landi. Mart hark vard þar annat vm sumarit fyrir ofdryckiu sakir enn allir lutir foru þa vel milli konungs ok jarls.

### Skuli for til Danmerkr.

133. Skuli jarl bad konunginn at hann skylldi gefa honum orlof at fara til Danmerkr a fund Valldimars konungs ok kuez hann vilia rida or þrondheimi vm vorit austr i Vik. konungr lagdi þar leyfi til. bioz þa jarl at fara nordr i land. Herra Knutr var þa þar i godu yfirlæti af konungi. hann let flytia bonord sitt vid jarl ok bad jungfru Jngiridar dottur hans ok med raadi konungs festi hann hana ok rez hann til ferdar med jarli at gera brudlaup sitt. Aadr þeir skilduz konungr ok jarl var fæddr Olafr sun Hakonar konungs. Jarl for nordr til þrondheims ok skilduz þeir med miklum kærleik konungr ok hann at þui sinni. Erchibyskupinn Petr hafdi andaz annat haustid adr Dionisiusmesso ok var kosinn i stad hans sira þorir enn þrænski ok ut farinn. A þessu aari andadiz Honorius pafi enn Gregorius kom i stadinn. Hakon konungr sat þenna vetr i Biorgyn ok var þessi enn .xi. vetr konungdoms hans. Vm vorit i faustu bio hann ferd sina austr i Vik ok kom i Tunsberg eftir pascha ok for þadan inn til Osloar. ok er hann kom þar var jarl þar fyrir ok herra Knutr Gregorius Jonssun Aasolfr jarls frændi ok margir adrir godir dreingir er nordan hofdu farit med jarli.

### þorir erchibyskup kom fra Rom.

134. þa er þeir hofdu faar nætr verit i bænum konungr ok jarl kom þorir erchibyskup þar fra Roma nyvigdr. ok sendi konungr menn i mot honum vt til Hofudeyiar ok for erchibyskup i konungsgard. Enn med þui moti at konungr hafdi laatid nog faung flytia med ser aa skipum [698] enn jarl hafdi litinn mat þar. var jarl af þui optaz a quelldum med konunginum. Konungr var i gardi þeim er Digri skytningr heitir. iarl var i Skarthælinum. Sa atburdr gerdiz at sa madr er Roi het ok var Askelssun sueitungr jarls drap eitt kuelld handgeinginn mann konungs þann er Olafr heitir. ok er Roi hafdi þetta verk gert liop hann i þann gard er þeir voru baadir inni konungr ok jarl ok kalladi at dyrum. konungrinn bad vppluka. ok er Roi kom inn gafz hann i konungs valld ok sagdi huat hann hafdi gert. Konungr suarar sua. med þui moti at þu komt aa vart valld þa muntu naa gridum af oss. enn þess er ei minni vaan at þeir gialldi þessa verks er einkis eru af valldir. Litlu sidar quadu vid konungs ludrar ok lupu saman lendir menn ok

handgeingnir er i voru bænum ok lupu at gardinum þeim er sueit jarls var i. þessir lendir menn voru fyrir Arnbiorn Jonssun Simon kyr Lodinn Gunnason Gunnbiorn. þa er konungr ok jarl spurdu þetta þa bad jarl at konungr skylldi nockut raad til leggia at betr færi enn til var stofnat. konungrinn stod þegar vpp ok bad jarl bida sin til þess er hann kæmi aftr. enn er konungrinn kom til gardzhlidsins var þar sua mikil þraung af vapnudu folki at hann komz þar ecki fram. þa for hann vpp a herdar monnum ok komz sua fram til jarls manna. ok af hans tilkuamu lægdiz harkit ok stefndi konungr ollum monnum nordr til Halluardzkirkiu til tals. Sa madr er Sigurdr het vard til þess at mæla þessi ord til konungsins. þa hefdi ver nockut fyrir hark þetta ok vnaadir er oss eru giorfar at ver drepim konunginn fyrst ok mundi ecki mikit fyrir verda. Enn felagar hans bonnudu honum [þat ok sogdu. aumr ertu maals[1] vesall madr (er þu villdir at ver skylldim) nidaz aa konunginum ok drepa hann fyrir þat er hann kom til hiaalpar vid oss. Siþan geck konungr or gardinum ok fylgdi honum allt lidit nordr til Fiala ok feck hann seint stoduat lidit. þeir Birkibeinar villdu ganga at jarls monnum. enn erchibyskup sendi menn til konungs ok bad hann sua sia fyrir þessu maali at eingum stædi vandrædi af þessu. konungr quad sua vera skylldu. siþan kom hann aa gridum ok skylldi standa til morgins maalit ok rannsaka þa. Geck konungr þa heim ok var jarl þar fyrir ok saatu þaa ok skemtu ser. ok þa er konungrinn geck vt tok hann i hond Roa ok leiddi vpp i Halluardzkirkiu. konungr bad hann sialfann gæta sin þadan af. Skuli jarl var þui nordan kominn at hann ætladi aa fund Danakonungs aa skipi kaupmanna þuiat hann hafdi þar eingi skip. þa ledi Hakon konungr skip sin jarli ok gaf honum leidangr med .xij. skipreidum. Siþan for jarl leid sina ok med honum herra Knutr Aasolfr frændi jarls Gregorius Jonsson. þeir hittu Danakonung i Kaupmannahofn ok tok hann vel vid jarli ok toludu þeir marga luti þa er ecki voru i annarra vitund. dualdiz jarl vm rijd med Danakonungi i godu yfirlæti. ok er þeir skilduz gaf konungrinn honum storar giafir. þa feck konungr jarli at laani haalft Hallland. For jarl siþan nordr i Noreg ok er hann kom til Tunsbergs var konungr nordr farinn til Biorgyniar. Herra Knutr ok Gregorius Jonssun fystuz at fara nordr til konungs ok er þeir stigu aa skip sigldu þeir nordr ok er þeir komu til Huarfsnessenda sigldu þeir i boda ok tyndiz þar Gregorius Jonssun ok nockurir menn med honum. hann þotti þa gofgazstr lendra manna i Noregi ok kominn af enum bezstum ættum. ok vard nu miok

[1]) [ok enn villdir þu *Cd.*

endir aa þeirri ætt er gaufguzst hafdi verit aa Sunnmæri er Blindheims menn voru kalladir. Herra Knutr komz naudugliga af ok tyndi þar morgum aagætum gripum. fluttiz Knutr siþan nordr til Biorgyniar ok tok konungr vid honum sæmiliga. Skuli jarl dualdiz vm haustid i Vikinni ok for nordr til þrandheims er aa leid ok sat þar vm vetrinn.

### Fra Hakoni.

135. þetta sumar komu vestan vm haf sendimenn Jons jarls af Orkneyium med morgum godum fðrnum er jarl sendi konungi. enn vm haustid sendi Hakon konungr jarli langskip gott ok margar giafir adrar. Hakon konungr sat þenna vetr i Biorgyn ok var sia enn .xij. vetr konungdoms hans. þa var fridr godr i landi ok gott samþycki milli konungs ok jarls. Vm vetrinn sendi þorir erchibyskup ord ollum byskupum i Noregi at þeir skylldu koma til hans nordr vm sumarit. þetta sumar spurdiz mikill vfridr vestan vm haf or Sudreyium.

### Fra Sudreyingum.

136. Aleinn het madr ok var jarl i Skotlandi son Rollantz jarls af Galuei hann var enn mesti hermadr þann tima. hann hafdi fiolda skipa med miklum her ok heriadi bædi vm Sudreyiar ok Jrland ok gerdi mikinn hernat vida vm Vestrlond. þa var Olafr konungr Gudraudarsun i Maun ok hellt hann dreingiliga þat riki fyrir jarli ok med miklum truleika vid Hakon konung. enn Sudreyia konungar þeir sem voru Sumarlida ættar voru miok vtruir Hakoni konungi. þeir voru konungar i Sudreyium Duggaall skrðgr (ok) Dungadr brodir hans fadir Jons er siþan var konungr. þeir voru synir Duggaals Sumarlidasunar. Ospakr het madr er leingi hafdi verit med Birkibeinum. þat kom vpp at hann var son Duggaals konungs ok brodir þessarra. Sumarlidi het enn frændi þeirra er þa var enn konungr i Sudreyium.

### Andres andadiz.

137. Hakon konungr for vm haustid or Biorgyn austr til Vikr ok dualdiz vm rijd i Tunsbergi ok for þadann inn til Osloar. Andres skialldarband frændi konungs var þar ok bio þann vetr ferd sina af landi brott til Jorsala. Andres skialldarband reid vm vetrinn sudr aa Hallland ok þadan i Sioland ok sua til Huitzsands ok þui næst paalmara veg vt til hafs ok geck þar aa einn dromund ok hefir siþan alldri til hans spurtz. ok ritadi Hakon konungr til Fridreks keisara ok annarra sinna vina vt i lond at þeir skylldu frettum til hallda huat af Andresi

hefdi vordit ok hefir alldri siþan til hans frettz. Enn Ingibiorg kona hans var eftir ok Petr er kalladr var son þeirra. ok er Andres kom eigi aftr kom þat vpp af Jngibiorgu at Skuli jarl væri fadir Petrs ok geck jarl vid frændsemi hans ok tok hann Petr til sin ok lagdi aa hann mikla aast. þann vetr sat Hakon konungr i Oslu ok var þessi enn .xiij. vetr konungdoms hans. Vm vetrinn er aa leid hafdi Hakon konungr þing i bænum. a þui þingi gaf hann Vspaki konungs nafn. enn hann var kalladr Vspakr enn Sudreyski. þar med gaf hann honum Hakonar nafn. gerdi konungrinn þa ok bert at hann mundi faa honum lid vm sumarit vestr vm haf. þann dag er þingit stod kom til bearins austan or Suiavelldi Magnus brocki sun Knutz jarls Birgissunar brosu frænda konungsins. hann aatti Sigridi dottur Knutz Suiakonungs ok het Knutr son þeirra. Hakon konungr tok sæmiliga vid Magnusi ok dualdiz hann med konungi vm rijd ok skilduzst med miklum kærleikum. Vm vorid vrdu þau tiþendi i þrondheimi at þorir erchibyskup andadiz. þat var paschadag. enn i stadinn var kosinn Sigurdr sun Eindrida penna ok for hann þat sumar or landi.

## Bardagi.

138. Hakon konungr for vm vaarit nordr til Biorgyniar. enn er hann kom þar let hann bua her vestr vm haf þann er fara skylldi med Vspaki. til þessar ferdar feck Skuli jarl sumt lidit ok voru þessir skipstiornarmenn af hans hendi Sigurdr sæfill Sigurdr[1] smidr Paall Baalkasun. enn af konungs hendi var Vspakr konungr þormodr þingskorinn Sorkuir suignakiuka Aulfir illt eitt Sueinungr suarti Paall gaas. .xj. skip hofdu þeir af Noregi. Sem þeir voru bunir kom vestan af Sudreyium Olafr suarti Manarkonungr. hann sagdi mikinn ofrid vestan af Eyium. hann kuaz af þui stauckua or Maun er Aleinn jarl hafdi dregit saman mikinn her ok ætladi a hendr Manarmonnum. hann hermdi morg storyrdi jarls til Noregsmanna. hann sagdi eigi torsottara hafit til Noregs enn af Noregi til Skotlandz ok þar er eigi verra til hafna þeim er heria vilia. enn þat var mællt enn eigi gert. Olafr konungr dualdiz .iiij. nætr i bænum aadr þeir foru vestr. Olafr konungr for aa skip med Paali Baalkasyni til Orkneyia enn þa feck Jonn jarl honum skip er Vxinn het. þa er þeir foru af Orkneyium hofdu þeir .xx. skip ok er þat spurdi Ottar snækollr ok Baalki vngi son Paals þa foru þeir fyrir sudr i Skid ok fundu þa i Vestrafirdi þorkel þormodsson ok baurduz vid hann. fell þar þorkell ok synir hans .ij. enn þormodr komz vndan

[1]) Sig' *Cd.*

son hans med þui moti at hann liop i [skær eitt enn þar flaut vid skip eitt[1] ok rak þat med hann at Skotlandi fyrir nordan Hakarskot. Eptir þetta foru þeir Ottarr ok Baalki til motz vid þa Vspak konung. Sem þeir quomu ollu lidinu sudr i Jlarsund[2] þa voru þeir þar brædr Vspakr konungr Duggaall ok Dungadr ok sa hofþingi enn .iij. er Sumarlidi het ok frændi þeirra ok hofdu mikit lid. þeir budu Nordmonnum til veizlu ok hofdu vin sterkt. Nordmonnum var sagt at eigi mundi allt suikalaust vera ok þui villdu þeir eigi til fara veizlunnar. drogu þa huorirtueggiu lid saman þuiat huorigir trudu odrum. Dungadr suaf aa skipi Vspaaks brodur sins. Litlu sidar veittu Nordmenn atgaungu þeim Sudreyingum ok drapu Sumarlida ok mart manna med honum. þeir taka Duggaal höndum ok settu i fiotur. faatt fell þar af Nordmonnum. ecki var Vspakr konungr vid þetta ok er hann vard varr vid skaut hann i brott Dungadi brodur sinum. enn Duggaall brodursun hans tok hann i sina gæzslu. þeir saufnudu nu lidi vm eyiarnar ok fengu nu med ollu saman .lxxx. skipa ok sigldu siþan sudr fyrir Satirismula ok sua inn til Botar ok þar saatu Skotar i kastalanum ok var fyrir stiuardr einn af Skotum. Nordmenn logdu til borgarinnar ok veittu þar harda atgaungu. enn Skotar vorduz vel ok steyptu ofan aa þa biki vellanda ok blyi. þa fell mart af Nordmonnum enn mart var saart. þeir bundu yfir sik flaka af vidi ok hiuggu siþan murinn þuiat steinninn var blautr ok hrapadi veggrinn eftir þeim. þeir hiuggu vpp vid jordina. Sa kertisueinn er Skagi skitradr het hann skaut stiuuardinn til bana i þui er hann liop a borgarvegginn. .iij. daga baurduz þeir vid borgarmennina aadr þeir fengi vnnit hana. þar toku þeir mikit fe ok riddara einn skotzskann er sik leysti vt fyrir .ccc. marka brendra. þar fell af Nordmonnum Sueinungr suarti ok nockur .ccc. manna allt saman af Sudreyingum. þeir fengu mikinn storm ok tynduz þar .iij. skip med monnum ok ollu þui er aa var. þeir spurdu þaa at Alin jarl var sudr a Nesium ok hafdi dregit saman halft annat .c. skipa ok ætladi at þeim. þeir sigldu þa nordr vndir Satiri ok laagu þar vm rijd ok gerdu margar vppraasir. þa feck Vspakr konungr sott ok laa litla rijd ok andadiz ok var miok harmadr af sinum monnum. þeir fluttu lik hans til kirkiu ok graftar. Eftir þetta gerdiz Olaafr konungr haufþingi yfir ollum herinum. Siþan sigldu þeir yfir vndir Kaupmannaeyiar ok laagu þar leingi vm vetrinn. þeir foru sudr til Manar ok var þar safnadr fyrir þeim. sa madr var fyrir þeim er þorkell het ok var Niaalssun. Manarmenn villdu eigi beriaz i moti Olafi konungi ok rufu þeir safnadinn fyrir þorkeli ok

[1]) *r.* [ker eitt er flaut við skipit [2]) slaarsund *Cd.*

toku Nordmenn hondum hann ok hofdu i fiotrum vm rijd. þeir logdu giolld aa Manveria .iij. penninga enska af huerri ku ok fæda allann herinn vm vetrinn. Sigurdr sefill ok Sigurdr smidr leyptu þorkeli i brott ok likadi þat summum illa. Sem vaara tok foru Nordmeun i brott or Maun enn Olafr konungr var eftir. þeir sigldu nordr vndir Saatiri ok geingu þar aa land. enn Skotar komu a mot þeim ok borduz vid þaa ok voru miok lausir vid bardagann lupu til ok fra ok fellu margir af huorumtueggium. ok er Nordmenn komu til skipa sinna þa hofdu Skotar drepit alla sueina þeirra þa er aa landi voru at bua vist ok allir matkatlar voru i brottu. þeir veittu margar vppraasir aa Satiri ok foru þadan nordr i Eyiar. ok er þeir komu i Liodhus var þar fyrir þormodr þorkelssun. þeir elltu hann or Eyium ok drapu af honum nockura menn ok hertoku konu hans ok oll faung hans. siþan sigldu þeir nordr til Orkneyia. enn Paall Baalkasun var eftir i Sudreyium ok fell hann faam dogum sidarr fyrir Gudreki suarta syni Rǫgnualldz jarls. Flestir Nordmenn sigldu þegar austr til Noregs ok hofdu i þessi ferd hellz verit vnnar konungsins sæmdir fyrir vestan haf. ok er þeir komu a fund Hakonar konungs þackadi hann þeim vel þessa sina ferd. ok lykr þar Sudreyinga þætti.

### Sigurdr kom til Nidaross.

139. Hakon konungr hafdi þenna vetr setid i Biorgyn ok var þessi enn .xiiij. vetr konungdoms hans. þetta sama haust kom Sigurdr erchibyskup heim fra vigslu ok for nordr til stols sins. J Orkneyium dualdiz eftir sa skipstiornarmadr er Aulfer illt eitt het. hann var hirdmadr konungs ok viafnadarmadr mikill. hann for til Hanefs vnga er þa hafdi syslu af konungs hendi i Orkneyium. Haanefr var skutilsueinn konungs. þeir voru .iij. brædr Haanefr vngi Kolbeinn ok Andress. Haanefr hafdi mikla sueit.

### Capitulum.

140. Madr het Snækollr þar i eyiunum ok var Gunnasun. modir hans het Ragnhilldr dottir Eireks stagbrellz ok Jngigerdar dottur Rognualldz jarls ens helga. Snækollr kalladi aa bu nockur þar i eyium þau sem þeir frændr hofdu aatt er af Rognualldz ætt voru komnir enn Jonn jarl hafdi at hallda. ok hafdi jarl vndandraatt i at laata laust buin. enn Snækollr kærdi þetta oft fyrir honum. Jarl tok þaa at suara styggliga ok spurdi huart hann villdi gera eftir Haralldi modurbrodur sinum ok kalla til Orkneyia i hendr honum. enn at visu ætla ek at veria þer mitt

riki sua sem fadir minn gerdi vid modurbrodur þinn. Snækollr suarar. vôn er mer þess at litils vnnir þu mer af Orkneyium er þu villt eigi vnna mer eigna þeirra er ek aa at rettum erfdum at hafa. Jarl lagdi fæd mikla aa Snækoll. Snækollr tok sua vpp at honum mundi eigi vært edr vhætt fyrir jarli. for hann þa til þeirra Haanefs ok geck þar i sueit med þeim.

Drap jarls i Orkneyium.

141. Þeir foru vm haustid huorirtueggiu yfir a Katanes i Þorsaa ok hofdu sin herbergi huorir [700] jarl ok hans menn ok þeir Haanefr. huorirtueggio hofdu miklar sueitir ok optliga skildi aa sueitunga þeirra er þeir funduz drucknir aa kuelldum. Þat var eitt kuelld er þeir Haanefr saatu ok drucku ok voru miok kaatir at þar liop inn madr einn fyrir Haanef ok mællti. hugsa þu sua raad þitt Haanefr ok þer felagar at jarl ætlar at veita ydr atgaungu i nott ok laata nu skipta vm med ydr þuiat hann truir ydr ecki vel ef þer buit leingr saman. Sem Hanefr heyrdi þetta segir hann Kolbeini brodur sinum ok Snækoll. taka nu þetta fyrir sannleik. gera nu raad sitt at þeir skolu verda fyrr at bragdi bidia nu sueitina vaapna sik. enn ofdryckian bio sua vm at ollum þotti þetta raadligt er þeir toku vpp. Sem þeir voru vopnadir geingu þeir at þeim herbergium sem jarl suaf i med vfridi ok elldi ok baaru þegar vópn a þa sem fyrir voru. enn er jarl vard varr vid vfridinn þaa leitadi hann vndan i vndirklefa nockurn ok ætladi at fela sik þar. enn þeir fengu niosn af huar hann var. hlupu þeir i klefann Snækollr ok Sumarlidi Rolfssun ok Aulfer illt eitt Bekill ok Rafn ok enn fleiri. Snækollr fann jarl vid tunnu eina ok veittu þeir honum þar banasaar. þar letuz ok margir menn. Jonn jarl hafdi .ix. saar. Eftir þetta verk foru þeir Haanefr i brott af Katanesi ok vt i Orkneyiar. þeir foru i Vigr ok settuz i kastalann er Kolbeinn ruga hafdi gera laatid. þeir drogu at ser nôg fong ok fiolda nauta ok vardueittu i vtkastalanum. Enn er þetta spurdu vinir jarls i Orkneyium saufnudu þeir ser lidi miklu ok foru vt i Vigr ok settuz vm kastalann. enn þar var vhægt atsokn vid at koma. þa saufnuduz ok saman frændr þeirra Hanefs Kolbeinn i Rennadali ok margir adrir ok leitudu vm sættir med þeim ok sua kom at þeim voru grid selld. skylldu þeir vera vm vetrinn i Orkneyium enn vm sumarit fara til Noregs a fund Hakonar konungs ok skylldi hann skipa þessu maali sem honum likadi. raufz nu safnadrinn ok stod þetta maal vandrædalaust vm vetrinn. enn vm vorit foru þeir til Noregs Hanefr ok hans felagar enn a odru skipi foru frændr jarls ok vinir ok allir enir bezstu menn or eyiunum.

## Fra Orkneyi(ng)um.

142. þenna vetr sat Hakon konungr i Biorgyn ok var þessi enn .xv. konungdoms hans. enn vm vorit hafdi hann farit austr i Vik at erendum sinum ok var hann eigi austan kominn þa er þeir Haanefr voru komnir til Biorgyniar. þeir voru i gardi Paals. Ok er þeir hofdu litla rijd dualiz i bænum kom Skuli jarl nordan or þrondheimi. hann aatti faatt vid þa Haanef. Nockuru sidar kom konungrinn austan. þar var ok herra Knutr. ok er konungr hafdi litla rijd verit i bænum let hann blaasa til hirdstefnu ollum handgeingnum monnum. ok er þeir komu a stefnuna Hanefr ok hans felagar taka skutilsueinar þa brædr Haanef ok Kolbein ok sua syni Rolfs ketlings Sumarlida ok Andres ok leiddu þaa vpp til borgar ok voru þar inn settir. enn þeir Aulfer illt eitt ok adrir þeir sem at hofdu verit viginu voru fluttir i Tauluholm. Biorn het gestr einn er enn hafdi at verit viginu med þeim. hann var þa kominn gegnt Mariukirkiu er þar var hafin vpp messa ok ætladi at ganga til hirdstefnu. hann mællti. skylldra ætla ek mer at ganga til messunnar enn til hirdstefnunnar. snyr inn i kirkiuna. enn fyrr enn lokit væri messonni var honum sagt at þeir Aulfer voru teknir ok gaf honum þat lif er hann for i kirkiuna. Sigualldi Skialgssun magr jarls geck fastazst at þessu maali. hann tok þorkel enn suarta inn i Suartabudum ok færdu þeir hann vt eftir stræti. ok er þeir komu fyrir gard þann er Skuli jarl var i þa stod hann i sualaglugg einum ok kallar a Siguallda. laat eigi drepa hann þorkel nema hann se of miok sakadr. Sigualldi suarar. hann er þui meirr sakadr enn adrir at hann vann aa jarli daudum. For þorkell vt i Holm med Aulfi ok voru þar haalshoggnir .v. menn Rafn ok (Aulfer ok þorkell ok) .ij. adrir menn.

## Skiptapi.

143. þetta sama haust foru Orkneyingar vestr ok geingu allir aa eitt skip. enir bezstu menn af eyiunum. þetta skip tyndiz ok allir þeir menn er aa voru ok hafa menn þess seint bætr bedit. Skuli jarl for nordr til þrondheims vm haustid ok þeir med honum Hanefr ok Kolbeinn ok Snækollr. var Hanefr ok þeir brædr vm vetrinn med Paali vagarskalm nordr a Dyniarnesi. Vm vorit for Hanefr til konungs ok feck hann þa heimleyfi. hann vard aftrreka i Hernar ok feck þar sott ok andadiz. enn Kolbeinn brodir hans andadiz i þrondheimi litlu siþarr. Snækollr var lengi med Skula jarli.

## Greinir milli konungs ok jarls.

144. Vm haustid er þeir hofdu skilit i Biorgyn Hakon konungr ok Skuli jarl þa var fæddr aa Marteinsmessudag Hakon sun Hakonar konungs ok þann vetr eftir sat konungr i Biorgyn ok var þessi enn .xvi. konungdoms hans. þenna vetr komu vpp margar greinir ok sundrþycki milli Hakonar konungs ok Skula jarls ok er þat flestra manna sogn at þat hæfiz miok af ordum lendra manna þeirra er menn vissu at meirr hofdu iafnan sundr dregit þeirra vinaattu enn vera ætti. Jarl hafdi þenna vetr skipagiordir miklar ok morg þau tiltæki er hans vuinir drogu mikinn grun aa ok virdu til vtruleika vid konunginn. þa var ondud fru Jngirid er aatt hafdi herra Knutr ok var þa oll þeirra vinaatta Skula jarls ok Knutz. Knutr hafdi þa haalft Ryiafylki ok Sogn haalfan ok þotti honum þat leen helldr minna enn hugr hans stod til. hann kærdi þat ok lendir menn med honum at landaskipti þat væri eigi iafnt er verit hafdi i Biorgyn ok þat væri nær helmingi enn þridiungi Noregs er jarl hafdi. þenna vetr hafdi Sigurdr erchibyskup laatid gera ord ollum byskupum ok stefndi þeim til motz vid sik vm sumarit eftir i Biorgyn.

## Capitulum.

145. Hakon konungr for vm varit austr i Vik. hann sendi menn nordr til þrondheims med þeim ordum at Skuli jarl skylldi koma vm sumarit sudr til Biorgyniar ok skylldu þeir tala (vm greinir) þær er þa voru i milli þeirra. Enn er konungr kom til Vikr stefndi hann til sin ollum lendum monnum ok syslumonnum þeim sem i Vikinni voru ok skylldadi þa til alla at fara med ser til Biorgyniar. hann hafdi þa stor vtbod i Vikinni ok dro saman mikit lid ok for siþan til Biorgyniar. þessir voru lendir menn. Arnbiorn Jonssun Simon kyr Lodinn Gunnasun ok Gunnbiorn. [701] Konungrinn hafdi or Vikinni mikit lid ok fritt. enn er hann kom nordr i Gulaþingslaug þa stefndi hann ollum lendum monnum til sin med storum sueitum. þa er konungr kom til Biorgyniar lagdi hann sinum skipum fyrir konungslægi. siþan langskip allt med ollum bryggium i innanverdann bæinn.

## Skuli jarl hellt til Biorgyniar.

146. Skuli jarl var i þrondheimi vm sumarit. hann hafdi laatid reisa skip mikit vm varit vt (a) Eyrum þat het Langafriadagr. þat var leingra enn onnur skip myklu ok þui vard litid at gert vm sumarit.

Jarl bioz nordan er aa leid ok vard sidbuinn. hann hafdi a þridia tigi skipa ok flest stor. þessir voru lendir menn med jarli Alfr maagr hans Asolfr frændi hans Paall vagarskalm Nichulas sun hans Baardr bratti Eilifr af Velli. þar voru ok margir syslumenn. þa var miok lidit aa haustid er jarl kom sudr. sendi hann fyrir sig Paal vaagarskalm aa fund konungsins. ok er hann kom til konungsins veittu lendir menn honum storar aataulur ok sogdu at þat var vndarligt er hann var med jarli enn mot konunginum ok adrir lendir menn þeir sem nordr voru komnir. baadu þa skilia vid jarl ok fara til konungs. Paall suarar. ecki hefi ek verit i moti konunginum þott ek færa nordan[1] med jarli þar sem konungr sendi honum ord. enn sua ætla ek flestum monnum lendum gefit þeim sem nordr eru komnir at ecki munu nu skiliaz vid Skula jarl fyrir sakir aakefdar yduarrar. Siþan fann Paall konung ok foru allar rædur vel med þeim. for Paall moti jarli ok sagdi atekiur þær er voru i bænum ok skip laagu sua þykt fyrir bryggium at eingi vaan var at þeir mætti þar at leggia. þui næst skipadi Skuli jarl athlaugunni til beiarins. hann let fyrst fara sitt skip enn þar næst þau .ij. er mest voru. þa .iij. þa .iiij. ok þa .v. .vj. ok .vij. ok foru sua i voxt æ medan vanz til ok var fagrt aa at sia til þessar skipanar. Jarl lagdi at vid Nordnes vt fra Munklifi vid Hakarlaströnd ok hofdu þar vant[2] lægi sua at þeir brutu nockur skip aadr enn þeir lendi. Sua quad Olafr huitaskaald.

Ord sendi þa iofri þrænda
afrendr konungr vida lendum
folkprudr keyrdi flota sua breidann
flugu þa bord vm hafit nordan.

fyrdar mælltu aa hendr sem hardaz
hofz aunn af þui lendum monnum
errinn bio med herskip barri
Haakarlastrond fromum jarli.

## Hakon konungr veitti Skula ataulur.

147. Nv er þat at segia at þa er jarl hafdi litla rijd verit i bænum aattu þeir konungr ok jarl stefnu i skrudhusinu i Cristzkirkiu ok gaf konungr honum þa sakir ok veitti honum þar med storar aataulur. Eftir þat var þing stefnt i Cristzkirkiugardi. var þar stoll settr vndir konunginn ok settuz vmhuerfis lendir menn hans ok raadgiafar. Gunnarr konungs frændi stod at baki konunginum vid stolinn. herra Knutr var a þinginu. Sigurdr erchibyskup ok allir lydbyskupar þeir sem i voru landinu. þui næst kom Skuli jarl aa þingit med ollum sinum monnum. þeir saa at jarli var ecki rum ætlat aa þeim stoli er konungrinn sat aa. geingu hans menn þa til ok settu honum annan stol. Eftir þat stod vpp Dagfinnr bondi ok fagnadi konunginum sem siduandi er til ok taladi

[1]) nordr *Cd.* [2]) vænt *Cd.*

sniallt erendi ok lauk sua sinu maali at hann eggiadi fridar ok sætta med þeim maagum. þa stod vpp konungrinn ok taladi sniallt erendi. ok lauk þui sua at hann bar aa jarl sakir þær er vuinir hans hofdu tiad fyrir honum. ok er konungr hætti stodu vpp lendir menn ok baaru sakir a jarl huerr eftir annann ok veittu honum storar aataulur. Ok er þui letti stod jarl vpp ok hof a þessa leid sitt erendi.

Eina kann ek visu
Ari sat aa steini.
adra kann ek visu
Ari sat aa steini.
oll er sem ein se
Ari sat aa steini.

her er ok sua i dag sagdi hann at a sina leid hefr huerr sitt erendi enn allir luka a einn veg at bera sakir aa mik. Eftir þat taladi hann langt erendi ok sniallt ok bar af ser allar sakir þær sem honum voru gefnar. hann veik sua taulunni at hann væri skylldr at þiona konunginum ok vægia til vid hann enn þess quez hann vera sannr at hann kynni lendum monnum fulla vþock fyrir sitt erendi rog ok vǒndar medalgaungur milli hans ok konungs. Ok er hann lauk sinni taulu tok Gunnarr konungs frændi til maals. oss þickir þu þui at eins skyllduliga lydni veita konunginum at þu leggir af þer yfirklædit ok fallir til fota konunginum ok gefir þik ok allt þitt maal i konungs valld ok miskunn. þa suarar jarl. þa kunna ek hofþingium at þiona Gunnarr er þu vant annat. Eptir þat stod konungr vpp ok bad þa alla menn fara med ser til kirkiu er honum villdu þiona. geck hann þa af þinginu ok allr mugrinn med honum enn jarl sat eftir ok þat lid er nordan hafdi farit med honum. for hann siþan til skipa sinna. Siþan for erchibyskup i milli ok adrir byskupar ok fengu sætta þa eftir þui sem konungi likadi ok selldi jarl þar festu til. Sua quad Sturla i Hakonarflocki.

þing stofnudu iofrar vugir
iarl veitti suor ræsi snarla
hersir bar þa hilmi dyrann
hialldrs fystu þeir sakir kalldar.

allt lagdi þa fraumudr frægda
feck sætt af þui stillir recka
snilldar skyrr ok selldi varrar
sitt maal konungi litudr staala.

Erchibyskuþ kom sua sinni medalgaungu at þa for et blidazsta med þeim maagum at yfirbragdi ok huarr var i annars bodi. enn þat hafa þeir menn sagt er vita þottuz huarstueggia skaplyndi at alldri hafi vordit sidan fullr trunadr milli þeirra.

### Fædd Kristin konungsdottir.

148. Skuli jarl for vm haustid nordr til þrondheims. enn konungr var eftir i Biorgyn ok sat þar vm vetrinn fram yfir jol ok var þessi enn .xvij. vetr konungdoms hans. þenna vetr var fædd fru Cristin dottir hans. Eftir jol i mot faustu for Hakon konungr inn i Sogn ok þadan aa land vpp. ok er hann kom vpp aa land hofz sundrþycki med þeim Paali byskupi i Hamri ok vard þat fyrst til at. konungr veitti akall til eyiar þeirrar er liggr i Miors er heitir eyin helga. þessa ey hafdi gefit til stadarins Jngi er Baglar kolludu konung sinn. enn Birkibeinar quodu vera falskonung ok sogdu hann heita þorgils þufuskit ok væri danskr ok þotti Hakoni konungi hann ecki eiga at gefa sina faudurleifd. enn byskup syniadi þuerliga at laata lausa eyna. Hakon konungr [702] for austr til Tunsbergs ok var þar vm vorit. Paall byskup ritadi nordr til erchibyskups ok Skula jarls vm aakall þetta er konungrinn hafdi haft vid hann ok leitadi raads til þeirra vm þetta maal. ok af þessum ordsendingum rez þat af at Paall byskup bio ferd sina or landi ok for fyst austr i Gautland ok þadan i Danmork ok sua sudr i Saxland ok letti eigi sinni ferd fyrr enn hann kom a papa fund.

### Fra Hakoni konungi ok gerdum hans.

149. þa er Hakon konungr sat i Tunsbergi vm vaarit let hann miok efla steinuegginn vm bergit ok let hann reisa skip mikit þat er siþan var kallad Olafssudin. Hakon konungr dualdiz nockura rijd i Vikinni ok for vm sumarit nordr til Biorgyniar. þa kom jarl nordan ok voru þeir baadir vm sumarit i Biorgyn. for þa allt vel med þeim þa sem iafnan er þeir voru baadir samt. enn þo at þeir væri med blidu þa geingu þo sua vuinir i milli at hellt vid voda sialfann þegar sem skamt leid fra. sem raun bar aa siþan. Fru Jnga modir Hakonar konungs var med honum ok var konungr vel til hennar sem vera aatti. hon hafdi siukdom mikinn ok tok sottarfar hennar miok at þyngiaz ok andadiz hon fyrir jolafǫstu vm vetrinn. Skuli jarl for vm vetrinn nordr til þrondheims enn konungr for austr til Vikr ok sat vm vetrinn i Oslu. þessi var enn .xviij. vetr konungdoms hans.

### Her segir fra Jslendingum.

150. Hakarlahaustid kom vtan af Jslandi Sturla Sighuatssun ok for þegar af landi brott vm vetrinn vt til pafa. Hann kom aftr þetta sama haust ok fann Hakon konung i Tunsbergi. konungrinn hafdi Sturlu i bodi sinu ok taladi vid hann marga luti. let konungr illa yfir þui er

Sturla sagdi honum ofrid mikinn af Jslandi. Konungr spurdi huersu mikit fyrir mundi verda at koma einvalldi yfir landit ok quad þa mundu vera frid betra ef einn redi mestu. Sturla tok þessu likliga ok quad litid mundu fyrir verda ef sa væri harduirkr ok raadugr er vid tæki. Konungr spurdi ef hann villdi taka þat raad. Hann kvaz til mundu hætta med konungs raadi ok forsia ok eiga slikra launa vôn af honum sem honum þætti verdugt ef hann fengi þessu aa leid komit. Konungr sagdi sua at hann skylldi eigi med manndrapum vinna landit enn bad hann taka menn ok senda vtan edr faa riki þeirra med odru moti ef hann mætti. Sturla var optliga med konungi vm vetrinn ok tauludu þeir þetta maal. enn vm sumarit eptir er Hakon konungr hafdi setid i Oslu eftir vm vetrinn for Sturla til Jslandz ok var aa Grund vm vetrinn med fedr sinum. Enn medan hann hafdi vtan verit hafdi Vrækia Snorrasun brædrungr hans gert mikinn skada ok vfrid aa riki hans. Ok vm vorit er Sturla hafdi verit einn vetr aa Jslandi þa foru þeir fedgar Sighuatr ok Sturla at Snorra med fiolmenni ok villdu at hann bætti þau illuirki er Vrækia hafdi gert. Snorri villdi eigi safna lidi moti brædrum sinum. enn þordr brodir þeirra for i milli þeirra ok feck eigi saman dregit med (þeim). ok stock Snorri þa i brott enn Sturla settiz i Reykiahollt ok tok vndir sik alla kosti Snorra. Eftir þat for Sturla i Vestfiordu at Vrækiu ok sættuz þeir þaa at kalla enn þo helltz þat litla rijd ok þarf þeirra skipti eigi her at skrifa. enn sa vard endir aa at Vrækia for vtan þat sumar med raadi Magnuss byskups af Skalahollti. Eftir þat for Sturla at þorleifi i Gaurdum ok bardiz hann vid hann i Bæ i Borgarfirdi ok feck hann þa valld yfir þorleifi ok for hann þa vtan sumri sidarr enn Vrækia. þa for ok vtan Snorri Sturlusun ok þordr kakali ok Olafr huitaskalld son þordar Sturlusonar enn Sturla sneri þa vfridi aa hendr Gizsuri þorualldzsyni ok Kolbeini vnga Arnorssyni frænda sinum. ok foru þeirra skipti enn sem sidar mun sagt verda.

### Sundrþycki med Hakoni konungi ok Skula jarli.

151. Hakon konungr sat vm vetrinn i Oslu sem fyr var sagt. þa komu enn vpp (greinir) med þeim jarli ok var þat enn af sama manna rogi ok medalgaungu er iafnan voru vanir at spilla þeirra vinaattu. Hakon konungr ritadi nordr vm vorit til jarls ok lagdi honum stefnu vid sik vm sumarit i Biorgyn til tals vm greinir þær sem milli voru. ok er þessar ordsendingar komu til jarls aatti hann raad vid sina menn huart hann skylldi þenna fund sækia edr eigi ok tiaadi þat fyrir þeim at honum (þotti) fast at ser lagt Hakarlahaustid af aeggian lendra

manna. enn mer er sagt at þeir muni nu ecki oakafari enn þa voru þeir. eru þeir lutir nu vordnir sem þer vitud at ek er vfusari at vera a valldi þeirra enn Hakarlahaustid er ver fundumz i Biorgyn. komu þa austan Arnbiorn Jonssun Gregorius ok herra Andres ok gerduz þeir þa handgeingnir menn konungs ok sǫru hirdmannz eid einum saman konungi ok skildi þann eidstaf mikit þar sem allir hofdu suarit aadr baadum ockr. sua gerdi ok Bryniolfr son Jons staals ok margir menn adrir hafa þann eid suarit ok trui ek þeim monnum illa ok verr enn þeim sem eru beggia vorir vinir ok eidsuarar. hafa þeir baadir godar sueitir Gregorius ok Bryniolfr son Jons staals. Ok marga fleiri luti fann jarl til þess at hann aftaldi fyrir ser ferdina. enn þo voru þeir fleiri vinir hans er hann fystu at fara ok þat var af raadit. bio jarl þa ferd sina. sendi hann þa ord lendum monnum þeim sem nordr þar voru ok vard hann miok sidbuinn. hann hafdi nær .xx. skip. hann sigldi sudr aa Mæri ok la leingi vm haustid i Steinavagi.

## Capitulum.

152. Hakon konungr bioz or Vikinni ok dro saman mikit lid. hann hafdi med ser alla lenda menn þa er þar voru. hann let þa ok fram setia Olafssudina er hann hafdi gera laatid i Tunsbergi. þat var ellifu rum ok .xx. ok allfritt skip. Sem konungr kom i Gulaþingslaug baud hann lidi vt vm oll fylki ok stefndi ollum til Biorgyniar til motz vid sik. þa sendi hann nordr til þrondheims Klemet af Holmi ok skylldi hann fara til Frostaþings ok segia at Hakon konungr ætlar ser nordr til þrondheims vm haustid ef jarl kæmi eigi til motz vid hann. þa er a leid haustid for Hakon konungr or Biorgyn ok hafdi nær .xl. skipa ok oll stor. þessir voru lendir menn med honum Arnbiorn Jonssun Lodinn Gunnasun Symon kyr Halluardr bratti Eirikr stilkr Juarr nef Gautr aa Meli Nichulas Paalssun Petr i Gizska ok margir adrir gaufgir menn. hafdi konungr bædi mikit lid ok fritt. Skuli jarl laa i Steinavǫgi sem fyrr var sagt. þar kom til motz vid hann Paall vagarskalm nordan af Halogalandi. tok jarl þar þa frettir þær at Hakon konungr hafdi dregit mikit lid saman ok ætladi at fara nordr til þrondheims. jarl aatti þa stefnur vid lid (sitt) huart hann skylldi fara sudr i moti konungi edr snua nordr aftr til þrondheims. enn Paall ok enn fleiri fystu þess at hann færi i mot konunginum ok sagdi þa bezst mundu fara med þeim ef þeir fyndiz. enn þeir voru sumir trunadarmenn jarls er þessa lauttu ok quodu radligra at snua nordr aftr til þrondheims til fostbrædra sinna ok bida þar konungs ef syndiz. þetta var af raadit at jarl sneri

sinni ferd nordr aftr til þrondheims. Jarl stefndi þa til sin hestum ok bio ferd sina aa land [703] vpp. enn Paall bondi ok fleiri adrir lauttu þessar ferdar ok baadu hann bida konungs. var þaa þat radit at Paall for sudr i moti konungi aa Mæri ok mætti flota konungsins vid Solskel ok feck eigi þar fundit konunginn þuiat konungr var þa seglbuinn. sigldu þeir þa allir saman nordr til þrondheims. ok er þeir komu i Leirangra fann Paall konunginn ok tok hann hans ordum vel ok quaz ætla at vel mundi fara ef þeir fyndiz sialfir.

### Fra Skula.

153. þa nott er konungr laa i Leirangrum var Skuli jarl at Medalhusum ok reid þadan vt til Orkadals ok ætladi sudr vm fiall. hann hafdi þa mikit lid ok fritt. þa er hann kom vpp at Orknarbru skildu vid hann margir vinir hans ok handgeingnir menn bædi hirdmenn ok skutilsueinar. enn sumir a Vppdals skogi. þessir skildu vid hann. Aundottr skakalockr ok Ælubjarni reidardynr ok margir adrir þeir er aadr kolluduz kempur jarls. þa var þetta quedit.

Holi gerduz hirdmenn Skula
hrucku litt medan full var skrucka
drucku þeir af Danmork reckar
droguz litt vm fioll ok skoga.
siþan vard er sloz i ferdir
saunguan ill ok þunt vm stangir
eidar rufuz vid Jnga brodur
engi villdi fylgia leingra.

Olafr huitaskalld quad sua.

Snæfrir drogu enn medal iofra
alldir quaduz varla halldaz
audlings hest vid allualld mætan
aarskaptan grun vinir huarskis.
minnigr bygdi siklingr sunnan
sunda vigg enn jarl stauck vndan
ytar brugduz iofri mætum
austr vm fiall med dreingi snialla.

### Konungr gerdi menn til jarls.

154. Hakon konungr kom i Nidaros. var honum þa sagt at jarl var i brott ridinn. konungr sendi þa eftir jarli med raadi vina sinna Paal vagarskalm ok Juar nef. ok fundu þeir hann i Vppdal ok sogdu at konungr villdi at hann hyrfi aftr ok semdi þeir sin i milli ok sæti þeir baadir saman i þrondheimi vm vetrinn. Jarl aatti þa tal vid sina menn ok fystu flestir at hann sneri aftr enn þeir voru sumir er þat kuodu omerkiligt at skipta sua skiott raadagiordum sinum. Jarl suarar. se ek at þat væri raadligra at snua aftr enn þeir munu raada er þess eggia at ek fara sudr. Eftir þetta sneri hann vpp til fiallz ok sua sudr vm fiallit. þa er syslumenn Hakonar konungs þeir sem a Vpplondum voru (frettu) at jarl var nordan kominn þa toku þeir skip aull er voru i Miors

ok geingu þar aa .xj. sueitarhofþingiar. enn þessir voru fyrir þeim Gregorius son herra Andress Hauardr af Sundbui Aslaakr smiorstackr Jonn ketlingr Amundi af Folavelli Dagr af Grðfu Oddr Eirekssun Saxi bladspiot. ok hofdu þeir fiolmennar sueitir. Skuli jarl for til þess er hann kom aa Heidmork i Hamarkaupang ok dualdiz hann þar vm rijd med ollum sinum monnum. Sem Paall vagarskalm ok Juarr nef komu aftr til konungs ok sogdu vm ferd jarls aatti konungr þa tal vid sina menn ok vid Sigurd erchibyskup ok raadgiafa sina ok leitadi raads vid þa huersu med skylldi fara. þotti monnum þa i vuænt efni komit er jarl var farinn sudr vm fiall med miklu lidi aa riki þat er konungrinn aatti einn saman. erchibyskup bad konunginn gefa til nockut raad at fridrinn mætti standa vm vetrinn. Konungrinn tok þa med raadi erchibyskups ok annarra vina sinna þat raad at hann sendi sudr eftir jarli Biorn abota af Holmi ok Juar af Skediuhofi Vilmund pillt ok menn med þeim ok bad konungr þa sua segia jarli at hann skylldi hafa vm vetrinn þridiung af ollum syslum aa Vpplondum ok i Vikinni ok mætti med þui moti fridr standa þar til er beggia vinir færi i milli. þeir aboti kuomu aa Heidmork ok gerdu menn til syslumanna ok sagdi þeim ord konungsins ok baadu þa eigi fyrri brigda fridinum enn vitad væri huersu jarl tæki þeirra erendum. Enn er þeir aboti komu i Hamar þa hafdi jarl sent Nichulas af Nior skutilsuein sinn vpp a Heidmork at taka þar allar konungs skylldir. Syslumenn hofdu feingit niosn af þessu ok ætludu til motz vid Nichulas. ok ef þeir aboti hefdi komit .ij. nottum seinna þa mundi brugdit hafa verit fridinum med jarli ok konungsmonnum. Aboti fann jarl i Hamri ok sagdi honum konungsins bod. jarl tok þa vitrligt raad ok iattadi þessum kostum er konungrinn hafdi gert ok het þar i mot fridi til þess at enn færi vinir þeirra i millum. Eftir þetta foru þeir aboti nordr aftr enn sumir þeirra felagar foru vt i Vikina at konungs erendum. Skuli jarl skipadi nu allar syslur at þridiungi aa Vpplondum ok sua i Vikinni. hann setti i Borgarsyslu Aarna rufu ok Finn knott. Siþan for jarl vt til Osloar ok þadan til Tunsbergs ok voru konungsmenn þar fyrir honum þeir sem nordan hofdu farit med abota. þa er Hakon konungr sendi Biorn abota or Nidarosi a fund jarls let hann heim fara Arnbiorn Jonssun ok alla lenda menn or Vikinni ok baud þeim sua at þeir skylldu veria riki hans ef jarl gerdi nockurn ofrid i Vikinni ok skylldi Arnbiorn vera fyrir þeim ok bad þa fylgia honum sem bezst ef nockurs þyrfti vid. þeim byriadi vel ok komu i Vikina. Litlu sidar kom jarl ok logdu þa i Grindholmasund er hann var i Tunsbergi. Skuli jarl villdi þa senda til þeirra þa menn er konungr

hafdi nordan sent med abota ok bad þa stefna lendum monnum til sin til Tunsbergs. enn þeir sogdu at konungr hefdi sua mællt fyrir at Eirikr stilkr skylldi finna jarl. ok hann for med konungsbrefum enn adrir lendir menn voru eftir. Sem lendir menn spurdu at jarl for med fridi þa skilduz þeir i Grindholmasundi ok for huerr i sina syslu enn Eirikr for med brefum til jarls. Ok er Arnbiorn kom heim i Valldisholma sendi hann ord syslumonnum er jarl hafdi þar sett ok bad þa i brott fara. sagdi at hann mundi vid eingann midla Borgarsyslu fyrr enn hann heyrdi ord Hakonar konungs at hann skylldi laust laata. Jarlsmenn foru i brott ok a fund hans ok sogdu ord Arnbiarnar. Sendimenn konungs toku mikit fe or Lafranzkirkiu þat sem konungr atti sua at jarl vissi eigi ok fluttu þat nordr til konungs. þeir koma jolaaftan i Nidaros ok segia konungi slik tiþendi sem þeir vissu or Vikinni. hofdu sua sagt vinir konungs þeir sem austan komu at þeir voru margir med jarli er hann eggiodu vfridar moti konungi ok hann rækiz eigi leingr af eignum sinum ok odulum. ok eigi þottuz þeir vita huart fridrinn mundi halldaz edr eigi. Skuli jarl for austr til Elfar eftir jolin ok dualdiz miok leingi vid Konungahellu. þar komu til hans margir menn ok gerduz handgeingnir. þar kom til hans Aalfr af Leifastodum med nockura sueit manna ok þorgils stydra ok gerduz flestir handgeingnir. Veseti vngi ok Algauti brodir hans komu fyrr til jarls. þessa menn er þa gerduz handgeingnir kolludu Birkibeinar Varbelgi. Alfr hafdi aadr verit huskarl Arnbiarnar Jonssunar. þessir fystu miok jarl at hann [704] skylldi vfrid hefia ok lata eigi Hakon konung yfir sinum brodurarfi sitia. Jarl veikz of miok eftir þeirra fortaulum sem sidarr bar raun aa.

Sendimenn.

155. Hakon konungr sat vm jolin i þrondheimi ok var þessi enn .xix. vetr konungdoms hans. Sigurdr erchibyskup bad konunginn at hann skylldi enn gera ordsendingar nockurar til jarls at fridrinn mætti standa þuiat erchibyskup þottiz þat spurt hafa at miok var at komit vfridinum i Vikinni. Eftir þat voru þeir sendir a fund jarls Biorn aboti ok Vilmundr pilltr med sættarbodum. Hakon konungr gerdi ordsendingar til Munans byskups sunar[1] ok syslumonnum a Vpplondum at þeir skylldu allir fara til Arnbiarnar Jonssunar ok skylldu þeir saman halldaz til þess er vitad væri huert erendi abota yrdi. Aboti fann jarl austr i Konungahellu vm vorit i faustu ok bar vpp erendi sin. ok þetta fluttu margir beggia þeirra vinir fyrir jarli ok tok þa at sueigiaz hugr jarls. enn adr þeir komu var buit vid berum vaada at jarl mundi vfrid hefia.

[1]) segit *Cd.*

## Fra Skula ok Arnbirni.

156. Skuli jarl for austan or Konungahellu at alidinni faustu. hann gerdi ord fyrir ser til Arnbiarnar at hann skylldi koma til motz vid hann ok skylldu þeir eiga þing þar sem Eidsberg heitir. Arnbiorn sotti þangat ok med honum Eirekr stilkr Munaann byskupsson ok margir syslumenn af Vpplondum. þeir hofdu .ccc. manna ok allt vel buit ok kom þat fyrr til Eidsbergs enn jarl. settiz vtan vndir kirkiugard. sagdi ok Arnbiorn sua at fyrr skylldu þeir beriaz vid jarl enn jatta þui er þeim væri vsæmd i. Skuli jarl kom a þingit ok hafdi haalf fiorda .c. manna. ok var þat lid vel buit enn þo eigi sua sem hitt er fyrir var. jarl hafdi huitann hatt a hofdi ok sat a fridum hesti. Arnbiorn hafdi sua mællt vid sina menn at hann skylldi einn suara ordum jarls. þa er þingit hafdi skamma rijd stadit tok jarl til orda. hui raktu Arnbiorn syslumenn mina or Borgarsyslu þa er ek hafda setta i þann þridiung er konungr skipadi mer i vetr. þui segir Arnbiorn at ek er oruggr i at laata fyrir eingum laust þat leen er konungr hefir feingit mer fyrr enn ek veit med sannleik at hann vill af mer taka. þa suarar jarl. toktu af mer i fyrstu Borgarsyslu ok þaatt halfa ok hetztu þa oss godu i moti huernig sem þu hefir þat efnt. Satt var þat sagdi Arnbiorn. Jarl mællti. eigi var Hakon þa sidr konungr enn nu þo hann se nu meirr þroskadr. met ek fyrir þui eigi nu ord hans minna enn þa vm þau leen er hann skipar mer. enn þo at þu ser fyrir ollum lendum (monnum) i Noregi þa þicki mer ollum ydr þat ofrausn at hallda fyrir mer þui sem hann iaattar at ek skal hafa. Arnbiorn suarar. satt er þat at ek ætla at eingi lendr madr skal taka af mer þat sem Hakon konungr fær mer ok fyrir eingum manni ætla ek haals at beyia nema fyrir Hakoni konungi ok eigi þeim enum huita hattinum er nu er her a þinginu. þa mællti Biorn aboti ok sagdi at hann hefdi þar bref þat er Hakon konungr mællti sua fyrir at þeir skylldu .ij. einir heyra er vpp væri lesit jarl ok Arnbiorn ok bad at þeir geingi inn i kirkiuna ok taladiz þar vid. Ok er þeir komu inn i kirkiuna inti aboti vpp ordzsendingar þær er konungr hafdi med honum gert bædi til Arnbiarnar ok annarra formanna. segir hann at konungrinn villdi at allir ætti lut i at draga saman sætt med þeim maagum segir ok sannliga konunginn hafa vpp gefit þann þridiung af ollum syslum aa Vpplondum ok i Vikinni jarli til kostnadar vm vetrinn. Eftir þat tok Arnbiorn at sueigiaz ok snuaz i rædunni ok tok þadan af at fara allt alitliga med þeim. Tok þa Skuli jarl vndir sik Borgarsyslu þridiunginn. for jarl þa nordr i Vikina. þeir Biorn aboti foru þa nordr til konungs med sættarbodum.

var þa mællt at þeir skylldu finnaz vm sumarit i Biorgyn ok skylldi huarr selia odrum gisla til þessa fundar. Skuli jarl var i Vikinni vm sumarit ok gerduz honum þa margir menn handgeingnir. dro hann þa enn mikit lid at ser. hann reed þa enn til skipa ok tok skip vlofat fyrir bǫndum þar i Vikinni ok let þau bua nordr. Hann hafdi Borgarþing vm sumarit Margretar messu. þa let hann taka skip Arnbiarnar Jonssunar ok ætladi nordr at hafa. enn Arnbiorn hafdi aadr bora laatid skipit ok hoggua innviduna ok fylldi þegar sem flotad (var) ok var þat sidan vpp sett.

## Fra Hakoni.

157. þenna tima komu nordan fra Hakoni konungi Sigurdr son hans ok Jngimundr puss gisladir jarli. enn aadr hafdi farit til konungs Aasolfr frændi jarls ok Jatgeirr skalld i gisling. Ok er jarl var buinn for hann nordr til Biorgyniar ok lagdiz i konungshaufn. foru þa menn i milli þeirra ok sagdi jarl at hann mundi eigi leggia til beiarins nema þat væri skilt vm þann lut sem honum væri skipat af landi at Petr sun hans skylldi taka eftir hann. [Enn er [1] þetta var flutt fyrir konunginum þa neitadi hann berliga þessu ok sagdi sua at alldri skylldi hans afspringi erfa Noreg nema sa einn er kominn væri af ætt Margretar drottningar. Eftir þetta foru menn milli þeirra. Sigurdr erchibyskup aatti mestan lut i at sætta þa. lagdi jarl þa til beiarins ok voru þa stefnur at aattar ok geck þa enn saman sættin at bæn erchibyskups ok annarra godra manna. þa var þat raadit at þeir skylldu sitia baadir i Biorgyn vm vetrinn ok hallda eitt bord med þui moti at jarl skylldi leggia kost fram enn þridia huern dag. Fara þann vetr oll skipti vel þeirra i milli sem iafnan var þa er þeir voru baadir samt. þuiat þa voru færi lygdir milli bornar er sua var skamt at reka at þeir maattu sialfir þegar profa. þetta sumar kom Vrækia Snorrasun af Jslandi ok sagdi mikinn vfrid þadan af Sturlu frænda sinum ok virdi konungr sua at Sturla hefdi hardara at farit enn hann hafdi honum raad fyrir gert.

## Fra Hakoni ok Skula.

158. Nv er þessi enn .xx. vetr rikis Hakonar konungs er þeir jarl saatu badir samt i Biorgyn. þeir biuggu ferd sina vm faustu nordr til þrondheims. ok sigldi konungr fyrir Stadi kærusunnuaptan ok bægdi honum vedr sua at hann vard at leggia at i Angri. enn jarl sigldi sunnudaginn or Sild ok feck sua mikit radbyri at hann lagdi at nordr vid Saundulfsstadi. hann sat aa Reine vm paaschir. Konunginum byriadi

[1]) [eftir *Cd.*

seint hann kom i Nidaross vm paschir ok funduz þeir jarl þar eftir paschir ok voru baadir samt vm vorit i kaupangi. þa voru ord gior Paali byskupi i Hamri at hann skylldi nordr koma til sættarfundar vid Hakon konung. ok er byskup kom nordr voru margar stefnur aattar at malum [705] þeirra konungs ok geck seint saman sættin. var byskup iafnan hardari a þeim stefnum sem jarl var vid enn (þo kom) þar at þeir sættuz med þui moti at konungr tok vid eyinni ok lagdi adrar eignir i moti til stadarins þær er honum likadi ok byskup iattadi at hafa. Vm vorit vard einn litill atburdr i þrondheimi saa er sia maatti hue nær vmspillendr stodu vm skipti þeirra konungs ok jarls. enn þat var med þui moti at þa var Gunnar konungs frændi med konungi. hann hafdi skilit aa vid gesti jarls ok þottuz þeir hafa feingit hardleikit af honum. Enn litlu sidarr for Gunnarr i brott vt aa Nes ok ætladi i syslu þa er konungr hafdi feingit honum. ok vm nottina er Gunnar hafdi brott farit var konungi sagt at hann væri drepinn ok jarl hefdi sent eftir honum gesti ok laatid drepa hann. Konungrinn let þegar kalla ludrsueina ok klæddiz sialfr. lupu þa allir til vopna konungsmenn ok geingu vt i gardinn ok settu vpp merki. Jarl suaf i odru herbergi skamt i fra hann vaknadi vid gnyinn ok liop vpp ok geck vt i sualirnar ok sa at drottning stod vt i gardinum. jarl spurdi hana hueriu gegndi. hon sagdi honum huat titt var. jarl bad hana vera kaata ok sagdi at ecki mundi til saka. þui næst klæddiz jarl. þa kom þar Sigurdr konungssun til hans i herbergit ok geingu þeir þa badir vt. var þa ok vist vordit at þetta var ecki nema lygd ein ok vpplostning vondra manna. þetta sama var hafdi Hakon konungr þing aa Eyrum ok kom þar mikit fiolmenni. ok aa þui þingi iok Hakon konungr nafnbætr Skula ok gaf honum hertuga nafn. þat tignarnafn hafdi engi feingit fyrr i Noregi. Vm þetta quat Olafr huitaskaalld.

Sniallir foru maaga i millum
menn sellduz þeir gisla tuenna
synni tok þaa sætt er funduz
snarir bragningar her at magna.

nafnbætr jok sa er Noregs gætir
nidium pryddr ok sikling skryddi
biortu heitu boduar fliotann
blidr hertuga giofum fridum.

Medr þessi nafnbot gaf konungrinn hertuganum margar sæmiligar giafir ok hofz þa af nyiu med þeim maagum gott samþycki med blidu.

## Sendiferdir milli H(akonar konungs ok keisara).

159. þa er þeir redu Noregi Hakon konungr ok Skuli hertugi þa var keisari yfir Romaborgarriki Fridrekr sun Heinreks keisara. hann var mikill hofþingi ok agætr. þydduz i þann tima vid hann margir agætir

hofþingiar af odrum londum. Keisarinn sendi menn nordr til Noregs a fund Hakonar konungs ok Skula hertuga. þetta var langri stundu fyrr enn þat er nu var fra sagt. saa het Vilhialmr er fyrir þeim var. þeir fornudu konunginum ok hertuga margar præsentur enn þeir sendu i mot þa luti er med keisaranum voru torogætir ok þar þottu gersimar. Siþan hofuz vpp sendingar ok sendiferdir i milli keisara ok Hakonar konungs. for fystr af konungs hendi Gudleikr af Aski ok fann hann keisara i Sikiley ok (tok) hann honum vel. siþan for Nichulas Paalssun ok var leingi i keisaragardi ok þa af honum storar giafir ok sæmdir ok eingi madr var iafnvel tekinn af Nordmonnum sem hann i þann tima. Nockuru sidar enn þetta var foru þeir vt Roi konungs frændi ok Baardr brodir Ysaks af Bæ ok var Baardr af jarls hendi ok þotti þeim Roa hann eigi flytia af skynsemi edr sannindi vm skipti þeirra Hakonar konungs ok Skula hertuga. ok eftir þetta for sa madr mest i milli keisara ok Hakonar konungs er Heinrekr het. hann var fæddr vpp i Noregi enn þyduerskr at ætt. hann var kalladr Heinrekr sendimadr. hann for margar sendifarar i milli med agætum sendingum. Af þessu vard in mesta vinaatta med Fridreki keisara ok Hakoni konungi.

## Fra Baardi.

160. Vm vorit er þeir saatu i þrondheimi Hakon konungr ok Skuli hertugi hofdu þeir syslu vpp a Heidmork af hertuga hendi Baardr Ysaks brodir ok Hakon dufa. þuiat sua var þa skipt landinu at hertuginn hafdi þridiung af ollum syslum vm allann Noreg. þar verdr illr atburdr med þui moti at Baardr tok konu naudga. enn hon var eiginkona þordar sonar Fridreks slafsa er alla æfi hafdi verit haufudvin Hakonar konungs. enn i raadi ok vitand med Baardi hafdi verit Hakon dufa. þetta frettu þeir Hakon konungr ok Skuli hertugi nordr i þrondheim ok letu illa yfir sem vaan var at ok hafdi hertugi eigi færi ord vm opinberliga enn konungrinn.

## Fra Hakoni.

161. Hakon konungr ok Skuli hertugi biuggu ferd sina vm sumarit sudr til Biorgyniar ok aadr þeir foru sendi konungr Jon profastz sun aa land vpp ok nockura menn med honum ok skylldi hann fara et efra austr. Ok er þeir voru bunir konungr ok hertugi þa foru þeir sudr til Biorgyniar. enn aadr þeir komu þangat hofdu beiarmenn gefit Sudrmonnum mikit slag ok drepit summa enn rekit summa a kaf ok margir voru særdir. þat hafdi til vordit at Sudrmenn hofdu lagt kuggum sinum

vm. enn Arnbiorn sneri annan veg af aanni gegnt nesinu. þeir skutuz aa vm kuelldit ok feck af þui banasaar Jonn paris af hertugans monnum. Baardr vargr for til Eireks stilks maags sins. hann kærdi þat fyrir honum at hann hefdi þar engi klædi sin ok bad Eirek faa til menn at fylgia ser vt aa isinn ok kuaz vilia kasta runakefli til felaga sinna. Eirekr gerdi sua. ok er þeir komu aa isinn for Baardr þeirra hardazst. sueitungar hans voru audrum megin aarinnar ok kendu hann ok geingu i mot honum. hof Baardr þaa aa raas fra Birkibeinum ok til sueitunga sinna. Skuli hertugi var .iij. nætr aa Leirnesi ok maatti þa eigi leingr þar vera ne fæda herinn ok for snemma friadags morgininn i aannarri viku langafostu. þat var enn .vij. idus dag Martij. ok sneri þa aftr til Laaku. Ok er Birkibeinar vrdu varir vid þetta foru þeir þegar eftir honum. þa er Varbelgir komu aa Laaku tradu þeir ser gadd aa breckunni hia husunum. var þar fyrir nidri dalr enn hæd nockur audrum megin. saa þeir þaa at Birkibeinar foru eftir þeim ok þottuz skilia at þar mundi verda fundr þeirra. toku þeir þa at fylkia lidinu vppi aa breckunni hertuginn ok hans menn.

## Bardagi aa Laaku.

188. Birkibeinar foru til þess er þeir komu aa Laaku ok fylktu þar odru megin aa daluerpinu. Knutr jarl ok Arnbiorn fengu til marga sueitarhofþingia at veita Varbelgium bakslettur. var fyrir þeim Lodinn Gunnasun ok Hakon griss ok Jonn profastzsun. hann var fyrir kertisueina lidi ok bar þorir knappr merki þeirra. margir voru þar adrir sueitarhofdingiar. geingu þeir aa bak fylking hertuga. var þa bærinn milli þeirra. Ok er hertuginn saa þetta skipti hann sinum monnum i mot bakfallinu ok voru þessir sueitarhofþingiar þar fyrir Aalfr af þornsbergi Augmundr af Vigdeilld Alfr af Leifastodum Veseti litli Algauti brodir hans ok enn fleiri sueitarhofþingiar. Ok þa er þeir mættuz vard þar hardr bardagi. var Birkibeinum vhægri atgangan þuiat snior var mikill ok illt at fara enn Varbelgir toku hardliga vid. þa er þeir þottuz vita jarl ok Arnbiorn at bakfollin mundu saman komin þa letu þeir bera fram merki sin ok geingu i daalinn ok sua vpp i breckuna vndir fylking hertuga. Skuli bad sina menn vera eigi of veidibraada ok laata þa gaanga vpp aadr enn þeir redi aa mot. enn þat var at engu haft ok gengu Varbelgir skiott i moti Birkibeinum. maattu Birkibeinar ok ecki fram komaz fyrir snionum ok viku skiott aftr þangat sem þeir hofdu i fystu stadit. leez einn madr af þeim.

## Fall Birkibeina.

189. Nv er at segia fra bakfollum. Hakon griss geck i fyrra lagi ok er þeir kuomu saman sneri mannfallinu aa Birkibeina. þar fell Hakon griss Jonn profastzsun Guthormr heggr ok margir adrir agætir menn. flydu þa Birkibeinar ok fell þa mart i flottanum. Lodinn Gunnasun liop i kirkiuskot med sueit sina. Varbelgir fengu tekit merkin ok hofdu þau til hertugans. þottuz þeir af þui vita jarl ok Arnbiorn at þeirra menn mundu farit hafa vsigr. gerdu þeir þa raad sitt ok sendu þann mann er Eilifr kyrr het med nockurri sættarvmleitan til hertugans. ok er hann kom aftr ok þeir menn er hertuginn hafdi sent med honum þa stodu þar skilldirnir eftir i faunninni sem þeir jarl hofdu stadit enn menn voru allir i brottu. flydi Knutr jarl ok Arnbiorn vt til Tunsbergs enn sumir til Osloar ok vt i Hofudsey ok saatu þar i klaustri. Kolbiorn brodir Aalfs af þornsbergi fell af Varbelgium ok fair menn adrir. Sua quad Olafr huitaskaalld vm þessi tiþendi.

Hilmir for med herskap storann
hilldar bordz aa Vpplond nordan
merki skaaruz lios aa Laaku
laa ferd vegin skorpum suerdum.

þannig reid til þrondheims sunnan
þingfrækn iofurr vaulum stinga
herskip brendi hilmir grundar
hyggiu gegn enn lif feck þegnum.

Sturla quad sua.

Stod vfridr
af afarmenni
innan landz
ollu folki
þa er ynglingr
austr aa Laaku
suerda seid
vm samit hafdi.

Ok vigalfr
vaxanda lect
vlfa arr
ok ara ferdar.
valdi hann vetr
til vopnþrimu
ok vigskaar
visa riki.

Skuli hertugi gaf grid Lodni Gunnasyni ok þeim monnum sem med honum voru. hertoginn for eftir þat vt til Osloar ok let sik þar til konungs taka. gaf hann þa þeim monnum grid sem i klaustrinu saatu i Hofudsey Paali gaas Giardari Styrssyni ok enn fleirum sueitarhofþingium. geingu margir Birkibeinar til handa hertuganum.

## Konungr fretti til sinna manna.

190. Hakon konungr sat i þrondheimi sem fyrr segir. þat var sidr konungsmanna at ganga til Helgisetrs vm daga til fru Ragnhilldar ok þeirra mædgna ok manna hertugans þeirra sem þar voru. ok einn

dag er konungsmenn komu þar saa þeir at allt folk hlo at þeim þat sem þar var sem þeir gerdi gys nockurn enn villdu eingi tiþendi segia þeim. þeir sogdu konungi at vist voru nockur tiþendi þau er þeim hlo hugr vid. [714] Ok þann sama dag kom austan gestr einn til konungs. konungr spurdi tiþenda enn hann þagdi. konungr bad hann segia slik sem voru ok gud hafdi til sett at verda skylldi þuiat ver munum spyria af odrum þo at þu segir eigi. Hann suarar. þat er skiotazst at segia at Knutr jarl ok lendir menn ydrir i Vikinni funduz ok hertuginn a Raumariki aa bæ þeim er aa Laaku heitir ok attu þar bardaga ok hofdu ydrir menn betr enn fyrra dag enn hinn sidarra flydu þeir ok fellu þa margir agætir menn af Birkibeinum. sagdi hann þa konungi allt sem farit hafdi þuiat hann var i bardaganum. Konungi þotti mikil tiþendi. enn iafnan siþan skorti eigi gabb af vinum hertugans til Birkibeina þegar þeir þordu ok sua mikit bragd var at þessu at þeir sem austan komu til vina hertugans sogdu at driugum væri drepin aull hird Hakonar konungs su er i Vikinni var ok eigi vist at jarl helldiz vid i landinu. Ollum konungsmonnum var mikil rygd at þessum tiþendum. Sua quad Olafr.

Tion hafa Birkibeinar
baudhraustir fregit austan
braatt mun bug þann retta
bragningr ef vel hagnar.
virdendr munu verda
vapnglyms fima ymsir
veit ek at vart hefir Knuti
vegnat braugdum fegnir.

## Vidrtal Hakonar konungs ok erchibyskups.

191. Hakon konungr gerdi eftir þetta ord ollum sinum monnum at þeir skylldu bua ferd sina sem akafazst. Sigurdr erchibyskup kom einn dag i Nichulaskirkiu til konungs ok med honum Lambi priur af Helgisetri. Erchibyskup mællti til konungs. ver hofum spurt at þer hafit feingit mikinn ok margfalldann skada i laati yduarra manna i Vikinni fyrir Skula hertuga. er þat nu rædiligt at miok gangi ydrir vvinir fram ef sua ferr nockura rijd sem nu horfiz aa ok þætti oss raadligt at leitat væri vm sættir milli yduar ok hertugans bædi fyrir sakir landzins ok allrar alþydu. vilium ver giarna mæda oss til þessarrar ferdar at rida sudr vm fiall ef ydr er þar nockur ofusa aa. kann vera at þui sidr naai godum sættum af hertuga sem honum geingr betr. Konungr suarar. gud þacki ydr herra yduarn goduilia er þer birtid i þessu. ma þat ok finna at þer villdut at vel færi med sliku framlagi yduars starfs. enn þo at ver hafim feingit skada nockurn vm menn vora þa kann vera at þar se meira fra sagt enn satt se. þa væntum ver med guds miskunn

ok ens heilaga Olafs konungs at þat se varr enn mesti styrkr i landinu er siaalfs vars foruneyti er ok þui likar oss varla at sua bunu at gera nockura sætt vid hertugann fyrr enn nockut er reynt meirr vm vðr vidskipti þuiat vid hofum enn ecki fundiz sialfir ne barizst vndir merkium ockrum. enn ef þess er audit at vit finnumz ok hafi gud sua fyriræltat ok enn heilagi Olafr konungr at ek fai lægra lut þa mun þess kostr at sættaz. enn med engu moti likar oss sua buit at sættazst at vreyndum okrum fundi ok siaaz skulum vid aadr maagar ok talaz vid ok vita huart betr vill vegna oss edr monnum vorum. Skilduz þeir at sua mælltu.

## Varbelgir toku grid.

192. Eftir þetta komu huersdagliga Varbelgir til konungs bædi Jonn aa Sudrheimum frændi hans ok Þorfinnr aa Gyrfi ok margir adrir ok toku grid af konungi. þa let hann rannsaka eptir skipum þeim er hertuginn hafdi aatt ok tok þau til sin er honum þottu ser bezst fallin enn þau enu storu er vppi stodu voru annathuart brend edr hoggin til vnytz.

## Hakoni konungssyni gefit konungsnafn.

193. Þa er Hakon konungr var albuinn let hann blaasa til Eyraþings eftir þui sem adr var stefnt. var þa vt borit skrin hins heilaga Olafs konungs ok kross sa er i var lignum domini. þat var sunnudag halfum manadi fyrir paaschir. var þa gefit Hakoni vnga konungsnafn. gaf honum þat sa madr er Einarr smiorbakr het er siþan var erchibyskup. þar var vid Sigurdr erchibyskup ok allir enir bezstu menn i landinu. Konungr vngi sðr eid at scrini ens heilaga Olafs konungs eftir rettri sidueniu. sðru eftir honum allir lendir menn ok hirdstiorar. sua soru ok aatta bændr or hueriu fylki i Þrændalogum. Eftir þat taladi konungr sialfr ok sagdi sua at bændr hofdu gert meira styrk i mot honum enn hann kuaz vara edr þeir ætti vid sinn konung at gera. gat hann ok þess at eigi væri oruænt at odrumhuorum mislikadi honum edr bændum. Þann sama dag var erchibyskup i bodi konungs enn konungr var annan dag i bodi erchibyskups ok gaf huorr odrum godar giafir.

## Capitulum.

194. Tyrsdaginn lagdi konungrinn vt til Holms enn eftir þat gaf honum hægiann byr. kom hann tyrsdaginn eftir paalmsunnu til Hegra-

ness i ottu ok suaf þar til þess er liost var kom þa lid eftir honum nordan. let konungr þa blaasa ollu lidinu af skipum ok aatti husþing. Kurr nockurr hafdi verit i herinum siþan slagit hafdi verit aa Laaku ok mest af leidangrsmonnum. beiddu þa margir orlofs at fara heim ok var nockurr otti aa at fara leingra sudr. Hakon konungr taladi þa fyrir herinum ok mællti sua. ver hofum heyrt nockurn kurr vm rijd at monnum leidiz rekstr þessi er ver hofum haft i vetr. sua eru menn ok nockud ottafullir siþan þeir spurdu þa atburdi sem giorst hafa i Vikinni. mun þat þo flestum monnum kunnigt at opt hafa menn meira rekstr ok vasbud haft fyrir konungi sinum allra hellz er eigi hefir neinn madr skeinu feingit af ollum vorum monnum ok eingan vapnaburd hafi þer seet i moti ydr. mundi slikt þickia fordum daga litil þraut er hefir enn i giorst med oss. ok eigi mundi fornir Birkibeinar skiliazst vid sinn konung i þuilikri raun sem enn hefir verit. ok þui er su bæn min til allra manna at þer hafiz vel vid ok skilit eigi vid oss sua buit þui at þat mun dreingiligt þickia yduarrar handar. enn þat mun ek segia ydr sem ver væntum at sannaz muni aadr enn hedan se lidinn maanadr þa skal summum vera rymra vm hendr innan landz ok innan hirdar enn nu er. Bondi einn gamall af Augdum suarar. ek var i þrimr orrostum med Suerri konungi faudurfodur þinum ok ef hann mællti sua þa mundi monnum eigi þickia mikil raun at fylgia honum. er þat ok mitt maal at sa verdi allra manna armazstr er vid sinn konung skilz þott meiri raun se enn nu er. Siþan stod Hakon konungr vpp ok bad menn bua ferd sina sem skiotazst. þegar er þeir komu til Biorgyniar lagdi konungr til bæiar ok var gior processia i mot honum ok vrdu allir fegnir hans kuomu. þa er Hakon konungr kom til Biorgyniar let hann rannsaka bref þau er Biorn aboti for med. var þar bref til pafa ok keisarans ok margra hofþingia vt i londum af hertuga hendi er hann ætladi at fram skylldi hafa dregit hans maal sem mest. ok sua mikit efni var i þui at varla mundi nockurr madr trua at slikr hofþingi skilldi sua mart vilia segia [715] vsatt ok logit. þau voru þar morg bref at aaboti var verdr liflaatz fyrir enn þo gaf konungr honum grid þegar hann feck aull brefin ok hann vissi aull hans erendi. for aboti austr med konungi. þa er konungr var i Biorgyn geingu til hans lendir menn ok raadgiafar ok sogdu raad at hann sæti þar vm pascha ok aa vorit fram ok gæfi þeim heimleyfi er aadr hofdu verit med honum enn bydi vt leidangri vm oll Gulaþingslaug at monnum ok vistum ok tæki sua mikinn styrk at hann þyrfti ecki at ottaz hertugann ne hans menn.

## Hakoni gefit konungsnafn.

195. Hakon konungr suarar. med ollu ecki þicki mer þat raad at gefa þeim monnum heimleyfi sem nu eru med oss þuiat ver vitum varla huart ver faam meira styrk af Gulaþıngslaugum enn nu hofum ver. þickiumz ver þa dyrt kaupa þann styrk ef ver tynum þeir er vorri sæmd vilia fylgia ok sialfa sik fram leggia fyrir oss ef ver komum bradliga til þeirra Vikuerianna. mun ok þui minni vera vorr styrkr þar sem ver komum seinna sialfir til. ok þui munu ver fara austr sem skyndiligazst med þui lidi sem ver faam. ok þo mun ek austr fara at ek hafa eigi meirr enn .iij. skip ok þo mun ek fara þott ek fari einskipa. enn þeir sem eigi vilia fylgia oss þa laati gud oss verda sua langhenda at ver faaim ambanat þeim sua at þeir kenni. Konungr sagdi at hann vill laata endrnyia konungsnafn vnga konungs ok likadi þat ollum vel. Var þa blaasit til þings skiriþorsdag vt i Kristzkirkiugard var þa gefit Hakoni konungsnafn. sor hann þa eid eftir rettri sidueniu ok lendir menn eftir honum. sua soru ok bændr eida or ollum Gulaþingslogum ok Orkneyium ok Hialltlandi. Eftir þat taladi Hakon konungr nockur ord ok lysti þui fyrir monnum at langafriadag skylldu þeir brott leggia skipunum ok lagdi þeim vid landraad er þa dueldiz eftir. Friadaginn let hann leggia skipunum i Floruvðga ok var þar vm naatt. hann for vm morgininn inn til bæiarins ok heyrdi tidir ok for þegar vt aftr ok lagdi þa þegar sudr i Grenningasund ok hafdi þa eigi meirr enn .x. skip ok laa þar paschadaginn. let konungr reisa þar .ij. landtiolld ok let veita tidir sem sæmiligaz. þar var prædicad ok gerdar langar taulur vm skriptir manna ok naudsyniar. Sunnanvedr var a huast ok sogdu flestir menn at eigi mundi vel byria af þui at konungrinn villdi eigi dueliaz i kaupstadnum þuilika hatid. Af þessu vard konungrinn nockut ryggr er menn draapu þann veg ordi aa vm hans tiltekiu. ok er messor voru sungnar kalladi konungr nockura menn til sin ok syndi sik blidann ok bad menn vera i godum hug. sagdi at gud mundi vel greida þeirra ferd aa nockurn haatt.

## Fra Skula ok Arnbirni.

196. Nv er at segia fra Skula hertuga. hann sat i Oslu sem fyrr var ritad ok dro at ser mikit lid. hann byriadi ferd sina or Oslu i Vikinni fyrir paalmsunnudag austr til Valldisholma. hann sendi skip nockur it ytra austr til Borgar ok voru þar þessir formenn Vilhialmr or Torgum ok þorir miobeinn. Ok þa er þetta spurdi Arnbiorn Jonssun þa skaut

hann skipum aa vatn ok for austr yfir Folldina. ok er hann kom austr i Borgaraa mætti hann þar Varbelgium þeim er a skipum foru ok ellti þa þar vpp. þar fellu nockurir menn af Varbelgium enn Arnbiorn tok skipin. enn med (þui) at hann hafdi haft erfidi mikit enn var miok aa efra alldri ok þeim audrum atburdum er til fellu þa tok Arnbiorn sott ok laa skamma stund aadr hann andadiz. ok þotti þat enn mesti mannskadi þuiat þat var einmællt at i þann tima þotti engi slikr lendr madr i Noregi sem hann. Skuli hertugi kom til Valldisholma ok sat þar skamma rijd aadr holmrinn var vpp gefinn[1] tok hertuginn þar alla luti þa er honum þarfadiz. for eftir þat vt aftr til Osloar fyrir paschana ok þotti monnum sem þa mundi (ecki) vid honum standa. Petr hertugasun var vppi a Heidmork vm paschir ok hafdi mikla sueit manna.

## Ferd Hakonar.

197. Hakon konungr laa i Grenningasundi sem fyrr segir. Paschadaginn komu þar menn a skutu austan. var fyrir þeim Gudleikr eidungr ok sagdi liflaat Arnbiarnar Jonssunar ok þat med at menn mundu miok vera tuidrægir i Vikinni ef konungr kæmi eigi. Annan dag pascha geck konungr aa land vpp i dagan ok einn sueinn med honum var þa aa litid vedr af landzsudri. þotti honum vant at vekia menn ef vedrit hardnadi þuiat margir voru fusir aftr til beiarins ok þo eigi at sidr bad hann menn klædaz ok roa aa fiordinn Hardsæ. ok sua var giort. Geck konungr þa aa skutu vid nockura menn ok reri sudr til Santkaudru ok heyrdi þar messo. ok er lesit var bad hann menn vt ganga ok sia huar skipin færi. þeir komu inn ok sogdu at menn toku at sigla aa skipunum. ok er sungit var sigldu oll skipin. þa var ok godr byrr. skundar konungr þa sem mest ok feck eigi tekit skipin fyrr en i Salbiarnarsundi ok var þo heflat a ollum skipum. þann dag var godr byrr ok hægr ok sigldu i Huitingseyiar vm kuelldit. Sua segir Sturla[2].

| | |
|---|---|
| Hafdi rausk<br>enn risu laukar<br>hilmis hird<br>hendr aa reipum<br>enn hunskriptur<br>hreggi blaasnar<br>fylkis ferd<br>til frama greiddu. | Ok ofaarr<br>austr med landi<br>sneckiu brandr<br>suifa knaatti<br>gulli glæstr<br>vnd gǫfugmenni<br>var ei audligr<br>alualldz floti. |

Vm morgininn eftir lyddi konungr messu ok sigldu þann dag fyrir

[1]) geinginn *Cd.* [2]) steinn *Cd.*

Jadar. ok er þeir komu aa Huini þa brast styri aa konungsskipi ok geck af allt bladit naaliga. voru þa teknar bryggiur ok aarar ok styrt med sudr vm nesit. ok er þeir voru fyrir geingnir nesit logdu þeir vpp bryggiornar ok var styrt med þui er eftir var styrissins ok aarum inn vm Skerdandasund. ok er þeir komu til hafnar var vpp lagt þat er eftir var styrissins ok þotti monnum mikil iartein er med sliku skylldi styrt verda iafnmiklu skipi. Midvikudaginn sigldu þeir til Esiunesseyia ok logdu þar at snemma dags. kom þar saman mestr luti lidsins. þadan sigldu þeir inn i Vikina. ok er þeir komu aa Grenmar fyrir sunnan eyna Aur þa kom i mot þeim landzsynningr med miklum stormi ok siomyrkri. sneru þa oll skipin aftr til hafnar þau sem eigi fengu beitt. enn konungr lagdi inn vndir land ok kom i þa hofn er Slaattunes heitir ok var þat langt af þiodleid. laa hann þar vm nott. þar komu þau tiþendi til hans at Varbelgir voru allir i Oslu ok bunir til Tunsbergs at fara at Birkibeinum. enn Knutr jarl ok lendir menn konungs laagu vid Jarlsey ok margir adrir Birkibeinar ok voru margir albunir til nordr at fara enn sumir voru a Bergi. Hakon konungr sendi menn aa land Eindrida Bessasun ok mann med honum til Tunsbergs at segia Birkibeinum i hliodi at konungr var kominn i Vikina. Menn hofdu druckit fast aa konungsskipinu ok suofu mikit vm [við] morgininn. konungrinn var snemma vppi ok bad menn klædazst enn menn brugdu seint vid. þa mællti konungr. þat ætla ek at skiotara klædizst Varbelgir i dag ok fari vt til Tunsbergs at felogum ydrum enn þer klædiz nu at fara at þeim. Birkibeinar lupu vpp sem skiotaz ok sogdu at þat skylldi alldri verda. reru þeir þa sem skyndiligazst vt or hofninni. ok er þeir komu fram fyrir eyna Aur þa rann aa byrr ok toku þeir til segls. Hakon konungr hugdi þa at oll skip mundi vm sigld. ok er lysa tok saa þeir ath vestan sigldu skip et ytra. lagdi konungr at i Jfuasundum[1] ok bidr þess at allr herrinn kemr eftir. Het hann þar heitum sinum fyrir ser ok lidi sinu at allir Birkibeinar skylldu vatnfasta Olafsvoku aftan enn fyrra enn fasta enn sidarra edr leysaz vndan .xv. peningum vegnum. helldu flestir menn vel þessi heit enu fystu .xij. manadi enn verr siþan. Hakon konungr sigldi þadan inn til Grindholma sunda. kom þar i mot honum Gunnbiorn bondi ok Munaann byskupssun Juarr af Skediuhofi ok sogdu þeir konungi at Knutr jarl laa vid Jarlsey ok allr herr Birkibeina ok baadu hann þar at leggia. Konungr suarar. med þui at gud hefir gefit oss þenna byr þa væntum ver at þetta se sigrbyrr ok ollum oss til sæmdar ok munu ver þessa neyta med guds miskunn. sigli þeir

[1]) r. Masundum

eftir oss sem vilia. er ok vant at sia at hueriu halldi þeir koma er þessa byriar vilia eigi neyta. Sua quad Olafr huitskaalld.

Nordan rendi næst þa er spurdiz
nafnkunnr iofurr skeidar stafni
baarur leku braundum hæri
borda rijd fyrir Noregs sidu.
þrutin laagu vedr aa vatni
vinda script ne gramr bad suipta
snarr yngui kuat sigrbyrr slunginn
sinni ferd at hialldri stinnum.

Hakon konungr sigldi inn eftir sundum ok er hann kom gegnt Jarlsey þa leet hann blaasa. ok þegar er Birkibeinar heyrdu þat þeir er vid eyna voru raaku þeir af ser tiolldin ok sigldu inn eftir konunginum sem skiotaz. konungr gerdi þa menn aa skutu inn til Tunsbergs ok sagdi huerir gæta skylldu bergsins edr huerir honum skylldu fylgia. ok er hann kom inn til Bediusunda þa lagdi hann þar at ok beid jarls ok hans manna. siþan sigldu þeir med allann herinn inn eftir firdinum et beinsta sem Sturla quad.

Skridu haffræk
vnd hofudmanni
inn i botn
Oslu fiardar.
þa er vigstorr
fyrir viglidi
Skula olld
vm skipaz hafdi.

Vedrit minkadi sem aa leid daginn ok er þeir komu inn til Siguallda-steina þa var logn. tok þa at myrkua ok reru þeir siþan inn til Nes-odda. þa sogdu sumir at hertuginn mundi vera ridinn or bænum enn sumir sogdu Varbelgi at visu þar i bænum.

## Tilbuningr atlaugunnar.

198. þa er Hakon konungr kom til Nesodda aatti hann tal vid alla styrimenn ok sueitarhofþingia ok sagdi fyrir vm atlǫguna ok sua at Gunnbiorn bondi ok Petr Paalssun ok nockurir adrir syslumenn fyrir norþan Stad skylldu roa fyrir vestan Hofudey ok leggia at fyrir nordan Gyliandi ok ganga austr i moti Frysiubru ok sæta þar Varbelgium ef þar kemr nockurr flockr fram. Knutr jarl ok Vikueriar Simon kyr ok Eirekr stilkr skylldu leggia at vid bruggiur ok ertazst vid Varbelgi. enn Hakon konungr sialfr ok mestr luti lidsins skylldi ganga vpp vt vid Eikabergs stod fyrir sunnan þrælaberg ok koma sua sunnan at bænum. skylldu engi skip roa fyrr fra Hofudey enn lysa tæki ok þeir sæi at Hakon konungr viki ofan af berginu at bænum. skylldi þa huerr roa sem skipat var ok leggia þo fyst at bryggium. Konungr hafdi gert vm daginn niosnarmenn inn til Hofudeyiar at þeir yrdi vissir sannra tiþenda af Varbelgium. enn er konungi þotti þeir seinni enn hann ætladi geck hann aa eftirbaat ok ætladi inn til Hofudeyiar. enn er hann kom

aa midiann fiordinn gerdi sua mikit siomyrkr at varla maatti sia stafna i millum. þui sneri konungr aftr til lids sins. Enn medan konungr reri aa fiordinn hofdu niosnarmenn vm farit ok ecki fundit hann. vissu menn þa varla huar konungr mundi vera. gerdiz þa kurr mikill i lidinu. þui næst brazt su ætlan sem aadr var sett vm atloguna þuiat þeir reru eigi nordr er vpp skylldu ganga vid Gylianda. Hakon konungr sneri þa aftr til skipa sinna. Hakon konungr vngi var þa þar ok let konungr hann fara a skutu þa er skiotuz var er Kufinhetta het ok med honum marga goda menn Vilhialm kapalin sinn Jngimund Kolbeinssun Andres keft Andres[1] musa. hann let ok .ij. skutur adrar eftir vera med vnga konungi ok bad þa roa fyrir vestan Hofudey ok liggia þar sem leyniligaz ok hafa niosn i hofdanum vppi aa eyinni at sia þau tiþendi er geraz i bænum. ok ef gud hefir sua fyrir ætlat segir Hakon konungr at oss bresti at bordi ok verdi þer varir þess til sannz at ver faaim nockurn vsigr þa dueliz ecki her. roit vt or firdinum ok stundit ecki aa Vikueria lettid eigi fyrr enn þer komit til Biorgyniar huat raadi sem gud leggr þa fyrir ydr. Hakon konungr taladi morgum fogrum ordum fyrir vnga konungi aadr þeir skildu. Eftir þat geck Hakon konungr aa lettiskip ok þat lid er honum fylgdi ok reri fyrir sunnan eyiarnar ok lagdi at vid Eikabergsstod sem aadr var ætlat. med honum sneri Knutr jarl. geck konungr vpp med þui lidi er honum fylgdi. ok aadr þeir kæmi i syn vid bæinn taladi konungr fyrir lidinu ok hafdi slikann haatt aa sem Suerrir konungr var vanr at hafa aadr hann berdizt. hann hof sua taulu sina.

## Hakon konungr taladi fyrir herinum.

199. Flestir munu heyrt hafa getid ok morgum mun kunnigt vera vm skipti ockur Skula hertuga. hafa þau verit morg ok ymislig sum algod summ til medallags. mun her þo vera sem vidazst er at sialldan velldr einn ef .ij. deila. nu ofan aa alla þa luti sem fram hafa farit ockar i millum þa let hann gefa ser konungsnafn at vsogdum gridum sundr i milli vaar. sem alldri eru dæmi til at gert hafi verit fyrr i Noregi. siþan sendi hann menn a alla vega fra ser bædi nordr ok sudr ok aa land vpp ok let drepa eidsuara ok suerdtakara beggia ockarra huar sem staddir voru ok niddiz a þeim er iafngiarna villdu honum truliga þiona sem oss ok saklausir voru ok ser vissu enkis vaan nema gods eina sua at eigi helldu þeim kirkiur helldr enn fios. ok enn ofan aa þetta illt gerdi hann sudr at oss .xiiij. skutur at laata drepa oss edr

[1]) r. Petr

inni brenna ok sonu vôra ef gud hefdi þat eigi bannat honum. nu hefir hann feingit sua [717] mikinn framgang siþan at varla finnaz dæmi til at nockurr madr hafi þuilikann feingit med iafnmiklum rangindum allra hellz eftir fund þann er var aa Laaku milli hans ok varra manna. fengu ver þar mannskada þuiat þar fellu margir godir dreingir þeir sem frændr ok vinir munu seint bætr bida. nu bidium ver þess alla menn þa sem her eru komnir at þer halldit einyrd yduarri ok manndomi vid oss ok minniz nu aa frænda laat ok fiaar ok allann þann skada er Varbelgir hafa gert oss. ok sua segir mer hugr vm ok þess væntum ver af gudi at nu megi nockut at skapazst i vaarum skiptum. synit nu huortueggiu i ydrum atferdum huers þer eigit at hefna ok huersu rangliga aa oss er geingit edr huersu einardliga at ver ættim at veria frelsi vart ok fe. minniz ok þess þo at Skuli hertogi hafi goda dreingi med ser þa hofum ver ok et bezsta mannval er til er i landinu ok er þui meiri vanvirding at vorir vvinir fai nockurn bug aa oss edr ver faaim nockura hnecking af þeim þar er ver eigum at vera yfirmenn þeirra i ollum stodum. Her eftir huatti hann lidit ok sagdi þeim dæmisogu þa er Suerrir konungr var vanr at hafa. Karl spurdi son sinn. huersu muntu duga ef þu kemr i orrosto ok veitz þu vist at þar skalltu deyia. Karlson suarar. huat mun þa tia annat enn beriaz sem frækligaz ok falla med sæmd. Nu væri sua segir karl at þu vissir vist at þu skylldir brott komaz. Hann suarar. mundi þa eigi hofudnaudsyn at duga sem dreingiligaz. Nu megum ver sia segir konungr at þessir .ij. eru fyrir hendi ok engi er til enn þridi. Siþan sagdi hann þeim huersu þeir skylldu fara med vopnum sinum þa er þeir kæmi til orrosto ok sua at þeir gætti sem bezst at þeir kendiz sialfir ok berdiz eigi ok hafit þetta aakall sem Birkibeinar eru vanir ok ens heilaga Olafs konungs menn. fram Cristzmenn ok Crossmenn.

### Capitulum.

200. Enn þa er Hakon konungr kom fram a breckuna i syn vid bæinn þa tok at lysa. fengu þeir skilit at allt var tuist ok hliott i bænum. þa mællti konungr. þat ottumz ek nu at Varbelgium mune hafa komit niosn vm ferdir vaarar ok se þeir nu i brottu. þui næst rendu skip vndan Hofudey þau er at bryggium skylldi leggia ok iafnskiott var ringt herkluckunni. þottiz konungr þa vita at Varbelgir mundu i bænum. þui næst sa þeir hlaup mikil i bænum ok hark. Varbelgir suafu i ymsum stodum enn er þeir heyrdu herklockuna lupu þeir vpp ok stefndu i ymsa stadi ok flestir i konungsgard þar sem hertuginn suaf. Ok er

honum var sagt at vfridr var kominn klæddiz hann skiott ok vapnadiz ok stefndi vpp eftir stræti til Halluardz kirkiugardz. kom þar til hans mart manna. var þa vm talat huat vfridi vera mundi. sogdu flestir ath vera mundi Knutr jarl ok lendir menn ok var þat raads tekit at þeir stefndu vpp a Maurtustocka. kom þar þa allt lid þeirra. villdi hertuginn þar fylkia ok taka i mot Birkibeinum. Aarni rufa bar merki hertugans ok sagdi at þat var skamm at laata Knut jarl taka klædi þeirra ok hesta i bænum. skipti þa hertuginn lidinu ok skipadi Olaf af Vigdeild ok nockura sueitarhofþingia med honum aa et vestra strætid enn hertuginn ok hans menn sneru ofan i moti Halluardz kirkiugardi. hann sendi Halluard stod frænda Orms byskups ok marga menn med honum at taka af Geitabruna at engir mætti þar yfir komaz.

## Fra Birkibeinum ok konungi.

201. Hakon konungr var aa breckunni fyrir ofan bęinn ok Birkibeinar saa at lidit var a Mortustockum. foru þeir þa mikinn. þorsteinn heimnes bar merki konungs spakr madr ok vel sidadr. hann hafdi leingi þionat Hakoni konungi ok iafnan vel reynz. Konungr bad hann eigi fara sua hart þuiat þeim vinz þat eigi er minz eru færir i herinum. þa var sua fram komit aari at pascha aptann var sumardagr enn fyrsti enn þetta var laugardaginn i paschaviku. var þa allr þeli or iordu enn sua var blautt ok vátlent þar sem Birkibeinar geingu at leirinn tok til knees edr meirr. vard þeim þui þunggeingt at annarr fotr sock fyrr enn odrum var vpp stigit. ok er þeir komu at breckunni lupu menn i mot þeim ok sogdu at af var bruin. þorsteinn let þat raad at snua vpp eftir vollum ok sua til bruar er liggr af Ryginabergi. konungr quad ecki þat raad. Viku þeir þa aftr til bruar ok voru Varbelgir þa at at taka af bruna ok þau log er næst voru bænum ok rucku þegar i brott er Birkibeinar komu at ok maattu vel .x. menn hafa varit sua at engi kæmiz yfir. laagu þa yfir .ij. aasar ok vard þar yfir at ganga ef komaz skylldi. konungr nefndi til .xi. menn at ganga fyrir merkinu. siþan geck þorsteinn med merkit ok maatti eigi odruvis ganga enn stydia sik med spiotzoddi vid annan aasinn er madr geck eftir odrum. ok þa er þeir komu yfir stodu þeir i milli Eyrastrætis ok Nichulas kirkiu. ok þa er konungr kom yfir var eigi meira lid yfir komit enn fyllti i mot strætinu. þorsteinn bad þa ganga sem skiotaz sua at þeir kæmi eigi fyrr i mot Varbelgium er af skipunum geingu. Konungi þotti eigi þat raad at þeir geingi sua faamennir ok kuaz vilia bida lids sins. kom þa vonum bradara lidit eftir þeim. enn er konungr saa þat geingu þeir

vpp eftir stræti. ok er þeir komu gegnt gardi Guthorms Erlendzsunar þa kom Guthormr þar i mot þeim okulskodr ok hafdi þar kapu yfir ser ok mællti. gud gæti yduar herra. miok fari þer nu haaskasamliga ok sua famennir þuiat Varbelgir eru her[1] uppi yfir ydr med fylktu lidi ok hafa einhugsat i mot at taka. villdi gud at ek væri nu iafnvel færr sem þa er ek fylgdi ydr i Vermalandi. Konungr suarar. haf þock fyrir þeim goduilia ok gack inn aftr. braatt mun koma lid til vaar aa alla vega. Ok er þeir hofdu skamt geingit kom Sigurdr sun Hakonar konungs i mot þeim ok hafdi farit nordan eftir þeim dagfari ok naattfari. var konungi mikil þauck aa hans komu. fylgdi hann þa konungi med sueit sina. siþan geingu þeir fram eftir stræti.

## Orosta med konungi ok Varbelgium.

202. Vppi vid gard Asbiarnar koprs var fyrir Aarni rufa med merki hertugans ok allr þori ens bezsta lids Varbelgia ok hofdu þar fylkt. ok aadr enn saman kæmi fylkingar bad konungr [713] ludrsueininn blasa. hann bles tysuar ok helldr laagt. (Konungr mællti). betr blestu bickiuhuelprinn a Biorgyniar bryggium er þu tokt silfr af monnum. Siþan bles hann miklu betr. þa het hann aa menn sina at fram skylldu ganga vndir merkit. geck hann þa sialfr allra manna fremst sem Sturla quad.

Geck allualldr
vnd yngis hialm
meginmilldr
merkium fyrri
enn gullstett
gnæfa knaattu
visa ve
af vala folki.

Enn þar fram
fylgia knaatti
ræsis hird
romu stærri
helldar fuss
aa hlidar badar
i gagnfaur
greyptra vapna.

Varbelgir sumir voru vpp i kirkiugardinum. skorti þar eigi griothrid ok letu þat fast gaanga. Sua segir Olafr huitskaalld.

Hallgeislat flo huatt i Oslu
hilldar tungl med skata milldum
ræstir þrungu iofrar æzstum
iafnfalldit lid saman halldit.

braundum skyfduzst blodgar randir
bleikir fellu menn aa velli
hlifar lauss vaa gramr med gæfu
gylldar sungu hiallta tungur.

Eftir þetta var fram borit merki Hakonar konungs. brast þa þegar flotti i lidi Varbelgia þui er fyrir vtan stod kirkiugardinn. enn (er) þeir Varbelgir er voru i kirkiugardinum sa þetta ok sua þeir er vppi voru aa

[1]) er *Cd.*

at þeirra menn flydu þa giordu þeir ena snorpuzstu rijd af grioti ok sua flo sem þyckuaz maatti. Aarni rufa var þar inni fyrir ok Vilhialmr or Torgum lendr madr ok mestr þori lids Varbelgia enn voru vpp fyrir austan kirkiugardinn.

### Bardagi.

203. þa er Aarni rufa merkismadr hertugans sneri inn i kirkiugardinn þa sottu þar at margir Birkibeinar. lupu sumir inn i kirkiugardinn Juarr dyri þorleifr bôsi. enn þui at ærit var griot inni laust þa baaru Varbelgir sua griotid ok skotin aa Birkibeina at þeir rucku vt aftr. var þa allhord orrosta. sottu Birkibeinar allfast at enn Varbelgir vorduz vel ok dreingiliga bædi med grioti ok skotum. sem Sturla quad.

Ok inndrott
ellda kyndi
bauduar tyrs
vid bauga renni.

sua at eggfaains
eisur stucku
vm ilflet
aurnis spialla.

Ok þa er Alfr af Leifastodum sa at þeir mundi verda inni byrgdir þa leitadi hann vt vm gardzhlidit ok bardiz afburdar vel. hann komz allt ofan til aarinnar ok margir lupu eftir honum. Alfr fell loks i aanni. ok er þat flestra manna sogn at su hafi ein verit dreingiliguzst vorn er hann vardiz aadr hann fell. Hakon konungr sneri þa vt eftir Varbelgium þeim er flydu fyrir austan kirkiugardinn ok i þui bili fell sa madr af Varbelgium er Eysteinn sundrammr het ok enn fleiri Varbelgir. einn madr fell af Birkibeinum enn nockurir vrdu saarir. A stræti þui er hertuginn hafdi skipat Olafi af Vigdeilld þa quomu þar Birkibeinar i mot honum þeir er vpp geingu af skipum. var þar allsnorp orrosta. Voru margir Varbelgir i kastala byskups ok baaru stort griot ofan aa Birkibeina. var þat miok mannhætt at sækia at þeim Varbelgium er aa strætinu voru enn gæta sin þo fyrir þeim er i kastalanum voru. ok þui vard þar allhaurd orrosta ok lauk med þui at Varbelgir sneru vndan ok inn i kirkiugardinn enn Olafr af Vigdeilld med sueit sinni sneru vpp fyrir nordan kirkiugardinn. enn Arnfinnr þiofssun stallari hertuga veik nordan til Nunnusetrs ok liop þar i kirkiu. Hakon konungr sneri vpp fyrir austan kirkiugardinn med sitt merki. voru þar fyrir margir Varbelgir. þar var sa madr fyrir er Grimr het a Sandi ok fioldi mannz. voru sumir a kirkiugardinum enn sumir aa husi nockuru ok hofdu þar borit at ser griot ok skot ok baaru huartueggia aa Birkibeina sem aakafaz. ok var þar saa madr af Birkibeinum skotinn i kneit med kesiu er Biarni hestr het ok af þui saari letz hann. hann var brodursun Karls suanga ok

Sigurdar skiaalga enn bezsta mannzefni. þar vrdu margir Birkibeinar saarir ok flestir fengu nockut. sem Sturla segir.

Flugu hræleiptr
ath cararleiki
geigurliga
gautz himni af.
enn randaalfr
rifandi for
boduar sky
blods elldunni.

## Af sokn konungs.

204. þa er Hakon konungr kom iafnfram korsbrædragordum i ofanverdar geilarnar þa var þar hertuginn fyrir aa hesti ok miok mart manna med honum. ok er þeir mætaz vard nockurr stadr aa sua at huorigir redu aa adra. stodu Birkibeinar i veisu nockurri ok þo nedar meirr. enn Varbelgir voru aa bruinni ok strætinu ok var þar nockuru þurrara. kirkiugardzhlidit var at baki Birkibeinum ok var þat fullt af Varbelgium. vndir merki Hakonar konungs voru nær .xx. menn. var hann þa miok haaskasamliga kominn er hertuginn var fyrir ofan med marga menn enn fullt gardzhlidit at baki honum af Varbelgium. Gerdi gud þa mikla miskunn vid konunginn er huarigir redu aa hann. þuiat ef adrir huorir hefdi aa raadit þa væri hann skiott sigradr at likendum ok þeir menn sem med honum voru. Hakon konungr visadi sinum monnum i mot kirkiugardzlidinu enn hann sialfr ok merkit sneri ypp i moti hertuga. var þa mikill vapnaburdr vid kirkiugardzlidit af grioti ok skotum enn Birkibeinar baaru inn i kirkiugardinn enn Varbelgir vt i moti. Sua quad Olafr huitaskalld.

Snaurp bitu iarn sem ijsmaul yrpi
odastraumr med heitu blodi
herstefnir raud hamri ofna
hilldar serki framarr merkium.
grimmum stod aa Gaundlar himni
grar regnbogi Hnikars þegna
hardar leystu fylking fyrda
faarelldingar meginsaara.

Varbelgir raaku þa aftr kirkiuhurdina er þeir þoldu eigi vopnaburdinn.

## Fra Skula.

205. Skuli hertugi var aa hesti ok er hann saa þessi tiþendi het (hann) aa sina menn at þeir skylldu fram sækia. Sa madr stod hia honum er Soni sikr het. hann mællti til hertuga. herra her er nu merki Hakonar konungs ok her er ok sialfr konungrinn. Hertuginn suarar. eigi skal fram at sidr. ok slo hestinn med sporum. Soni tok i taumana ok hellt aftr hestinum. Birkibeinar skutu þa at hertuganum nockurum spiotum ok flugu nær honum. Sua quad Sturla.

Var laushendr
lofda styrir
aa blodorms
beniu skapti.
enn halldsamr
at heriar leiki
aa geirtyrs
grenni maalu.

Ok braatt eftir þetta sneri hertuginn vndan ok allir þeir er honum fylgdu. Sua segir Olafr huitskaalld.

Alldri baurduzst afli stærdir
ognsueipinna blodgum greipum
hird sotti þar hress at gardi
herrar .ij. af dreingskap meira.
vndan reid sa er fremstr var fundinn
fyrda gramr at iofnum burdum
Suerris ætt feck sigr at rettu
sua villdi gud framidr milldi.

J þessu bili safnadiz lidit til konungsins. þa bad konungr þorstein snua eftir hertuganum med merkit ok flesta alla menn þa er þar voru. enn hann quaz eigi vilia skiliaz vid gardzhlidit fyrr enn þar væri sua skipat at eigi væri þadan baksletta vaan. Hertuginn sneri vpp eftir gautum. kom þar i mot honum mart hans manna ok sneriz .aa flotta med honum. Vaanum braadara kom Gunnar konungs frændi med sueit sina til konungs [719] ok skipudu þeir þa menn til at sækia at gardzhlidinu ok letu menn fara vpp aa hus med bogum at reka þa ofan er baaru vopn aa Birkibeina. J þui kom Gautr Jonssun med sueit sina vpp undir merkit ok þa kom ofan þorsteinn ok Aasolfr strykr ok sagdi at þorsteinn var miok famennr med merkinu enn lid safnadiz miok til hertugans. Konungr sendi Gaut Jonssun med sueit sina vpp vndir merkit ok mart annarra manna. enn hann sialfr skipadi monnum til atsoknar at gardzhlidinu. Hertoginn hafdi snuit vpp a Maurtustocka enn þorsteinn heimnes eftir honum med þui lidi er þa var med honum vndir merkinu. fellu þa menn af Varbelgium her ok huar i gautunni. þar fell Algauti enn Veseti brodir hans vard saarr. þeir komu baadir senn miok vpp a gauturnar Gautr Jonssun ok Olafr af Vigdeilld siþan hann hafdi flyit af enu vestra strætinu. aatti Olafr þa engann annan til enn snua inn i Halluardzkirkiu ok hans menn enn þo fellu nockurir fyrir vtan kirkiugard. Gautr spurdi ef Olafr villdi grid. hann quaz giarna vilia. Gautr bad hann vera i kirkiunni ok treysta eigi meirr þessum gridum. Skuli hertugi var a Maurtustockum ok kom þar mart manna til hans. ætladi hann þa til vidtoku. ok er hann sa at Gautr kom vndir merkit ok þorsteini safnadiz lid þa sneri hann aa land vpp med þui lidi sem þa var med honum. þar voru þessir lendir menn hans. Baardr vargr Baardr bratti Erlingr liodhorn Veseti litli. Hertuginn reid vpp til Hofs til Amunda laugmannz ok aat þar maaltid.

## Atsokn Birkibeina.

206. Medan hertuginn ok Birkibeinar aattuz vid a Maurtustockum þa kom sua lid af skipum at Birkibeinar kringdu vm allann kirkiugardinn sua at Varbelgium var eingi kostr vt at komaz enn þeir hofdu sua skipad fyrir innan at huergi maatti inn komaz. Enn er Hakon konungr hafdi skipat monnum til atsoknar sua sem hann villdi þa geck hann inn i korsbrædragard ok þadan i Predicaragard. enn milli Olafskirkiu ok korsbrædragardz var sterkr skidgardr nockurr enn engi steinmurr. let konungr þa bera aa suord ok stor reip ok var nidr felldr skidgardrinn. ok þa er gardrinn tok at falla vard op mikit i lidi Birkibeina. brestr vard haar ok mikit brak þa er gardrinn fell. enn er Varbelgir heyrdu þat þa ottuduz þeir ok stucku fra ollum gardzlidum. naadu þa Birkibeinar inngaungu ok fell þa mestr þori Varbelgia. sem Sturla quad.

þar baugsegl
i brimis vindi
branda byrr
blaasa knaatti.
enn hrælaugr
af hiarar bordum
geigrligr
glymiandi fell.

Þa vard mikill vapnaburdr ok vrdu Varbelgir miok saarir enn fioldi fell. sem Sturla quad.

Reid blodugr
aa berum knerri
aurfar aas
iarni slunginn
enn gandreid
grænna skiallda
Suðlnis vegg
sleit aa lofti.
Ok þar fell
feigum hausi
giallar manz
greypri hendi
Fenris nipt
fylkis dolga
i hiorgoll
heiptar blodi.

Vilhialmr or Torgum var sudr fyrir gardzlidi enn Juar dyri kalladi aa hann ok spyrr ef hann vill grid. Hann suarar. ek veit enn eigi huarr ockarr þarf annars grida. ok slo Juar med steini mikit hogg a kinnina. Þa mællti Juarr. med þui at þu vill kiosa et verra þa skalltu þat ok hafa. Var Vilhialmr þa ok felldr. enn þui villdi hann eigi grid þiggia at af honum var aadr hoggin hondin. Margir Birkibeinar kendu þar kunningia sina ok felaga. ok fengu þo sumir eigi grid þott bædi enn sumir villdu eigi þiggia þott bodin væri. Sneruz þa Varbelgir til sudrdyra ok komu sua margir senn at eigi komuz vt vm hlidit ok fellu þar Varbelgir sua þyckt at .iij. edr .iiij. laagu a þycktina. Vard þa mikill sigr sem Sturla quad.

Sigrhliod
syngua knaattu
hardla huell
huorsum munni
i herfaur
haufudsmanna
Haugna mans
hlyrna disir.

J þenna tima naadu þeir inngaungu Knutr jarl ok Birkibeinar þeir sem voru fyrir vestan kirkiuna. enn or kastala byskups þar sem Varbelgir voru i þa voru gaung vpp i kirkiu. baaru Birkibeinar þar aa suord ok felldu þau nidr ok vrdu þar vndir sumir Varbelgir er hleypa villdu til kirkiu. þar var sa madr er Hakon ludr het hirdmadr hertugans ok enn fleiri ok letuz allir.

## Skuli jarl flydi.

207. Þa er konungr saa at allir Varbelgir voru i kirkiu komnir þeir sem vpp stodu. Aarni rufa komz eigi i kirkiu ok feck þo grid. þa sneri konungr or kirkiugardinum ok liop aa hest einn suartann. menn leitudu þa at hestum enn sumir runnu med konungi. Reid konungr þa vpp or bænum ok var gyrdr suerdi enn hann hafdi blodugt suerd i hendi er Varbelgir hofdu aatt. ok er hann kom vpp aa gauturnar mundi hann hafa .ccc. manna. siþan reid hann haalfa raust ok vrdu engir hestar aa veg þeirra enn menn fundu þeir nockura ok voru aullum grid gefin. Konungr nam stad ok mællti sua. ef Skuli maagr minn hefir her vndan ridit þa mun hann hafa sua fyrir hugat at oss mun verda ecki gott til hesta enn þessir geraz miok modir er ver ridum. eru þeir ok sua vndan komnir at ver faaum huarki af þeim vitand ne syn. enn þer vissut at Varbelgir voru komnir i kirkiu i bænum ok er ek ræddr vm huart vorir menn laata kirkiu hallda þeim er þeir þickiaz mestar sakir vid eiga. enn ek vil fyrir eingann mun laata kirkiufridinn briota. munu ver snua aptr til beiar ok gæta sigrs vars. fara enn skipti ockur maaga sem gud vill. Eftir þat sneri konungr aftr. Enn Varbelgir hofdu borit fyrir kirkiuhurdir sua at eigi matti vpp briota enn Birkibeinar baaru vtan at vidu sua at eigi maatti vt komaz. Konungr geck fyst til byskups ok tok lausn af honum ok hans menn. eftir þat let byskup matbua honum ok snæddi hann þar ok drack vin rijd. þeir saatu baadir samt at mat þorsteinn heimnes ok Aarni rufa. var konungr þa sua vel til Aarna sem hann hefdi honum iafnan fylgt. ok sua grimmr sem Hakon konungr hafdi verit vm daginn at fyrirkoma sinum ovinum þa var ok eigi hitt minnr fra moti huersu miskunsamr hann var siþan i gridagiofum vid alla þa sem aa hans valld geingu. Vm daginn var kannadr valrinn .lxx. manna laagu fyrir Halluardzkirkiudyrum ok þat

hugdu menn ath fallit mundu hafa aukin .ccc. manna ok margir godir dreingir or þrændalogum Baardr af Gudreksstodum son þorsteins kugads Petr systurson Juars Vilhialmr or Torgum Grimr af Sandi ok margir adrir. Sunnudaginn aatti Hakon konungr þing i Cristzkirkiugardi ok lysti hann þa þui at allir Varbelgir skylldu grid hafa þeir er i kirkiu væri. geingu menn þa i kirkiu ok leitadi huerr eftir sinum hugdar [720] manni. geingu þeir þa (til) grida ok var þeim skipt i sueitir eftir þui sem konungr sa fyrir. var eftir þat skipt herfangi þui ollu er aatt hofdu Varbelgir eftir sidueniu lidsmanna ok hofþingia.

### Fra Hakoni konungi ok hans monnum.

208. Hakon konungr dualdiz i Oslu vm rijd. ok .vij. nottum eftir bardagann sendi Hakon konungr lid nordr i land aa skutum. var þar fyrir Asolfr af Austraatt Juar Petrssun Arni blackr Klemet af Holmi Olafr kidlingsmuli Baardr Grosun. hofdu þeir .xv. skip. skylldu þeir fara allt nordr til þrondheims ok vita huer tiþendi þar væri. enn konungr dualdiz eftir i Vikinni at erendum sinum. Hakon konungr hafdi feingit syslu a Raumariki Gregorio syni herra Andres enn .ij. vetrum fyrir vfridinn hafdi Gregorius gefit vpp sysluna ok for sudr til Danmerkr ok sueinar hans ok var med Valldimar konungi vel virdr. Hakoni konungi þotti þessi ferd nockud vndarlig er Gregorius hafdi ecki tekit orlof af honum. enn vm vetrinn er vfridrinn hofz ok Skuli hafdi laatid gefa ser konungsnafn þa sendi Hakon konungr til Danmerkr Biarna Moysessun til motz vid Gregorium ok bad hann fara aptr til Noregs ok het honum sæmdum eftir þui sem trunadr hans reyndiz til. for Gregorius þa aftr. ok þegar hann kom i Vikina afladi hann ser sueitar ok kom til Birkibeina fyrir bardagann aa Laaku. hann var i Oslu med konungi ok eftir þetta lagdi konungr enar mestu mætur a Gregorium ok feck honum Borgarsyslu. Gregorius var vitr madr ok vel mentr i alla stadi. Ok er aa leid vorit for Hakon konungr or Vikinni ok kom viku fyrir huitsunnudag. Vppstigningardag laa hann i Salbiarnarsundi enn vm sumarit sat hann i Biorgyn.

### Fra Skula.

209. Nv er at segia fra Skula hertuga at hann var med Amunda logmanni sem fyrr greinir ok reid þadan til Eidsvallar ok allt vpp til Miolga vm kuelldit. Sunnudaginn for hann vpp aa Heidmork. hann for vt i Eyna helgu ok var þar Petr sun hans. dualdiz hann þar litla rijd aadr hann for til landz ok er (hann) kom til Vllinshofs hafdi (hann) nær

.c. manna. aatti hann tal vid lid sitt huert raad vpp skylldi taka. Veseti litli ok þorgils slydra baadu[1] hertugann fara i Eystridali ok þadan i Vermaland ok austr aa Markir i atthaga þeirra ok sogdu at hann mundi eigi þar vera meirr enn haalfann manad aadr enn þeir skylldu til hans hafa komit eigi minna lidi enn hann hafdi fyrir (bardagann) i Oslu. Erlingr liodhorn ok Baardr bratti ok þeir menn er nordan voru or landi sogdu at þeim var ecki hent at rekazst vm fioll ok skoga ok baadu þeir hann fara nordr i þrondheim til vina sinna ok rada þar til skipa ok quat þat Nordmanna haatt at fara a skipum ef þeir skulu ofrid hallda. ok var þat raad tekit at snua nordr enn þorgils ok Veseti skilduz fra ok foru austr i atthaga sinn med sinar sueitir. Hertuginn sneri þa nordr i Dali ok hafdi niutigi manna. for hann þar til er hann kom i Hringabu. þa spurdu þeir at Birkibeinar foru fyrir þeim Augmundr krækidanz Oddr Eirekssun Eirikr toppr. þeir saatu vid bru. Hertuginn dualdiz aa litlum bæ skamt fra brunni enn sueitungar hans foru til bruar ok letu kueda vid ludra. ok þegar er blaasit var reid hertuginn at brunni enn Birkibeinar hugdu lidit meira enn var ok stodu þui eigi allnær. geingu Varbelgir þa yfir bruna. Soni sikr for med merkit. þar for ok Guthormr Jonadalr Hauardr dyndill Eysteinn orri Hakon Baardarsun Hallkell a Ryginni Hauardr kollr ok enn fleiri adrir. ok er þeir komu yfir bruna mættu þeir Birkibeinum ok fellu þar .ij. hirdmenn Hakonar konungs Juarr hialmhauss ok Biorn af Hofi. Hertuginn reid yfir bruna huitum hesti er het Fotr. hertuginn hafdi goda bryniu ok sterka treyiu. Birkibeinar hopudu vpp i fiallzlidina ok skipudu til meirr enn .xx. menn at skiota at hertuganum ok var sem skufadr væri skiolldr hans af aurum. hestrinn hafdi .iiij. broddskot sua at oll stodu vppi a reyrbondum. hertuginn feck ok broddhaugg i gegnum fotlegginn vid oklat. eftir (þat) sottu Varbelgir yfir bruna enn Birkibeinar letu hefiaz vndan. Asuardr harmr einn af Varbelgium villdi fletta Juar hialmhaus. ok er hann var at kom til Aarni langi er bar merki Petrs hertugasunar ok hugdi Juar minnr saarann enn hann var ok hio til hans ok kom aa hondina Aasuardi sua at nær tok af. þeir fluttu hann med ser nordr til Steigar ok ridu eftir þat leid sina. Var hertuga fenginn hestr annarr er Gauzstafr het. þeir foru nordr til þrondheims. hertuginn sendi fyrir ser af fiallinu Sigurd hijt ok Brusa med nockura menn. þeir drapu hirdmann Hakonar konungs i Vppdal er Halldor het. Birkibeinar foru eftir þeim nordr til fiallz. þa toku þeir af lifi Aasuard er Varbelgir hofdu eftir laatid aa Steig. Skuli hertugi var vm naatt aa

[1]) baaru *Cd.*

Vangi i Vppdal ok for þadan til Nidaross. ok er hann kom þar þottiz hann finna ok vinir hans at miok var snuit skaplyndi þrænda til hans. bar þat fyst til at þeir þottuz feingit hafa mannalaat mikit i Oslu. hitt annat at þa stund er Hakon konungr hafdi setid i þrondheimi hofdu þeir heyrt margar taulur gagnstadligar þeim er hertugamenn hofdu haft a Eyraþingi vm haustid ok virdiz þeim konungs rædur sannligri. þat var enn til at þrændir þottuz enga vppreist sia hertuga i mot konungi ok villdu þeir af þui engann vfrid hallda med hertuga i mot konungi. Hertuginn sat vm vorit i Nidarosi ok hellt bord i Breidastofu ok var leingstum i herbergium sinum ok aatti faatt vid flesta menn. var þat ok flestra manna skaplyndi at eiga faatt vid hann. Hertuginn var .iij. nætr i Krossgilldi ok helldr faalatr. þa kærdu vinir hans at hann færi vuarliga ok gætti sin litt. Hertuginn sagdi at eigi mundi Birkibeinar a skamri stundu fara milli Vikr ok þrondheims. þa var þui suarat at Hakon konungr hefdi skemmr farit vm vorit enn likligt þotti vera ok mætti enn verda at sua yrdi. ok eftir þat sa menn skutu eina fara a fiordinn ok hugdu menn at vera mundi niosn.

## Fra Skula ok Petri syni hans.

210. [721] Maanadags morgininn i gagndogum quomu þeir Aasolfr med .xv. skipum til Nidaros miok aa vuart. lagdi Clemet af Holmi at yfir vid Bacha med .ij. skutur enn þeir Asolfr logdu til bæiarins ollu lidinu. Skuli hertugi vaknadi vid er hann heyrdi herklockuna. liop hann þegar vpp ok klæddiz ok tok vapn sin ok þeir menn adrir er þar voru i gardinum. sendi hann þa sueina sina vt i bæinn ok bad at Varbelgir ok annat folk skylldi sækia vpp til hans i konungsgard ok skylldi þeir þar moti taka Birkibeinum. Enn er sueinar komu aptr hofdu þeir enga menn feingit .ij. sinnum gerdi hann menn vt i bæinn ok feckz ecki af monnum. þeir er sendir voru sogdu sua at allir menn lupu i kirkiur. Hertuginn spurdi huat til raads væri. bru var engi aa aanni Nid. Menn sogdu at til var at flota skutu er stod i konungsgardi ok flytiaz a henni yfir aana ok leita siþan at forda ser til skogar ef hann villdi eigi i Kristzkirkiu. Var þa flotad skutunni. Petr hertuga(sun) var fyrir ofan konungsgard. let hertuginn kalla þa ofan til skutunnar ok þagat foru sumir sueitungar Petrs ok flutluz yfir aana med hertuganum enn Petr sneri inn til Cristzkirkiu. Baardr bratti liop ok i Cristzkirkiu þuiat hann þottiz þungfærr til gaungu. hertuginn geck aa land yfir vid Skellingar-hellu. bad hann þa at þeir skylldu sækia vpp til Erlendzhaugs ok hyggia þadan at ef þeir mætti nockut slag gefa þeim er vpp hofdu geingit vid

Backa. enn menn gerdu eingann rom at þui ok vard ecki raad annat tekit enn þeir sottu þar vpp a breckurnar ok letu siþan skoginn gæta sin.

## Drap Petrs.

211. Petr hertugasun var skamma stund i Cristzkirkiu for þadan til Predicara. budu þeir honum aa naadir sinar ok quaduz gæta hans skylldu. enn Petr bar eigi traust til þess ok for þadan til byskupsgardz ok .iiij. sueinar med honum. þeir fengu þar baat einn ok flutluz yfir aana ok foru þar til er þeir komu til efra Helgisetrs. for Petr þar inn i hus eitt er konur voru i bakstri. hann feck ser þar vaand klædi ok duldiz. Birkibeinar komu i bæinn. voru þa Varbelgir flestir komnir i kirkiu þeir sem innan bæiar voru. Baardr vargr hafdi laupit i Cristzkirkiu. Birkibeinar hofdu niosn af ferd Petrs ok flutluz yfir aana til efra Helgisetrs ok sendu i bakstrhusit mann er Jonn kor het. ok er hann kom vt sagdi hann at Petr var þar inni. eftir þat leiddu þeir hann vt ok drapu hann þegar. Hann hafdi verit ecki litill madr vexti ok þyckr. meirr i moduræll sina yfirsyndar. hann var vel mentr madr klerkr godr ok trumadr. enn ecki þotti Varbelgium hann diarfr til vfridar sem hans forelldri hafdi verit. Lik Petrs var borit til graftar. Eftir þat foru Birkibeinar aftr til bæiar. voru þa gerfar ordsendingar alla vega i heradit huat til hertuga spurdiz edr hans manna.

## Skuli var a skoginum.

212. Skuli hertugi var nu aa skoginum ok hellt þadan frettum til Helgisetrs. ok annan veg feck hann þa þær frettir at menn helldu vaurdu vmhuerfis skoginn sua at hann skylldi eigi aa brott komaz sua at Birkibeinar yrdi eigi varir vid. toku menn þaa at drifa brott fra honum þeir er honum hofdu fylgt. sua ok þeir sem hann sendi i brott komu engir aftr edr fair. Erlingr liodhorn for inn i Tautru ok tok þar vid kufli. Hertuginn var .ij. nætr aa skoginum. enn midvikudaginn fyrir vppstigningardag þa er canokar geingu med crossum voru Skula hertuga færdar korkapur or klaustrinu ok geck hann sua inn i klaustrid med brædrum. for hertuginn vpp i stopulinn ok hans menn. siþan var þeim gefit at snæda ok drecka. siþan var giorr huila hans ok ætladi hann at leggiaz til suefns þui at hann var miok syfiadr.

## Fall Skula.

213. Birkibeinar fengu niosn af at menn hofdu geingit i korkaapum af skoginum til Helgisetrs ok var þess til getid at þar mundi verit hafa

Skuli hertugi. lupu þeir þa þegar til vapna ok fengu ser skip ok foru yfir aana. Enn er þessa vard varr Sigurdr erchibyskup for hann vpp til Helgisetrs ok mart kennimanna med honum ok beiarmenn ok kaupmenn. þegar sem Birkibeinar sottu at klaustrinu skutu hertugans menn aa þa sem akafaz maattu þeir. ok er erchibyskup kom til bannadi hann Birkibeinum atgaungu (at) klaustrinu edr gera þar nockurn vfrid. enn Birkibeinar sogdu at klaustrid var sua skipat at naudsyn var til at gera þar vfrid huart sem þætti vel edr illa. Erchibyskup baud þa feit fyrir hertuga at hann skylldi fara i gridum aa fund Hakonar konungs. enn þeir villdu eigi þat nema hann legdi stad ins heilaga Olafs konungs at vedi ef þat endiz eigi af hertuga sem hann heti. sumir voru sua akafir at ecki gafu gaum at huat erchibyskup sagdi ok lupu til ok logdu elld i klaustrid enn sumir villdu sleyckua. ok sua kom at elldrinn tok at megnaz. Ok er hertuginn sa at þeir villdu brenna klaustrid ræddi hann vid sina menn at þeir skylldu vt ganga. foru þeir þa til dyranna. geck hertuginn þa vt ok hafdi buklara fyrir andliti ser. hann mællti. hauggit eigi i andlit mer þuiat þat[1] er engi sidr vid hofþingia at gera. Eftir þat baaru þeir vapn aa hertugann ok alla þa er vt geingu med honum. fell þar Skuli hertugi ok þessir menn med honum Soni sikr Eysteinn orri Aslakr dyndill Hallkell a Ryginni Hauardr kollr Brusi Aarni matiarl. meistari Bergr var særdr til olifis ok vard þo græddr. Sua quad Sturla.

En nafnfrægr
nockru siþan
inn aa reid
a Nidar backa
vid laugfaur
leggia knaatti
rausnar lid
rikr hertugi.

Ok þar geck
a Giallarbru
ræsis maagr
fyrir ridusottum
bauga bliks
er bodar fellu
ellda vers
of afarmenni.

þegar sem hertuginn var fallinn foru menn til ok villdu slauckua elldinn enn þui vard ecki a leid komit ok brann þat allt vpp.

## Likferd.

214. Lik Skula hertuga var borid a skilldi ofan til beiarins ok þar veittr vmbunadr. stod likit vppi i Nichulaas kirkiu. Vm morgininn eftir geingu þeir Asolfr ok Birkibeinar til erchibyskups ok beidduz lausnar af honum. geck þat maal ecki skiott enn þo kom þar at þeir

[1]) þar *Cd.*

voru leystir sua at þeir skylldu vera hia odrum monnum þar til er Hakon konungr væri fundinn ok vitad væri hueriu hann villdi ser af skipta vm þessi storvirki. Eftir þetta var buin likferd hertugans ok var [722] hon gior en sæmiligzsta. var hann iardadr i Cristzkirkiu fyrir sunnan þar vndir nidri sem hann hafdi laatid bua vm leg Jnga konungs brodur sins vpp i steinvegginum. stod þar yfir vppi Sigurdr erchibyskup ok allir korsbrædr ok mart annarra kennimanna ok allr bæiarlydr ok margir Birkibeinar. Aartid hertugans er enn .ix. kal. Junij. hann hafdi þa vetr[1] ens setta tigar. Skuli hertugi var miok harmdauda sinum monnum ollum þuiat hann var inn vinsælazsti af sinum monnum. hafdi hann marga luti til þess. fyrst blidu ok godar vidvistir þar med milldi ok dælleika sua at hann spardi nær enga luti vid vini sina. morgum monnum gaf hann nafnbætr edr feck god kuonfong edr kom til annars þroska þeim er til hans stundudu ok vard hann af slikum lutum miok vinsæll. Skuli hertugi gaf bæinn aa Reini faudurleifd sina til klaustrs ok let þar reisa agætt steinmusteri ok setti þar nunnuklaustr ok lagdi til storfe. margir lutir eru adrir at segia fra athaufnum hans afbragligir þott her se eigi ritadir. Skuli hertugi var helldr haarr madr ok grannvaxinn liosiarpr aa haar hærdr manna bezst rettleitr ok lioss i andlitinu eygdr forkunnar vel. allra manna var hann kurteisazstr ok hæuerskazstr. sniallr i maali ok vel taladr aa þingum. flesta luti hafdi hann þa med ser er frida skylldu godann hofþingia. ok þat mundi mællt hafa verit ef eigi (hefdi) þetta vgiptuverk yfir hann komit nu a sidazstum dogum sins lifs at eigi hefdi sa madr fædz i Noregi er betr hefdi mannadr verit þeirra sem eigi voru af sialfu langfedgatali konunganna komnir. Hertuginn aatti engann sun eftir sua at menn vissi þat med sannindum. enn þess er at vænta med guds miskunn at leingi mun Noregr prydaz af hans afkuæmum.

### Konungr fretti tiþendin.

215. Eftir þessi tiþendi er nu var frasagt vm hrid foru Birkibeinar brott or Nidarosi. þeir nordr aa Halogaland er þar aattu heima enn þeir sudr er þadan voru. Stephann Thomas maagr het sa madr er tok vid brefum Asolfs ok þeirra sem konunginum voru send. ok er Stephann kom til Biorgyniar var konungi sagt at madr var kominn nordan fra Asolfs. let konungr þa kalla Stephan i herbergi til sin. ok er hann kom þar sat konungrinn i þeirri saumu stofu ok saumo skaur sem vm vetrinn er Grimr keikan kom med sin tiþendi. Stephan bar fram brefit ok er konungr hafdi yfir lesit þa tok hann til orda. a brefi þessu sagdi hann

[1]) vitr *Cd.*

eru mikil tiþendi tuenn ok eru þat ill tiþendi er klaustrid er brent aa Helgisetri. enn þau eru onnur at Skuli maagr minn er daudr. Eftir þetta var blasit til stefnu ok sagdi konungr sialfr allri hirdinni tiþendin ok fanz monnum mikit til ok drottninginni eirna mest.

## Af konungi.

216. Hakon konungr sat i Biorgyn vm sumarit eftir þessi tiþendi ok efnadi þar til vetrsetu ok sat þar vm vetrinn. þessi var enn .iiij. vetr ok .xx. konungdoms hans. Vm vorit eftir a faustu vrdu mikil tiþendi i Danmork. þa andadiz Valldimarr konungr sun Valldimars Knutzsunar er i þann tima var einna agætazstr konungr a Nordrlondum. hann hafdi þa verit konungr i Danmork .xxx. .ix. (vetr). til rikis kom eftir hann Eirikr sun hans ok hafdi hann aadr verit .ij. vetr konungr med fedr sinum. Vm sumarit byriadi Hakon konungr ferd sina austr til Vikr. enn hann sendi nordr til þrondheims Jon tuiskafinn ok tok hann af lifi Sigurd hit. hann var Varbelgr ok hafdi ecki sætz vid konunginn. þa let Gautr Jonssun drepa Arnfinn þiofssun enn annat vaarit aadr drap Biarni Moysessun Jatgeir skaalld i Kaupmannahofn. hann var þa kominn ofan or Suiavelldi ok hafdi farit allt it eystra sem fyrr var ritad eftir þat er Gunnar konungsfrændi tok brefin af honum i Helsingialandi. Hakon konungr for austr til Vikr. ok er hann kom i Borg var þar fyrir honum Gregorius son herra Andres brodur Philippus konungs. hann bad Cecilio dottur Hakonar konungs. hann tok þessu vel. þat vard framgeingt nockuru sidarr. Hakon konungr for þadan austr i Konungahellu ok ætladi at finna Eirek Suiakonung þuiat Suiar kærdu miok aa Hakon konung er hann hafdi brent Vermaland. Eirekr konungr var þa vppi i Gautlandi ok villdi eigi finna Hakon konung. sendi hann til hans herra Birgi er þa aatti Jngibiorgu systr Eireks konungs. þa er Hakon konungr var i Konungahellu kom til hans sa madr er Matheus het sendr af Fridreki keisara med morgum agætum giofum. med honum komu vtan .v. blamenn. Hakon konungr for vm sumarit aftr til Biorgyniar ok dualdiz þar vm haustid. A þessu aari andadiz Gregorius papa. eftir hann kom Jnnocencius. þetta haust tok Gizsur þorvalldzsun af lifi Snorra Sturlusun i Reykiahollti aa Jslandi. Hakon konungr for nordr til þrondheims ok sat þar vm vetrinn. þessi var enn .v. vetr ok .xx. rikis Hakonar konungs.

## Gregorius feck Ceciliu.

217. Vm vorit kom sunnan yfir fiall Gregorius ok feck fru Ceciliu

konungsdottur. veitti konungrinn þa sæmiliga brudlaup hennar. hann for sidan sudr til Biorgyniar ok var þar vm sumarit. þat haust kom af Jslandi Vrækia Snorrasun ok hofdu þeir tekit hann Kolbeinn vngi ok Gizsur ok sent vtan. hann kom a valld Hakonar konungs ok gaf hann honum vpp reidi sina er hann hafdi farit vt i banni hans. enn þo sagdi konungr hann betr tilfallinn at deyia fyrir þa sauk enn faudr hans. ok eigi mundi hann daait hafa ef hann hefdi aa minn fund komit. Vrækia var med konungi vm vetrinn ok var hann vel til hans. þann vetr sat Hakon konungr i Biorgyn ok var þessi enn setti vetr ok .xx. rikis hans. þetta sumar eftir var konungr i Biorgyn ok ætladi vm haustid sudr til Vikr ok sitia þar vm vetrinn. Vard konungr sidbuinn þuiat hann aatti morgu at skipa. komu menn til hans vestan vm haf ok af odrum londum þeir er erendi aattu vid hann. ok er hann kom sudr fyrir Rogaland logduz aa stormar miklir. sneri hann þa inn i Stafangr ok dualdiz þar vm rijd. tok þa vedraatta at hardna. for konungr þa nordr til Biorgyniar ok sat þar vm vetrinn. ok var þessi inn .vij. ok .xx. konungdoms hans.

### Fra Hakoni.

218. J þenna tima er Hakon konungr reed Noregi var Alexandr konungr i Skotlandi sun Vilhialms Skotakonungs. hann var hofþingi mikill ok miok agiarn til þessa heims metorda. hann sendi menn til Hakonar konungs byskupa .ij. þeir hofdu þat erendi (at) vita ef Hakon konungr villdi gefa vpp riki þat i Sudreyium er þeir kolludu at Magnus konungr berbeinn hefdi feingit med viafnadi af Melkolfi Skotakonungi frænda hans. enn Hakon konungr suarar sua at hann quaz vita at þeir Magnus konungr ok Melkolfr hofdu allt samit med ser huart riki Nordmenn skylldu hafa af Skotlandi edr þeim smaeyium er þar laagu nær. enn ecki valld [723] quad hann Skotakonung hafa þann tima i sialfum Sudreyium. enn Magnus konungr vann þær af Gudreydi konungi ok kalladiz Magnus konungr þo ganga eftir sinum erfdalondum. Ok er sendimenn heyrdu þenna orskurd þa sogdu þeir at Skotakonungr villdi kaupa allar Sudreyiar at Hakoni konungi ok baadu hann meta til brendz silfrs. Hakon konungr quez eigi vita vonir sua brada þurft silfrs at hann mundi þar til laundin selia. Foru sendimenn i brott. Skotakonungr leitadi þessa maals oft ok feck inn sama orskurd.

### Fra Hakoni.

219. þetta sama sumar kom vtan af Jslandi Gizsorr þorualldzsun

a fund Hakonar konungs. enn þordr kakali feck orlof til Jslandz. ok aatti hann miklar deilur vid Kolbein Arnorssun þa þria vetr er hann sat i Vestfiordum. Vm vorit eftir for Hakon konungr nordr til þrondheims ok sat þar nockura rijd. þat vaar kom Biorn aboti aftr i land. hann sendi menn til Hakonar konungs ok beiddiz fridar af honum quez hafa god tiþendi fram at bera. konungr iattadi þui blidliga ok bad hann til sin koma þegar hann villdi. Ok er hann fann konung bar hann honum quediu pafa ok blezsan med brefi ok sua fogrum ordsendingum at varla hefir komit i Noreg iafnfagrt bref af pafa. Aboti var med konungi vm sumarit enn vm haustid for konungr i Vik austr. þa andadiz Ormr byskup i Oslo. Hakon konungr sat vm vetrinn i Vikinni. enn Biorn aaboti for nordr ok ætladi heim i Holm. enn hann komz eigi leingra enn i Seliu ok andadiz þar. þat var inn atta vetr ok .xx. rikis Hakonar konungs. Enn er Hakon konungr hugsadi eftir vm brefit fagra er pafi hafdi ritad til hans þa sendi hann ord Sigurdi erchibyskupi ok odrum byskupum. enn er þeir funduz bad konungr byskupa rita til pafa med ser ok bidia orlofs at hann væri koronadr. byskupar gaafu þau s(u)aur at þeir quaduz giarna vilia rita med honum med þui at hann gæfi þeim godar rettarbætr. þat letu þeir ok fylgia at hann skylldi þann sama eidstaf hafa vndir koronu sem Magnus konungr Erlingssun hafdi haft þa er hann koronadr var. þa suarar Hakon konungr. sua framarliga hafa konungar aadr iaattad ydr rettarbotum at varla veit ek at ver megim aa þat auka. enn þo hafi þer sialfir enn eigi vframarr nyttar enn gefnar hafa verit. enn ef ver suærim slikann eid sem Magnus konungr sor þa virdiz oss sua sem minkadiz vor sæmd i þui helldr hitt enn yxi þuiat Magnus konungr hirti ecki huat hann vann til ef hann fengi þat er hann var eigi tilkominn. enn med guds miskunn þa þickiumzst ver eigi þurfa af ydr kaupa þat er gud hefir oss rettliga til kosit eftir vorn fedr ok forelldri. ok þat skulu þer sannliga vita at med guds miskunn skal ek sua frialsliga at koronu komaz ok aan allra afarkosta at ver megim siþan hana frialsliga bera sem adrir sæmiligir konungar. ella skal hon alldri a vort hofud koma ok þeirrar stundar bida er gud hefir fyrir sett enn hann vill varn vilia fullkoma. Nockuru sidarr gerdi Hakon konungr menn til pafa ok beiddiz af honum at hann sendi nockurn sinn kardinalem at gera konungi þa sæmd at vigia hann vndir koronu. Hakon konungr sat i Biorgyn vm vetrinn eptir byskupafundinn ok var þessi enn .ix. vetr ok .xx. konungdoms hans. þetta sumar eftir komu þeir af Jslandi Gizsor ok þordr ok hofdu þa sætz i konungs dom aa oll maal sin. þa hafdi þordr barizst vm vaarit i Skagafirdi vid Brand Kolbeins-

sun ok fell þar mart manna af huorumtueggium ok gott mannval. Hakon konungr for vm haustid nordr til þrondheims ok efnadi þar til vetrsetu. At aalidnum vetri komu sendimenn konungs fra Roma ok sogdu at koma mundi einnhuerr cardinalis i landit ok gera alla sæmd konungi eftir pafa bodi. ok þa birti konungr þetta erchibyskupi ok bad hann senda eftir byskupum ollum ok abotum ok lærdum monnum inum skynsomuzstum. konungr sendi ord lendum monnum laugmonnum syslumonnum hirdmonnum ok ollum inum bezstum bændum ok bad þa buaz sem sæmiligaz ok koma til Biorgyniar aa þui sama sumri. Hakon konungr gerdi skip vestr til Englandz vm vorit ok sua til annarra landa at afla faanga þeirra sem honum þotti mest skorta i Noregi at fagna cardinali eftir þui sem hann villdi ok baadum þeim somdi. Knutr jarl var i þrondheimi ok hafdi þar verit .iij. vetr. hann hafdi .iiij. fylki i þrondheimi Naumudal ok Sogn haalfann. Hakon konungr for or þrondheimi Knutr jarl ok margir adrir gofgir menn.

## Cardinalis kom til konungs.

220. Hakon konungr hafdi þa verit .xxx. vetr konungr. Ok er hann kom til Biorgyniar þa hugleiddi hann med vitrazstu manna raadi huersu hann skylldi buaz vid cardinali. enn hann kom vm vorit sunnan i England. fagnadi Heinrikr konungr honum sæmiliga. enskir menn sogdu honum fyrir sakir aufundar vid Noregsmenn at hann mundi þar eingar sæmdir faa ok varla verda fæddr. lauttu enskir menn sem mest at hann færi i Noreg ognudu honum bædi hafinu ok grimleik folksins. Kardinalis suarar. ek hefir verit firr Noregi enn nu er ek ok heyrda ek þa sagt bezst fra þui folki er þar byggir. eru þar sagdir vel cristnir menn ok vitr konungr ok skynsamr. erchibyskup þeirra hefir ek seet ok syndiz mer hann likligr til gods hofþingia. þar eru ok sagdir skynsamir byskupar. enn ek hefir til þeirra þau tua(u) erendi at ek væntir at vel skuli godum monnum at getaz. þat er at birta þeim sannan gud enn annat at korona konung þeirra med guds miskunn ok pafans forsia. enn þui kuidi ek eigi at mik skorti þar mat edr dryck. Eftir þat bio cardinalis ferd sina til Noregs. hann kom Botolfs vokudag vtan at ey þeirri er Sire heitir ok giordi menn fyrir ser at segia konungi komu sina. þat var miok i senn er þeir komu i konungsgard ok hann sigldi aa vôginn þat var sijd dags. konungr gerdi menn til hans at bioda honum alla luti sem sæmiligaz enn hann sagdiz vilia konungs raadum hlita. Vm morgininn er sungnar voru tiþir geck konungr til skips sins þat var haalfþritugt med gylldum hofdum þat var kallat Drekinn. þa

var lagit vt fiolda skipa. cardinalis hafdi eina sneckiu enska. konungr geck aa skip hans ok med honum lendir menn ok hirdstiorar. voru þar allblidligar kuediur. foru þeir sua inn at bryggium. fogur processia var gior i mot cardinali af byskupum lærdum monnum ok klaustrafolki. Enn þegar eftir let konungr blasa til þings vt i Cristzkirkiugardi. ok er konungr kom a þingit hof cardinalis þa sitt erendi a þessa leid ok taladi sua.

### Cardinalis kunngerdi konungi sin erendi.

221. [724] Ek vil ollum monnum kunnigt gera at med guds miskunn ok pafans bodi kom ek i þetta land at boda monnum nafn Jesu Cristz ok korona konung yduarn. eru þessi min erendi tuenn. eigi sendi hann til þessa erendis einnhuern prest edr lærdann mann med litlu valldi nema mik einn af cardinalibus sinum med byskupsnafni ok sua miklu valldi at binda ok leysa oll maal sem sialfr væri (hann) her. þuiat hann villdi at þetta væri sua gert sem konunginum væri mest til sæmdar. Siþan taladi hann margfalldliga tru fyrir folkinu enn siþan gaf hann ollum sina blezsan ok gott heimleyfi. Eftir þat tauludu þeir optliga konungr ok cardinalis ok var ecki annat i rædu hans enn gera sem mesta sæmd konungsins. Kardinalis taladi iafnan vid byskupa þa er þar voru. erckibyskup kom sidazst allra þeirra. enn siþan er þeir hofdu vid talaz þa þottiz konungr finna at þa var annat fyrir honum talat enn fyrr var i ætlan hans sialfs.

### Fra kardinali.

222. Einn dag er þeir voru a tali i Kristzkirkiu konungr ok cardinalis þa hof cardinalis tal sitt a þessa leid. med þui herra konungr at þer ætlit at taka meiri sæmd af heilagri kirkiu enn engi konungr tok fyrr i Noregi þa væntum (ver) at þer munit iaatta vilia heilagri kirkiu þui sem adrir hafa iattad fyrir ydr ok enn med godu vm bæta. sua munu þer ok vilia (vinna) slikann eidstaf sem Magnus konungr vann er fyst var coronadr i landinu. Hakon konungr suarar sua. ek finn nu herra at þessi ord eru eigi minnr af annarra manna ordum enn sialfra yduar. enn þeim rettarbotum vilium ver giarna iatta heilagri kirkiu ok hennar þionustumonnum at hon hafi slikt frelsi her sem i þeim londum er skipat er sitt frelsi hefir huart ok sina sæmd heilug kirkia ok konungdomrinn. enn þo at nockur konungr hafi þui iattad at þeir attu eigi at iatta framarr enn fyrir sialfa sik þa vilium ver þo engi maalaspell gera oss edr vorum sonum þeim sem eftir oss koma. ok skiott

at segia ef þer vilit oss nockurskonar kaupmaala koronu gera at fyrr viliuni ver enga koronu bera enn nockut ofrelsi a oss taka. ok þurfi þer þessa eigi optarr vid oss at leita. Kardinalis suarar. herra konungr. latid ydr eigi vm þetta mislika þuiat sua skal vera sem þer vilit. Eptir þetta gerdi kardinalis ord erchibyskupi ok lydbyskupum ok korsbrædrum ok ræddi vid þa þessum ordum. ek taladi vid konunginn þat erendi sem ek var bedinn ok syniz mer sem hann hafi sannara i þessu maali enn þeir sem annars bidia. ok þui vil ek at þer vitid at ek mun enkis annars beidaz heþan i fra enn korona hann sua frialsliga sem konungligri tign byriar. enn þetta þarf eigi optarr at tala.

### Fra rædum cardinali(s).

223. Margar naudsyniar ræddi konungrinn af hendi þegna sinna fyrir cardinali ok bætti hann vm. hann vigdi Postulakirkiu i konungsgardi þa er Hakon konungr hafdi gera laatid ok gaf þar mikla aflausn æfinliga. Ok þa er vm var rætt huern dag konungr skylldi vigdr vera þa sagdi cardinalis at hann skylldi aa einnhuerri postulamessu vigiaz. enn med þui at konungr var i ættartolu vid enn heilaga Olaf konung þa villdi hann hellz aa hans hatidardegi þa sæmd taka. siþan var til allra luta skipad þeirra sem þar þurfti til. þann tima vm sumarit var haurd vedraatta af regnum sua at engan vmbunat maatti vti hafa. eggiudu menn þess at konungr skylldi veita i þeim .ij. trehallum sem voru i konungsgardi. Hakon konungr hafdi gera laatid eitt hus mikit vt vndir knorrum er til naustz var ætlat. þat var nirætt at leingd enn sextugt a breidd. Einn dag er þeir geingu þagat konungr ok cardinalis þa mællti konungr. med þui herra at ver hofum eigi stor hus syniz ydr nockud at ver gerim her i veizslu vora til þess at fleira folk megi hia oss vera. Kardinalis suarar. þat þicki mer it bezsta raad. Siþan let konungr husit bua med þeim efnum sem þui somdi.

### Vigsla Hakonar konungs.

224. Vigsla þessi var ætlud a Olafs vaukudag. þar voru vid þessir hofþingiar. Vilhialmr cardinalis. Sigurdr erchibyskip. Arni byskup af Biorgyn. Askell byskup af Stafangri. þorkell byskup af Oslu. Pall byskup af Hamri. Heinrekr byskup af Holum. þessir voru leikmanna hofþingiar. Hakon konungr ok Hakon konungr inn vngi sun hans. Knutr jarl. jungherra Magnus. Sigurdr konungssun. þessir voru lendir menn. Gautr Jonssun. Lodinn Gunnasun. Petr Paalssun. Gunnarr konungsfrændi. Munaann byskupssun. Finni Gautzsun. Bryniolfr Jonssun. Jonn

drottning. Sigurdr byskupssun. þar voru .x. abotar erchidiaknar ok profastar ok flestir korsbrædr af ollum byskupsstolum i landinu .v. logmenn. stallarar konungs ok syslumenn hirdstiorar ok oll hirdin ok inir bezstu bændr or hueriu fylki. þar var ok fioldi vtlendra manna. þa voru vætr sua miklar at bædi rigndi nætr ok daga. þui var tialldat med klædum baadi grænum ok raudum milli konungsgardz ok Cristzkirkiudyra bædi yfir vppi ok tua vega vt i fra. maatti sua ganga til herbergia at ecki meinadi vætan.

## Af embætti cardinali(s).

225. Olafsvoku aftann var a sunnudegi. enn messodaginn sialfann voru sungnar tidir vm bæinn. eftir messor var ollu folki blasit vt i Cristzkirkiugard. .lxxx. hirdmanna voru herklæddir ollum bunadi. þeir geingu at ryma veginn. þessi var skipan aa konungs gaungu. fyrst geck hirdin su er ruddi veginn. þar næst geingu .ij. merkismenn med merkium. þar næst syslumenn ok skutilsueinar i godum klædum. þa lendir menn med velbunum suerdum. þar næst .iiij. lendir menn ok baru talflbord ok þar aa allt konungsskrud ok vigsluklædi. þa geck Sigurdr konungssun ok Munaann byskupssun ok baaru .ij. rikisvaundu af silfri. gullcross aa odrum enn a odrum ari af gulli. þar næst geck Hakon konungr vngi ok bar koronu ok Knutr jarl ok bar vigslusuerd. Sigurdr erchibyskup ok adr(ir) .ij. byskupar leiddu Hakon konung i milli sin. þar næst vid portid i konungsgardi komu i mot byskupar abotar ok adrir lærdir menn med processione ok hofu vpp responsorium Ecce mitto angelum ok geingu sua til kirkiu. kardinalis stod i kirkiudyrum ok med honum .ij. byskupar ok klerkar hans ok hofu þar vpp song aa nyia leik ok fylgdu sua konungi til altaris. eftir þetta var sungin messa ok for vigsla fram eftir þui sem byriadi. Ok er messu var lokit fylgdi erchibyskup konungi heim ok adrir byskupar til herbergis med sama hætti sem fyrr syngiandi lof gudi. þa afklæddiz [725] konungr vixluklædum ok for i allan konungsbunat enn bar koronu þann dag.

## Fra hirdsidum.

226. Eftir þetta geck konungr i herbergi þar sem veizslan skylldi vera med ollu folki þui er til var ætlat vid litlu Cristzkirkiu. mætti hann þar cardinali geingu þeir baadir samt til huss ok allt folk. þar var tialldat med steindum klædum. kulltum. pellum. silki gullskotnu. Enn sua var skipat sessum at id nedra megin vid stafina sat konungrinn. kardinalinn sat a hægri hond konunginum. þa erchibyskup. þa

byskup af Biorgyn ok huerr ad odrum byskupanna. a hægra veg til siofar saatu abotar priores ok profastar. i midri hallinni gegnt haasætinu var giort annat haasæti ok sat þar Hakon konungr vngi. Knutr jarl. Sigurdr konungssun ok vt i fra lendir menn. drottning sat a vinstri haund konungi. næst henni fru Ragnhilldr modir hennar. þa fru Kristin. þa fru Cecilia konungsdottir. þa fru Rangridr. þa abbadisir ok sidan adrar konur. vid inn synra vegginn sat hird konungs. var þar tuiskipat eptir endilongu husinu. enn vt i fra þeim saatu gestir enn med tuiskipudu. enn allz voru þessar skipanir þrettan eftir endilongu husi. mikill fioldi var i tiolldum vmhuerfis er eigi[1] hafdi rum inni. Hinn fysta rett baaru inn þessir lendir menn. Munaann byskupssun Bryniolfr Jonssun Gunnarr konungsfrændi Sigurdr byskupssun. et fyrsta ker skenkti Hakon konungr vngi faudur sinum. Knutr jarl kardinali. Sigurdr byskupssun drottningu. Munaann erchibyskupi. ok geingu siþan til sætiss. þa er menn voru mettir kuaddi cardinalis ser hliods. hann taldi fyst helga tru. siþan mællti hann sua. lofadr se gud at ek hefir þat erendi fullgert i dag sem ek hefir vmbod til af hendi heilagrar Romaborgar ok herra pafans ok cardinala at nu er konungr yduarr koronadr sua fullkomliga at eingi mun slika sæmd feingit hafa fyrr i Noregi. gud se þess ok lofadr at ek sneri eigi aptr sem ek var eggiadr. var mer ok sagt at her væri menn likari dyrum enn monnum enn mer synaz þeir vera med godum atferdum. se ek her ok fiolda manna vtlendra ok sua morg skip at ek hefir eigi fleiri set i einni hofn. mer var sagt at ek munda litid braud fa ok litinn mat eingan dryck nema blondu edr vatn. nu se gud lofadr at ek hefir her alla luti goda þa betra er at hafa enn missa. nu gæti gud drottinn konunga vorra drottninga byskupa lærdra manna ok allz folks. gefi mer þat erendi higat at ydr se til heidrs enn ollum oss til fagnadar bædi þessa heims ok annars. Siþan geck cardinalis i brott ok hans folk. Sua kuad Sturla.

Aukin gift
af guds syni
yfir Hakoni
heilli godu
er alvalld
auflgrar cristni
fyrirmadr
til fridar vigdi.

Ok gedstorr
a grams hofud
konungligt
koronu let.
kom kappsnuinn
cardinali
i Biorgyn
at bodi pafa.

[1]) i *Cd.*

Sua quad Olafr.

Fræian red þik Vilhialmr vigia
var baals hautudr kardinali
eingi valdiz iafngodr hingat
alldar gramr af pafa valldi.
koronu let cristni styrir
kynbryddr iofurr ydr vm skrydda
ramri grund hafit rikisvandar
reidivalldr med frægdum halldit.

Capitulum.

227. Hakon konungr sat eftir þat er cardinalis geck ok allt folk til þess er bord voru vppi ok Mariu minni. siþan fagnar konungr folkinu ok þackadi þeim þarkuamu sina i þessu herbergi. Var veitt þria daga med þessum hætti. Sua quad Sturla.

Enn su rausn
rida knatti
Vaursa grams
med vellskautum
huersu Vaulsungr
veita maatti
valinn dag
vixlu sinnar.
Ne allualldr
einu ranni
fremdar folk
fleira valdi
austr ne stendr
at aulskipan
vndir hreinbærs
huitu ræfri.

Eigi skorti þar godan bordbunat ok allt var þar vel feingit sem her segir.

þar i gull
geiga knatti
inni full
vnna greipum
enn inndrott
allra strida
heilivogr
til hiarta fell.
Skaut vinfars
visa monnum
a gomsker
gylldu bordi
hilmis hird
hunangs bara
i gedknaur
glymiandi fell.

Siþan veitti konungr .v. daga i siofarhallinni i konungsgardi. Var þar kardinalis ok allir byskupar lendir menn ok lögmenn ok allt it bezsta mannval. þeir toludu þa vm naudsyn landzins lærdra manna ok heilagra kirkna. þeir badu konung gefa nockut af leidangrum heilagri kirkiu. Kardinalis suarar byskupum. þa munu þer vilia gefa bædi af landzskylldum ok odrum tekium þeim sem þer takit ella kann ek eigi at bidia konunginn minka sinar tekiur. Siþan gat eingi þessa maals optar. þat kærdu bændr at byskupar tæki tiundir af kirkium ok yki med veizlur sinar enn tæki sialfir til sin. enn kardinalis sagdi þat vandliga af ok (at) kirkiur frialsliga skylldu hallda tiundum sinum ok odrum tekium sua sem byskupar sinum. þa kærdu lærdir menn at

byskupar tæki lausnir af prestum þo at þeir kæmi eigi i fylkit. kardinalis sagdi at þat var bædi i moti guds logum ok manna sagdi at þeir skylldu eingar taka nema þeir færi. þat kærdu bændr at þeir gylldi fe fyrir ef þeir byrgi fongum sinum a helgum dogum edr tæki fiska ef gud gæfi þeim. kardinalis gerdi þa skipan aa at menn skylldu biarga heyi ok korni veida sildr ok fiska vtan enu hæstu daga. hann fyrirbaud jarnburd. margar skipanir gerdi hann þær er eigi eru her allar ritadar.

## Henrekr byskup vigdr til Hola.

228. J þenna tima red Eirekr konungr Valldamarssun Danmork. enn eftir andlaat Valldamars konungs gerdiz sundrþycki med þeim brædrum Eireki konungi ok hertuga Abel er þa var yfir Jotlandi. Danir helldu strid vid Lybikumenn ok var af þui gior vfridr kaupmonnum þeim er sigldu i gegnum Danmork. J Græningiasundi hofdu Danir tekit Nordmannaskip nockur ok rænt oll. vidara voru Nordmenn ræntir bædi af Donum ok Lybikum monnum. Enn sumar þetta hafdi Hakon konungr latid taka oll skip þau er komin voru af Danmork Vindlandi ok þyduersku ok fe þeirra i sitt valld. [726] enn þeir menn sem feit aattu geingu fyrir cardinalem ok badu miskunar at hann skylldi bidia konunginn at þeir nædi fe sinu. hann flutti þat vid konung ok bad hann miskunna kaupmonnum fyrir sin ord ok kuad þessa mundu saklausa[1] vm þetta maal. Hakon konungr sagdi sua at hann mundi þetta gera fyrir ord hans at þeir nædi fe sinu enn ecki quez hann iafnan mundu þola Dǫnum at þeir dræpi menn hans edr rænti fe. Kaupmenn toku vid fe sinu ok likadi vel. þetta sumar var vigdr til byskups Heinrikr Karlssun til Hola stadar a Jslandi. Vilhialmr cardinalis sagdi þat vsannligt at Jsland þionadi eigi vndir einn konung sem oll onnur lond i verolldu. var þa sendr vt med hans raadi þordr kakali med Heinreki byskupi. skylldu þeir flytia þat erendi vid landzfolkit at allir iattadiz vndir riki Hakonar konungs ok slikar skattgiafir sem þeim semdi. þetta sumar var sendr til Grænlandz Olafr byskup ok skylldi hann hafa slikt erendi. Gizsur þorualldzsun var eftir i Noregi. þeir komu til Jslandz vm haustid Heinrekr byskup ok þordr kakali. þeir foru til Borgarfiardar. tok þordr riki þat er aatt hafdi Snorri Sturluson faudurbrodir hans ok alla pe(n)inga. hann tok ok riki þorleifs or Gaurdum fyrir þat er hann for vt i banni konungs. Enn er þordr for nordr vm vetrinn þa hofdu vvinir hans kært sin maal fyrir byskupi ok hafdi hann tekit þeirra maal aa sinn varnat ok af þessu tok at spillaz vinaatta þeirra byskups ok

[1]) saklausan *Cd.*

þordar til þess er þeir vrdu aa eingann lut saattir. Var byskup .ij. vetr a Jslandi ok for eftir þat vtan a fund Hakonar konungs ok var hann inn mesti vvin þordar iafnan siþan. enn þeir slogu þa saman vinaattu sinni Heinrekr byskup ok Gizsur ok fluttu þat fyrir konungi at betr mundi hans maal fara a Jslandi ef þeir væri til sendir.

## Capitulum.

229. Nv eru sogd nockur tiþendi þau er gerduz a fundi þeirra Vilhialms cardinalis ok Hakonar konungs. enn morg skipan var su nytsamlig folkinu er eigi er her ritud. enn oll su skipan er þeir gerdu þa setti cardinalis fyrir bref sitt ok jnsigli ok lagdi vid bann ok guds reidi huerium er eigi helldi. ok eftir þetta tok cardinalis orlof af konungi. Siþan let konungr bua tuitugsessu .ij. skutur ok einn byrding ok for cardinalis med þessum skipum i brott. feck konungr Gunnar frænda sinn til skipstiornar med honum. Hakon konungr gaf cardinali storar giafir ok ollum hans monnum. hann gaf erchibyskupi ok ollum byskupum ok ollum lendum monnum ok enu bezsta mannvali virduligar giafir. sem Sturla quad.

Ok þat satt
at seggia drottninn
gulli grimmr
a giafstoli
þaa huerr madr
af hrings skata
þat er aull þiod
æskia kunni.

þar siodmioll
suifa knatti
bauga briotz
af boga fiollum
hardla hreint
haarri þiodu
af gaglfars
geigurandra.

þar rann vpp
allri þiodu
mundar dagr
a mergs himin
skein armsol
iofra styris
visa ferd
vm vala grundir.

Ok hafleyg
hauka feriur
herdimenn
hladnar fluttu
daadum racks
ok digulsskoflum
af allvalldz
oskafundi.

Hakon konungr fylgdi cardinali vt i Floruvoga med ollum skipum sinum ok skilduz þeir þar med enum mesta kærleika. Kardinali byriadi helldr seint austr til Stafangrs ok dualdiz þar vm rijd. þadan for hann til Tunsbergs ok þadan til Osloar. allstadar þar er hann kom skipadi hann maalum manna. or Oslu for hann til Konungahellu ok stefndi þar

almenniligt þing ok quomu þar margir menn af Gautlandi i mot honum. ok var hin sama hans tala sem fyrr. hann þackadi gudi er hann kom i Noreg. siþan for hann austr i Suiariki ok sua vt til pafa.

### Fra sendimonnum.

230. Hakon konungr bio ferd sina vm haustid eftir vigsluna til Vikrinnar ok ætladi þar at sitia vm vetrinn. þa kom vestan af Sudreyium Haralldr Manar konungr sun Olafs Gudraudarsonar ok for austr med konungi. Hakon konungr sat vm vetrinn i Oslu ok var þessi enn .xi. vetr ok .xx. konungdoms hans. þann tima var konungr i Suiþiod Eirekr Eirekssun systurson Valldamars konungs i Danmork. enn Vlfr jarl fasi var mestr landraadamadr i Suiþiod med konunginum. hann var sun Karls jarls daufa ok var hann mikill vinr Hakonar konungs ok Nordmanna ok aftaldi miok at Eirekr konungr skylldi miok laata ser vm finnaz þa brennu er verit hafdi i Vermalandi. enn þeir voru margir adrir Suiahofþingiar er þess eggiudu at konungr skylldi þar nockurar hefndir lata fyrir koma. Herra Birgir son Magnus minniskialldar er aatti Jngibiorgu systr Eireks konungs hann var þa enn þridi mestr raadsmadr i Suiþiod. þenna vetr er Hakon konungr sat i Oslu kom austan af Suiariki Juarr þorsteinssun af Dali hann var sendr af Suiahofþingium at spyria eftir huern orskurd konungr villdi veita Suium fyrir ofrid þann er hann hafdi gert i Vermalandi. konungr suarar sua at hann kuad ser enga ofkæti til hafa geingit at brenna Vermaland ok kuaz eigi komit mundu hafa austr yfir Eidaskog þess erendis ef eigi hefdi Vermar eflt margan valldarflock i Noregi til raana ok manndrapa. segir hann fyrir þat margan godan dreing laatiz hafa. enn med þui segir konungr at huorirtueggiu telia nockut at vid adra þa se ek þann vtveg hellz til at ver finnimz sialfir hofþingiarnir ok talim vart maal. verdr þa annathuart at ver sættumz edr annarr orskurdr kemr aa sa er gud hefir fyrir ætlat. mun ek þenna fund sækia austr til landzenda þo at nu vili þeir þegar i sumar er kemr. For Juar vid þenna orskurd aa brott ok komu þau suðr austan vm vorit at Suiar villdu þetta stefnulag. þa er Hakon konungr sat i Vikinni flutti Haralldr konungr bonord sitt ok bad fru Ceciliu konungsdottur er aatt hafdi Gregorius. konungr tok þessu vel. ok med þui at þess vard audit þa festi hann ser Ceciliu konungsdottur ok var ætlat at brudlaup skylldi vera i Biorgyn vm sumarit. Vm vorit byr Hakon konungr ferd sina til Biorgyniar ok er hann kom þar dualdiz hann þar vm sumarit ok gerdi ord þeim monnum er hann villdi at med honum færi i stefnuleidangr. þa komu þeir vestan

vm haf Jonn Dungadarsun ok Duggaall ok stundudu baadir til þess at Hakon konungr mundi gefa þeim konungsnafn yfir neyrdra lut Sudreyia. voru þeir med konungi vm sumarit baadir. .xiiij. naattum fyrir Jonsvoku vrdu mikil tiþendi i Biorgyn þa vard elldr lauss miok sua i midium bænum [727] i gardi þeim er Straumrin heitir vm nott i þann tima er hringdi. enn adr hofdu verit þurvidri ok leek elldrinn skiott. Konungr kom til fyrir innan Petrskirkiu ok faatt manna med honum. enn skiott kom þo hirdin ok bęiarmenn ok ætludu þar at veria elldinum enn þar var þa sua miok leikit at þar maatti ecki vid festazst. foru þeir þa til Mariukirkiu ok ætludu þar at veria. geck þa elldrinn sua fast at Mariukirkia tok at brenna ok stoplarnir. þa vard sua mikill elldzgangr at elldinum kastadi vpp i borgina ok tok hon at brenna. for þa konungrinn þangat til ok mart manna. brunnu þar margir menn inni adr vt kæmiz. Enn er konungr kom ofan til bæiar var þar mikill elldzgangr. vardi folkit þa vt vid Sandbru. konungr for þangat ok kom þar i mannhaaska mikinn. þa var sem iafnan i mannraunum ath konungr for diarfliga ok þo varliga ok raadliga at koma þui fram er hann villdi. þar flutu vti fyrir kuggar nockurir komnir af Gautlandi ok for konungr vt i baatinn ok rere til kugganna ok feck þar marga stora katla ok voru þeir fylldir af sio ok fluttir sua vpp aa bryggiur. var siþan sionum steypt i elldinn ok vard hann sua sleyctr med guds miskunn ok konungs giftu. þar vard ok faam dogum sidarr vndarligr atburdr at þar geck reididuna med elldingum ok laust i þekiu þess loptz er jungherra Magnus var i son Hakonar konungs ok reif raafrid vpp vm nockura fadma. var þat mikil guds miskunn er elldingin laust eigi inn. enn hon for siþan a vaaginn vt ok laust siglutre a kiol einum er flaut fyrir bænum ok tok reidi sundr i smaar flisir. einn lutr af trenu vard at skada manni er kominn var aa kiolinn at kaupa glys or bænum enn einga sakadi adra þa er a kiolnum voru. Bærinn var allr brunninn fyrir innan Sandbru vtan faair gardar jnn vid vaagsbotn. Hakon konungr veitti rikuliga veizlu i konungsgardi ok gifti Ceciliu dottur sina Haralldi Sudreyia konungi. eftir þat byrr hann ferd sina til stefnulags vid Suia. ok hafdi mikit lid ok mart skipa. Enn er hann laa i Elldeyiarsundi gaf hann Joni Dungadarsyni konungsnafn. ok for hann þadan nordr aftr ok ætladi vestr med Haralldi konungi ok þeir Duggaall baadir enn þo settuz þeir aptr baadir. sat Jonn konungr i Biorgyn vm vetrinn enn Duggaall for austr eftir konungi ok var med honum þann vetr. Haralldr konungr for vm haustid or Biorgyn ok fru Cecilia kona hans. þau hofdu eitt skip mikit ok þar aa mart godra manna. þau komu ecki til Sudr-

eyia aa þui hausti ok tyndiz skip þat ok allir þeir menn er aa voru. ok er þat flestra manna ætlan at þau hafi tynzst i Dynraust fyrir sunnan Hialltland þuiat rekinn kom af skipunum sunnan aa Hialltland. þotti þetta enn mesti mannskadi ok þat var Sudreyingum et mesta nidrfall ok vgifta er þeir mistu sua braadliga þuiliks hofþingia sua giftusamlig sem hans ferd hafdi vordit at þui kuonfangi sem hann hafdi feingit ok odrum sæmdum. Hakon konungr for til Vikr. hann laa miok leingi i Dyngiu ok beid erchibyskups. hann hafdi meirr enn .xxx. skipa ok flest stor.

## Andlaat Vlfs.

231. Eirekr Suiakonungr hafdi dregit saman her mikinn i Suiþiod ok for vm sumarit vestr til Gautlandz. þar var med honum Vlfr jarl ok herra Birgir maagr hans ok margir adrir gofgir menn. þeir hofdu mikit lid ok flest a hestum. þeir komu til Liodhusa ok var þa eigi Hakon konungr kominn. enn med þui at Suiar hofdu litla vist flutt med ser mattu þeir eigi bida Nordmanna ok ridu vpp aftr i Suiþiod. þat bar ok til at jarl var nockut[1] siukr. þat sama haust andadiz hann ok þotti þat Suium enn mesti skadi. ok skiott eftir andlaat hans gaf konungrinn herra Birgi maagi sinum jarlsnafn ok gerdiz hann inn mesti hofþingi ok hafdi oll landraad med konungi. Litlu eftir andlaat Vlfs jarls letu þeir Eirikr konungr ok Birgir jarl taka af lifi Holmgeir son Knutz konungs langa frænda Vlfs jarls ok annarra Fulkunga. enn þa for vtlægr af Suiþiod herra Philippus er aadr hafdi verit mestr styrkr herra Holmgeiri. hann aatti Helenu modur hans ok (dottur) Petrs Strangasunar. Philippus var dottursun Philippi jarls er fell aa Akri vid Oslu ok skylldr Hakoni konungi.

## Fra Hakoni konungi.

232. Hakon konungr for til Konungahellu vm haustid nockuru sidar enn Suiar hofdu brott farit. laa konungr þar vm rijd ok skipadi þui sem honum bar naudsyn til. enn med þui at engi hafdi vordit fundr þeirra Suiakonungs þa gerdi hann menn vpp i Suiþiod Einar smiorbak ok Olaaf profast aa fund Birgis jarls ok foruitnaz af honum huersu Suiakonungr ætlar at fara skylldi vm skipti þeirra Nordmanna. þeir hofdu ok fleiri erendi til jarls þau sem enn koma vpp sidarr ok her mun verda fra sagt. Hakon konungr for nordr i Vikina til Tunsbergs ok gaf monnum heimleyfi. þetta vor adr hafdi andaz þorkell byskup i

[1]) nockur *Cd.*

Oslu enn vm haustid var vigdr til byskups Hakon er þa var skolameistari. þa var ok vigdr til byskups Haufir til Orkneyia. Erchibyskup for þa heim nordr. þetta sumar hafdi hann laatid setia grundvôll til Cristzkirkiu sua langt vestr sem nu er. Hakon konungr sat vm vetrinn i Vikinni ok var þessi annarr vetr ens fiorda tigar konungdoms hans. þenna vetr komu þeir austan Einar ok Olafr ok sogdu at jarl hefdi vel tekit þeirra erendum ok quez giarna vilia vera vin Hakonar konungs. gaf hann þat raad at þeir skylldu finnaz vm sumarit eftir i Elfinni ok binda sætt sina med vinaattu ok fastmælum. þeir hofdu þat maal flutt fyrir jarli at þat væri vænst til fridar ef teingdir tækiz milli hofþingia ok gifti jarl Rikizsu dottur sina Hakoni konungi vnga. Jarl tok þessu vel ok var siþan i ollum maalum linari enn aadr. let þetta vel tala mega þa er þeir fyndiz sialfir.

## Liflat Alexandri.

233. Tiþendi þau frettuz til sannz at Haralldr konungr ok Cecilia konungsdottir hofdu tynz sem fyrr er sagt. Hakon konungr sendi þa ord til Biorgyniar at Jonn konungr skylldi þa fara vestr sem skiotazst ok gæta rikis i Sudreyium til þess er hann sendi fleiri hofþingia til. siþan bioz Jonn konungr af Noregi ok for vestr vm haf. Alexandr Skotakonungr sendi iafnan til Noregs at fala laundin vid lausafe ok sua hafdi hann enn gert þetta sumar. enn þo hafdi hann annat raad med hondum þat er eigi var konungligt at hann dro her saman vm allt Skotland ok bio ferd sina i Sudreyiar ok ætladi at vinna laundin vndir sik. hann gerdi þat bert fyrir sinum monnum at hann ętlar eigi at [728] letta fyrr enn hann hefdi sett merki sin austr vm þursasker ok vndir sik brotid allt Noregskonungs riki þat er hann aatti fyrir vestan Solundarhaf. Alexandr konungr gerdi ord Joni konungi at hann villdi finna hann. enn sa fundr vard ecki fyrr enn .iiij. iarlar af Skotlandi selldu honum tru sina til þess at hann skylldi fara i gridum af þeim fundi huart sem þeim semdi edr eigi. Enn er þeir funduz konungarnir beiddi Skotakonungr Jon konung at hann skylldi gefa vpp Biarnaborg i hans valld ok .iij. adra kastala er hann hellt af Hakoni konungi ok þat riki annat sem Hakon konungr hafdi skipat honum. enn Skotakonungr kuaz mundu fa honum myklu meira riki i Skotlandi ok þar med sitt traust ok vinaattu ef Jonn konungr villdi til hans snuaz med fullum trunadi. þessa eggiudu allir Jon konung bædi frændr ok vinir. enn honum for vel ok einardliga at hann kuez eigi vilia riufa eida sina vid Hakon konung.

for Jonn konungr i brott ok nam eigi fyrr stadar enn hann kom nordr i Liodhus. þa er Alexandr konungr laa i Kiarbareyiarsundi dreymdi hann draum. at honum þotti koma at ser .iij. menn. þotti honum einn vera med konungligum skruda sa var miok ohyrligr riodr i andliti ok helldr digr medalmadr vexti. annar madr syndiz honum granvaxinn ok dreingiligr ok allra manna fridazstr ok tiguligazstr. enn þridi var myklu mestr vexti ok allra þeirra ofrynligazstr. sa var miok framsnodinn. sa varp ordum a konunginn ok spurdi ef hann ætladi til Sudreyia. hann þottiz suara at þat var vist at hann ætladi vndir sig at leggia eyiarnar. draummadrinn bad hann aptr snua. kuad honum eigi annat hlyda skylldu. Konungr sagdi drauminn ok fystu flestir at hann skylldi aftr huerfa enn konungr villdi þat eigi. ok litlu siþar tok Alexandr konungr sott ok andadiz. þa rufu Skotar safnadinn ok fluttu konunginn vpp i Skotland. Sudreyingar segia at þessir menn er konungi synduz i suefni væri hinn heilagi Olafr konungr or Noregi, ok inn heilagi Magnus jarl af Orkneyium ok enn helgi Kolumba. Skotar toku til konungs Alexandrum sun Alexandrs konungs. hann feck siþan dottur Heinreks Englakonungs ok gerdiz mikill hofþingi siþan.

## Hakon konungr bioz or Oslu.

234. Hakon konungr byr ferd sina vm vorit or Oslu austr til motz vid Suia eftir þui sem mællt var. hann hafdi mikit lid ok fritt. hann styrdi Olafssudinni enn Hakon konungr vngi hafdi Drekann. morg hofdu þeir onnur storskip. konungi byriadi helldr seint. þa var med konungi herra Philippus Lafranzsun frændi konungs hann var þa landflotti or Suiþiod fyrir konungi ok jarli. Ok þa er Hakon konungr for vpp eftir Elfui let hann vanda miok rodr a skipum. var þa vid slegit ollum bunadi ok farit med ollum pris. sem Sturla quad.

Miok er þat frægt
at fara villdi
sigri sæmdr
til Suia fundar
grundar vördr
godu heilli
a Raandvers
remmiskidum.

Var leidangr
sem logi væri
gulli glæstr
vm grams flota
þar er baugtungl
blika knaattu
yfir haareid
huert vidr annat.

Enn ellding
ifla folldar
langa leid
lysa knaatti
lofanlig
þa er litum skipti
himna sol
vid hafraudul.

þa er Hakon konungr kom til Konungahellu spurdi hann til sannz at Eirekr konungr hafdi austan komit ok sua Birgir jarl ok margir adrir hofþingiar. Enn er þeir spurdu til ferda Hakonar konungs var þeim sagt at hann hefdi fiolda skipa ok mikit lid. þa villdu Suiar enn eigi bida ok reid (konungr) enn vpp aa Gautland enn jarl var eftir i Liodhusum vm rijd. Var þa sagt Hakoni konungi at meiri vaan væri at jarl væri i brottu ridinn. þa er konungr laa i Elfui kom til hans Matheus er siþan vard vsaattr vid Birgi jarl ok sagdi konungi kuediu jarls. hann quad jarl ridinn vpp i Gautland. siþan mællti hann til konungs. þat hugdi jarl at þetta mundi vęra fridarfundr ok skylldu þer hafa talat felagskap yduarn ok vinaattu. enn nu er hann spurdi at þer hofdut her mikinn vissi hann ecki huart þer villdit frid edr eigi. Herra Matheus flutti ecki leingra ok for siþan i brottu.

## Hakon konungr sendi til jarls.

235. Eftir þetta kalladi konungr til sin raadgiafa sina ok leitar vid þa huert raad taka skal. þotti þeim vndarligt er Matheus hafdi sua skiotliga farit. Gunnar konungs frændi hafdi þa Elfarsyslu ok var mikill vin jarls. hann flutti þat at jarl mundi þegar aftr huerfa er eftir honum væri ridit. var þat raads tekit at Gunnarr konungsfrændi var sendr til jarls ok þorlaugr bosi. mællti konungr sua at þeir skylldu eigi leingra tala vid jarl enn Matheus hafdi vid hann talat. Siþan fara þeir ok fundu jarl (i) Gautlandi. var hann helldr stridr i rædu ok taldi at. at Hakon konungr hafdi sua mikit lid haft. Gunnar sagdi at honum geck eigi vtrunadr til þessa helldr var þat sidr hans at fara med storskipum vel bunum. leitadi Gunnar þa eptir vid jarl blidliga ok bad hann aftr huerfa til tals med konunginn. enn jarl sagdi at Eirekr konungr var ridinn i et eystra Gautland ok hann matti ecki aftr snua. Gunnar sagdi at þar voru oll landraad er jarl var ok hann var bædi konungr ok jarl yfir landinu. Eireki konungi var þannig haattad at hann var faamælltr ok miok klestr i malinu ok let hann af þui adra tala miok a þingum edr stefnum. Birgir jarl gerdi þann orskurd at hann mundi fara vpp til Liodhusa ok bida þar fram yfir annan sunnudag. enn þetta var laugardag. fara þeir Gunnar ok þorlaugr bosi nu til konungs. Siþan byrr konungr ferd sina til motz vid jarl vpp til Liodhusa medr allann her sinn. sem Sturla quad.

Sua var Elfr
aull at lita
glæsilig
sem aa gull sæi.

frægdar folki
er flota þeysti
lofsæll konungr
Liodhusa til.

Hardla mikils þotti Gautum vm vert er þeir sa morg storskip ok vel buin. miok voru þeir hræddir ef hofþingiar sættiz eigi at Noregs konungr mundi gera storvirki i landi þeirra. sem quedit var.

Gedsteinn
gautzskra manna
var styriar stund
i stalld drepinn.

aadr ognstorr
iattad hafdi
Suia gramr
siklings bodi.

## Hakon vngi kuentiz.

236. Hakon konungr lagdi at vid þorskabacka fyrir vestan aana gegnt Liodhusum ok beid þar til þess er jarl kom. enn siþan foru menn i millum þeirra. var þa talat bonord Hakonar vnga konungs ok margir lutir adrir vm sættir þeirra. Eftir þat senduz þeir gisla i milli ok funduz sialfir med þui moti at jarl for yfir aana til konungs ok tauludu þeir þa [729] sin i milli. foru allar rædr vel i milli þeirra. tala þa fastliga at fridr skylldi standa milli Noregs ok Suiarikis. huorigra vvinir skylldu ok eflaz i annarra riki. ok her med festi Hakon konungr vngi Rikizsu jarlsdottur ok skylldi saa raadahagr takaz þa er þeim þotti timi til vera. Eftir þetta skildu þeir med enum mesta kærleika. for jarl vpp i Suiþiod enn Hakon konungr til Konungahellu ok for vm haustid nordr til Tunsbergs ok þadan til Biorgyniar ok efnadi þar til vetrsetu. þetta haust kom vtan af Jslandi Heinrekr byskup ok sagdi þau tiþendi at þordr kakali lagdi litla stund aa konungs maal. afflutti byskup miok maal þordar. konungr tok byskupi vel ok let hann stefna þordi vtan til sin. Hakon konungr sat þenna vetr i Biorgyn ok var þessi enn .iij. vetr (ens) fiorda tigar rikis hans. Vm vorit komu menn austan or Suiavelldi ok sogdu at Eirekr Suiakonungr væri andadr. var þat flestra manna ahugi at sonr jarls væri næstr konungdominum systurson Eireks konungs þuiat systir hans aatti allann arf eftir hann. Philippus son Knutz konungs langa þottiz enn vera nær konungsnafni þuiat hans fadir hafdi verit konungr med Eireki konungi Knutzsyni. Magnus broki þottiz enn vera nær konungdominum. hann var dotturson Knutz konungs Eirekssunar er leingi var konungr i Suiariki. Enn þegar Birgir jarl kemr til þuiat hann hafdi mest landraad þa fylgdu þui flestir at hans son væri bezst til kominn konungdomsins. var siþan Valldimar til konungs

tekinn son Birgis jarls. enn þetta mislikadi hofþingium þeim er eigi þottuz verr til komnir rikissins.

### Abel sucik Eirek brodur sinn.

237. þetta sumar vrdu mikil tiþendi i Danmork. þa tok Abel med vel Eirek konung brodur sinn ok let taka af lifi aa Lafranzvoku aptan. siþan let hertuginn taka sik til konungs yfir allt Danavelldi ok gerdiz rikr hofþingi. Hakon konungr for vm haustid nordr til þrondheims ok let þar bua til vetrsetu. þetta haust komu þeir af Jslandi Siguardr byskup ok þordr kakali ok fundu konung i þrondheimi. þar var þa mart islenzskra manna. Heinrekr byskup Gizsur þorualldzsun þorgils skardi Jonn Sturlusun Finnbogi Helgasun Sæmundarsynir Philippus ok Haralldr. var med þeim mikill sueitardraattr þuiat huerr villdi sem fyst vt naa. Heinrekr byskup flutti þat mest at Gizsur skylldi vt fara þuiat hann stod mest i moti þordi ok kalladi þat vnytt er þordr hafdi syslat. sagdi hann flutt hafa i ollu sinn lut enn ecki konungs erendi. ok var þui meirr truat at sinni. þenna vetr kom austan af Suiariki herra Knutr son Magnus broka frændi konungs. Enn aatta dag bar Hakon konungr koronu sina ok hafdi þa i bodi sinu alla enu bezstu menn er i voru bænum Sigurd erchibyskup ok liodbyskupa korsbrædr. þar var Knutr jarl ok herra Knutr frændi hans ok allir enir bezstu menn or þrændalogum. þessi var enn .iiij. vetr ins fiorda tigar rikis hans. Vm vetrinn foru ordsendingar milli þeirra Abels Danakonungs. sendi Hakon konungr sudr Biarna Moysessun med brefum enn Abel sendi sunnan adra menn i mot med brefum sinum. var þat mællt at þeir skylldu finnaz konungarnir vid landamæri ok semia þa luti er Hakoni konungi þotti aafaatt vid Dani.

### Fra Hakoni konungi.

238. þenna vetr er Hakon konungr sat i þrondheimi komu austan or Gardariki sendimenn Alexandri konungs af Holmgardi. het sa Michiall ok var riddari er fyrir þeim var. kærdu þeir vm þa luti er vid aattuz syslumenn þeirra Hakonar konungs nordr a Morkinni ok Austrkirialar þeir sem skattgilldir voru vndir Holmgarda konung. þuiat þeir aattuz iafnan vid vfrid i raanum ok manndrapum. voru þar stefnur at aattar ok raad fyrir gert huersu þat skylldi nidr setia. þat hofdu þeir ok at erendum at þeir villdu sia fru Cristinu dottur Hakonar konungs þuiat Holmgardz konungr hafdi sua bodit þeim at þeir skylldu leita eftir vid Hakon konung ef hann villdi gifta fruna syni Alexandri konungs.

Hakon konungr gerdi þat raad at hann sendi menn or þrondheimi vm vorit ok foru austr til Holmgardz med sendimonnum Alexandri konungs. var fyrir þeirri ferd Vigleikr prestzsun ok Borgar. foru þeir til Biorgyniar ok sua et eystra. quomu þeir vm sumarit i Holmgard ok tok konungr vel vid þeim ok settu þeir þa frid milli siin ok skattlanda sinna sua at huoregir skylldu odrum ofrid gera Kirialar ne Finnar ok helltz su sætt ecki leingi. J þann tima var vfridr mikill i Holmgardi. geingu Tattarar aa riki Holmgardz konungs ok fyrir þær sakir var ecki litid aa bonordit þat er Holmgardz konungr hafdi flytia laatid. Ok er þeir hofdu lokit erendum sinum foru þeir austan med sæmiligum giofum er Holmgardz konungr sendi Hakoni konungi. komu þeir austan vm vetrinn ok fundu konung i Vikinni. Hakon konungr for vm sumarit or þrondheimi sudr til Biorgyniar ok sat þar. herra Knutr son Magnus broka var med konunginum. þa kom austan or Vikinni til motz vid konung herra Philippus ok herra Philippus sun Knutz langa. beiddu þeir Hakon konung at hann skylldi fa þeim styrk til þess at þeir mætti fa þat riki er þeir þottuz vera tilkomnir. enn konungr villdi eigi nockurn styrk fa þeim þuiat þat voru einkamaal þeirra Birgis jarls at huargi skylldi efla annars vuini. Eftir þetta fara herrarnir i brott ok fyst sudr til Vindlandz ok eflduz þadan at lidi bædi þyduerskum ok Vindum ok foru siþan til Suiarikis ok reistu vfrid moti Birgi jarli.

## Gerdir menn til Jslandz.

239. þetta sama sumar var mart manna af Jslandi med Hakoni sem fyrr greinir. ok voru margar stefnur at aattar hueria skipan aa skylldi gera vm landit. enn þat var af gert at þeir voru vt sendir Heinrekr byskup ok Gizsur ok þorgils skardi. ok voru þeim skipud riki þau a Jslandi er konungr hafdi þa heimilldum aa tekit. skylldu þeir siþan flytia konungs maal vid adra landzmenn. Sæmundarsynir foru vt aa odru skipi ok gafu þeir aadr med handfestu þeirra manna forraad konungi er þeir aattu. Siguardr byskup þordr ok Jon Sturluson voru þa eftir i Noregi. Skip þat er Sæmundarsynir voru aa tyndiz ok quamuz .iiij. af. enn þat skip er byskup var aa ok Gizsur ok þorgils [730] vard aptrreka til Noregs vm haustid ok braut skipit enn voru i þrondheimi vm vetrinn.

## Fra Hakoni konungi.

240. Hakon konungr for vm haustid austr til Vikr ok ætladi til motz vid Danakonung Aabel sua sem ord hofdu aadr vm farit i milli.

þuiat þar hafdi margr flutningr milli farit. var þat talat at þeir mundi gera teingdir milli sin Noregs konungr ok Dana konungr med þui moti a(t) jungherra Magnus mundi fa dottur Aabels konungs. for Hakon konungr allt austr til Elfar vm haustid ok spurdi hann þa ecki til Aabels konungs. sigldi Hakon konungr allt austr til Mostrarsundz ok laa þar vm rijd. komu þar til hans kuggar margir bædi Vindlandzfarar ok adrir kaupmenn. vard Hakon konungr þa viss at Abel konungr ætladi ecki at hallda stefnu vid hann. sneri þa Hakon konungr aftr i sitt riki ok for vm haustid til Osloar ok efnadi þar til vetrsetu. þetta sumar var vfridr mikill i Suiþiod med Birgi jarli ok hertugunum er adr var fra sagt. hofdu þa huorirtueggio her mikinn ok foruzst i mot. Enn er þeir timar voru komnir er þeir hofdu akuedit med ser Hakon konungr ok Birgir jarl at vngi konungr skylldi gera brudlaup sitt til jumfru Rikizsu. enn med þui at jarl hafdi vfrid mikinn i Suiavelldi þottiz hann eigi mega sækia þessa brudlaupsstefnu eftir þui sem mællt var. tok hann þat raad at hann sendi austan dottur sina med vegligu foruneyti. voru þar med henni .ij. byskupar annar Lafranz byskup af Skaurum ok Magnus byskup or Suiariki herra Karl sun Vlfs jarls ok margir adrir aagætir herrar ok hofþingiar af Suiariki. var þessi ferd en skauruligzsta fyrir sakir fiar ok foruneytis. þetta folk fann Hakon konung i Oslu ok tok hann med þeim med hinum mestum sæmdum sem Sturla quad.

Austan sendi gulli glęsta
Gauta styrir megindyrum
seima þollr med sæmdum ollum
sina dottur arfa þinum.

volldugr toktu af mestri milldi
maalma skerdir Suia ferdir
alldir dyrki yduart velldi
eirarsamt vid brudfaur þeira.

Nv var buit til veizslu mikillar i Oslu ok var veitt brudlaup vnga konungs ok jumfru Rikizsu. var at þeirri veizslu bædi fiolment ok gǫdment. enn er veizslunni var lukt foru Suiar heim ok leysti konungr þa vt med sæmiligum giofum. Enn medan þeir voru i Noregi vrdu mikil tiþendi i Suiariki. þa hofdu þeir fundiz vid Herenazbru Birgir jarl ok herrarnir baadir Philippus huorrtueggi ok Knutr Magnussun ok kuomu þeir a valld jarls allir. enn hann let haalshauggua þa alla ok marga þyduerska menn med þeim enn flestum ollum suænskum monnum gaf hann grid. vm þessi verk var allmisiafnt talat. siþan giordiz fridr i Suiþiod.

## Brefasending keisara.

241. Þat er nu at segia er fyrr er sagt at med þeim [1] Hakoni

[1]) Heinreki ok *tilf. Cd.*

konungi ok Fridreki keisara var enn mesti felagsskapr. foru iafnan menn i milli þeirra med agætum sendingum. enn þa hafdi nockura rijd verit vfridr milli Nordmanna ok Lybikumanna af raanum þeim er fyrr var sagt. Hakon konungr hafdi ritad til keisara at Nordmenn hofdu eigi frid at sigla til Lybiku enn keisari hafdi valld yfir stadnum. þat sumar er Eirekr konungr var suikinn i Danmork komu bref fra keisara þau er þat vottudu at Nordmenn skylldu hafa frid i Lybiku. þat stod ok aa brefum at keisari mundi meiri sæmd gera Hakonar konungs enn annarra hofþingia aa Nordrlondum. þuiat hann kuaz mundu stadinn i Lybiku vpp gefa i hans valld sua at hann væri þar frialsliga herra ok hofþingi yfir kuaz þar mundu fyrir setia sitt bref ok jnnsigli ef Hakon konungr villdi sækia laata. Enn er Hakon konungr sa þessi bref gerdi hann sendimenn bædi til keisara a vit þessarra boda ok sua til Lybiku at leggia fullkominn frid vid stadarmennina. ok for þangat Biarni Moysessun enn til keisara voru sendir sira Askatin ok Amundi Haralldzsun. Foru þeir vm haustid or Biorgyn vm vetrnaatta skeid sudr til Danmerkr. þeir komu at hinum .xiij. degi i Fenidi ok spurdu þau tiþendi at keisarinn hafdi andazst fyrir jolin vt aa Puli. hurfu þeir þa aftr ok ætludu i Suafua aa fund herra Konraads sunar Fridreks keisara. J þeirri ferd voru þeir teknir ok innsettir. voru i þeirri prisund til þess er herra Konraadr let leysa þa. foru þeir siþan a fund Konraads ok tok hann þeim sæmiliga enn eigi fengu þeir þau erendislok sem þeir mundi ef keisari lifdi. Enn þat er maal manna at Fridrekr keisari hafi einnhuerr gaufgazstr verit i enni sidarri æfi. hann var keisari .xix. vetr ok .xx. enn eftir þat fell nidr keisaradomr sua at eingi var siþan þar til er þessi bok var samansett ok Magnus hafdi verit .ij. vetr konungr at Noregi siþan er Hakon konungr for vestr vm haf. Eftir þetta for Askatin nordr i Noreg ok fundu Hakon konung i Biorgyn vm Jonsvoku skeid ok sogdu þau tiþendi sem þeir hofdu ok þotti konungi enn mesti skadi at keisara. Biarni Moysessun kom aftr ok hafdi gert frid vid Lybikumenn ok voru þeir siþan vinir Hakonar konungs.

## Herbunadr.

242. Hakon konungr sat vm vetrinn i Oslu eftir brudlaupsgiordina Hakonar vnga. A þessu sama ari hafdi andaz Paall i Hamri byskup. þessi var enn .v. vetr ins fiorda tigar rikis Hakonar konungs. Vm vaarit i faustu vrdu mikil tiþendi i þrondheimi. þa andadiz Sigurdr erchibyskup annan nonasdag Martij. enn i stad hans var kosinn til erchibyskups Saurli er aadr var korsbrodir i Hamri. for hann þetta sumar aa fund

Jnnocentij pafa ok feck vigslu af honum. Saurli erchibyskup vigdi .ij. byskupa aa pafagardi annan Petr byskup til Hamars hann var predicari enn annan Rikgard byskup til Sudreyia. Vm vorit bio Hakon konungr ferd sina or Oslu ok for austr til Elfar ok fann þar Birgi jarl. sagdi Hakon konungr jarli huert lausmæli Abel konungr hafdi synt honum er hann hafdi rofit stefnuleidangr vid hann. jarl sagdi at Danir hofdu gert Suium mikinn skada i raanum ok manndraapum enn þat mest er þeir hofdu eflt þa herrana vpp aa Suiariki. enn med þui at huorumtueggia var illa vid Dani þa gerdu þeir þat raad at þa .xij. manadi skylldu þeir bua her af huorutueggia riki. skylldi Hakon konungr hafa skipaher af Noregi enn jarl skylldi hafa .v. þushundrad af Suiariki. skylldu þeir finnaz vm vaarit vid Elfina ok fara sua baadir i Danavelldi. skylldi Hakon konungr fara i Eyrasund enn jarl aa Hallland ok Skaaney ok finnaz i Eyrasundi ok gera þar raad sin ef Danir bydi engi sæmilig bod af sinni hendi. Siþan skilia þeir. for konungr nordr til Tunsbergs enn jarl vpp i Suiariki. konungr for vm sumarit til Biorgyniar ok sat þar. þetta sumar foru til Jslandz Heinrekr byskup Gizsur þorgils ok Finnbiornn. toku þeir þau riki aa Jslandi sem Hakon konungr hafdi þeim skipat. enn þo gerdiz bratt ofridr milli Gizsorar ok vmbodsmanna þordar. eigi var ok langt aadr enn [731] byskupi þotti Gizsur eigi efna þat er hann hafdi konungi heitid ok vendi sinni vinaattu til þeirra manna er mestir vvinir Gizsurar voru. sagdi hann þa eingann falskara vera enn Gizsur at riufa alla þaa luti er konungi voru til sæmdar ok hann hafdi heitid. þeim kom ok ecki saman Gizsuri ok þorgilsi. þat sumar er Gizsur for til Jslandz feck Hakon konungr þordi kakala syslu nordr i Gaulardal. enn þordr sendi til Jslandz Kolbein graun frænda sinn ok þotti hann ecki mikill manna sættir er hann kom til Jslandz. þetta sumar hellt Aabel konungr strid[1] vid Frisi ok villdi leggia aa þa skylldir meiri enn verit hafdi. þeir hofdu safnat nockurn ok letu miok skoga gæta sin ok er Aabel konungr leitadi eftir þeim var hann lostinn auru ok feck af þui bana. Eftir þat tok Danmork Cristiforus brodir Eireks konungs.

Sigling.

243. J Biorgyn let Hakon konungr bua til vetrsetu. þessi var enn .vj. vetr ens fiorda tigar rikis hans. Ok er vora tok gerdi hann vtbodabref vm allt land ok baud vt miklu lidi med vistum ok skipalidi ok vopna. gerdi hann bert at hann ætladi her þeim til Danmerkr. Samnadiz saman vm sumarit i Noregi mikill herr. hellt konungr þegar hann var buinn austr til Vikr ok for herrinn ecki miok samfast i

[1]) stridi *Cd.*

fystunni þuiat miok sigldu huerir sem bunir voru. Hakon konungr lagdi til Tunsbergs ok let þar eftir fru Margretu drottningu ok Rikizsu drottningu enn hann sigldi austr vm Folldina. sotti þa mikit lid til hans vm Vikina ok nordan or landi. Hakon konungr hafdi þa Olafssudina enn vngi konungssun Drekann Knutr jarl Dragsmorkina herra Sigurdr konungssun Rygiabrandinn Petr or Gizska Borgundarbaatinn Augmundr krækidanz Gunnarsbaatinn. Baardr or Hestby hafdi enn mikit skip ok morg voru þar onnur storskip. Hakon konungr lagdi at i Heruidarsundi ok kom þar til hans mestr þori lidsins. konungr for þadan inn i Hrafnshollt. þar stod skip þat et mikla er Gunnar konungsfrændi hafdi gera laatid eftir fyrirsogn konungsins er eitthuert hefir mest verit gert i Noregi. Hakon konungr let þa fram setia skipit af backastockum ok reez til þess allgiptusamliga. ok adr enn skipit var fram sett taladi konungr sniallt erendi ok gaf nafn skipinu ok kalladi Crosssudina. enn er flotad var skipinu setti konungr eftir menn at bua skipit. enn hann for þa til motz vid herinn ok sigldi sudr i Ekreyiar ok let flestann herinn þar liggia. enn konungarnir geingu þa aa lettiskip ok flestir lendir menn med þeim ok logdu inn til Elfar ok laagu þar sem Lindisholmar heita. Hakon konungr spurdi þa at Birgir jarl var kominn med Suiaher eftir þúi sem þeir hofdu raadit.

## Herferd Hakonar.

244. Hakon konungr sendi þa nordr eftir Crosssudinni jungherra Magnus son sinn ok Gaut a Meli ok skylldu þeir sigla henni til Ekreyia til annarra storskipa. ok er þeir komu nordr biuggu þeir skipit vm þat sem vantadi. Enn aadr þeir færi or Rafnshollti taladi jungherra Magnus it fysta erendi ok fannz monnum mikit vm huersu sniallt erendi þat var ok vbernskliga þat var fram flutt. Eftir þat helldu þeir til Ekreyia ok er þeir komu i hofnina ok kostudu ackerum þa vard sua mikit suif aa skipunum at elldr kom i dockuna er þeir brugdu vm kadlinum. hugdu menn þa at streingrinn mundi brenna ok toku tialld eitt ok vættu ok ætludu at slockua elldinn med. enn jungherra Magnus var þui skiotari ok betri fangaraads at hann tok byttu eina fulla af dryck ok steypti yfir dockuna ok kældi sua streinginn. þa er Crosssudin kom i lægi med odrum skipum þa bar iafnhaatt bordin aa henni ok tialldaasa a Olafssudinni. bordit var .ix. alna fyrir ofan sio a Crosssudinni ok var þetta skip miklu mest allra þeirra er þar voru ok var þat þo margra manna maal at eigi hefdi seet iafnmorg storskip i einni hofn. Af þessum leidangri ok skipaflota for mikit ognarbod sudr vm Danavelldi ok

þotti monnum sem i moti þessum her mundi ecki raund reisa. sem Sturla quad.

Aulldum seg ek vfrid gulldut
vnnviggiar skipudu Daunum sunnan
vida settu þinar þiodir
þunnar skeidr af nyium hlunnum
storir hofdu vtbod ærit
ydrir þegnar raana hegnir
ytum þotti ei leidangr litill
langa stund fyrir vidri grundu.

Framla dreif til huerrar haumlu
hilmis þiod ens mærdar froda
siþan helldu sudr med laadi
seima stiklir flota miklum
hræddar wrdu Haallandz ferdir
hringa balldr af þinu valldi
eingi madr vard Jota þengils
ottalauss vid Noregs drottinn.

Hakon konungr hafdi i þessum leidangri marga agæta menn. þar voru .iij. konungar adrir enn hann Hakon konungr vngi Jonn konungr af Sudreyium Duggaall konungr. Knutr jarl. jungherra Magnus. herra Sigurdr konungssun. þessir lendir menn gofgazstir Petr or Gizska Nichulas sun hans Gautr af Meli Bryniolfr Jonssun. þa er Hakon konungr laa i Ekreyium kom þar Sõrli erchibyskup vtan fra pafa ok þo fyrir skemstu or Tunsbergi. var med honum Petr byskup. enn aadr var med konunginum Aarni byskup af Biorgyn Askell byskup af Stafangri ok Hakon byskup af Oslu ok margir adrir kennimenn. Hakon konungr lagdi at vid Gullbergseid.

### Sættargerd.

245. Birgir jarl hafdi .v. þusundir. þar var mart gofugra manna med honum. þar var[1] brodir Vlfs jarls Karl son Vlfs. Folki jarl ok Karl kueisa son Jons engils ok margir adrir agætir menn af Suiþiod. þar var ok Andres konungr af Surdolum brodir Alexandri konungs (af) Holmgardi. hann hafdi flyit austan fyrir Tattarum. Hakon konungr for i Lindisholma Petr or Gizska ok fleiri gofgir menn ok voru i bodi jarls. enn sunnudaginn fyrir Jonsvoku for jarl aa fund Hakonar konungs ok sagdi honum at sendimenn Danakonungs voru sunnan komnir ok laagu vpp i aanni byskupar .ij. ok riddarar .xv. ok eru sendir til þess at sættaz aa þær sakir er Nordmenn telia aa vid Dani. Jonsvoku funduz huorirtueggiu til vidtaals ok þotti monnum jarl flytia meirr maal Dana enn þeir ætludu. enn su vard sætt at Danir skylldu aptr luka allt þat er þeir hofdu fyrir Nordmonnum vpp tekit. laukz þa þegar sumt. enn fyrir þat er eptir stod skylldi Hallland at vedi. enn er Kristiforus konungr villdi eigi þesse sætt at helldiz skylldu riddararnir vera med Hakoni konungi enn sumir med jarli til þess er þeir væri vt leystir. Var þessi sætt ger med brefum byskupanna af huorutueggia rikinu sem Sturla quad.

[1]) *Her er et aabent Rum i Cd.*

Raan gallt rannda [732] tynir
rogstridr Daunum siþan
fyrst koma fura lestir
fleyuangs til Ekreyia.

aull het gnogu gialldi
gullstridi þa siþan
lond tok lofdungr þrænda
lidbaals at vedmaali.

Enn er þetta var mællt ok stadfest toku þeir raadagiordir sinar Hakon konungr ok Birgir jarl. siþan raufz leidangr þessi. sneri Hakon konungr nordr til Tunsbergs. kom hann þar nær Petrsmesso. gaf hann ollum monnum þa heimleyfi.

## Fra Hakoni konungi.

246. Hakon konungr for or Tunsbergi þegar hann var buinn til Biorgyniar ok sat þar vm sumarit. ok er aa leid sendi Hakon konungr Aslak gus austr til landzenda med þat er hann skylldi giallda Daunum. ok er Aslakr kom til Elfarinnar þa komu engir menn af Danmork at taka vid fenu ok engir til þess at greida þat sem mællt var. Aslakr fann Birgi jarl ok sagdi jarl honum sua at Danakonungr villdi at engi fegiolld færi fram aa þui hausti. enn hann villdi at þeir fyndiz sialfir konungarnir vm sumarit ok semdi þa alla luti sin aa milli. Jarl var þessa miok flytandi ok eftir þetta for Aslakr heim. Hakon konungr byr ferd sina nordr i land ok sat i þrondheimi vm vetrinn. var þessi enn .vij. vetr ens fiorda tigar konungdoms hans. Vm vorit i faustu andadiz Petr or Gizska. hann bioz i faustunni sudr til Biorgyniar ok dualdiz þar nockura rijd vm vorit. þetta sama vôr andadiz Saurli erchibyskup i þrondheimi .ij. postula messu.

## Capitulum.

247. Eftir andlaat (erchi)byskups aattu korsbrædr tal ok kom þat aa samt med þeim at þeir kuru til erchibyskups Einar smiorbak sun Gunnars grionbaks. enn hann var þaa vt i Paaris. for þa vt meistari Hakon ok meistari Ottar med brefum at segia þetta vera þeirra vilia ok kosning. enn ecki hofdu þeir raad Hakonar konungs vid þetta. Hakon konungr for vm sumarit austr til Vikr ok allt til Elfar til motz vid Danakonung eftir þui sem Birgir jarl hafdi beitt. lagdi konungr þa austr til Lindisholma enn Birgir jarl var vid Gullbergseid. þar kom ok Kristiforus konungr af Danmork ok var miok hans traust þar sem jarl var. Enn er vm sættir var leitad þa fanz þat aa at Danakonungi þottu byskupar it fyrra sumarit hafa tekit miklu frekara en sua sem hann hafdi þeim bodit. Vrdu konungar aa ecki saattir. enn Birgir jarl hellt i ollu til þess at þeir skylldu semia ok þotti Nordmonnum hann miok

hallda eftir vilia Dana. Enn fundr lyktadiz med þui at Danakonungr reid i brott med eingum sættum stadfestum. hann reid sudr eftir Hall-landi ok let taka bruar allar af huerri aa sem hann kom yfir. Hakon konungr for nordr aptr i Vikina ok var þar vm vorit ok sumarit. Enn þetta var er nu var fra sagt andadiz Sigurdr konungsson þa ok Askell byskup af Stafangri. þat sumar sendi Hakon konungr til Jslandz Siguard byskup at flytia maal konungs a þingi a Jslandi. Sigurdr silkiauga for ok vt at skynia huersu einardliga byskup færi i konungs maalum. þeir hofdu morg bref til Jslandz. voru þar aa vtanstefningar vid Gizsur þorualldzsun ok enn fleiri adra. Ok er þeir komu til Jslandz spurdu þeir at þar hofdu gerz mikil tiþendi vm haustid aadr. þeir Eyiolfr þorsteinssun ok Rani Kodranssun ok Kolbeinn graun hofdu brent inne sonu Gizsorar .iij. ok marga menn adra a Flugumyri. enn Gizsur drap vm vetrinn Kolbein graun ok þa .vij. enn vm vorit drap Oddr þorar-inssun Rana[1] ok þa .iiij. i Grimsey. var þa mikill vfridr aa Jslandi. Siguardr byskup fann Gizsur fyrir sunnan land ok var hann i stormælum af Heinreki byskupi. Ok er Heinrekr byskup spyrr skipkuomuna reid hann sudr vm heidi ok herdu þeir þa badir byskuparnir at Gizsuri sua at hann reez þa þegar til vtanferdar enn skipadi Oddi þorarinssyni yfir Skagafirdi ok feck honum i hendr allt sitt maal vid brennumenn. enn þore tott skipadi hann faudurleifd sina skylldi hann vera til styrktar vid Odd i moti Eyiolfi ok Rafni. Gizsur kom til Biorgyniar. var þordr kakali þar fyrir ok var med þeim eingi vinafundr. for Gizsur þa þegar austr til Vikr ok fann þar Hakon konung.

### Juarr for til Jslandz med konungserendum.

248. þetta sama haust let Hakon konungr bua til vetrsetu a Berginu. var þessi enn .xviij. ok .xx. (vetr) rikis hans. þa[2] voru þeir þar baadir Gizsur ok þordr. var þordr aa berginu enn Gizsor i bænum. Vm vorit for Hakon konungr til Biorgyniar ok hafdi Crosssudina. þetta sumar kom i land Einar erchibyskup af pafafundi ok for þegar nordr til þrondheims. þotti konungi vndarligt er byskup villdi ecki finna hann. Vm vorit sendi konungr til Jslandz Juar Eglason at flytia sitt erendi aa Jslandi med tilbeina byskupanna þuiat konungr trudi þeim baadum vel. Konungr feck þeim syslu Gizsuri ok þordi. hafdi Gizsorr i þrondheimi enn þordr i Skidu. þa er Juar kom til Jslandz spurdi hann þau tiþendi at þeir Rafn ok Eyiolfr hofdu drepit Odd þorarinssun vm vetrinn i Gelldingaholllti. þetta sumar hofdu þeir barizst a þueraareyrum þoruardr

[1]) tanna *Cd.* [2]) þar *Cd.*

þorarinssun þorgils skardi ok Sturla þordarsun vid Rafn ok Eyiolf. fell Eyiolfr enn Rafn flydi. Juarr var i Skaalhollti vm vetrinn ok þotti honum Siguardr byskup litinn hug leggia aa konungs erendi. for Juarr vm vorit nordr til Skagafiardar ok fann Heinrek byskup ok þorgils skarda ok flutti konungs maal fyrir þeim. toku þeir baadir vel vndir ok stefndu saman ollum bændum fyrir nordan ok fluttu konungs maal med Juari. kom þa sua at mestr luti bænda i Nordlendinga fiordungi iattudu at giallda skaatt konungi slikann sem þeir yrdi aa saattir vid Juar. Juarr for vtan vm sumarit ok þotti hans erendi minna hafa vordit enn til var hugat. kendi hann þat mest vinum Gizsurar ok fostbrædrum ok enn frændum þordar ok vinum. Einarr erchibyskup spurdi at Hakoni konungi mislikadi er hann hafdi ecki fundit hann. ferr erchibyskup sudr til Biorgyniar aa fund konungs ok tok hann honum vel. foru allar rædur vel med þeim. Erchibyskup var vin vnga konungs þui at hann hafdi gefit honum konungsnafn. Erchibyskup bad konung gera landaskipti med sonum sinum at ser lifanda þat er þeir iattadi at hallda. taladi konungr þetta vid raadgiafa sina. logdu þat sumir til at Magnus skylldi hafa þridiung af landi ok hertuganafn. sumir mælltu at skipta skylldi i helminga landi þo at Hakon bæri konungsnafn einn eftir fedr sinn. sumir villdu i engu lata misiafna þeirra i millum brædra. Konungr sagdi at þat mundi bezst gegna at gud skipti. var þa ok engu skipt. [733] Erchibyskup for nordr til stols sins ok skildu þeir med blidu ok mikilli vinaattu. Hakon konungr vngi hafdi þetta sumar gert sendimenn vt i Spania til konungsins af Kastel. var Elis prestr fyrir þeim sendimonnum. hofdu þeir hauka nockura at færa konunginum ok fleiri luti þa er þar voru torgætir. Ok er þeir komu vt i Spaniam tok konungr þeim hardla vel ok sua sendingum þeim er honum voru sendar af Noregi. duolduz þar sendimenn vm rijd i godu yfirlæti. þenna vetr enn næsta sat Hakon konungr i Biorgyn. ok var þessi enn .xix. vetr ok .xx. rikis hans. Vm vorit nær paschum sendi Hakon konungr þorlaug bosa ok nockura menn med honum sudr til Danmerkr. skylldu þeir fara a fund Jacobs erchibyskups i Lund. gerdi konungr bref til erchibyskups at hann skylldi senda menn a fund Kristifori konungs ok foruitnazst huart hann villdi nockud hallda af sættum þeim er giorfar voru milli Dana ok Nordmanna vm sumarit er konungr (laa) i Ekreyium. beiddiz konungr at vita þar af sannindi. Enn er þorlaugr kom sudr i Lund tok byskup vel vid honum ok let hann vera med ser enn sendi menn i Sioland til Roiskelldu a fund Danakonungs. Enn er konungr vissi þeirra erendi hellt hann þeim med ser enn gerdi

menn vpp aa Skaaney at taka sendimenn Noregs konungs ok flytia til sin. Enn sem erchibyskup feck niosn af þessu gerdi hann þorlaug varann vid ok feck honum hesta ok reid hann vpp i Suiariki enn sumir hans felagar voru eftir med byskupi leyniligha. þorlaugr for et eystra til Vikrinnar ok sua nordr aa konungs fund ok kom at huitasunnudegi til Biorgyniar. sagdi hann konungi sin tiþendi ok ord byskups at Hakon konungr mundi ecki þurfa til þess at ætla at ne einn greidskapr mundi verda aa þui fegialldi er Nordmenn aattu skilt af Donum edr odrum þeim einkamalum er gerr hofdu verit þeirra i milli. Konungr let ser faatt vm þetta finnaz. enn vaan braadara let hann flota skipi sinu Olafssudinni ok gerdi þat ord aa at hann ætladi nordr til þrondheims. enn er skipinu var vt lagit vndir Fenhring sagdiz hann skylldu sigla austr til Vikr. hann gerdi austr menn fyrir ser med brefum til syslumanna ok kaupmanna þeirra er vanir voru at sigla til Danmerkr ok lagdi rikt vid at engi Eyrarfloti skylldi lengra sigla med landi enn i Ekreyiar ok bida þar til þess er konungr gerdi raad fyrir huernueg hann villdi at þeir færi. Hakon konungr sigldi austr med landi. enn er hann kom i Vikina hellt hann fyrst til Tunsbergs. ok er hann kom þar gerdi hann vtbodabref vm alla Vikina ok stefndi til sin ollum lendum monnum ok syslumonnum þeim er i Vikinni voru. ok droz þar saman mikill herr ok fioldi skipa. hellt Hakon konungr ollum þeim her sudr med landi til Ekreyia. kom þar saman allmikit lid. Var þat avarp manna at eigi[1] mundi vanta .ccc. skipa. sem Sturla quad.

Eigi saatud iofra hneitir
ættum godr at rofnar sættir
stirdar biuggu hirdmenn hardir
herskips steingr i kyrdum leingi.
mætum hellt fra Elfi vtan
audit letztu flotnum dauda
naudir vissu nyiar sudir
Nordmanna gramr þar fyrir bordum.

þa er Hakon konungr kom i Ekreyiarsund sendi hann mikinn luta hersins sudr fyrir Hallland. bad þa heria a landit ok eyda bædi med elldi ok vopnum. sendi nær .ij. lutum lidsins sudr til Glaumsteins. voru þar fyrir Augmundr krækidanz ok Arnbiorn posi Baardr or Hestbæ Aslaakr ok Paall gaas Amundi Haralldzsun. enn þridiungr þessa lids skylldi ganga vpp i Geitskorum. var þar fyrir Jonn drottning ok Jonn Lodinssun þordr kakali ok enn fleiri syslumenn or Vikinni. þeir sigldu allir samt til Mostrarsundz sem Sturla quad.

Sueida letu þinar þiodir
þunnar skeidr vnd bunu reidi
Gautar spurdu leidangr liotann
lunda vǫll at Mostrarsundi.

[1]) engi *Cd.*

siþan let er seglum blodu
snarfeingr konungr ydrir dreingir
lysa tok af herskips hausum
hrygdar folk i Dana bygdir.

þa er herrinn kom i Mostrarsund voru þar fyrir nockurir danskir menn ok (voru) þegar flestir drepnir.

## Herferd konungs.

249. Bartholomeus messodagr stod a fimtadag. þa skipuduz Nordmenn til vppgaungu aa Hallland eftir þui sem Hakon konungr hafdi raad fyrir gert. geingu þeir ok vpp vid Glaumstein. enn Jonn huartueggi for fyrst inn Baardfiord[1] ok brendu þar eina kirkiusokn. siþan helldu þeir sudr til Geitkiarra ok geingu þar vpp. þar var fyrir nockurr safnadr af landzmonnum ok hellduz þeir litla stund vid ok fell þar mart af Donum. Siþan toku Nordmenn at heria landit ok brenna sem Sturla quad.

Allualldr rettu þui er ytar helldu
ognarbraads at fylkis laadi
prudar naadu sueitir siþan
soknar strangs aa land at ganga.

storar letu Hallland heriat
hirdmenn þinir frelsi sinu
vida tyndu virda kindir
vægdarlaust fyrir Geitkiorr austan.

Nordmenn geingu yfir landit ok draapu menn enn brendu bygdir. folkit flydi vndan sem vid komz. sem quedit er.

Syngia letu snarpir dreingir
soknar gaugl i fleina kofi
brandar leyptu aurt or vndum
ærnu blodi danskrar þiodar.

vida fellu vegnir þollar
viga drott i reknum flotta
falldin geck þar fast at hilldi
frægr maalma hægis hialma.

Ok enn sua.

Styrkir geingu menn vnd merkium
maalma lundz aa vidri grundu
valgammr sleit at vopna moti
varma braad at þinu raadi.

sialfr skipti aurn vid vlfa
ognar baaru hofud saara
gylldr stod yfir greypra haullda
grimrar þiodar meginblodi.

þeir Augmundr krækidanz geingu aa land Bartolomeus messodag vid Glaumstein ok fengu þar einga motstaudu. enn þo drapu þeir marga menn af Daunum. þeir brendu bygdirnar vm kuelldit ok faustudaginn ok foru allt sudr til aar þeirrar er Eidre heitir ok brendu þar kaupþorp eitt. laugardag sneru þeir aftr ok brendu þa allar bygdir þær sem fyrir þeim vrdu. sem Sturla quad.

[1]) Haarþfiord *Cd.*

Hæstan kyndu hirdmenn traustir
heitann elld i Danavelldi
skęriligr geck husum hærri
hallar gandr aa súidnu landi.

vida for vm bukarls budir
birkisott enn brendar drottir
bragnar eyddu baali slegnu
brunnit land til skogar runnu.

Vm nottina fyrir sunnudaginn laagu Nordmenn aa skipum sinum. þa kom aa stormr mikill ok rak nockur [734] skip þeirra fra þeim or festum enn menn baaru af feit ok geingu sialfir a þau skip er fest voru.

## Bod Dana.

250. Svnnudag komu Danir ofan med mikinn her. þeir drapu nockura sueina Nordmanna er þeir fundu aa landi ok nockura menn adra er slegiz hofdu eftir i bygdinni at vspecktum. siþan toku þeir skipin þau er at landi hafdi rekit ok gerdu aa baal stor ok ætludu at þat skylldi reka vt at skipum Nordmanna þuiat vindrinn hafdi geingit a land. Nordmenn reru vpp i moti at landinu er þeir sa þessa nylundu ok komu aa stafnliaam a summ skipin ok drogu at ser ok vard þeim ecki mein at þessi vmbud. Eftir þat foru Nordmenn i brott ok brendu nockuru sidar stadinn i Aranesi. sem Sturla quad.

Gneistum hratt fyrir Elfi austa(n)
elris garmr i ræfrit varma
siþan fellu haafar hallir
hrygdar stund i Dana bygdum.

innin toku aull at brenna
ognar strid a Halllandz sidu
yta rann vm storlig stræti
stordar vlfr fyrir Glymstein nordan.

Hakon konungr la i Ekreyium til þess er herrinn kom sunnan til motz vid hann. spurdi konungr þa gloggliga oll þau tiþendi er giordz hofdu. þeir toku þa herfangit ok skiptu med konungs raadi. Hakon konungr hugsadi þa eftir at Nordmenn hofdu gert mikinn vfrid i Dana riki. var þat þa raad tekit at senda menn a fund Danakonungs huert raad hann villdi fyrir gera þessum maalum þar sem komit var. huart hann villdi til sætta snuaz edr villdi hann hallda vfrid vid Nordmenn. Med þessum ordum foru þeir Symon prædicari ok brodir Sigurdr. þeir komu aa fund Danakonungs ok tok hann þeirra maalum helldr þungliga let ser mikit vm finnaz er Noregs konungr hafdi (heriat) riki hans. enn engann orskurd fengu þeir þann af Danakonungi at þeim þætti likligt til sætta. foru vid þat a fund Hakonar konungs ok sogdu honum allar rædr Danakonungs ok at þeim þotti hann ecki likligr til nockurra sætta.

## Sendimenn.

251. Enn þa er Hakon konungr for or Ekreyium setti hann eftir vid Elfi Hakon konung son sinn ok laa hann i Straumssundi med .x.

storskipum. þessir voru skipstiornarmenn med konunginum Augmundr krækidanz Veseti af Helli Simon staurr Lodinn staurr Helgi raudi prestr. gestir hofdu .ij. skip mikil. Hakon konungr for i Vikina ok hellt fyst til Tunsbergs ok dualdiz þar litla rijd adr hann for nordr i land. ok er hann kom aa Austragdir kom þar til hans Elis prestr er vngi konungr hafdi sent vt i Spaniam. sagdi hann konungi at i landit voru komnir sendimenn af Spania ok het sa sira Ferans er fyrir þeim var. sagdi hann at þeir hofdu morg erendi til konungsins ok sua at konungr af Spania villdi vera vin hans ok binda þat med enum sterkuztum teingdum. sagdi at sendimenn af Spania laagu þar fyrir konunginum i Raudasundi. Ok er konungr kom þar fundu sendimenn hann ok sogdu honum sin erendi. konungr gerdi þat raad fyrir þeim at þeir skylldu sitia i Noregi vm vetrinn i Tunsbergi ok bida þar til þess er konungr kæmi nordan vm vorit ok veitti þann orskurd þeirra erendum er honum syndiz med vitra manna raadi. Siþan for Hakon konungr nordr i land ok kom vm haustid til Biorgyniar ok efnadi þar til vetrsetu. þetta sumar kom Juar Eglasun af Jslandi ok sagdi konungi slik tiþendi sem gerdz hofdu i hans ferdum. Hakon konungr vngi laa vm haustid i Straumsundi sem fyrr segir ok stod Daunum mikil ogn af honum þuiat þeir hofdu miok hræddir vordit vm sumarit vid þann vfrid er þeir hofdu gert aa Hallandi. sendi konungr i þau herud sem eigi voru brend ok lagdi hann a þa mikil fegiolld ok quad aa huersu morg .c. nauta þeir skylldu giallda honum. enn at odrum kosti kuaz hann fara mundu til motz vid þa ok gera þeirra kost med engu moti betra enn þeirra er brent var fyrir. Danir geingu vndir oll alaug þau er konungr lagdi aa þa ok gulldu þeir honum mikinn fiolda nauta enn sumt gialldit leystu þeir med lereptum ok vaxi ok silfri ok audrum kaupmannaeyri. þetta fe var flutt til Hakonar konungs i Straumsund. hann laa a skipum allt vt til Marteinsmesso. Siolendingar laagu i safnadi vm vetrinn ok voru miok hræddir vm sik at Hakon konungr mundi heria a þa. Hakon konungr hafdi laatid bua fyrir ser til jolaveizslu i Tunsbergi ok for hann þagat fyrir jolin. enn eftir var Augmundr krækidanz ok þeir er syslur hofdu austr þar. Konungr sat i Tunsbergi vm jolin ok komu ordsendingar a jolunum fra Augmundar at konungr skylldi koma austr til styrks vidr hann þuiat þeim voru flutt morg storord af Daunum. Hakon konungr byrr þegar ferd sina ok for .ij. nottum eftir jol af Tunsbergi ok feck mikit vedr ok akafa þuert ok vard at slaga til adr hann naadi hofninni i Spiorr fyrir austan Folldina. Siþan geck konungr aa skutu ok let flytia sik til meginlandz enn hann for et efra at veizslum enn let skipin sigla

et ytra austr til Elfarinnar ok kom hann fyrr til Konungahellu. hann sat i borginni i holmanum vid Konungahellu. var hann þar til faustunnar. Enn þa kom bref til hans fra Hakonar konungs fedr sins at hann skylldi fara nordr til Oslu til Hakonar byskups ok bida þar til þess er Hakon konungr kæmi nordan ok þeir fyndiz ok gerdi raad fyrir huersu fara skylldi med þeim vandamaalum er sira Ferant for med. er konungr af Spania beiddi at Hakon konungr skylldi gifta honum jungfru Kristinu dottur sina edr einhuerium af brædrum hans. Hakon konungr for or Konungahellu ðskudag nordr til Osloar. ok er hann hafdi dualiz þar vm rijd komu til hans bref austan or Gautlandi fra Birgi jarli maagi hans at hann skylldi koma austr sem skiotaz til motz vid hann. Enn med þui at fadir hans var eigi norþan kominn þa byrr hann ferd sina or Oslu til Tunsbergs ok feck i þeirri ferd nockurn siukdom ok bætti gud honum skiott. ok er hann kom til Tunsbergs geck hann aa skip ok sigldi austr til Elfarinnar ok kom til Konungahellu i dymbildagaviku aunduerdri ok for þadan til Liodhusa. ok var þar fyrir honum Valldimar Suiakonungr maagr hans ok fagnadi hann Hakoni konungi med inni mestu blidu. ridu þeir baadir saman vpp i Gautland. Ok er Birgir jarl spurdi at Hakon konungr maagr hans var kominn i Suiavelldi þa aatti jarl tal vid sina menn ok bad þess at allir menn skylldu sem sæmiligaz taka vid Hakoni konungi ok hans monnum. ok lagdi sua rikt vid ef nockurr madr spottadi Nordmenn edr kalladi bagga edr odrum hædiligum nofnum at hann skylldi engu fyrir tyna[1] nema sinu haalsbeini[2]. þeir maagar voru allir saman vm paascha i Vestragautlandi a þeim bæ er i Leinum heitir. Paschadaginn at messu leiddi Valldimar konungr ok Birgir jarl Hakon konung til alltaris ok veittu honum alla sæmd. foru ok allir lutir sem blidaz med þeim maagum. skilduz þeir med enum (mestum) blidskap. [735] reid Hakon konungr siþan ofan til Konungahellu ok dualdiz þar nockura rijd vm vorit ok bio þadan ferd sina i Vikina. Hann reid iafnan ok skemti ser med haukum ok hundum. ok einn dag er hann for austr yfir aana i Gulleyna at skemta ser. ok er hann kom þadan ena næstu nott feck hann siukleika ok var þa buin ferd hans nordr i Vikina ok for konungr þaa aa skip sitt ok byriadi vel. enn er hann kom austan at Foldinni tok sottin at herda at honum. geck hann þa aa skutu eina ok let roa med sik austan yfir Folldina til Tunsbergs ok færa sik vpp til munklifis ok laa þar. kom þa til læknir sa er kominn er af Spania med sira Ferant ok lagdi raad til vm sottarfar hans. enn sottin þraungdi konungi eigi at sidr ok andadiz hann af þeirri sott ok

[1]) tina *Cd.* [2]) haalsbeina *Cd.*

er aartid hans .ij. nottum eftir crossmesso. þetta þotti ollum inn mesti skadi þuiat Hakon konungr var enn vinsælazsti af sinum monnum ok aurr af fe. hann var belldr baarr medalmadr ok vel vaxinn fridr sionum vel hærdr ok eygdr manna bazst. vel styrkr madr ok (manna) vopnfimazstr ok lettr aa ser. allra manna bezst hestfærr þeirra er þa voru i Noregi. Lik Hakonar konungs var flutt inn til Osloar ok var hann iardadr i Halluardzkirkiu þar sem Sigurdr Jorsalafari huilir.

## Radagerdir.

252. Hakon konungr sat þenna vetr i Biorgyn sem nu var fra sagt. ok var þessi hinn fiortugandi vetr rikis hans. ok siþan er predicarar þeir hofdu til hans komit er hann hafdi sent vm haustid til Danmerkr sogdu þeir konung hafua litinn hug aa at sættaz vid Nordmenn. Eftir þat hafdi Hakon konungr vtbod vm allann Noreg. voru minzstar nefningar vm Halogaland enn þui meiri sem sunnar var. hann sendi ord Einari erchibyskupi ok ollum liodbyskupum at þeir skylldu sem skiotaz til hans koma ok fylgia honum i þenna leidangr. Hakon konungr let flota skipi sinu er hann hafdi gera laatid i Biorgyn ok kalladi Mariusudina. þat var allra skipa fridaz. elldr hraut[1] or lunnunum er fram geck. sem Sturla quad.

Hrinda reedtu herskips brondum
hilmir frægr aa salltann ægi
elldi raud fyrir æsi kaulldum
vnnar meid or dregnum blunni.

almenningr vard vt at sinna
ognar lundr a þinni grundu
milldir hofdu herbod haulldar
hardla suelldr or Noregs velldi.

Enn þa er Hakon konungr var buinn or Biorgyn hellt hann austr til Vikr. ok er hann kom fyrir Agdir fretti hann andlaat Hakonar konungs sunar sins. þotti honum þat sem var mikil tiþendi ok þungr skadi. Hellt hann þa fyst til Tunsbergs ok stefndi til sin erchibyskup(i) ok ollum enum vitrazstum monnum er i voru landinu til raadagerdar huersu suara skylldi þeim erendum er sendimenn konungs af Spania hofdu til konungs ok jungfru Cristinar. vard þat konungs atkuædi med raadi vina sinna at hann mundi senda jungfru Cristinu dottur sina vt i Spaniam eftir þui sem konungrinn hafdi ord til sent med þui at jungfruin skylldi kiosa ser til mannz af brædrum konungs þann sem henni likadi. Siþan let konungr bua ferd þeirra. for med henni Petr byskup af Hamri Simun predicari ok enn fleiri lærdir menn Juar Eglasun þorlaugr bosi Lodinn leppr Amundi Haralldzsun ok margir adrir agætir leikmenn meirr enn .c. manna. Hakon konungr gerdi hana heiman med

[1]) hlaut *Cd.*

sua miklu fe i gulli ok brendu silfri skinnavauru huitri ok graarri ok odrum dyrgripum at engi madr vissi dæmi til at þuilikt fe hefdi greitt verit med nockurri konungsdottur af Noregi fyrr. þau hofdu sneckiu mikla ok voru þar gerr herbergi aa annat bord jungfruinni enn aa annat bord sira Perant þuiat hann matti ecki annat fyrir sioverk. þessi ferd var buin med hinum mesta kostnadi. sem Sturla quad.

Erren sendi vngan suarra
vt i lond aa geima þrutinn
alldri frettiz jofra drottinn
ǫdri ferd af heimangiordum.

allir toku yppiþollar
vnnartams fyrir lægi sunnan
aarablacks sem allualldr væri
innan landz vid dottur þinni.

þegar jumfruin var buin sigldu þau i haf ok komu af hafi vid Jarnamodu aa Englandi. Munu ver þar letta at sinni at segia af þeirra ferdum.

## Bod Dana konungs til Hakonar.

253. Hakon konungr dualdiz i Tunsbergi ok kom þar til hans mikil vtbod vm alla Vikina. sem Sturla quad.

Nordan helldut allt vm aulldur
audlundr vid þik til fundar
hufar treystu drifnar dufur
dygdar menn or Finna bygdum.

suifa leztu or hueriu hrofi
hladnar skeidr aa vatnit breida
sandi ios vm staalin steindu
stordar gandr fyrir Elfui nordan.

þa er Hakon konungr var i Tunsbergi kom sunnan af Danmork Absalon predicari er prouincialis var af ollum predicaraklaustrum i norænni tungu. hann var sendr af Danakonungi til Hakonar konungs at Nordmenn skylldu eigi heria aa riki hans. sagdiz Danakonungr helldr vilia eiga stefnu vid Noregs konung ok sættaz vid hann med godra manna raadi. Hakon konungr bar þetta vpp fyrir vini sina. ok fanz þeim sua at ei mætti fyrir aluoru taka þat er Danir mælltu med þui at Danir hofdu rofit fyrr þat sem þeir hofdu talat. þui sagdiz konungr mundu sigla til Danmerkr ok med honum Sigurdr prior er enn hafdi i milli farit aadr vm vetrinn. Eftir þetta byrr Hakon konungr ferd sina af Tunsbergi ok hafdi Mariusudina. þat var dreki ok .xxx. at rumatali ok allra skipa fridazst er gerr hafa verit i Noregi. hofudin voru gulli lǫgd ok suirarnir. seglit var sett med fogrum scriptum. morg hafdi Hakon konungr onnur skip agæta vel buin ok þotti miok likt at sia i solskini sem elldar brynni af hofdum ok vedrvitum ok gylldum skiolldum er vid voru stafnana. sem Sturla quad.

Digla elldr var senn i segli
suiptilundr a dyrdarskriptum
risa toku rodnir hausar
Rinar logs yfir drekanum þinum.

vnnar þotti eisur brenna
Vllar fars af slegnu gulli
fasti raud yfir flota glæstum
flesta raund aa skeidar brondum.

þa er Hakon konungr var buinn sigldi hann af Tunsbergi med ollum herinum austr yfir Folldina. sotti þa til hans mikill herr austan fiardar. þa er Hakon konungr sigldi austr sigldu Hardengir þorir Greppssun ok Baardr Grosun a skip Einars erchibyskups ok af stafninn nidri i kinnuanginum ok fauk allt senn aa sioinn stafninn ok skilldirnir þeir sem vid voru enn vedrvitana festi i seglinu þeirra þoris ok sigldu þeir i brott med þeim. Erchibyskup let roa til aa baati at taka stafninn ok skiolldana. siþan let hann setia [736] stafninn i skipit ok festa ramliga ok skiallda yfir vtan. ok sigldi sidan sudr til Ekreyia ok fann þar konung. Enn þegar konungr vissi at skip erchibyskups var brotid þa fanz þat at honum mislikadi þat miok. enn sumir menn mælltu sua at minnr væri brotid enn byskupsmenn sogdu. ok er þetta var sagt byskupi let hann taka fra stafninn ok rak hann þar vm strandir. Skipuliga var med þeim Hakoni konungi ok erchibyskupi ok ecki mart. enn til junghherra Magnus var erchibyskup margr enn til faarra annarra.

## Fra Hakoni konungi.

254. þa er Hakon konungr laa i Ekreyium hafdi hann stefnur vid raaduneyti sitt ok taladi fyrir þeim ok birti þann skada sem hann hafdi feingit ok allir Noregsmenn i frafalli Hakonar konungs vnga. ok eftir þat sagdi hann sua. þo at almaattigr gud hafi þenna nu at ser tekit þa er þo gott efni i vm konungs kosning þar sem er jungherra Magnus sun minn. Taladi konungr þar vm sniallt erendi ef monnum syndiz at taka Magnus til konungs i stad þess er þa var frakalladr. enn allir menn gerdu godan rom at þessu ok kuoduz giarna vilia. lagdi erchibyskup flest til. þa suarar konungr. herra erchibyskup sagdi hann. þa er ver aattum at tala vm landaskipti med sonum minum voru þer fysandi at Hakon einn skylldi bera konungsnafn eptir minn dag enn jungherra Magnus skylldi vera hertugi. þotti ydr ok fleirum audrum vndarligt er ek villdi eigi opinberliga gera þa skipan þeirra i milli enn mer þotti vant at misiafna med þeim iafnbornum sonum minum. skaut ek þa sem iafnan minu maali til guds at hann skylldi skipta med þeim. enn nu er sua komit at sa er frakalladr er þer villdut allir hafit hafa enn hinn lifir eftir er þer villdut ok enn fleiri raadgiafar vorir minni sæmdar vnna enn hann var tilkominn. Erchibyskup suarar. iatta ek þui

herra sagdi hann at einn væri i senn konungr at Noregi. vnna ek engum manni betr þess at niota enn Hakoni þui at hann var elldri þeirra brædra hafdi ek ok honum konungsnafn gefit. enn med þui at gud hefir hann fra kallat þa ann ek nu konungs tignar engum manni betr enn jungherra Magnusi. At þessu gerdu allir enn bezsta rom. var þat þa raadit at konungr mundi þar hafa almenniligt þing ok mundi Magnusi gefit konungsnafn. enn þo at hitt væri mestr vandi at konungr væri tekinn i þrondheimi a Eyraþingi þa þotti ollum varligra at landit væri eigi konunglaust medan Hakon konungr væri i brottu or Vikinni.

## Magnus til konungs tekinn.

255. Jonsvokudag atti Hakon konungr þing i Ekreyium. þar var til konungs tekinn jungherra Magnus. honum gaf konungsnafn Einarr erchibyskup. eftir þat sor hann laug ok rettindi ollu landzfolkinu at ligno domini. siþan sor Knutr jarl trunadareid Magnusi konungi ok þar eftir lendir menn stallarar ok skutilsueinar ok eftir þat .xij. bændr or hueriu fylki. Messudaginn hafdi Hakon konungr Magnus konung i bodi sinu ok alla byskupa. erchibyskupi var saar hond sin miok ok var hann þui eigi þar. enn þar voru allir lendir menn ok hirdstiorar. Enn vm daginn eftir veitti Magnus konungr sæmiligar giafir fyst Hakoni konungi fedr sinum. erchibyskupi gaf hann langskip meirr enn tuitugt at rumatali enn bezsta grip ok enn fleiri giafir. hann gaf ollum enum bezstum monnum sæmiligar giafir. vard hann af sliku þegar storliga vinsæll. tok Magnus konungr þa mikla sueit ok þa flesta sem adr hofdu þenat Hakoni konungi brodur (hans). skylldi hann vera þa eptir til landgæzslu.

## Sigling konungs.

256. Sem þessir lutir voru skipadir lagdi Hakon konungr herinum i brott or Ekreyium. Magnus konungr for nordr i Vikina ok sat i Tunsbergi vm sumarit. Hakon konungr hafdi til Danmerkr .ccc. skipa ok .xv. skip. þessi floti var allgeysiligr. sem Sturla quad.

Errin var sem ellding færi
inn vm bord aa legi nordan
aulldum varp or hufum helldut
hilmis kundr til danskrar grundar.

vida snuddu visa ferdar
veglig flaust vnd bunu segli
geiga letud gylldar sygiur
grundar vǫrdr at Eyrasundi.

Hakon konungr hellt sudr til Eyrarsundz ok Kaupmannahafnar ok laa i Refshaladiupi. mikit fanz Dǫnum vm herinn. þotti bædi vera mikill ok vel buinn sua at engi mundi þuilikann her vtlendzskan hafa komit i Danmork. sem Sturla quad.

Renna þotti vpp af vnnum
alla leid af flotanum breida
hilmis þar sem herskip laagu
himna elldr i daunsku velldi.

þeingill kom þar annar eingi
innanlandz sua at dæmi finniz
ræsir styrdi rett til iardar
rikilaatr med afla slikann.

Tyrsdaginn kom Hakon konungr i Kaupmannahaufn. enn faustudaginn eftir kom Danakonungr i stadinn ok hafdi mikinn her ok marga agæta herra af Danmork. þar var Jacob erchibyskup af Lundi ok liodbyskupar. þar var Jatmar af Rę af Vindlandi. Ok er vm sættir var leitad var langt aa milli. voru þa margir Nordmenn eggiandi at heriat væri enn konungr hafdi gefit .vj. naatta frid Daunum. sem quad Gizsur þorualldzsun er þa var med konunginum.

Sniallr baud aurgramt ollum
alualdr gridum halda
nadurs glostrætis niotum
nætr sex ok frid gæti.

Einarr erchibyskup geck mest at sættum. enn þa for enn sem iafnan fyrr at huorum þotti sinn skadi meiri þegar er reiknat var. leitadi erchibyskup þa med konungs raadi at huarr konunganna dæmdi sinn skada ok sinna manna. Ok er þat kom samt stod þat i at Kristiforus villdi fyrr dæma. Ok er þat var sagt Hakoni konungi þa syndiz honum sua sem var at saa reed ollu maalinu er sidarr dæmdi ok þui iattadi hann þessi sætt. Konungr hafdi ok til ætlad huar huerir skylldu vpp ganga ok heria ef eigi tækiz sættin. Danir voru miok fusir saatta þuiat þeim syndiz mikill afli Hakonar konungs. sem Sturla quad.

Aullum þotti Egda stillir
ægiligr enn vida frægi
gunnar logs fyrir grædi sunnan
geigurþing vid ydr at eiga.

sætta baadu Sygna drottinn
sniallraadinn þik Danir allir
fyrda gramr þuiat fegnir vrdu
fiandmenn þinir lifi sinu.

þa er Kristiforus konungr hugsadi þetta maal med sinum raadgiofum þotti honum stor vandi at gera nockura sætt vid Nordmenn. tok hann þa vpp vitrligt raad ok gaf vpp Hakoni konungi alla þa luti er Nordmenn hofdu af gert vid Dani ok med þessu funduz konungar sialfir. Ok er Hakon konungr heyrdi þenna orskurd gaf hann vpp Daunum allann [737] ofrid ok motgang er þeir hofdu gert Nordmonnum. Til þessarra maala logdu allir gott þeir sem vid voru nema Jacob erchibyskup ok herra Jatmarr af Vindlandi. Eftir sættina drack Hakon konungr med Kristoforo konungi i hans landtialldi. siþan geck Danakonungr a skip Hakonar konungs ok drack med honum. Med þessi sætt bundu þeir fullkomliga sina vinaattu sua at Danakonungr sagdi þat at hann skylldi

Hakoni konungi vera i sunar stad enn Hakon konungr honum i fedr stad. skilldi huarr odrum veita med sinum styrk huers sem vid þurfti. Eftir þetta gaf huarr odrum aagætar giafir. þa baud Hakon konungr Kristoforo konungi huart hann villdi helldr þiggia af honum Mariusudina edr .vj. aunnur skip þau er (hann) keyŕi. enn Kristiforus villdi sidarr kiosa. Eftir þat skildu þeir med enum mesta kærleika. for Hakon konungr nordr i Noreg. vrdu allir menn fegnir hans heimkuomu sem Sturla quad.

Veitti virda drottinn
vikelldz giafir rikum
gullz suiptir hlaut giftu
gaufugr Skanunga iofri.

heim kom hilmir Rauma
huatir fundu þat skatnar
aar med auflgum tiri
vlestr ok veg mestum.

Hakon konungr hellt fyst til Tunsbergs ok fann þar Magnus konung ok Margretu drottning. þadan foru þeir til Biorgyniar. þa veitti Hakon konungr Magnusi konungi Rygiafylki. siþan foru þeir nordr til þrondheims badir ok ætludu at sitia þar vm vetrinn. Margreta drottning var a skipi med Hakoni konungi ok fru Rikizsa.

Vtferd Kristinar konungsdottur.

257. Nv er at segia fra fru Cristinu ok hennar foruneyti. þau foru af Englandi sudr vm sio i Nordmanndi. ok er þau komu þar villdi Juar Eglasun fara it vestra skipleidi enn sira Ferant ok þorlaugr bosi villdu fyst finna konung i Franz. sneru þau þa ferd sinni aa land vpp ok keyptu meirr enn .lxx. hesta vm þaa fram sem aadr hofdu þau. þorlaugr ok Ferant foru aa fund Frackakonungs. tok hann vel erendum Noregs konungs ok lagdi þat til at þau skylldi fara et vestra vm Gasconiam. feck hann þeim leidtoga allt til þess stadar er Nerbon heitir ok liggr vid Jorsalahaf. enn er herra sa er i stadnum var vissi quomu jumfruar let hann hana fara aa sinn kost þann dag ok alla hennar menn. þadan foru þau i Kataloniam[1] þat er i riki konungsins af Aragun ok var þar allvel vid þeim tekit. þadan foru þau vm stor fioll ok hardar gautur fram med Jorsalahafi til þess stadar er Gerno heitir. ok er jarl sa er i stadnum var spurdi til jumfruarinnar reid hann mot henni ok .ij. byskupar med honum ok .ccc. manna .ij. milur. ok er hon kom til stadarins tok jarl i beils hennar ok leiddi hana i stadinn enn byskup aa adra hond til þess er henni var herbergi tekit. þa er jumfruin reid til Bardzalon reid vt konungrinn (af) Aragun i mot henni med .iij. byskupum ok vtalligum her meirr enn .iij. milur ok fagnadi henni allsæmiliga ok tok sialfr i beilsl hennar ok leiddi hest hennar i stadinn vndir henni ok hellt henni kost ok hennar monnum .ij. daga

[1]) kastalann niam *Cd*.

sæmiliga enn siþan vm allt riki sitt. Enn huar sem þau komu til stada þa ridu i mot jumfru riddarar ok barunar eftir þui sem konungrinn af Aragun hafdi raad fyrir gert. Jumfru kom .ij. naattum fyrir jul i Kastel til þess stadar er Sarti heitir. ok reid þar vt i mot henni Lofuis brodir konungsins af Kastel ok byskupinn af Storga ok var þeim þar alluel fagnat. þau komu julakuelld til Burghs ok var þar virduliga vid þeim tekit. ok hofdu herbergi i munkaklaustri þui sem konungs systir var i Berfuiger ok heyrdu þar messo i stadnum þridiadag jula. ok offradi jumfru miklu bordkeri enn odru hafdi hon offrat i Rothemadun. ok af slikum lutum ok odrum þui likum feck hon sua mikla frægd i þessarri ferd at engi madr vissi dæmi til at ne ein jumfru vtlend mætti iafnmikla sæmd faa. ok sua hugsa menn eftir at eigi hafi su ferd farin verit af Noregi at iafnvirdulig hafi verit siþan er for Sigurdr konungr Jorsalafari. En fiorda dag jola ridu þau or stadnum Burghs med raadi konungsins af Kastel. þuiat hann villdi at jumfruin kæmi til hans enn aatta dag jula. þann dag sendi fru Berfuiger konungs systir .vij. kuennsaudla jumfrunni ok þar med balldrkinn er sialf hon skylldi hafa. þann sama dag reid konungrinn af Kastel ok Palens jarl mot jumfrunni med mikinn her ok fagnadi henni sem hann mundi sinni enga dottur. tok hann sialfr i beilsl hennar ok leiddi hana i stadinn. Enn .x. dag jola reid konungrinn sialfr med henni til Vallident ok kom þa ridandi i mot þeim sun konungsins med vtalligum riddaraher baaruna erchibyskupa ok liodbyskupa ok sendimanna baadi kristinna ok heidinna. let konungrinn fa herbergi jumfrunni þar i stadinum ok virdi hana vm alla luti sua mikils at eingi vtlendr madr hafdi þar komit huarki karl ne kona sa er þar væri iamfnvel fagnat. huert sinn er konungrinn villdi finna hana edr drottning þa leiddu þau hana bædi til sætis. Eftir þetta sendi konungrinn af Aragun bref til konungsins af Spania mags sins ok beiddiz þess at konungrinn skylldi gifta honum jumfruna. Konungr bar þetta fyrir jumfruna ok Nordmenn ok let henni kost aa þessarri gifting ok sagdi at hann var godr dreingr ok mikill hofþingi. enn med þui at Nordmenn vissu at konungr var aa efra alldri þa fundu þeir þat vid vm giaford þetta. var þessa ok ecki meirr leitad enn sua. Eftir þetta taldi konungr vpp alla brædr sina ok sagdi huersu huerium var haattad. hann sagdi at Fridrekr var ellzstr þeirra brædra ok quad hann vera vaskann mann ok godann riddara rettara godann i sinu landi veidimann godann ok þui sagdi hann hafa skard i vaurr. enn Heinrek brodur sinn sagdi hann vera bezstan riddara af ollum brædrum sinum. enn þo quad hann ecki þurfa vm hann at tala þuiat hann kuat hann hefiaz i

mot ser ok fedr sinnm ok strida a þeirra riki. enn Cerius erchibyskupsefni at Tuleth sagdi hann vera duganda mann ok vel skaptann til klerks. enn Philippus erchibyskupsefni af Sibilio brodur sinn sagdi hann ecki vera skaptann til klerks helldr at fara med skemtan haukum ok hundum ok quad hann vera enn mesta einvigismann at biornum ok villisuinum iafnliga gladann ok [738] kaatr sæmiliga milldr ok litillatr ok hinn bezsti felagi. hann er ok sterkazstr af ollum vorum brædrum ok miok godr riddari. enn af vexti hans villdi hann ecki segia edr fridleik þuiat Nordmenn maattu þat dagliga sia. þat fanz þeim i at konungi fellz þessi bezst i þocka af ollum brædrum sinum ok sua jumfrunni ok Nordmonnum ok þui kaus hon ser þenna ser til mannz med sinna raadi. Sua sagdi Sturla vm vtferdina.

Rida fra ek or borgum breidum
bragna fiold af þinu magni
vida glaudduz valskar þiodir
varrar elldz i moti suarra.
sidan kaus vm sæmdar fusa
snilldar brudr þann' er eigha villdi
audlings brædr af ydru raadi
æzstann mann sia gaufugr suanni.

þat var oskudag er Philippus festi jumfruna med guds miskunn ok raadi konungsins af Kastel ok sialfrar hennar vilia. enn su var en fysta bæn hennar at hon bad þess herra Philippum at hann skylldi laata gera kirkiu inum heilaga Olafi konungi ok iattadi hann þui þegar med fullkomnum goduilia. enn þar þarf eigi morg ord vm at hafa. huetuetna þat sem hon bad þa var þegar syst. Enn sua var a quedit at brudlaupit skylldi vera drottinsdag eftir paschaviku. ok er su stund kom þa var þat veitt med inni mestu sæmd er vera maatti i þui landi. enn miduikudaginn eptir brudlaupsgerdina komu i Spaniam sueinar Hakonar konungs þoralldi ok Biarni ok sogdu fra ferdum konungsins. Ok eftir þetta biugguz Nordmenn i brott. foru þeir aftr i Noreg Petr byskup Andress Nichulassun ok Amundi Haralldzsun. enn þeir sneru vt i Jorsalaheim Jvar Englasun ok þorlaugr bôsi ok enn nockurir adrir ok onduduz i þeirri ferd. þann vetr eftir er Hakon konungr hafdi farit til Danmerkr vm sumarit sat hann i þrondheimi sem fyrr segir. þadan bioz hann vm vorit ok Magnus konungr aa land vpp ok foru sudr yfir Dofrafiall. þa hafdi Hakon konungr raadit fyrir Noregi .xl. vetr ok einn vetr. Fru Margreta drottning for it ytra ok hafdi skip þat er Saudarvaumbin het til Biorgyniar. enn þar tok hon Mariusudina ok hellt henni austr til Vikr. fann hon Hakon konung i Tunsbergi. Einar erchibyskup for ecki nordan þuiat þeir Hakon konungr hofdu skiliz med nockurri fæd. Hakon konungr byr ferd sina af Tunsbergi austr til Elfar ok sua Magnus konungr til motz vid Birgi jarl. þa hafdi Danakonungr laatid gera bref

baadi i Noreg ok Suiariki at Hakon konungr ok Birgir jarl skylldu koma til lidueizslu vid hann. þuiat þa var vfridr mikill i Danmork af hernadi þeim er Jarmar gerdi i Siolandi. enn synir greifa Aalfs herindu i Jotland Jonn ok þeir brædr. ok vard af þessum hernadi inn mesti vfridr i Danavelldi.

## Fundr konunga ok Birgis jarls.

258. Hakon konungr ok Magnus konungr ok Birgir jarl funduz i Elfi. tauludu þa marga luti sin i milli vm ordsendingar Danakonungs ok þa naudsyn adra sem londunum bar til. reedu þeir þat þa med ser at þeir skylldu bua her af huorutueggia rikinu þau missari. var þat akuedit at .xl. hundrada skylldi hafa huarr þeirra konungr ok jarl nema annarhuarr villdi meira her hafa at veita Danakonungi. For þa sem iafnan allblidliga milli þeirra þuiat þeirra vinaatta var æ þui meiri sem þeir funduz optar. þa for fru Rikizsa vpp i Suiavelldi med fedr sinum ok leysti Hakon konungr hana sæmiliga af hendi Jungherra Suerrir var eftir med Hakoni konungi ok var konungr alluel til hans var hann ok et bezsta mannzefni ok vnni konungr honum mikit. Hakon konungr sendi þa sudr til Danmerkr Mariusudina ok tok Danakonungr þui vinsamliga ok sua ordsendingum konungs ok jarls er þeir iattudu honum lidueizslu sinni. Hakon konungr for or Elfinni nordr i Vik ok þadan nordr i land ok kom til Biorgyniar vm vakna skeid ok dualdiz þar vm sumarit. þetta vôr aadr brann mestr luti bæiarins i Tunsbergi.

## Her heim koma sendimenn.

259. þetta haust komu þeir heim er fylgt hofdu jumfru Kristinu Simun Lodinn leppr ok Amundi Haralldzsun. foru þeir vtan skipaleid af Spania aa einum kugg enn Petr byskup for landveg i Flaandr ok kom hann nockuru sidar. Andres Nichulaassun var eftir i Franz þa .xij. manadi. þa er þeir Petr byskup fundu Hakon konung kunnu þeir at segia honum morg tiþendi vtan or londum. þeir sogdu mikit fra huersu konungrinn af Spania hafdi fagnat jumfru Kristinu dottur hans ok ollu hennar foruneyti ok huersu hofþingliga hann hafdi þa af haundum leyst. þeir sogdu at þat fe var eigi minna enn atta .c. marka skirra er hann gaf þeim vm þat fram er þeir þurftu til kostnadar at hafa. hann hafdi ok sagt vid huern sem Hakon konungr helldi strid skylldi heimill hans styrkr þegar eigi væri til motz konungrinn af Franz edr konungrinn af Aragun maagr hans edr Englakonungr. Hakon konungr het ok þar i mot sinum styrk konunginum af Spania ef eigi væri i mot Suiakonungr

edr Danakonungr edr Englakonungr. Konungrinn af Spania bio þa her sinn vt i heidnina ok fysti hann miok Hakon konung at fara med ser ok leysa sua kross þann er hann hafdi tekit. þuiat þar var til pafans leyfi at þar skylldi crossinn leysaz sem til Jorsala væri farit. Petr byskup for þetta sumar i Hamar ok þa sæmiligar giafir af konungi.

### Fra Gizsuri.

260. Hakon konungr sat vm sumarit i Biorgyn. þa var med honum Gizsor þorualldzsun. konungrinn gaf honum jarlsnafn enn Gizsur het i mot at frida landit ok laata alla bændr giallda skatt konungi. bar Gizsur þar mikil maal aa at hann mundi þui audueIldliga aa leid koma. Konungrinn gaf honum med jarlsnafninu margar sæmiligar giafir ok leysti hann vel ok sæmiliga ser af hendi. hann sendi vt med honum þorallda huita hirdmann sinn at skynia huersu jarl færi med konungs trunadi. Marga trunadarmenn sendi konungr til Jslandz at vita huart jarl gerdi eftir þui er hann hafdi heitid. Enn er Gizsur kom til Jslandz þa hellt hann þui vel vpp sem vera aatti. þuiat Hakon konungr hafdi gert meiri sæmd hans enn nockurs mannz annars aa Jslandi i þeirri nafnbot er hann hafdi gefit honum ok morgum odrum sæmdum þuiat hann skylldi þessa nafnbot engum pe(n)ingum kosta ok engi skattr skylldi fyrir þat aa landit leggiaz. Gizsur jarl sagdi at þeir menn sem honum gerdiz handgeingnir hirdmenn[1] edr skutilsueinar at þeir skylldu þuilikar nafnbætr hafa i Noregi af Hakoni konungi. vrdu fyrir þat margir godir menn til at geraz honum handgeingnir ok sỏru honum trunadareida ok sua Hakoni konungi. Er fra vidskiptum jarls ok Jslendinga margar frasagnir sem enn mun sumra getid verda. Vm vetrinn aadr enn Gizsur jarl kom til Jslandz [739] tok þoruardr þorarinssun af lifi þorgils skarda fyrir þær sakir er konungr hafdi skipat þorgilsi Eyiafiord ok allar sueitir fyrir norþan Oxnadalsheidi þær sem konungr kalladi sina eign. enn þoruardr þottiz heimilldir til hafa af Steinvoru maagkonu sinni.

### Fra Hakoni konungi ok Donum. capitulum.

261. Hakon konungr efnadi til vetrsetu i Biorgyn. þessi var annar vetr ens fimta tigar rikis hans. Vm vorit eftir stefndi hann til sin lendum monnum sinum ok syslumonnum. let hann þa flota skipum þeim sem hann villdi hafa. ok er hann var buinn sigldi hann austr med landi ok

[1]) hyrdmenn *Cd.*

er hann kom sudr vm Jadar komu i mot honum .ij. riddarar af Danmork ok sogdu þau tiþendi at Kristiforus konungr var andadr ok þat med at drottning ok adrir hofþingiar sendu einkanliga ord Hakoni konungi at hann skylldi koma til hialpar vid þau sem hann hafdi heitid Kristiforo konungi. þetta bar Hakon konungr fyrir vini sina ok raadgiafa. enn huat sem huerr lagdi til þa var þat eigi konungs haattr at hallda eigi ord sin. ok fyrir þui hellt Hakon konungr til Danmerkr aa þui sumri ok hafdi mikit lid ok fritt. hellt hann herinum til Kaupmannahafnar ok fann þar drottningina. Birgir jarl kom ecki. þa hafdi drottning ok Danahofþingiar sæzst vid sonu Aalfs greifa ok þottuz þa ecki þurfa lidueizslu konungs. fanz þat i ordum Hakonar konungs at honum þotti Danir brugdiz hafa. hann gaf drottningu sæmiligar giafir ok sua drottning honum. hann let taka kugg einn i Eyrarsundi yfir vid Maalmhauga er aatti herra Jonn brodir Jacobs erchibyskups af Lundi. þar voru aa þeir menn er verit hofdu med Jarmari. enn þeir byskupsbrædr styrktu Jarmar mest af Danahofþingium. Hakon konungr leet þessa menn leida aa mot ok bad Dani fara til ok kenna þa huart þeir væri kaupmenn edr raansmenn. enn landzmenn kendu at þeir voru raansmenn. voru sumir haalshauggnir enn summum annan veg skriptad. Hakon konungr hafdi kugginn ok var þat hestakuggr hans siþan. Enn þegar Jarmar spurdi at Hakon konungr var kominn i Danmork þa flydi hann sudr vndir Vindland. Siþan for Hakon konungr aftr til Noregs enn Danir toku til konungs Eirek sun Kristifori konungs ok var hann þa barn at alldri. Hakon konungr for nordr til Biorgyniar ok sat þar vm vetrinn. þessi var enn .iij. ens fimta tigar konungdoms hans. þa andadiz Petr byskup i Hamri ok þotti þat mikill skadi. þa tauludu korsbrædr þar vm byskupskosning ok gaatu engann kiorit aadr kosningr huarf vndan þeim ok til erchibyskups enn hann gaf þeim aftr kosning enn nefndi til þann korsbrodur er Lodinn het enn hann var ecki mikill vin Hakonar konungs.

## Fastmæli Hakonar konungs ok Birgis jarls.

262. Konungrinn sat i Biorgyn vm vetrinn ok hafdi spurt af Jslandi at Gizsur jarl hafdi litinn hug a lagt at flytia hans maal vid Jslendinga. sendi hann þa bref til landzins huersu mikinn skatt hann villdi hafa. med þessum brefum for Juarr Arnliotarsun ok Paall linseyma hirdmenn konungs. þeir komu vt fyrir alþingi ok foru til þings. var Gizsur jarl þar fyrir. þa voru flutt bref Hakonar konungs ok var þar mikil manndeilld aa huersu þeim var tekit. Flutti Gizsur jarl konungs erendi ok þo nockut med odrum vtveg enn a brefinu stod. enn Sunn-

lendingar þeir sem mestir jarls vinir voru mælltu i mot skattinum ok sua þeir sem komnir voru austan yfir þiorsaa. fellu þær lyktir aa at erendi þeirra Juars vard ecki. foru þeir et sama sumar aa konungs fund. Var þat ætlun margra at Sunnlendingar mundu eigi sua diarfliga hafa nitad skattinum ef þat hefdi verit þuert i moti jarls vilia. Hakon konungr for or Biorgyn austr til Vikr ok allt til Elfar ok med honum Magnus konungr sun hans. þar kom til motz vid þa Birgir jarl. for þa allblidliga med þeim. var jarl i bodi konungs ok synir hans enir vngu. bundu þa enn fastliga sina vinaattu sua at hana skylldi ecki skilia medan þeir lifdi. þeir skylldu ok finnaz annat vŏr eftir. For Hakon konungr þa nordr i Vikina. þa var med honum Heinrekr byskup af Holum af Jslandi ok hafdi þa fylgt konunginum leingi. ok er þeir komu austan af Folldinni tok byskup sott. enn i Tunsbergi andadiz hann ok var iardadr at Olafskirkiu. konungr sialfr taladi yfir leidi hans morgum fogrum ordum til lofs vid byskup.

## Hakon konungr ok Magnus konungr foru til Biorgyniar.

263. Eptir þetta for Hakon konungr ok Magnus konungr nordr til Biorgyniar ok ætludu þadan til þrondheims at Olafsvoku. ok er þeir komu til Nidaross var þar fyrir Einar erchibyskup. þar var kominn Lodinn korsbrodir af Hamri ok keyrinn til byskups i moti konungs vilia ok þui hafdi hann stygd aa erchibyskupi. Enn er konungr lagdi i aana sueif skipi konungsins aa eyrina gegnt Backa ok festi þar. erchibyskup reri til ok baud at allir menn skylldu til fara þeir sem kænazstir væri at koma skipinu af grunninu. enn konungr vill eigi þiggia at honum. Siþan let konungr setia skordur vndir skipid at ei(gi) mætti hallaz er fiaradi. logdu þa konungarnir til bearins ok gerdi erchibyskup i mot þeim fagra processionem ok mintiz vid Hakon konung. sira Lodinn geck vndir hond erchibyskupi ok mintiz til konungsins ok ecki miok einardligr. Ok er konungarnir hofdu litla rijd verit i bænum hofdu þeir stefnu vid erchibyskup vm byskupskosning i Hamri. villdi erchibyskup ecki annat enn Lodinn væri byskup enn konungr mællti i mot þuerliga. her af slo med þeim i ena mestu deilu. kom þui maali sua at Hakon konungr appelladi erchibyskup vt til pafa ok vard erchibyskup vid þat enn stygguazsti. Geck þa Magnus konungr i milli þeirra at þeir semdi. taldiz þa ok Lodinn vndan at vera byskup er hann vissi forþocka konungs. konungr villdi at Gillibert er þa var klerkr hans enn verit hafdi erchidiakn i Hialltlandi væri kosinn. lauk sua þessi stefnu at erchibyskup kaus Gillibert enn Lodinn gaf vpp af sinni hendi. Enn med þui

at aadr var til pafa skotid maalinu sendu þeir Gillibert vt til pafa. ritudu þeir konungr ok erchibyskup med honum at þetta var beggia þeirra vili. for hann vid þetta aa pafa fund. Konungarnir foru sudr til Biorgyniar eftir þetta ok sat Hakon konungr þar vm vetrinn enn Magnus konungr i Stafangri. þetta sumar kom af Jslandi Juarr ok Paall ok sogdu konunginum sitt erendi. konungrinn veitti jol i Biorgyn ok var þessi enn .iiij. vetr hins fimta tigar rikis hans. vm vetrinn eftir tok jungherra Suerrir sott þa er hann leiddi til bana ok þotti konungi þat inn mesti skadi ok morgum odrum.

### Af sendibodum Hakonar.

264. Hakon konungr ok Magnus konungr hofdu sent vm sumarit brodur Nicholaum sudr til Danmerkr at flytia bonord Magnus konungs vid jumfru Engilborg dottur Eireks konungs ens helga ok skylldi [740] Nicholaus fara sudr i Saxland til fundar vid hertugann modurfaudur hennar ok vita huat hann legdi til þessa maals. þuiat hann var enn mesti hofþingi ok einn af þeim .vij. monnum er kiosa skulu keisarann ok hann skal vera drottseti keisarans huert sinn er hann er fyrir nordan fiall. Ok er sendimenn komu til hertugans fluttu þeir þetta erendi fyrir honum. tok hann litinn af ok sagdi at hans dotturdottir var daunsk at faudurætt ok Danir hofdu raad fyrir hennar giafordi. siþan let hann leida i syn vid þa .ij. dætr sinar hardla vel bunar ok mællti. fyrir þessum minum dættrum hefir ek raad huerr sem þeirra vill bidia. Eftir þetta foru sendimenn konungs aftr i Danmork ok sua til Noregs a fund Hakonar konungs.

### Fra Hakoni konungi.

265. Eftir andlaat Suerris foru þeir Hakon konungr ok Magnus konungr nordr i Sogn ok sua til Vpplanda. kom þar til motz vid þa Einar erchibyskup ok for med þeim sudr i Vik ok fundu brodur Nicholaum i Tunsbergi. sagdi hann þeim sin erendislok. Sidan sendu þeir sira Askatin ok brodr Nicholaum sudr til Danmerkr. skylldu þeir fara a fund drottningar ok greifa Ernest ok þeirra annarra er suor hofdu fyrir jumfru ok vita huerr vtvegr verda skylldi a þessu maali. Enn medan þeir voru i þessi ferd foru[1] konungarnir ok erchibyskup austr til Elfar ok ætludu at finna Birgi jarl. enn jarl kom eigi. foru þeir þa aftr i Vikina ok saatu i Tunsbergi þar til er Aschatin kom or Danmork. Nichulas var eftir sudr þar. hann sagdi þau ord drottningar ok greifa Ernest ok jumfru at konungarnir skylldu senda i mot henni

[1]) voru *Cd.*

vegligt foruneyti. enn þau hetu at bua hana sæmiliga i brott. Siþan sendu þeir i mot jumfru herra Hakon byskup Augmund krækidanz Borgar sun hans Paal gaas ok Lodinn staur. þeir hofdu .vij. skip ok flest stor. byskup hafdi tuitugsessu enn Augmundr dreka mikinn ok annann Paall gaas. þeir hofdu fritt lid ok vel buit. Ok er þeir voru bunir foru þeir sudr til Danmerkr ok komu til Hrossanes aa Jotlandi at þeim stefnudegi sem Danir hofdu þeim lagit. enn þat var haalfum maanadi fyrir Olafsvoku. Ok er þeir quomu þar fundu þeir þar engann mann huarki af drottningar hendi ne greifans þann er þeim giordi orskurd vm sitt erendi. Siþan gerdu þeir menn vpp til klaustrs þess er jumfruin var i ok letu spyria ef nockud raad væri fyrir gert ferd hennar til Noregs. hon sagdi sua at allz ekki raad væri fyrir gert sua at hon vissi. ok eptir þat sendi hon suein sinn til drottningar ok spyrr ef hon villdi nockut raad fyrir gera hennar ferd. enn drottning veitti þau andsuor at hon maatti ecki raad fyrir henni gera sua skiott fyrir sakir þess strids er hon hafdi vid hertugann. Nu let jumfruin þetta segia Nordmonnum. ok er þeir vissu at drottningin villdi ecki raad gera fyrir jumfrunni ok þeir menn er þar skylldu fyrir sia at bua hennar ferd til Noregs. þa for Hakon byskup ok þeir menn sem til ferdar voru feingnir med honum vpp til klaustrsins at finna jumfru ok tauludu vid hana. þeir baadu hana ok tauldu fyrir henni at hon skylldi skiota sinu maali a guds valld ok taka sialfrar sinnar raad ok þat sem gud kendi þeim til at leggia med henni. Jumfruin taladi her mart i moti i fyrstu ok þat einna mest at hon þottiz fangafaa allz kostar sua skiott i brott at fara. enn þeir suorudu þui at þat var allt til reidu med þeim sem hon þyrfti at hafa. enn sua lyktadiz þessi ræda at Hakon byskup handfesti jumfru Engilborg Magnusi konungi til handa. Eftir þat logdu þau stefnudag med ser nær Nordmenn skylldu eftir henni koma. ok hon skylldi þeim til skips fylgia ef engar raadagerdir kæmi fra drottningar aadr vm ferdir jumfruar. J þessu bili laa Birgir jarl i Eyrarsundi med Suiaher. ok er hann spurdi til Nordmanna sendi hann ord Hakoni byskupi at þeir skylldu bida hans ok hann villdi finna þa ef tom yrdi til. enn Nordmenn huatudu eigi at minnr sinni ferd þuiat þeir vissu at jarl hafdi aadr bedit jumfruar ok villdu þeir þenna trunad ecki vndir honum eiga. Ok er stefnudagr kom biuggu Nordmenn sik til vppgaungu ok settu eftir menn til gæzslu vid skip sin. byskup ok sueitarhofþingiar Nordmanna ok et bezsta mannval biugguz at vopnum sem til bardaga þuiat þeim var otti aa huert raad Danir mundu vpptaka þa er þeir vissu at þeir hofdu afla litinn i sua fiolmennu landi. Ok er þeir komu til klaustrs-

ins var þar ecki raad fyrir gert helldr enn fyrr. þeir fundu jumfruna ok baadu hana efna ord sin ok fylgia þeim til skips. Jumfruin efndi allt af sinni hendi þat sem hon hafdi bezstu heitid. reez hon til ferdar med þeim ok med henni .ij. riddarar ok sueinar hennar ok nockurar .viij. konur. foru þau siþan til skipa. Priorinn af klaustrinu lagdi her faatt til þuiat honum var mikill otti at Nordmonnum. enn þetta redz sua skiott at engi þeirra Dana vissi fyrr enn jumfruin kom i veginn ok eigi þeir riddararnir er foru med henni. hofdu þeir engi klædi nema þau er þeir stodu i. logdu þeir Nordmenn skiott i brott skipum sinum ok sigldu af Danmork sua at þeir komu huergi vid land fyrr enn i Tunsbergi. enn þat var Olafsvoku aptan sidla er þau quomu þar.

## Sendimenn Alexandri.

266. Eftir þat er þeir foru til Danmerkr Hakon byskup. enn konungarnir voru nordan komnir ok erchibyskup ok Hakon konungr kom til Biorgyniar. komu vestan af Skotlandi sendimenn Alexandri konungs af Skotlandi erchidiakn einn ok riddari sa er Missel het. þeir foru meirr med fagryrdum enn trunadi at þui er konunginum virdiz. þeir fara sua i brott at engi madr vissi fyrr enn þeir hofdu vndit segl sitt. þa sendi Hakon konungr Bryniolf Jonssun eftir þeim ok hafdi hann þa aftr med ser. sagdi konungr at þeir skylldu dueliaz þann vetr i Noregi fyrir þat er þeir foru orlofslaust framar enn adrir sendimenn.

## Fra Hakoni byskupi.

267. Hakon byskup gerdi menn med brefum til Hakonar konungs ok sagdi allt vm þeirra ferdir ok sua þat at jumfru Engilborg var komin i Noreg aa guds naadir ok konungsins. sogdu hana ok þui sua famenna at þeir hofdu engan trunat a Daunum ad bida þar til sem jumfruin mætti bua sina ferd sua sæmiliga sem henni likadi ok hennar tign hæfdi. enn ecki gozs skortir hana i Danmork. Bref þetta kom til Hakonar konungs i Biorgyn ok gazs honum vel at erendi Hakonar byskups þegar fruin var i ferd med honum ok hafdi med sialfrar sinnar vilia sunnan farit. Hakon konungr leet þa vid buaz quamu þeirra byskups ok jumfruinnar. stefndi hann þa til sin ollum enum bezstum monnum er [741] voru i Noregs riki. fyst Knuti jarli ok ollum byskupum. Erchibyskup var þa i Biorgyn. hann hafdi farit austan vm sumarit i skipi med Magnusi konungi ok inn til Stafangrs med honum ok voru a samt allt sumarit ok helldu baadir eitt bord. Hakon konungr sendi menn austr i moti Hakoni byskupi at hann skylldi skynda sem mest sinni

ferd þuiat Magnus konungr hafdi þat kosit at sem skiotaz skylldi at snua brudlaupsgerdinni. þeim byskupi byriadi helldr seint sunnan ok laagu þau þar vm nockurar .iij. vikur aa leidinni. komu þau til Biorgyniar nockurum naattum fyrir Mariumessu sidarri ok logdu fyrst i Laxavaag.

Capitulum.

268. Hakon konungr ok Magnus konungr voru fyrir i bænum ok geingu þeir þegar til skipa sinna ok erchibyskup med ollum inum bezstum monnum ok ætladu at roa i mot jumfrunni. enn vedr var sua huast at þeir fengu huergi roit. Enn annan dag eftir reyru konungarnir i mot jumfrunni med ollu stadarfolki. ok er Hakon konungr fann jumfruna fagnadi hann henni aggta vel ok ollu hennar foruneyti. þa var þat raad fyrir gert at konungsdottir skylldi ecki koma i konungsgard fyrr enn brudlaupsveizlan væri buin. for hon þa vpp til Michialskirkiu ok Hakon byskup med henne ok voru þar vm .vij. nætr. Hakon konungr mællti sua er hann kom heim ok hafdi sena jumfruna. þat hafdi ek ætlat at fagna vel þessi jumfru er hon kæmi i Noreg. enn sua giftusamliga lijz mer aa hana at ek skal nu þo meiri stund aa leggia i alla stadi enn aadr hafda ek hugsat. Hakon konungr baud Magnusi konungi kost aa huart hann villdi helldr bua laata naustid þat it mikla er þa var veitt i er ek var vigdr edr villdi hann veizsluna vera laata i konungsgardi i þeim herbergium sem þar voru til. Magnus konungr suarar. at þar voru sua godar hallir i konungsgardi þær sem þa voru eigi til er hin fyrri var veizslan at þar maatti eigi vm vanda þau herbergi. Eftir þetta let konungr bua .iij. hallir i konungsgardi þær sem hann ætladi at veita i. voru þær bunar med inum mesta kostnadi ok inum bezstum fongum.

Brudlaup.

269. Svnnudaginn eftir Mariumesso ina fyrri var jumfru pausut Magnusi konungi med mikilli sæmd. geck Magnus konungr þa at brudlaupi sinu ok voru baadir konungarnir i steinhallinni ok erchibyskup liodbyskupar allir Knutr jarl ok flestir lendir menn hirdmenn ok hitt bezsta mannval. Fru Margreta drottning var i trehallinni ok jumfru Engilborg ok allir forunautar hennar konur ok klaustramenn ok mart annat godra manna. J jolahallinni var Augmundr krækidanz ok Erlingr Aalfssun kaupmenn vtlendir menn ok beiarfolk. enn sua var talt at eigi var færra enn .xvj. hundrat annat enn þionustumenn. Var þessi veizsla veitt med enum mesta kostnadi ok enum bezstum faungum er til voru. ok er þat flestra manna maal at eigi mune þuilik brudlaupsveizsla veitt

hafa verit i Noregi sem þessi. Hakon konungr mællti sua. at i þeirri hall er hann veitti sialfr i skylldi huerr kiosa ser dryck huern sem drecka villdi þuiat eigi skorti meirr vin enn annan dryck. Hakon konungr atti þa tal vid raadgiafa sina huart Magnus konung skylldi vigia vndir koronu edr eigi. Enn þar logdu menn misiafnt til. voru þeir sumir er þat mælltu at Magnus konungr mundi taka stett mikinn med koronunni ok mundi vilia hafa hird adra ok quadu þat greina vænt milli konunganna. enn Hakon byskup ok þeir sem farit hofdu med jumfrunni sogdu konunginn þui heitid hafa at þau skylldu bædi koronud vera ok baadu konunginn þat fullkomliga enda er hann hafdi baadum þeim heitid til sæmdar. Fluttu þetta margir vinir Magnus konungs. enn þo var þessu sua komit vm rijd at menn vissu eigi huart verda mundi. Magnus konungr geck þa fyrir Hakon konung ok flutti sialfr sua sitt maal. eigi þurfi þer minn herra at trua þeirra manna ordum er þat vilia telia fyrir ydr at ek muna nockura stærd vpp taka moti ydr þo at þer gerit mer meiri sæmd enn nockurr konungr i Noregi hafi gert sinum syni. þui at þer vitid sialfir minn kæri fadir at ek hefir ydr eftirlaatr verit ok miukr j aullum lutum ei nu sidr er ek er konungr enn adr sem bædi er ydr sæmd ok min. vænti ek at enn skal sua verda þo at þer vnnit mer þeirrar sæmdar ok tignar sem þer hafit heitid. Hakon konungr suarar. satt er þat Magnus konungr at þer hafit aastsamliga til vôr þionat. er þat ok vmakligt at ek vnni ydr eigi ennar hæstu tignar eftir þui sem framazst er guds vili til ok miskunn. Siþan skildu þeir konungarnir enn brudlaupsveizslan stod þria daga.

### Vigdr Magnus konungr.

270. Krossmessodagr var a fimta dag i vikunni. let Hakon konungr þa vm buaz af nyiu i gardinum þuiat hann ætladi at þann sama dag skylldi vigia Magnus konung vndir koronu eftir þui sem gud hafdi fyrir hugat. Var þa sungit aarla vm bæinn ok at lyktum tidum sotti allt folk vt i konungsgard. voru þa allir lutir likadir eftir þui sem þa var er Hakon konungr var vigdr. Herklæddiz þa mestr luti hirdarinnar ollum herbunadi at ganga bædi vm konungsgard ok ryma veginn til Kristzkirkiu. fyrst geck hirdin su er ryma skulldi veginn. þar næst þeir er merkin baaru. þar næst syslumenn ok skutilsueinar. eftir þat lendir menn. þa geingu .iiij. lendir menn ok baaru mikit taflbord milli sin yfir hofdi ser ok þar aa konungsskrud ok vigsluklædi. þar næst geingu þeir Erlingr Aalfssun ok Bryniolfr Jonssun ok baaru .ij. rikisvaundu af silfri ok miok gulli buna. þar næst geck Knutr jarl ok bar koronu

ok leiddu hann .ij. stallarar þuiat hann var miok siukr. jafnfram honum geck Gautr Jonssun ok bar vigslusuerdit. þar næst voru leiddir konungarnir. vid gardzhlid i konungsgardi komu i mot byskupar abotar ok lærdir menn med processione ok hofu vpp saung ok geingu sua til alltaris. eftir þetta var messa sungin ok for vigslan alluel fram eftir þui sem heilug kirkia bydr. Missel riddari sa er konungr af Skotlandi hafdi sent til hans stod vppi aa korinum ok vndradiz miok atferli vixlunnar þuiat þat er ecki sidr i Skotlandi at korona konunga. honum fanz sua mikit til vixlunnar at hann klauck [742] aadr enn þeir sogdu honum er hia stodu. Ok þa er Magnus konungr var klæddr ok Hakon konungr ok Einar erchibyskup ok adrir .iij. byskupar logdu vm hann vigslusuerdit þa tok riddarinn skotzski til orda. þat var mer sagt at her væri ecki riddarar dubbadir i þessu landi. enn ek sa engann riddara iafnvel dubbadann þar sem .v. inir agætuzstu hofþingiar i þessu landi leggia vm hann suerdit. þa er Magnus konungr var skryddr leiddi erchibyskup hann til sætis. siþan vigdu þeir drottningina. þa geck Hakon konungr at stolinum er Magnus konungr sat i. Magnus konungr villdi þa vpp standa i moti honum. Hakon konungr tok hendinni aa auxl honum ok mællti. eigi skolu þer vpp standa i moti mer frændi þuiat þer skulit nu hallda ydr sem tiguligaz ok hneigia engum manni þenna dag. er nu ok sa dagr kominn er ek villdi giarnazst. er ek se mitt holld sua miok tignat sem nu er her i dag helldr enn ek munda fyrirmuna ydr þessar tignar. enn þui leitada ek raads her vm at ek villdi vita her vm annarra manna tillaugur. ok voru þeir inir somu er mik lauttu þessa ok eigi hafa aadr verit vmbotamenn med mer ok enum fyrrum ydrum frændum sem gud fyrirlaati þeim. þa er messu var lokit fylgdi erchibyskup ok adrir byskupar konunginum heim til herbergis sem fyrr syngiandi lof gudi. þa afklæddiz konungrinn vigsluklædum ok veitti erchibyskup honum alla þionustu er vigslunni aattu at fylgia. Eftir þat for hann i allann konungsbunat ok bar koronu þann dag. eftir þat geingu konungarnir til bordz. ok var þann dag in fegrsta veizsla med miklum fagnadi Magnusi konungi til sæmdar ok fru Engilborg drottningu ok ollum þeirra vinum. sem Sturla quad.

Vngr toktu iofra þeingill
ægr vid vigslu frægri
kynniz kapp þitt monnum
konungs nafn a þik iafnan.

ok sokngædir siþan
sniallmælltr hlutud allar
her lysi ek veg visa
valld fram komit alldar.

Ok enn.

Heilags hafit haala
hraustr þeingils sonr feingit
þik reifir gud gæfu
gnott þiod ok konungsdottur.

sniallr maa Eirekr ollu
aldyrr konungr styra
yduarr þroski geingr oskum
einart vid gud hreinann.

At þessi veizslu gaafu konungarnir margar sæmiligar giafir fyrst erchibyskupi ok odrum hofþingium. Magnus konungr gaf aullum sueitungum sinum giafir ok morgum odrum. enn eftir veizsluna hafdi hann alla danska menn i bodi sinu þa sem fru Engilborg hofdu sunnan fylgt ok leysti þa alla hofþingliga af hondum. ok foru þeir heim til Danmerkr enn eftir voru med drottningu konur þær ok sueinar sem henni likadi.

### Andlaat Knutz.

271. Knutr jarl var miok krankr vm veizsluna. litlu sidarr lagdiz hann i reckiu ok anndadiz. Hakon konungr gerdi likferd hans vegliga. hann var iardadr i Kristzkirkiu hia Hakoni fedr sinum. Jarl var manna kurteisazstr vm alla luti klerkr godr manna ǒrfazstr af fee. haarr madr vexti ok vel yfirlitz. dryckiumadr of mikill ok þar af feck hann vanheilsu. þetta haust komu vtan af Grænlandi Oddr af Siolltum Paall Magnusson ok Knarrarleifr. þeir hofdu verit brottu .iiij. vetr. þeir sogdu at Grænlendingar hofdu geingit vndir skattgilldi sua at oll manndraap skylldi bæta vid konunginn huart er væri norænir edr grænlendzkir ok huart sem þeir voru drepnir i bygd edr nordrsetu. ok allt nordr vndir stiornuna skylldi konungr þegngilldi taka. sem Sturla quad.

Nordr likar þeim allt at auka
yduart valld vm heiminn kallda
gegnir munu þui fyrdar fagna
fiornis aalfr vnd leidarstiornu.

þeingill hefir þar annarr engi
allualldr enn þu riki halldit
leingra telia þiodir þangat
þina dyrd enn raudull skini.

þetta sumar sendi Hakon konungr til Jslandz Halluard gullsko at flytia sitt erendi vid jarl at hann endi sin einkamaal. Halluardr kom i Huitaa ok for at finna jarl ok flutti diarfliga konungs erendi. Jarl tok þui vel ok quaz sua skylldu gera sem konungr hafdi ord til sent. Halluardr for til Reykiahollt(z) ok sat þar vm vetrinn. þeir jarl funduz vm vetrinn aunduerdan ok sǒru þa nockurir bændr konungi trunadareida þeir er aadr hofdu mot stadit. Jarl sat vm vetrinn fyrir nordan land ok leitadi raads vid bændr hueriu suara skylldi. budu bændr at leysa jarls vegna vid konungsmenn sumir .cc. sumir .c. sumir .xij. aurum. þa er Halluardr spurdi þetta quad hann konung ecki vilia at bændr væri pyndir til sua storra fegiallda kuat hann vilia hafa maatuligann skatt af almenningi ok het i mot rettarbotum. Halluardr flutti konungs maal vid

Vestfirdinga ok hetu þeir at koma til þorsnes þings vm vorit ok sueria þar konungi land ok þegna. enn er jarl vard þessa viss stefndi hann bændum til Hegraness þings ok let þar nockura menn sueria konungi land. enn Rafn Oddsson kom eigi til þorsnes þings ok þui kom Halluardr ecki. Var þa skotid til alþingis. drogu allir enir stærstu menn i Fiordum vestr storflocka er at leid þingstefnunni. þeir sendu menn a fund sona Steinuarar ok Andressona at þeir skylldu rida til þings med aullum afla sinum fyrir austan þiorsaa. þoruardr þorarinssun hafdi heitid at koma med Austfirdinga. Gizsur jarl kom til alþingis med miklu lidi. jarl flutti þaa konungs maal bædi vid Nordlendinga ok Sunnlendinga ok bad þa til med godum ordum enn kalladi fiorraad vid sik ef þeir mællti i mot. Eftir þat var skipud laugretta ok soru flestir enir bezstu bændr or Nordlendinga fiordungi ok Sunnlendinga fiordungi fyrir vtan þiorsaa Hakoni konungi land ok þegna ok æfinligan skatt. siþan reid jarl af þingi ok sudr i Laugardal ok hellt þar saman flockinum vm rijd. Siguardr byskup ok Halluardr ridu aa þueraar þing. geingu þa Vestfirdingar vndir hlydni. soru fyst Rafn Oddzsun Sturla þordarsun Sighuatr Boduarssun Einarr þorualldzsun Vigfuss Gunnsteinssun ok þrir bændr med huerium þeirra. þrir bændr soru fyrir Borgfirdinga. þa hofdu allir Jslendingar geingit vndir skatt vid Hakon konung vtan Austfirdingar fra Helkunduheidi ok til þiorsaar i Sunnlendinga fiordungi.

## Fra Magnusi konungi.

272. Hakon konungr sat vm vetrinn i Biorgyn enn Magnus konungr for sudr i Stafangr. Einar erchibyskup leiddi hann til skips ok mællti sua. iafnan hefir mer fyrir þott at skilia vid ydr vtan nu þuiat þat gledr mik nu at ek hefir veitt ydr alla þa þionustu sem ek ma ydr til tignar gera. fyst gaf ek ydr konungsnafn. eftir þat pausadi ek ydr vid drottningina. sidan vigda ek [743] ydr vndir koronu ok sua drottningina. er nu þat eitt eftir sem gud laati mer eigi audit verda at standa yfir grefti ydrum. Magnus konungr þackadi byskupi bædi ord ok þionustugiord. Magnus konungr dualdiz i Stafangri vm rijd. hann for nordr aftr fyrir jolin ok saatu þeir Hakon konungr baadir samt vm jolin i Biorgyn. ok var þessi hinn .v. vetr ens fimta tigar konungdoms hans. Snimma vm vorit biuggu konungarnir ferd sina austr til Vikr ok ætludu allt til Elfar at finna Birgi jarl hefiandi sina ferd eftir þui sem aadr hofdu ord i milli farit. ok skylldu þeir gera raad vm eignir þær sem dætr Eireks konungs aattu i Danmork. þuiat þeir aattu þa þar heimtingar Magnus

konungr ok Valldimar Suiakonungr þuiat hann hafdi þa feingit Suphiu dottur Eireks konungs systur Eingilborgar drottningar. þa er konungarnir foru or Biorgyn var eftir fru Margreta drottning ok Engilborg drottning þuiat hon var med barni. Konungarnir fundu sendimenn Birgis jarls i Tunsbergi. sogdu þeir at jarl mætti eigi finna þa fyrir fiolskylldu sakir enn gaf þat raad at menn væri sendir til Danmerkr ok vita huat huer þeirra systra ætti Engilborg ok Sophia edr þær .ij. sem vgiftar voru ok skipta siþan med iafnadi.

## Fra Hakoni.

273. Magnus konungr ok Hakon konungr sendu menn sudr til Danmerkr Paal gaas Andres plytt ok þorlaug bosa ok skylldu þeir yfir sia þetta skipti af hendi Magnus konungs ok fru Engilborgar. Ok er þeir komu til Danmerkr var þar Adalbrikt hertugi af Brunsvik ok hafdi raad oll med drottningu. Duolduz þeir Paall med hertuga vm sumarit ok fengu engan orskurd sinna erenda. Hakon konungr for til Osloar enn Magnus konungr austr til Borgar at sia vm þau leen er Hakon konungr hafdi veitt fru Engilborgu. J þessarri ferd feck Magnus konungr siukleika af þui er hann hafdi ridit sua mikinn ok sneri hann þa til Osloar ok var þa nockuru lettara. geck hann þa til kirkiu ok gerdi byskup processionem i mot honum. hedan af bættiz honum. Siþan foru konungarnir nordr til Biorgyniar ok komu nordr vm vakna skeid. þa sendi Hakon konungr þa or landi Lodin lepp ok Hakon eisil. þeir foru vt til Soldands konungs til Serklandz med morgum faalkum ok torgætum gripum. Tok Soldann þeim vel. sem Sturla quad.

Allualldr dyrkaz vt med Serkium
innanlandz af milldi sinni
þeingil lika þinir haukar
þadra allt med Blaalandz iadri.

vida hriota veglig mæti
vægdarlaus af ydrum frægdum
hollar prydi heiminn allann
hnossir þinar mærdar tinir.

þetta sumar kom vtan af Jslandi Halluardr gullskor ok sagdi at suarinn var skattr Hakoni konungi a Jslandi. med honum kom Sighuatr Boduarssun Sturla Rafnssun. þa kom ok Brandr aaboti Jonssun at ordsendingu erchibyskups ok for til motz vid hann. þorlaugr bosi kom til Hakonar konungs i Biorgyn ok sagdiz ecki geta syst. enn þeir voru eftir Paall gaas ok Andres plyttr. þetta sumar var fæddr i Biorgyn Olafr son Magnus konungs ok Engilbiorgar. Vm haustid foru konungarnir nordr til þrondheims ok drottningin enn jungherra Olafr var eftir at nunnusetri. enn er þau komu nordr gerdi erchibyskup fagra processionem i mot þeim. Saatu þeir þenna vetr i þrondheimi. Andres plyttr kom

sunnan af Danmork ok sagdi ecki skipti vera gert med fru Engilborg enn vita quaz hann huersu miklar eignir voru ok sua huar laagu.

Vtbod.

274. Hakon konungr sat vm julin i þrondheimi ok hafdi mikinn kostnad. Brandr aboti var med honum ok var konungr vel til hans. Einar erchibyskup var siukr vm vetrinn geck hann litt at finna konung. enn þo foru allir lutir vel med þeim. dro Magnus konungr þar ok alla luti til. Vm sumarit komu bref vestan af Sudreyium fra konunginum. hann kærdi miok þann vfrid er jarl af Ros ok Kiaruakr sun Machamals ok adrir Skotar gerdu i Sudreyium þa er þeir foru i strid. brendu bæi ok kirkiur drapu bædi karla ok konur ok letu smaaborn sprokla a spiotaoddum. þeir sogdu at Skotakonungr ætladi vndir sik at leggia allar Sudreyiar ef honum ynniz lif til. þetta feck konunginum mikillar ahyggiu. bar hann þetta maal fyrir vini sina. enn huat sem huerr lagdi til þa var þat raad tekit at konungr sendi bref vm allan Noreg ok baud vt leidangri bædi at vistum skipum ok lidi. stefndi hann ollum þessum her til motz vid sik i Biorgvin. Einar erchibyskup aatti tal vid korsbrædr vm byskupskosning a Jslandi ok keyru þeir Brand abota med samþycki baadra konunganna. þa var ok vtan kominn af kuria sira Gillibert. hann syndi bref pafa at hann gaf i valld erchibyskups byskupskosning i Hamri ok skylldi hann þo kiosa Gillibert eftir þui sem konungs vili var til. Jnn .iiij. dag nonas Marcij maanadar vigdi Einar erchibyskup þa baada til byskupa Gillibert til Hamars enn Brand til Hola. voru þar vid Petr byskup af Biorgyn ok þorgils byskup af Stafangri.

Hakon konungr byriadi herferd til Skotlandz.

275. Hakon konungr for or Nidarosi nær midri fostu vt til Orkadals ok sua sudr vm fiall ok ed efra austr til Vikr ok sua austr til Elfar. eftir þui sem ord hofdu i milli farit þeirra Birgis jarls at þeir skylldu finnaz i Liodhusum i paschaviku. ok er Hakon konungr kom til Liodhusa var jarl i brottu. Litlu sidar for Magnus konungr or þrondheimi ok drottningar baadar. hann hafdi tidir paschadag i Frekeyiarsundi. hann for sudr til Stafangrs. Hakon konungr kom crossmesso dag i Biorgyn dualdiz þar vm vorit ok hellt a bunadi sinum. þa er Magnus konungr hafdi gert raad fyrir vtbodum ok skipabuningi i Rygiafylki þa for hann til motz vid Hakon konung. Eftir þat safnadiz lid huersdagliga til bæiar bædi lendir menn ok syslumenn ok flestir handgeingnir menn i landinu. Hakon konungr hafdi almenniligt þing vppi a Bockum.

lysti konungr þui at hann ætladi at hallda her þeim ollum til Skotlandz ok hefna þess vfridar sem Skotar hofdu gert riki hans. Magnus konungr baud at vera fyrir herinum enn Hakon konungr þackadi honum aastsamliga enn sagdiz sialfr fara vilia. hann feck aull landraad i hendr Magnusi konungi. hann gaf vpp bændum at engar sakir skylldu syslumenn sækia medan hann væri i brottu vtan þær er stærstar væri. Hakon konungr hafdi skip it mikla er hann hafdi gera laatid i Biorgyn ok ætladi ser til vtfaraskips. þat var .vij. rum ok .xx. ok gert af eik einni. þat var med dreckahofdum ollum gullllogdum ok bunir suirarnir. Vm vorit hafdi Hakon konungr sent vestr vm haf Jonn Langalifarsun ok Heinrek skot at fa leidsogumenn. þeir fundu Duggaal konung ok sogdu honum [74⁴] at hersins var austan von. enn þat ord lek þar aa at Skotakonungr mundi heria i eyiarnar vm sumarit. enn Duggall konungr laust þa vpp at austan væri komit af Noregi .xl. skipa ok heptuz Skotar þa.

## Fra Hakoni konungi.

276. Adr nockuru enn konungrinn væri buinn sendi hann aatta skip vestr fyrir ser. þessir voru þar formenn Rognualldr Nichulassun Halluardr raudr ok enn fleiri. þeir laagu vm rijd vt vid haf ok byriadi eigi. þa er Hakon konungr hafdi buit skip sitt lagdi hann or bænum ok mestr luti hersins. konungr lagdi til Eidsvogs ok siþan for hann inn til bæiar ok dualdiz þar vm rijd. ok for siþan vt til skips ok sigldi vt i Herdluver. kom þar saman allr herrinn bædi nordan or landi ok sunnan ok var þat stormikill herr. sem her segir i Rafnsmaalum ok Sturla quad.

Sottu soknhuattir
sueitir haleitan
geira glymstæri
glyggs or Finnbygdum.
allt bar iardbelltis
austan sigrflaustum
gialfr af Gautelfi
getis haaseta.

Ok enn.

Aungr sa ormvęngis
otti vigdrottar
fleiri flugstæris
fleins i stad einum.
lukti lomblecki
landa vtstrandir
hridar herskidum
hardr at raangardi.

Hakon konungr laa med herinum ollum i Herdluveri. var þat allmikit lid ok fritt. morg hafdi konungrinn storskip ok vel buin. sem her segir.

Glumdi a gialfrtonnum
gestils skeidhestum
elldr of alluалldi
ægis nafnfrægium.

skein af skautvænum
skeidum brimreidar
sol vm sigdeili
snotrann vþrotlig.

Nockurum nottum sidarr enn Hakon konungr kom i Herdluver sigldu þeir af hafi Rogualldr ok Erlingr med þeim skipum er þeir hofdu ok skilduz i hafi. ok kom Erlingr til Orkneyia med summum skipunum enn Erlingr ok Andres ok Halluardr raudr sigldu fyrir sunnan Hialltland ok siþan vestr fyrir Barreyiarfiord ok sa ecki land fyrr enn Sulnasker vestr af Orkneyium. siþan sigldu þeir inn vndir Skotland ok quomu vid Dyrnes ok geingu þar vpp ok brutu kastala einn er þar var. enn menn þeir er þar voru flydu vndan. siþan brendu þeir meirr enn .xx. bæi ok þa sigldu þeir i Sudreyiar ok fundu konunginn af Maun.

## Hakon for af Noregi.

277. Þrim nottum fyrir Seliumannavoku sigldi Hakon konungr i Solundarhaf med ollum herinum. þa hafdi hann verit konungr at Noregi 'xl. vetra ok vj. vetr. var þa algodr byrr ok fagrt vedr. var flotinn alglæsiligr at sia. sem her segir.

Laust af lidfaustum
liosum valdrosar
brims af biarthimni
blomum viglioma.
ferd var fridskerdis
flocka aþockud
heims vm hafstrauma
hringa elldingum.

Hakon konungr hafdi miok valit lid aa skip sitt. þessir voru i fyrirrumi þorleifr aboti af Holmi sira Askatin prestar .iiij. ok adrir klerkar konungs. þessir leikmenn Aslaakr guss stallari konungs Andres af Pissisey Andres Hauardarsun Guthormr Gillasun ok þorsteinn brodir hans Eirekr skota Gautzsun ok enn fleiri. þessir voru i krapparumi Aslaakr Dagssun Steinarr herka Klemet langi Andress gums Eirekr fadir Duggaals konungs Einarr lungbardr Arnbiorn suæla Sighuatr Boduarssun Hauskulldr Oddzsun ok Jonn hoglifi Arni slyngr. J þridia rumi var Sigurdr sun Juars rofu Helgi sun Juars af Lofalæk Erlendr skosueinn Dagr af Sudreyium[1] Bryniolfr Jonssun Gudleikr sneis ok enn fleiri herbergismenn konungs. Andres plyttr var fehirdir konungs. þessir voru i stafni Eirekr kifa þorfinnr Sigualldasun Kaari Eindridasun Gudmundr Jonssun ok enn fleiri skutilsueinar. vidazst voru .iiij. menn i haalfrymi. Medr Hakoni konungi for or Biorgyn Magnus jarl af Orkneyium ok gaf konungr honum gott langskip. þessir lendir menn foru med Hakoni konungi Bryniolfr Jonssun Finnr Gautzsun Erlingr Alfssun Erlendr raudi Baardr i Hestbæ Eilifr i Naustdali Andress pottr Augmundr krækidanz. þeir

[1]) r. Sudrheimum

sigldu fyrir Rognualldzey. Erlingr Juarssun Jonn drottning voru eftir i Biorgyn ok enn fleiri skipstiornarmenn þuiat þeir voru eigi bunir. Gautr af Meli ok Nichulas or Giska voru eftir med Magnusi konungi. Margir voru adrir agætir skipstiornarmenn med Hakoni konungi þeir sem enn verdr getid. Hakon konungr feck hægiann byr ok var .ij. nætr i hafi ok tok Hialltland med hlut hersins þar sem heitir Breideyiarsund. sem Sturla quad.

Leysti laugrastar
landa styrandi
helldum hafalldar
hufum blaadufur.
lystiz hrein hestum
haufn af skipstaufnum
alldi alfolldar
audar blodraudum.

Hakon konungr laa i Breideyiarsundi nær haalfum maanadi ok sigldi þadan til Orkneyia ok laa vm rijd i Ellidarvik þat er nær Kirkiuvogi. þar hafdi Hakon konungr tal vid raad sitt ok lysti þui fyrir þeim at hann villdi skipta herinum ok senda summan sudr til Breidafiardar at heria þar. enn hann sialfr villdi bida med Orkneyingum med storskipunum ok mestum luta hersins. enn bændr ok leidangrsfolk gerdu sik bera a mot at mæla at fara nockur nema med konunginum sialfum ok þui eyddiz þessi ferd. Olafsvokudagr var a sunnudegi ok let Hakon konungr syngia hatidliga tidir i landtialldi ok veitti vm daginn almuganum a skipi sinu. Eftir Olafsvoku sigldi Hakon konungr or Ellidarvik sudr fyrir Mula fyrir Rogualldzeyiar med ollum herinum. var þa til konungs kominn Rogualldr vtan or Orkneyium med þeim skipum er honum hofdu fylgt. Hakon konungr lagdi herinum i Rognualldzvog ok laa þar vm rijd. þa gerir hann menn yfir a Katanes ok lagdi aa þa gialld enn het þeim i mot fridi ef þeir geingi vndir ella afarkostum. Katnesingar iattudu gialldi ok feck Hakon konungr þar menn til vidtoku. sua sem her er quedit.

Fyst tok fiorlestir
frodr af nesþiodum
gialld enn gridmilldi
gætir vegs sætra.
oll var ognfallin
olld af storvaulldum
hrædd vid herklæddann
herdi baudgerdar.

þa er Hakon konungr (la) i Rognualldzvogi dro myrkr mikit aa solina sua at ringr litill var biartr vm vtan ok helltz þat stund dags. Hakon konungr hafdi spurt ill tiþendi or Sudreyium þuiat Jonn Langlifarson hafdi komit til konungs aa Hialltlandi er konungr hafdi vestr siglt ok sagt þau tiþendi [745] at Jonn konungr i Sudreyium mundi hafa vm skipt sinum trunadi ok snuiz til Skotakonungs. enn Hakon konungr villdi þui ecki trua fyrr enn hann reyndi. Lafranz vaukudag sigldi Hakon konungr or Raugnualldzvogi yfir a Petlandzfiord. hann hafdi þa spurt at þeir voru

þa komnir i eyiarnar Jonn drottning ok Kolbeinn Aslakssun ok þau skip er austan var von ok eftir hofdu dualizst. Hakon konungr sigldi aullum herinum til hafnar þeirrar er heitir Asleifarvik ok þadan til Liodhusa ok sua til Rauneyia ok þadan i Skidsund ok laa þar sem heitir Kerlingarsteinn. þar komu til hans Magnus konungr or Maun ok þeir maagar Erlingr Juarssun ok Andres Nichulassun Halluardr ok Nichulas tartr. þeir sigldu allir saman ok Jonn drottning ok skilduz i hafi. Nichulas hafdi huergi vid land komit fyrr enn i Liodhusum siþan hann sigldi af Noregi. þann dag er Hakon konungr sigldi or Skidsundi kom Duggall konungr til hans a lettiskutu ok bad Hakon konung skynda sem mest eftir ser. Konungr sigldi þadan i Mylarsund enn þadan vndir Kiarbarey. ok kom þar saman allr herrinn bædi Duggall konungr ok Sudreyingar. Hakon konungr hafdi þa aa audru .c. skipa ok flest stor ok oll vel skipud bædi at monnum ok vapnum.

## Hakon konungr sendi til Satiris.

278. þa er Hakon konungr laa i Kiarbarey sendi hann sudr til Satiriseids .l. skipa. voru þessir þar fyrir Duggaall konungr Magnus af Maun Bryniolfr Raugnualldr orka Andres pottr Augmundr krækidanz Vigleikr prestzsun. hann gerdi .xv. skip til Botar. voru þar fyrir Erlendr raudr Andres Nichulassun Simon stuttr Juarr vngi Eyfari ok Guthormr Sudreyingar a sinu skipi huarr. Hakon konungr sigldi i Gudey fyrir Satiri. þar kom til hans Jonn konungr. for hann a skip þorgils byskups. Hakon konungr bad hann fylgia ser eftir þui sem hann var skylldr til enn Jonn konungr taldiz vndan ok sagdiz hafa suart eid Skotakonungi ok hallda meira riki af honum enn Noregskonungi ok bad Hakon konung gera raad fyrir þui riki er hann hafdi honum feingit. Hakon konungr hafdi hann med ser vm rijd ok ætladi at mykia skap hans til trunadar vid sik. margir logdu þungt til hans maala.

## Fra Hakoni konungi.

279. Enn er Hakon konungr laa i Gudey kom til hans aboti einn af gramunka klaustri ok bad fridar stad sinum ok varnadi heilagrar kirkiu. ok þat veitti konungr honum. þa komu menn fra Duggali konungi ok sogdu at Margadr ok Engus af Satiri villdu gefa vpp þau lond er þeir helldu ok veita konungi sina fylgd. enn konungr hafdi þau andsuor at hann mundi eigi þar heria ef þeir kæmi aa hans valld vm daginn eftir fyrir haadegi ella quez hann mundu heria. Vm morgininn eftir kom Margadr ok lagdi allt a konungs valld. litlu sidarr kom Engus ok

gerdi slikt id sama. enn konungr het at koma þeim i sætt vid Skotakonung ef þeir sættiz. selldu þeir konungi gisla ok soru eida. Konungr lagdi gialld aa riki þeirra .x. .c. nauta. konungr skipadi Engus eyna. sem segir i Rafnsmaalum.

Hellt enn bradmællti
hringa virdingu
leidir langskidum
leygs i Sudreyiar.

vpp gaf allkeppnum
Eingus herfeingna
Jjl fyrir itrbola
eydi dalreidar.

Ok enn segir sua.

Stod af storraadum
styri brimdyra
ogner ofr þuegnar
iardar vestrgardi.

meidir hialmbrida
hausa fridlausir
opptaz osuipptum
otta ranndrottar.

Sunnan aa Saatiri er einn kastali er hellt einn riddari. hann for aa fund Hakonar konungs ok gaf i hans valld kastalann enn konungr skipadi hann Guthormi backakolf. Brodir Simon hafdi legit siukr vm rijd. hann andadiz i Gudey ok grofu gramunkar hann at kirkiu sinni a Satiri ok breiddi yfir leg hans kaugur ok kaulludu hann helgann. þeir sem foru til Satiriseids brendu þar bygdir toku slikt af fe sem þeir fengu. þar til er þeim kom bod Hakonar konungs at hann bannadi þeim at heria. sigldu þeir þa vt vndir Gudey til motz vid Hakon konung. sem her segir.

Gengu gedstrangir
geitis veg meita
saars vm Satiri
sunnan laugrunnar.

sauddu suartklædda
snoka dynkroka
bragnar byregnis
brandz a Skotlandi.

Hakon konungr gerdi Andres pott sudr til motz vid menn sina til Botar. þeir hofdu feingit einn kastala ok hofdu þeir tekit grid af Nordmonnum. þar var med Nordmonnum einn skipstiornarmadr er Rudri het. hann þottiz ættborinn til Botar. hann var vtlægr af Skotlandi. hann hafdi gert Skotum margann vfrid enn þeir voru brott farnir. Siþan lagdiz eyin Bot vndir Hakon konung. sem her segir.

Ferd vann fridskerdis
fræg ok vvægin
briot af bauguiotum
breida gudleidum.

hreyfdu hiorkleyfdann
hrafn a valtafni
fellu fiandr stillis
flygr i Sudreyium.

þeir foru or Bot ok inn a Skotland ok brendu bæi nockura. Rudri gerdi þat illt er hann maatti. sem her segir.

Brunnu bumanna
bygdir vdygdra
heitr i hialmsetrum
hallar lifgalli.
fellu fleinþollar
feigir suanteigar
sudr af sæskidum
sottir herdrotta.

## Hakon konungr heriadi i Sudr[eyium].

280. þa er Hakon konungr kom i Sudreyiar komu þau ord af Jrlandi at þeir buduz vndir hans valld ok þottuz miok þurfa at hann kæmi af þeim vfrelsi enskra manna þuiat þeir helldu þa alla enu bezstu stadi med sionum. Konungr sendi þa vt Sigurd Sudreyingh at skynia med hueriu Jrar bydi honum þangat. Eftir þat sigldi Hakon konungr til Hereyia. þenna tima komu iafnan sendimenn Skotakonungs til hans prædicarar edr hinir berfættu brædr ok leitudu vm sættir. þa let Hakon konungr Jon konung lausann ok bad hann fara i fridi huert er hann villdi ok gaf honum margar godar giafir. enn hann het at draga allt til sætta med þeim Skotakonungi ok finna Hakon konung ef hann sendi honum ord. Hakon konungr sendi menn a fund Skotakonungs at vita vm sættir Gillibert ok Heinrek byskup af Orkneyium ok Andres Nichulassun Andres plytt ok Paal sur. þeir fundu Skotakonung ok tauludu vm sættir. let konungr yfir þui likliga at hann villdi sættaz ok quaz mundu senda til Hakonar konungs þau sættarbod sem hann villdi vera laata. foru sendimenn aftr enn Skotar komu litlu sidar Hafdi Hakon konungr skrad [746] vpp allar þær eyiar er hann villdi eigi lausar laata. var þat Botn ok Herey ok Kumreyiar. geck þui eigi saman sættin. skutu Skotar meirr i langbacka ok foru med þui aftr til konungs sins. Siþan hellt Hakon konungr inn vndir Kumreyiar ollum herinum. var þa enn fundr lagdr til sætta inn aa Skotlandi. sendi Hakon konungr þangat byskupa ok lenda menn enn til motz vid þa komu riddarar nockurir ok klaustramenn. toludu þeir mart vm sættir ok kom miok i sama stad nidr sem fyrri. ok er a leid daginn söfnuduz Skotar margir af landi ofan. þottu Nordmonnum þeir ecki truligir ok foru til skipa sinna ok fundu konung ok sogdu honum vidtal þeirra ok fystu flestir at vpp væri sagt fridinum. Hakon konungr sendi þa til Skotakonungs hirdmann sinn er Kolbeinn riddari het. hann for med fridarbrefi þui er Skotakonungr hafdi sent Hakoni konungi enn skylldi aftr hafa med ser þat fridarbref er Hakon konungr hafdi sent Skotakonungi. her med skylldi hann segia sua at konungarnir fyndiz med ollum sinum her. yrdi þeir þaa saattir med guds miskunn þa væri vel. enn ef þess yrdi eigi audit baud Hakon konungr Skotakonungi at beriaz med ollum herinum. hefdi sa gagn er

gud villdi. þessu tok Skotakonungr ecki vlikliga at beriaz enn vard engi vrskurdr aa. for Kolbeinn aftr til konungs ok þotti honum hans erendi litid. sua segir i Rafnsmaalum.

Baud hinn bokfrodi
bragna sigr magna
austan orrostu
optaz spiotskǫptum.
þordut þrekstirdann
þegnar vfegnir
biors vid blikstyri
beriaz vtveria.

þa var lokit ollum gridum. Hakon konungr sendi .lx. skipa inn i Skipafiord. var þar fyrir Magnus konungr af Maun ok Duggaall konungr ok Alinn brodir hans Engus ok Margadr Vigleikr prestzsun Juarr holmr. þeir eyddu bygd alla vmhuerfis vatn þat er heitir Lokulofni. þat var jarlsriki eitt er het Lofnard. mikill fioldi eyia var i vatninu ok eyddu þeir þær allar ok drogu til baata sina. sem Sturla quad.

Drogu dynsueigis
darra flugskiarrir
baata baugniotar
breidar strandleidir.
eyddu vræddir
eyiar geirþeyiu
vægdar vidbygdum
vatni herskatnar.

Alinn brodir Duggaals geck yfir þuert Skotland. felldi mart manna ok tok morg .c. nauta ok gerdi et mesta heruirki. sem hęr segir.

Herdu herferdir
hrygs i storbygdir
vida vargfædis
virdar gedstirdir.
feck inn folkracki
fellu gunnspelli
aulldum osialldan
Alinn lifdualar.

Nockur .x. skip braut fyrir þeim i Skipafirdi. Juarr holmr tok sott ok andadiz. Michials messa var aa laugardegi enn manadags nattina eftir kom aa stormr mikill med elum ok hreggi. kaulludu þeir þa er streinguaurd helldu aa konungsskipi ok sogdu at kugg einn rak framan at festum. lupu menn þa vpp enn staugin a kugginum festi a konungsskipinu a hofdi skipsins ok tok af nasarnar. siþan rak kugginn aftr med bordi til þess er ackerit tok vid ok festi i streinginum. toku þa ackerin at kraka. Konungrinn bad þa hauggua ackeristreinginn a kugginum ok sua gerdu þeir. rak hann þaa vt aa eyna enn konungsskipit helltz. ok laagu tialldlausir til dags. enn vm morgininn er flæddi flaut kuggrinn ok rak hann þa vpp aa Skotland. Vindrinn tok at vaxa sua at eins neyttu menn þa grunnfæra þeirra er til hofdu. þa var fellt it .v. ackeri aa konungsskipi. enn konungr for i baat ok reri vt til eyiarinnar ok let syngia ser messu. enn skipit rak inn aa sund. var þa tekit adalackerit ok sett fyrir ok rak eigi at sidr. nockur .v. skip rak inn at landi. þa hrifu vid ackerin a konungsskipinu. voru þa .viij. fyrir med þui er þeir

hofdu aatt a kugginum. Menn fengu þar ena mestu vaasbud. sem her segir.

Mætti margfrettinn
miklum fram stikla
ædi oþioda
Jnga giorningum.
leysti laabrostinn
laugr enn skautfaugrum
flaust af farnestum
flestum bauglestis.

Ok enn segir sua.

Bless aa baudfusa
bragna fiolmagnat
hregg aa herdyggua
hridar brimskidum.
vpp rak alkepna
aulld med herskiolldum
grunda gialfsundi
grand at Skotlandi.

## Fra Skotum ok Hakoni konungi.

281. Þa er Skotar saa at skipin voru rekin sôfnuduz þeir saman ok foru ofan at Austmonnum enn þeir vaurduz vel a kugginum. Konungr sendi inn menn aa baatum at hialpa þeim er a landi voru. sem her segir.

Sendi snarlynda
suerda blikskerdir
sueit hinn sigrmæti
sid til brynhridar.
draapi dulgreipa
dreingia lof þeingils
drott sa er dalgauta
dæmdi her sæmdi.

Siþan for konungr vt a kertisueina skutu med þorlaugi bosa. Þegar konungsmenn komu a land flydu Skotar aa land. enn Nordmenn voru aa landi vm naattina. enn Skotar foru at kugginum vm naattina ok toku i brottu fe sem þeir maattu. Vm morgininn let konungr rydia kugginn ok fara vt til skipa. þa kom herr Skota. Augmundr krækidanz var aa haugi einum ok sueit manna med honum ok sottu Skotar at þeim gletting þann. Enn er meginherrinn naalgadiz baadu þeir konung roa til skipa ok senda þeim lid. konungr baud at vera aa landi med þeim enn þeir villdu eigi leggia hann sua i hættu ok reri hann til lids sins. Þessir voru lendir menn aa landi. Augmundr krækidanz Erlingr Aalfssun Andres pottr Erlendr raudr Andres Nichulassun Paall surr þorlaugr bosi Andres plyttr. allz voru þeir .viij. .c. manna .cc. voru a hauginum med Augmundi enn annat lid var aa maulinni nidri. þa droz Skotaherr at þeim miok margr ok vel buinn at hestum ok vôpnum. þat var aavarp manna at vera mundu .v. .c. riddara enn fioldi fotgaungulids ok hofdu þeir mest boga ok spaurdur. Þeir Augmundr foru þa ofan af hauginum til kumpana sinna. Skotar sottu þa fast at med grioti ok skotum enn hinir foru vndan a hæli ok hlifdu ser. Enn er þeir komu

a nedstu brecku for huerr odrum hardara. ok er þetta saa þeir er nidri voru hugdu þeir Nordmenn flyia. lupu þa margir til baata ok sua fra landi. flestir baatar sucku nidr. tynduz nockurir menn. sumir lupu i kugginn. hinir kaulludu at þeir skylldu aftr snua. sneru þa aftr nockurir menn ok þo fair. þar fell Hakon af Steini ok .ij. menn adrir. þa var bardagi enn hardazsti ok þo miok viafnligr þuiat .x. voru Skotar vm einn Nordmann. þessir voru formenn Augmundr krækidanz Andresar .ij. þorlaugr bosi. þa fell einn riddari skotzskr er Perus het ok enn fleiri. Sua quad Sturla.

**Hlodu hugprudir**
**brings i brynþingi**
**vorir vegstorum**
**virdar baugnirdi.**
**fyllduz fiorselldum**
**frammi valgammar**
**huerr mun hringþuerris**
**hefna audstefni.**

[747] Medan bardaginn var þa var sua mikill stormr at Hakon konungr sa eigi efni aa at koma herinum aa land. Enn Raugnualldr ok Eylifr komu til bardagans vid nockura menn ok foru alldiarfliga ok þeir Nordmenn er a baatana hofdu geingit enn Rognualldr hrauck vt aftr til skips sins enn Eilifr for allkallmannliga. þa tok Nordmonnum at safnaz lid ok letu Skotar þa vndan vpp a hauginn ok var þa glettusokn milli þeirra vm rijd med skoti ok grioti. Ok er aa tok at lida aa daginn veittu Nordmenn atgaungu Skotum vpp aa hauginn ok sottu þa et diarfligzsta. sem segir i Rafnsmaalum.

**Kuoddu kappstudda**
**kæris Nordmæra**
**haullda herfalldir**
**hersar gunnuersum.**
**geck enn gedracki**
**gætis hasæta**
**hird at hiorstærdu**
**hialldri iarnfalldin.**
**Beit at brynmoti**
**brunn i raudtunum**
**egg vm odygguar**
**alldir gunntiallda**
**aadr enn egghridar**
**vndan viglundum**
**skundu skydundar**
**skotzskir alþroskins.**

Skotar flydu þa af hauginum huerr sem maatti i fioll i brot. ok er Nordmenn sa þat foru þeir til baatanna ok reyru vt til skipa ok komuz nauduliga fyrir stormi. Enn vm morguninn eftir foru menn eftir likum þeirra manna er fallit hofdu. þessir fellu þar Hakon af Steini þorgils gloppa þeir voru hirdmenn Hakonar konungs. þar fell godr bondi or þrondheimi er Karlshofud het. annar bondi or Fiordum er Aaskell het. þar letuz .iij. kertisueinar þorsteinn baatr Jonn ballhofud Halluardr buniardr. Vgerla maattu Nordmenn vita huat fell af Skotum þuiat þeir toku huern er fell ok fluttu til skogar. Hakon konungr let flytia lik sinna manna til kirkiu. Enn fimtadaginn eftir let Hakon konungr taka

vpp ackerin ok flytia skip sitt vt vndir eyna ok þann dag kom sa herr til hans er inn hafdi farit i Skipafiord. Enn fostudaginn eftir var vedr gott. sendi konungr aa land gesti at brenna skip þau er vpp hafdi rekit. ok þann sama dag sigldi konungr vndan Kumrey ok vt til Melagseyiar ok laa þar nockurar nætr. þar komu til hans þeir menn er hann hafdi sent til Jrlandz ok sogdu at Jrar villdu hallda allann herinn vm vetrinn til þess at Hakon konungr frelsadi þa vndan valldi enskra manna. Hakon konungr var miok snuinn a þat at sigla til Jrlandz enn alþydunni var þat miok i moti skapi. ok med þui at eigi byriadi vt þangat þaa aatti konungr þing vid lid sitt ok lysti þui at hann villdi gefa ollum orlof at sigla til Sudreyia. þuiat herrinn hafdi vistafaatt. þa let Hakon konungr flytia lik Juars holms inn til Botar ok var hann þar iardadr. Eftir þat sigldi Hakon konungr vndan Melansey ok laa vm nottina vndir Hersey ok þadan vndir Sandey ok sua til Satirismula ok kom vm naattina nordr vndir Gudey. þadan sigldi hann vt i Jlarsund ok laa þar .ij. nætr. hann lagdi gialld aa eyna .ccc. nauta. þat skylldi giallda sumt i mioli ok osti. Hakon konungr sigldi þadan sunnudaginn i vetrnaattum ok feck sua mikinn storm med myrkri sua at faa ein helldu seglum sinum. þa tok konungr haufn i Kiarbarey. foru þa menn i milli þeirra Jons konungs enn þo vard ecki af fundi þeirra. þa spurdi konungr at menn hans hofdu hoggit strandhogg mikit i Myl ok þar voru drepnir nockurir menn af Mylucrium ok enn .ij. edr .iij. af Nordmonnum. þadan sigldi Hakon konungr inn til Mylarkaalfs ok laa þar nockurar nætr. þar skildiz Duggall konungr fra ok Alinn brodir hans ok skipadi konungr þeim þat riki er Jonn konungr hafdi adr haft. Magnus konungr ok adrir Sudreyingar hofdu fyrr fra skiliz. Rudra skipadi hann Bot enn Margadi Hersey. Duggali konungi gaf hann kastala þann a Saatiri er Guthormr backakolfr hafdi i setid ok vnnit af Skotlandi. J þessi ferd gat Hakon konungr aftr vnnit riki þau oll sem Magnus konungr berbeinn hafdi vnnit af Skotlandi ok Sudreyium. sem her segir.

Aull vann Egda stillir
aftr geirbruar hafta
skiott af skotzskum drottum
skattlond megingrondut.

reisti aungr vid yngua
vlest fyrir haf vestan
rogsækis vard riki
raund vedrbodi gaundlar.

## Fra Hakoni konungi.

282. Hakon konungr sigldi or Mylarkaalfi til Rauneyiar. þar la fyrir honum Ballti bondi af Hialltlandi ok þeir menn sem hann hafdi sent til Orkneyia ok þeir er hann hafdi gefit orlof til Noregs. Vedr geck

i mot konungi ok sigldi hann þa i Vestrafiord a Skidi ok laa þar nockura rijd ok tok vistagialld af eyinni. þadan sigldi hann fyrir Huarf ok er hann kom fyrir Dyrnes fell vedrit i logn. lagdi hann þa inn i Giafiord. þat var .ij. postula messoaftan Simonis ok Jude enn messudagrinn var a drottinsdag. konungrinn la þar vm nottina. Enn messodaginn er sungin var messa komu til hans nockurir skozskir menn er Nordmenn hofdu tekit. Hakon konungr gaf þeim grid ok sendi þa vpp i bygdina ok hetu þeir at koma ofan med nautum til konungs enn einn var eftir i gisling. Sa atburdr vard vm daginn at ellifu[1] menn af skipi Andres kuzsa foru a land aa baati at taka ser vatn. litlu sidar var heyrt at þeir æftu. reru menn þa til ok voru .ij. teknir af sundi miok saarir enn .ix. funduz a landi allir drepnir. hofdu Skotar komit at þeim enn þeir hofdu laupit til baatzins ok var hann vppi fiaradr. enn þeir voru allir vopnlausir ok vard af þui engi vaurnin. enn þegar Skotar sa at til var roit lupu þeir til skogar enn Nordmenn hofdu likin med ser. Maanadaginn sigldi Hakon konungr or Goafirdi ok leet flytia a land inn skotzska mann ok gaf honum grid. Konungr kom aunduerda nott til Orkneyia ok laa i sundi nockuru nordr fra Asmundarvagi. þadan sigldi hann i Rognualldzvôg ok kom þar saman mestr luti lidsins er fyrir hafdi siglt. ok þa er þeir sigldu yfir Petlandzfiord var raust mikil i firdinum ok tyndiz þar eitt skip or Ryiafylki ok allir menn þeir sem a voru. Jon i Hestby rak austr eftir firdinum ok hafdi honum allnær at hann mundi reka i suelginn. enn med guds miskunn rak skipit austr i haf ok er hann misti eyianna sigldi hann til Noregs.

### Hernadr Hakonar.

283. Hakon konungr kom i Rognualldzvôg ok var þa mikill luti hersins sigldr til Noregs. sumir med lofi konungs enn sumir gafu ser sialfir leyfi. Hakon konungr hafdi þat ord a fyst er hann kom i eyiarnar at hann mundi sigla til Noregs. enn med þui at vedratta tok at hardna enn eigi villdi byria tok hann þat raad at sitia i Orkneyium vm vetrinn. nefndi hann þa til nær .xx. [748] skip eftir at vera enn hann gaf þa orlof audrum heim at sigla. þa gerdi Hakon konungr menn med brefum sinum vm skipan rikis sins i Noregi ok adra luti. Medr Hakoni konungi voru eftir allir lendir menn þeir sem vestr hofdu farit vtan Eilifr af Naustdal hann var austr sigldr. enn flestir inir bezstu menn or landinu voru eftir med konunginum. Eftir allra heilagra messu let konungr sigla skipi sinu vt til Medallandzhafnar enn hann dualdiz vm daginn i Raugnallzey ok for þadan inn til Kirkiuvogs. eftir þat sa huerr skipstiornar-

[1]) ellifi *Cd.*

madr fyrir skipi sinu. voru sum vpp sett i Medallandzhaufn enn sum inn vid Skalpeid. Hakon konungr reid vt til Medallandzhafnar laugardag fyrir Marteinsmesso. þat var vm aptaninn er hann var krankr miok. var hann vm nottina aa skipi enn vm morgininn let hann syngia ser messo a landi. siþan gerdi han rad fyrir skipi sinu huar vpp skylldi setia ok bad menn goda stund a leggia at sia fyrir skipunum. Siþan for hann inn til Skalpeids ok reid sua til Kirkiuvogs. hann for i bod byskups med ollum sinum sueitungum þeim sem hann hellt bord. helldu þeir baadir bord i hallinni konungr ok byskup huarr sinum monnum. enn konungrinn var vppi i herbergium ok matadiz þar iafnan. Hakon konungr let skra lendum monnum ok sueitarhofþingium eyrislond til vistatoku at hallda þær sueitir sem med þeim voru ok sua af huerium eyrislondum. Andres plyttr skylldi hallda sialft konungsbord ok vt gefa hirdinni gestum ok kertasueinum ok ollum hans sueitungum þeim eigi ok sidr sem hann hellt. þa er menn hofdu seet fyrir skipunum foru huerir þannig sem skipat var. þessir lendir (menn) voru i Kirkiuvogi Bryniolfr Jonssun Erlingr Alfssun Rognualldr orka Erlendr af Biarkey Jonn drottning Erlendr raudr ok margir adrir skipstiornarmenn ok sueitarhofþingiar. enn adrir lendir menn ok skipstiornarmenn voru i heradi a þeim eyrislondum sem þeim voru skipud.

### Sott Hakonar konungs.

284. Konungrinn hafdi haft vm sumarit vaukur miklar ok storar ahyggiur. var hann opt kalladr af sinum monnum ok hafdi litid frelsi. Enn er hann kom vtan or Medallandzhofn fra skipi sinu sem aadr var sagt þa lagdiz hann braatt i reckiu af sott. ok for sottin þo ecki miok akaft i fystu. ok er hann hafdi legit nockurar .iij. vikr letti honum helldr ok var hann þa .iij. daga a fotum. Geck hann inn fyrsta dag vm herbergit innan enn annan i kapellu byskups ok hlyddi þar messo. enn þridia dag geck hann til Magnuskirkiu ok vm skrin ins heilaga Magnus jarls. þann dag let hann gera ser kerbad ok for þar i ok let raka ser. þa saumu nott eftir tok at þyngia miok hans sottarfari ok lagdiz hann þa annat sinn i reckiu ok þotti monnum þa hans sottarfar miok þyngiaz. J sottinni let hann fyst lesa ser latinubækr. enn þa þotti honum ser mikil mæda i at hugsa þar eftir huersu þat þyddi. let hann þa lesa fyrir ser norænubækr nætr ok daga. fyrst heilagra manna saugr. ok er þær þraut let hann lesa ser konungatal fra Halfdani suarta ok siþan fra ollum Noregs konungum huerium eftir annan. þa er Hakon konungr þottiz finna at miok þyngdiz sottarfarit þa gerdi hann raad fyrir maala-

giofum vid hird sina ok quad hann aa at gefa skylldi mork brenda huerium hirdmanni enn haalfa mork gestum ok skutilsueinum ok odrum sinum þionustumonnum. þa leet hann vega allann bordbunat sinn þann er ei var gylldr ok mællti sua fyrir at þar sem þryti skirt silfr þa skylldi bordbunatinn gefa sua at allir hefdi god skil. þa voru ok ritud bref þau er hann villdi senda til Magnus konungs med allri þeirri skipan sem honum þotti mestu varda. Hakon konungr var oleadr einni naatt fyrir Luciumesso. voru þar at byskupar þorgils byskup af Stafangri Gillibert byskup af Hamri Heinrekr byskup af Orkneyium þorleifr aboti ok margir adrir lærdir menn. ok aadr hann væri smurdr þa mintuzst menn vid hann þeir er vid voru. var þa konungrinn enn maalhress. Hann var eftir frettr i sottinni af trunadarmonnum sinum ef sua erfidliga yrdi at hans misti vid edr Magnus konungs huart hann ætti eingann sun eftir edr huort nockut væri i annan stad til at ganga þar sem hans afkuæmi væri. enn hann tok mikit af þui at hann ætti eingann son eftir sik nema Magnus konung ok eigi dottur þa er menn viti eigi aadr. þa er lesit var konungatal framan til Suerris þa let hann taka til at lesa Suerris saugu. var hon þa lesin bædi nætr ok daga iafnan er hann vakti.

### Andlaat Hakonar konungs.

285. Messudagr Lucie meyiar var a fimtadag. enn laugardaginn eftir sid vm kuelldit þraungdi sua sottarfari konungsins at hann misti maals sins. nær midri naatt var vti at lesa Suerris saugu. enn helldr at midri naatt lidinni kalladi almatigr gud Hakon konung af þessa heims lifi. Var þat ollum monnum enn mesti harmr þeim er þar voru vid staddir ok morgum odrum þeim er siþan spurdu. þessir lendir menn voru vid andlaat konungsins Bryniolfr Jonssun Erlingr Alfssun Jonn drottning Rognualldr orka ok nockurir þionustumenn þeir sem næst hofdu geingit konunginum i sottinni. þegar eftir andlat konungsins var sent eftir byskupum ok lærdum monnum. ok þegar er þeir komu sungu þeir saalutiþir. Eftir þat foru allir menn vr herberginu nema þorgils byskup ok Bryniolfr Jonssun ok .ij. menn adrir. þeir þuogu þa likinu ok raukudu ok veittu alla þionustu sem somdi sua agætum konungi sem Hakon konungr hafdi verit. Sunnudaginn var likit borit vpp i lopthallina voru þar bunar barar med agætum bunadi. likit var klætt tignarklædum ok sett garlant aa hofud honum ok buit vm at ollu sem bydr vm sua agætann hofþingia ok koronadann konung. Likit var aa barar lagt. geingu þangat þa byskupar allir ok kennimenn þeir sem i voru

bænum ok allir handgeingnir menn. þa helldu kertissueinar kertum. var þa liost vm alla hallina. þa geck til folkit at sia likit ok syndiz ollum biart ok þeckiligt ok fagr rodi i andlitinu sem lifanda manni. var monnum þat mikil huggan af þeim mikla harmi er þa hofdu menn feingit at sia sua fagran likama framfarins mannz ok sins herra. siþan voru sungnar saalutiþir haatidliga. vakti hirdin yfir likinu vm nattina. Enn maanadaginn var lik Hakonar [749] konungs borit til Magnuskirkiu ok naattsett þar adra nott. þridiadaginn var lik Hakonar konungs lagit i kistu med slikum vmbunadi sem sidr er til eftir koronadann konung. Hann var jardadr i kornum i Magnus[kirkiu þar] aa gradunum fyrir skrini ens heilaga Magnus jarls. siþan var aptr luktr steinninn sem aadr yfir vppi ok var breiddr yfir kaugur. þa var aatt hirdstefna ok gert þat raad at allann vetrinn skylldi hallda haufudvaurd yfir leidi konungsins. Vm iolin veitti byskup ok Andress plyttr eftir þui sem Hakon konungr hafdi raad fyrir gert. var þaa ok ollum monnum gefinn godr maali.

## Likferd Hakonar konungs.

286. Hakon konungr hafdi til þess skipat i sott sinni at lik hans væri flutt til Noregs ok væri hann grafinn i Biorgyn hia fedr sinum ok odrum frændum. Ok þegar af leid haavetrid ok siorr tok at hægiaz var framsett skipit þat it mikla er konungr hafdi vestr haft ok buit sem skiotligaz. Auskudag var lik Hakonar konungs tekid or iordu þat var enn .iij. nonas Martij manadar. geck þa oll hirdin med vt vm Skaalpeid ok var likit flutt i baati vt til skipsins. þeir voru mest fyrir skipinu þorgils byskup Erlingr Aalfssun ok Andres plyttr. þar var aa hird konungsins su er vestr hafdi farit. ok er þeir voru bunir letu þeir i haf. þeir sigldu vt laugardaginn fysta i faustu ok fengu haurd vedr ok þuer ok toku land sudr i Silavogi ok sendu þegar bref Magnusi konungi ok sogdu honum þau miklu tiþendi er i þeirra ferd hofdu gerst. Eftir þat foru þeir nordr til Biorgyniar þegar leidi gaf. komu þeir i Laxavog vm daginn fyrir Benedictusmessu. Messudaginn reri Magnus konungr i mot þeim ok Petr byskup. var þa skipinu lagt til beiarins vid konungsgard. var likit borit af skipi vpp i sumarhallina. enn vm morgininn eftir var likit borit vt til Kristzkirkiu. geck þar med Magnus konungr ok drottningarnar baadar byskupar lærdir menn handgeingnir menn ok allr beiarlydr. voru þa sungnar saalumessur. Eftir þat var lik Hakonar konungs iardat i korinum i Kristzkirkiu ok þackadi Magnus konungr likferd med morgum fogrum ordum ok taladi sniallt erendi yfir greftinum. þar stod allr lydr yfir med hryggu hugskoti. sem Sturla quad.

þremr nottum kom þrottar
þinghlynr til Biorgyniar
aadr enn alualld prudann
ofs dynvidir grofu.

margr stod maalma skerdir
mikit strid var þat siþan
lyda grams yfir leidi
litt kaatr med braa vota.

Hakon konungr var iardadr .iij. naattum fyrir Mariumessu. þa var lidit fra burd ok holldgan vars herra Jesu Cristi þushundrad .cc. .lx. ok .iij. aar ok þrim naattum minnr.

## Af yfirlitum ok limavexti Hakonar konungs.

287. Kong(r) Hakon var ecki haarr medalmadr vel vaxinn herdibreidr midmiorr helldr haarr i sessi ecki fotlangr nockut vtskeifr. vaxinn miok aa þann haatt sem verit hafdi Suerrir konungr. mikilleitr i andliti litgodr hærdr vel. eygdr miok ok þo vel. aullum var hann hugþeckr þa er honum var gott i skapi enn grimmligr ok ogurligr ef hann var reidr. hann var huerium manni kaatari ok vakrari ok lettari aa ser. blidr vid faatæka menn ok þurftuga þuiat alldri var hann i sua þungu skapi at ei suaradi hann þeim blidliga. hann var laatgodr ok tiguligr þa er hann sat med odrum hofþingium. hugarlaatr ok veghlaatr. sniallr madr ok vel taladr a þingum. manna var hann vitrazstr bædi til laga ok raadagiorda. þat mælltu þeir vitrir menn er sendir voru til hans af odrum hofþingium at þeir hofdu allz eingann hofþingia seet þann er þeim þætti helldr vera bædi konungr ok herra ok felagi. Hakon konungr let i morgu bæta laug ok landzrett i Noregi. hann let setia bokina er nu er kollud hin nyiu laug. af tok hann aull manndraap ok fothaugg. eingi skylldi sa þrifaz i landinu er tæki annars mannz eiginkonu. ættvig oll let hann af taka sua at engi skylldi giallda annars tilverka nema bæta þeim er laug segdi.

## Velgerdir Hakonar konungs.

288. Hakon konungr lagdi meira hug aa at styrkia guds kristni i Noregi en engi konungr fyrir honum siþan var enn heilagi Olafr konungr. Hann let gera kirkiu nordr i Trums ok cristnadi alla þa kirkiusokn. til hans komu margir Biarmar er flyit hofdu austan fyrir vfridi Tattara ok cristnadi (hann) þa ok gaf þeim þann fiord er Malangr heitir. ok let hann kirkiu gera i Ofotafirdi ok virki vid Agdanes. hann let gera trehallina i konungsgardi i Nidarosi ok oll enu bezstu hus. hann let gera kirkiu i Guley nordr fra Biorgyn ok offradi þar til gullring. hann let gera Postulakirkiu i konungsgardi i Biorgyn af steini. hann let gera Olafskirkiu ok klaustr af sinum kostnadi. hann let husa konungsgard i Biorgyn ok

steinmur vm ok kastala yfir baadum hlidunum. hann let gera Katrinarkirkiu vid Sandbru ok spitalinn ok gaf þar til .cc. manadamata bol. Hakon konungr let alhusa borgina i Biorgyn eftir þat er brunnit hafdi ok gera murinn at .ij. lutum ok vigskarda ok gera vtborgina. þa var ok reist af grunduelli allra heilagra kirkia i Vagsbotni med raadi konungs ok gaf hann þar til .c. manadarmata bol i sott sinni. hann let gera steinkirkiu a Augualldznesi er hin fiorda er mest heradskirkia i Noregi. hann let ok reisa steinmur vm Tunsberg ok kastala yfir portunum ok Gautakasta(la) yfir Danakleif. hann let ok husa allt bergit ok konungsgard vid Lafranzkirkiu. hann let ok gera spital fyrir sunnan Olafskirkiu ok gaf þar (til) .ccc. marka bol. hann let grafa vt diup vid Skeliastein sua at nu ma fara kuggum er adr skridu varla smaferiur. hann let gera Berfættabrædra kirkiu i Tunsbergi ok var hon siþan færd sudr i Dragsvik. hann let ok gera Mariuklaustr ok steinkirkiu ok gaf til .l. marka bol. hann let ok gera borg a Vackabiorgum ok let færa siþan til Nichulaskirkiu i Oslu. hann let husa konungsgard vt aa Eyrum i bænum ok let ok gera borg i Konungahellu i Ragnhilldarholma ok husa konungsgard i bænum. hann let ok byggia Gulleyna husa ok rydia Ekreyiar ok gera þar trekirkiu. hann let byggia Maastrandir ok margar adrar eydieyiar i Vikinni. hann [750] let gera steinhus i Miors i [1] holmanum vid Ringisakr ok husa. hann let gera veizluhall aa Steig ok endrbæta kirkiuna. þuiat aadr var miok at falli komin. hann let gera bu aa Hofi i Breidinn ok veizsluhall ok lagdi eignir vid. hann let gera veizsluhall i Husabæ i Skaun a Heidmork ok adra a Ringisakri. hann let gera bu a Vidheimi i Eyiu. hann let gera kapellu a Þoptyn er eingi var aadr ok veizsluhall. hann let ok gera murinn vm Suerrisborg a Steinbiorgum ok husa siþan Baglar hofdu brotid.

[1]) 3 *d. e.* ok *Cd.*

## (VIÐBŒTIR VIÐ OLAFS SÖGU HINS HELGA.)

Þessir smair articuli sem her eru samanlesnir standa i sialfri lifssaughu hins heilaga Olafs konungs Haralldzsunar þeirri saumu er Styrmir prestr hinn frodi hefir saman sett þott þeir se eigi sua fulliga skrifadir her fyrr i bokinni. Ma þat engi madr vndrazst þott mart liggi nidri vskrifat þat er til hefir borit vm hans daga sua sem þessi hinn gofugligi geisli kom vida fram a Nordlondum þar sem þa var heilagri cristni ok kirkiunnar rett meir til frelsis ok naadar helldr enn aadr.

1. Þat bar til þa er Olafr konungr var i Englandi ok hann hafdi med sinni list ok raadleitni vnnit Lundunaborg hitti hann kaupmenn nockura þa er komnir voru af Noregi vestr þangat. Hann spurdi þa tiþenda or landinu ok einkum vandligazst spurdi hann at modur sinni ok stiupfaudur. Kaupmenn sogdu slikt er hann spurdi. Þat vard i vidrædum þeirra at Olafr konungr spurdi at konu þeirri norænni er Steinuor het. su hafdi kollud verit þockakona Olafs. kaupmenn sogdu at hon var manni gift. Olafr spurdi huerium hon væri gift. Þeir sogdu at sa madr heti Þoruardr er hana aatti ok væri kalladr galli. Olafr spurdi huat manna hann væri. Þeir sogdu at hann var einn bondi ok byr fyrir nordan Stad i Noregi ok Steinuor var þangat komin til buss med honum. Þa kuat Olafr konungr visu þessa.

Baul er þat er lind i landi
landrifs fyrir ver handan
gulli merkd vid galla
griotaulnis skal faulna.

þann munda ek vid vilia
valklifs medan ek lifda
alin erumk biork at bǫlfui
bandz algrænann standa.

Nu skiliaz þeir Olafr konungr ok kaupmenninir at sua mælltu.

2. Þenna flock orti Olafr konungr eftir er hann hafdi vnnit Lundunaborg.

Gaungum vpp adr Engla
ættlond farin raundu
mordz ok miklar ferdir
malmregns skafar fregni.
verum hugrackir hlackar
hristum spiot ok skiotum
leggr fyr orum eggium
Engla gnott a flotta.

Margr ferr vllr i illann
oddsennu dag þenna
freyr þar er fæddir vorum
fornan serk ok bornir.
enn a enskra manna
aulun giods hnikars blodi
vart mun skaald i skyrtu
skreidaz hamri seida.

þollr mun glaums of grimu
giarn sidarla arna
randar skod at rioda
rædinn sa er mey fædir.
berr eigi sa sueigir
saaralauks a aari
reidr til Rinar gloda
raund vpp aa Englandi.

þottud mer er ek þaatta
þorkels lidar duelia
sazst eigi þeir suerda
saung i folk at ganga.
adan er haurd a heidi
hrid vikingar knidu
ver hlutum vopna skurir
vard fylgr lidi harda.

Haar þicki mer hlyra
hinn iarl er bra snarla
mær spyrr vitr ef væri
valkaust ara faustu.
enn þeckſondum þickir
þunn blaas meginaasar
haurd su er hilmir gerdi
hrid a Tempsar sidu.

Einraadit let adan
Vlfkell þar er spior gullu
hörd ox hilldar garda
hrid vikinga at bida.
ok slidrhugadr sidan
saattu aa oss hue maatti
hyggs vid bitran skeggia
brunnz tueir hugir runnu.

Knutr red ok bad bida
baugstallz Dani alla
lundr geck rauskr vnd randir
rikr va herr vid diki.
nær var sueit þar er sottum
syn med hialm ok bryniu
elldz sem olmum helldi
elg rennanda kennir.

Vt mun eckian lita
opt gloa vopn a lopti
of hialmtaumum hilmi
hrein su er byrr i steini.
hue sigrfikinn sækir
snarla borgar karla
dynr aa bretzskum brynium
blodis Dana visi.

Huern morgin ser horna
hlauck a Tempsar backa
skalat hanga ma hungra
hialmskod rodin blodi.
rydr eigi sa sueigir
saara lauk i aari
hinn er griotuarar gætir
gunnbordz fyrir stad nordan.

Dag var huern þat er Högna
hurd riodazst nam blodi
aar þar er vti vorum
ilmr i faur med hilmi.
knegum ver sizst vigum
vard nylokit haurdum
fyllar dags i fogrum
fit Lundunum sitia.

Nu ma þat sia af þessum visum at Olafr konungr mun opt komit hafa i likamligar orrostor her a iardriki enn þo hefir hann opt stritt andaliga i moti fiandanum. ok sua opt sem hann sigradizst likamliga a vvinum sinum þa sigradi hann þo optar vhreinann anda i andligri holmgaungu þeirri er hann huern dag hadi i mot honum. verandi eigi vminnigr huat gud bydr in evangelio. estote fortes i(n) bello. þat er sua at skilia. veri þer styrkir i orrosto ok beriz vid fornann eitrorm ok munu þer taka eylift riki. þetta sama bodord hellt þessi guds kappi enn agæti Olafr at hann bardiz dagliga vid hinn forna fianda ok fyrir þat sama strid odladiz hann af vorum herra eylifa dyrd himinrikis.

3. Sva bar til einn paschamorgin þa er Olafr konungr var i Nidarosi at til bæiarins var kominn mikill fioldi manna. voru nockurir menn geingnir vpp i Gaulardal af þeim er til komnir voru. Sua bar til at madr einn geck hia þeim hann var herdimikill. hann var i kapu ok i huitum hosum. hann geck einn saman. þa spurdi einnhuerr þeirra. huerr ertu felagi. þessi madr þagdi vid ok geck sem aadr. Ek sua heill quad sa ek skal maka honum hadung. Hleypr nu siþan eftir honum ok lætr eria skoinn vm legginn ofan. enn þar var blautlent ok leirugt miok ok vard madrinn miok þreckottr a fætinum. ok skiliaz þeir vid sua buit. Annan dag paschanna koma konungsins menn i þat herbergi er þessir satu i ok segia sua at Olafr konungr vill hitta þa. þeir þickiaz sizst vita huat konungrinn mun þeim vilia. fara þo a hans fund ok heilsa honum. Hann fagnar þeim ok mællti. huat er nu vm felag vort þat er ek aa hia yckr. þeir drapu nidr hofdi ok kuoduzst eigi minnazst at þeir hefdi nockurn tima hans felag haft. Nei kuat hann. þit kuoduzst [75 1] at visu konungs felagar vera. þeir vrdu vid þetta nockud vgladir. Konungr mællti. ecki þurfi þit at vglediaz. enn þat raad vil ek gefa yckr. makit þeim einum haadung er þit vitid huerr er. þeir þockudu konungi ok skildu siþan. ok þottuz þeir vita at þat hafdi Olafr konungr verit er þeir hofdu þetta kalz gert.

4. þat barst at einu sinni þa er Olafr konungr hin helgi for a skipum fyrir land fram med hirdmonnum sinum þar er þoruardr galli atti garda a landi vppi skamt fra sio ok þau Steinuor er fyrr var nefnd. þa spurdu hirdmenn konungs ef hann villdi þar at landi leggia ok hitta Steinuoru vinkonu sina. Konungr suarar ok kuad visu þessa.

Vandfærra er vorrar
var bliks fyrir Stad miklu
þrey ek vm alldr til eyiar
aurbordz enn var fordum.

nu er fyrir hofn þa er hafna
hlunn sæfuar ma ek æfua
gunnhuitinga grioti
geirþorps boda vorpit.

Eigi skal ek nu her vndir land leggia sagdi konungr af þui at mer somir meirr at gera vilia guds helldr enn lifua eftir minni fyst rangri. Nu (ma) af slikum lutum sia huersu mikit hann vnni almatkum gudi er hann virdi meira vilia guds i himinriki enn sina eiginliga fyst.

5. Sa atburdr vard einu sinni þa er Olafr konungr hinn helgi for af Vpplondum med miklu lidi nordr vm Dofrafiall i vondu vedri. þa reid konungrinn enn alþyda manna geck. Nu er konungrinn reid i sua vondu vedri þa gerdiz honum kallt a hestbaki. ok er Sighuatr skalld sa þat at konunginum var kallt er hann reid þa mællti hann vid konunginn. ek mædumzst sua miok herra at ek mun eigi faa annat vm fiallit nema þer laatid mik rida nockura stund. Konungr sagdi hann rida skylldu at visu ef hann villdi. þa steig Olafr konungr af baki ok mællti at Sighuatr skylldi rida. Sighuatr var i lodkapu. hann mællti vid konunginn. sua er mer varit herra at ek nenni eigi at vera i lodkapunni. nu villda ek at þer færit i kapuna. Olafr konungr gerdi þat sem Sighuatr bad. for hann þa i kapuna ok geck enn Sighuatr reid. Ok er Sighuatr sa at konunginum tok at orna i gaungunni þa mællti hann. nu tekr mik at kala herra ok villda ek nu ganga enn ek villda at þer reiddit lodkapuna þuiat ek kemz huergi ef ek geng i henne. Konungrinn kuat sua vera skylldu sem Sighuatr mællti. Nu steig konungrinn a bak enn Sighuatr geck. Nu reid konungrinn i lodkapunni vm daginn ok sakadi hann þa ecki kuldi. Sua bar at einhueriu sinni siþan þa er Sighuatr var med konunginum at hann þottiz eiga naudsyn at mæla vid konunginn enn margir menn voru komnir til konungsins ok var þrong mikil fyrir konunginum sua at Sighuatr naadi eigi maali hans. Sighuatr kuat þa visu.

þraungizst ér of vngann
itrmenni gram þenna
bægizst aulld sua at eigi
Olafs nai ek maali.
mer vard ord ath orum
audsott fromum drottni
þa er odum miok modir
mioll af Dofrafialli.

Enn er Olafr konungr heyrdi visuna þa suarar hann ok mællti. ok enn skal þer auduellt vera skaalld at mæla vid oss slikt sem þu vill. Nu gafz Sighuati rumit þegar at mæla vid konunginn slikt sem hann villdi. Olafr konungr veitti þa virding Sighuati skalld at hann hellt dottur hans vndir skirn. þa kuat Sighuatr visu þessa.

Drottinn hialptu þeim er dottur
dyrr er þinn vili vinni
heim or heidnum domi
hof ok nafn gaf Tofu.
hellt vnd vottr inn vitri
vard ek þeim feginn harda
morni minu barni
modrackr Haralldz brodir.

Þat er sagt at Sighuatr skaalld sagdi konungi fra þui einnhuern dag er hann hafdi verit aa Jslandi med þeim manni er Karli het. hann var litill bondi enn honum þotti ek litid vinna. þat var þa enn einnhuern dag sagdi Sighuatr at ek for i einn helli i brott med konu Karla ok sat ek þar. þadan sa yfir bygdina Karla. þa quad ek visu þessa.

Hedan se ek reyk þann riuka
raunn af fiskimonnum
stor eru skaalldz vm skærur
skellibrogd or helli.
nu fryrat mer nyrar
nenningar dag þenna
hlyti ek fyrir huitann
hornstraums daugurd naumu.

Konungrinn brosti at ok mællti til skaalldzins ok quad þetta.

Segi þer Karla
er kemr hingat
nytum þegni
fyrir nordan haf.
at fleira skal
i faurum vinna
enn hyllda hual
huossum knifi.

Þat segia sumir menn at Olafr konungr hafi ort visu þessa vm Jngibiorgu Finnzdottur.

Nær er sem vpp or eisu
innar lit ek til kuinna
snot huer sua miok laati
segdu mer loga bregdi.
mik hefir maala sykninn
mest a skommu fresti
geck ek vm golf at drecka
gramr ok brattir hamrar.

7. Ottarr het madr islendzkr hann var skalld gott hann var nockura stund i hird med Olafui Suiakonungi. hann orti mansaungsdrapu vm Astridi dottur Olafs Suiakonungs. þat kuædi mislikadi miok Olafi konungi hinum helga. þat kuędi var miok ort ok hellt vid væningar. Enn er Ottarr kom til Noregs þa let Olafr konungr enn helgi taka hann ok setia i myrkuastofu ok ætladi at laata drepa hann. Sighuatr skaalld var mikill vin Ottars. hann for vm naatt til myrkuastofunnar. ok er hann kom þar þa spyrr hann huersu honum likadi. Ottarr suarar ok segir at verit hafi honum kaatara. Sighuatr bad hann þa kueda kuædit þat er hann hafdi ort vm Astridi. Ottarr kuat kuædit sem Sighuatr beiddi. ok er hann hafdi lokit kuædinu. þa mællti Sighuatr. miok er kuædit ort ok eigi er vndarligt þott konunginum misliki kuædit. nu skulum vit snua þeim visum sem mest eru akuedin ord i kuædinu. siþan skaltu yrkia quædi annat vm konunginn. enn at visu mun hann heimta at þer kuædit

adr þu ser drepinn. [752] nu er þu hefir þat kuædit kuedit þa skalltu eigi laata falla kuedandina helldr skalltu þegar hefia kuædit þat er þu hefir vm konunginn ort ok kueda [medan] þu maatt. Ottarr gerdi sua sem Sighuatr mællti. hann orti a þrim nottum þeim er hann var i myrkuastofunni drapu vm Olaf konung. ok er Ottarr hafdi þriar nætr verit i myrkuastofunni þa let Olafr konungr leida hann aa sinn fund. Ok er Ottarr kom fyrir konunginn. þa kuaddi hann Olaf konung. enn konungrinn tok eigi kuediu hans helldr mællti hann til Ottars. þat er nu raad segir konungr at þu kuedir Ottarr kuædi þat er þu hefir ort vm drottningina adr þu ser drepinn þuiat drottningin skal heyra hrodr þann er þu hefir ort vm hana. Astrid drottning sat i hasætinu hia konunginum þa er þeir Ottarr toluduz vid. Ottarr settiz nidr a golfit fyrir fætr konunginum ok kuad kuædit. Konungrinn rodnadi vid er hann quad. ok er lokit var kuædinu þa let Ottarr eigi nidr falla kuedandina. helldr hof hann vpp drapuna þa er hann hafdi ort vm konunginn. enn hirdmenn konungs kolludu ok mælltu at flimberinn skylldi þegia. Sighuatr mællti þa. þat er likaz sagdi hann at konungrinn eigi valld aa at drepa Ottar þegar hann vill þo hann kuedi kuædi þetta fyrst. ok hlydum ver vel kuædinu þuiat oss er gott at heyra lof konungs vǫrs. Hirdin þagnadi vid þessi ord Sighuatz. enn Ottarr kuad drapuna til enda. Enn er þui var lokit þa lofadi Sighuatr miok kuædit ok kalladi vel ort. Olafr konungr mællti þa. þat mun raad Ottarr at þu þiggir hofud þitt i þessu sinni fyrir drapuna. Ottarr suarar. þessi giof þicki mer allgod herra þott hofudit se eigi fagrt. Olafr konungr dro gullring af hendi ser ok gaf Ottari. Astrid drottning rendi fingrgulli a golfit til Ottars ok mællti. taktu skaalld gneista þann ok eig. Olafr konungr mællti. var sua at þu maattir eigi allz bindaz at syna þitt vinfeingi vid Ottar. Drottning suarar. eigi megu þer kunna mik vm þat herra þo ek vili launa mitt lof sem þer yduart. Konungrinn suarar. sua skal nu ok vera i þessu sinni at ek skal þer eigi sakir fyrir gefa þessa fiargiof enn þo megu þit sua til ætla at mer mun litilgæft vera vm vinfeingi yckat hedan i fra af þeim skaldskap er Ottarr hefir ort vm þik. Nu var Ottarr leingi med konungi i godri virdingu. Sia drapa er kollud Hofudlausn er Ottarr orti vm Olaf konung fyrir þui at Ottarr þa hofud sitt fra bana at kuædislaunum. Nu er þeir Sighuatr ok Ottarr voru eigi iafnmikils virdir med konungi sem verit hafdi þa var þat einn dag at konungrinn sendi þeim hnetr af bordi sinu. þa kuad Sighuatr visu þessa.

**Sendi mer hinn mæri**
**mann þengill sa dreingi**
**sid mun ek helldr at hrodri**
**hnetr þiodkonungr snytrazst.**

opt enn ockr bad skipta
Ottar i tua drottinn
endaz maal sem myndim
manndiarfr faudurarfui.

Þat hafdi konungrinn mællt at þeir skylldu sua iafnliga skipta med ser hnotunum sem þeir myndi faudurarfi sinum. Þa kuad Ottarr adra visu.

Hnetr sendi mer handan
hranndaadr arinbranda
aar var þa ek man meiri
min þing konungr hingat.
mior er markar stiori
meir saam þar til fleira
nidrattu oss i odru
Jslandz mikils visi.

Konungrinn brosti at visunum er þeir hofdu kuedit.

8. Olafr konungr hafdi med ser marga islendzska menn ok hafdi þa i godu yfirlæti ok gerdi þa sina hirdmenn. Einn af þeim var Sighuatr skaalld hann var þordarson. hann var fæddr vt aa Jslandi a þeim bæ er at Apavatni heitir. þar bio sa madr er þorkell heitir. hann fæddi vpp Sighuat ok fostradi. Sighuatr þotti helldr seinligr fyrst i æskunni. J Apavatni var fiskueidr mikil a vetrum. Þat barst at einn vetr þa er menn saatu aa isi ok veiddu fiska at þeir saa einn mikinn fisk ok fagran i vatninu þann er audkendr var fra odrum fiskum. þann fisk gaatu þeir eigi veitt. Austmadr einn var aa vist med þorkeli. hann mællti einnhuern dag vid Sighuat at hann skylldi fara til vatz med honum ok sitia aa isi. Ok er þeir koma aa isinn þa bio Austmadrinn til veidarfæri Sighuatz. Siþan saatu þeir a isinum vm daginn. Sighuatr veiddi þa enn fagra fisk þann er margir villdu veitt hafa. Siþan foru þeir heim ok saud Austmadr fiskinn. þa mællti hann vid Sighuat at hann skylldi fyst eta hofudit af fiskinum kuad þar vera vit huers kuikendis i folgit. Sighuatr aat þa hofudit ok sidan allann fiskinn ok þegar eftir quad hann visu þessa.

Fiskr geck oss at oskum
eitrs sem ver hofum leitad
lysu vangs or lyngi
leygiar orm at teyia.
atrennir let annan
aungulgripinn hanga
vel hæfir aurrida at egna
agngaalga mer hagnat.

Sighuatr vard þadan af skyrr madr ok skaalld gott.

9. Annar var sa madr er Bersi het ok var Skaalldtorfuson. hann var ok skalld gott. Bersi vard rægdr vid konunginn ok sagt at hann kynni ecki at yrkia ne kueda þat er eigi var aadr kuedit. þa let konungr taka morg suerd ok bregda ok setia nidr nokd i eina litla stofu. þa let konungr kalla Bersa. Enn er Bersi kom þa mællti konungr at hann skylldi yrkia vm þat er suerdin voru vppreist. þa quad Bersi.

16*

Suerd standa her sunda
saars leyfum ver aarar
herstillis þarf ek hylli
haull raudbuin gulli.
vidr tæka ek vika
vil ek enn med þer kennir
elldz ef þu eitthuert villdir
aualldr gefa skalldi.

þa gaf konungr Bersa eitt gott suerd. þridi var þormodr Kolbrunar skaalld. fiordi Biorn Hitdælakappi. [753] fimti var þorarinn Nefiulfsson hann var spekingr mikill ok forvitri. þa voru [brædr] .ij. het annarr þordr enn annarr þorfinnr hann var skaalld mikit. þat var [eitt sinn] at þorfinnr sat a reidustoli fyrir Olafi konungi. þa mællti konungr til hans. yrk skaald vm þat er skrifat er aa tialldinu. þorfinnr leit til ok sa at þat var markat a tialldinu at Sigurdr vann at Fafni ok kuat visu.

Geisli stendr til grundar
gunnar iardar munna
ofan fell blod aa baadar
benskeidr enn gramr reidiz.
hristiz hiorr i briosti
hringi grænna lyngua
enn folkþorinn fylkir
ferr vid steik at leika.

Atti þorgeirr Haauarsson .ix. Ottarr suarti. ok margir adrir.

9. Eftir fall Erlings Skialgssunar kuat Olafr konungr visu þessa.

Litt mun haulldr enn huiti
hrafn etr af naa getnum
ver vnnum gny gunnar
gladr i natt a Jadri.
sua hefir aullungis illa
ek geck reidr vm skeidar
iord velldr manna mordi
mitt raan gefizst haanum.

Enn Sighuatr quad þessa visu.

Drack eigi ek dreckiu
dag þann er mer sogdu
Erlings taal at iolum
allgladr þess er reed Jadri.
hans mun draap vm drupa
dyrmennis mer kenna
haufud baarum þaa hæra
hart mord var þat fordum.

Eftir draap Karla feck þorir hundr mikla vblidu af Olafi konungi. Sa konungr reed þa fyrir Finnmork er Mottull het. hann var heidinn blotmadr ok miok fiolkunnigr. þangat for þorir a fund hans. þorir geck fyrir Mottul ok kuaddi hann. Konungr tok quediu þoris ok spurdi hue sætti er hann var þangat kominn allt nordr. þorir suarar. hardr var nu aa annat bord þuiat mer (er) eigi vhætt nu heima at buum minum fyrir Olafi digra. Mottull suarar. þat mun eigi satt er þu segir nu at þer mune eigi vhætt ver[a fy]rir konungi ydrum Olafi þuiat ek veit at hann hefir leingi verit mikill vinr þinn ok mun hann hallda fast vinfeingi sinu vid ydr cristna menn. þuiat þer cristnir menn kallid konung yduarn vitran ok vel at ser. nu er sa einn allvel at ser er bædi er vinfastr ok vingodr. þorir suarar. veit ek at þu munt spurt hafa missætti þat er

eigi uerr til konungs fallenn en Haralldr brodir hans. en Haralldr hafde uid þetta er hann feck nu konungsvigslu og þar med stolsetningina. þo ath helldr uæri skiott ath þui borit þæ villdu nu flestir ath þad stædi kyrt. Haralldr hafdi og hallernar og fehirzlr konungs og vill nu med ongum kosti lata rikisstiornina. og hne nu vndir hann allt megin landzsins. Ogh er konungr veit og fann æhuga brod*ur* sins huad honum bio j skapi þa þronguir hann honum þar til er hann stock*r* vr lande. For hann fyrst vest*r* til Danmerk*r* æ fund Sueins konungs frænda sins og bid*r* hann fæ sier lid og styrk og efla hann til ath hann mætti na sæmd sinne af Haralldi brod*ur* sinum. Sueirn konungr tok uel uid honum og baud honum til sin og taka af sier riki nockud þar j Danmork. þæ mællti Tosti jall. vili þier eigi fa oss afla af ydru riki til þess ath ver feingium sæmd vora þa vilium (ver) þo helldr ydr til styrkia enn allt beri vndan ef þier vilid fara med her ath vinna Eingland sem Knut*r* konungr giorde modrbrodir yduar og munu þier hafa rikid med [816] uoru vmstille og mun þat riki uera oss hollt og trygth j Einglande þæ suarar Sueirn konungr. so myklu er eg minne madr fyrir mer en vor frændi gamle Knut*r* uar ath varla fæ eg halldit minu riki fyrir Nordmonnum. en gamli Knut*r* eignadiz ath erfd Danmork enn vann med hernadi og hamingiu Eingland og uar þath þo vm hrid vænna ath hann munde þar eptir liggia. Noreg feck hann orostulaust. nu kunnu uer ath ætla oss frændi meir eptir voru litilrædi helldr enn framkuæmd vors frænda gamla Knutz. Tosti suarar. frænd*r* vorir gioraz oss fiandr. þeirra fiandmenn skulu og uera vorir frændr og uinir. Skilzt jallinn so fra Danakonunge at badir voru reidir. Vendir nu apt*r* Tosti jall ferdinne og ferr þo fyrst til Noregs og hittir Haralld konung og kærir sin vandrædi fyrir honum og bydr honum sina þionostu og sitt samlag. Og eptir þetta heimtir konungr æ stefnu spekinga sina og radagerdarmenn og talar þar huor þeirra konungs og jalls blidliga til annars. tiar konungr hormung jalls fyrir hofdingium og huersu hneisuliga ath hann var rekinn (fra) sinu riki ath saklausu og af suipt*r* allre sæmd. Jallinn mællti so. þath er vpphaf minnar rædu herra segir hann sem ydr mun kunnigt miog er Hordaknut*r* son gamla Knutz styrde Einglande eptir Haralld konung brod*ur* sinn. Tiar nu allt huersu farid haufdu suardagar j mille Magnus konungs goda og Hordaknutz og þa þath næst ath Magnus konungr var rett*r* arfe Hordaknutz at riki eptir hann sem suardagar stodu til og huersu miog Magnus konungr giorde af myskun uid Jatuard konung. var þar og godum ath þyrma. er hann heimti eigi vndan honum rikid og tign j Einglande slikt sem j Dan-

mork þuiat rettkominn var hann til huorstueggia. enn huerr er rettr erfingi Magnus konungs ath riki. allz eingin nema þu Haralldr konungr faudrbrodir hans. edr huers minnir ydr herra ath uera mune. Haralldr konungr segir. satth segi þier jall og æ þath minnizt þier jafnt sem uerit hefir vm maldaga. Og þessa rædu jhugar Haralldr konungr vandliga. Og nu eiga þeir konungr og jall tal sin j mille marga daga. og eigi er ath leyna lyktinne ath Tosti jall suer sig j ualld Haralldz konungs. heitr hann konunge trure fylgd og foruneyti uestr til Einglandz. en het Haralldr konungr honum j moti riki j Einglande og þui meira yfirlæti sem meir eflizt hans valld uestr þar. þath segia sumir ath Tosti jall sendi fyrst Guthorm Gunnhilldarson til fundar uid Haralld konung Sigurdarson til Noregs ath bioda honum Nordymbraland med suardogum og eggia hann uestrfarar. og for hann Guthormr til Noregs en Tosti sudr vm sia til Vallandz ath hitta maga sina. Og ofanverdan þennan vetr og mot vorinu þa sendir Haralldr konungr bod vm allth riki sitt og bydr vt almenningi ath lidi og skipum. nefnir af hueriu fylke þat er fara skal. Segia so allir þeir er þessi frasogn er kunnig ath eigi hafi betra mannual buiz af Noregi til eirnar ferdar enn þetta. Er sia minning nu rædd j huers mannz heyra og husi en þo optaz j konungsgarde og af hirdinne huersu Haralldе konunge munde faraz til Einglandz. telia þath sumir menn vpp huersu morg stor rike hann hafde vnnid og heriad vida vm laund og kalla ath onguan hlut mune hann finna ser ofæran. Sumir mæla þath ath Eingland er rikt og fiolment og þar er og þad lid er kallader eru þingamenn og ualiz hofdu saman af ymsum londum og mest af danskri tungu. og letu þeir uel yfir sier og þottuz vera orostumenn myklir og med myklum æhuga so ath þeir kolludu lid eins þingamannz eigi verra til uigs en tueggia hinna bestu Nordmanna og kappa Haralldz konungs. Og er Vlfr stallare heyrde þetta kuad hann visu.

Erat stallaurum stillis
stafnrum Haralldz jafnan
onaudigr feck eg audar
jnnan þorf af huarfa.

ef her breckann brokua
breins skulu tueir fyrir einum
vngr kenda eg mer vndan
annad þingamanne.

Og rett j þann tima er þesse herfaur uar j bunade anndadizt Vlfr stallare. og þath er sagt ath þa er Haralldr konungr geck fra greptri Vlfs ath hann mællti þeim ordum er Vlfe uar gott vitne. hier liggr nu sæ madr er dygguaztr uar og drottinhollaztr. þæ var Styrkar eirn stallare en adr uoru þeir badir. Haralldr konungr hafde hafth tuo hundrud skipa enn otalid uistaskip og smaskutur. Magnus son hans var

eptir lands ath gæta. enn Olaf son sinn hafde hann med sier. þorir af Steig kom eigi fyrir þa sauk ath hann hafde dreymt illa vm konung. þat verdr þæ er konungr ste ut æ batinn ath giorde so þungan at hann feck varla borit hann. Erlendr jall for med Hara11de konunge og sagde honum ouænt hugr vm ferd þeirra. Haralldr konungr siglde fyrst uestr til Orkneyia og hafde hann þadan lid af sonum þorfinns jalls Pale og Ellendi og þar let hann eptir þoru konu sina og Mariu dottur sina. Sidan hellt Haralldr konungr flotanum sudr til Einglandz. Og þath segia menn ath þæ er Haralldr konungr læ j hofn eirne at kona ein kom ath honum ofan af lande og æ biorgin fram vppi yfir skipunum og uoru uid hofnina sialfa. Hun kuad visu.

Sked lætr skina raudann
skiolld er dregr ath hialldri
brudr sier aurnis joda
ofur konungs giorua.

suiptir sier skipta
suanne hollde manna
vlfs munn litar jnnan
oddlæt konan blode.

Huerfr hun þa j brutt og þikir monnum þetta vera ecke god bending. Og annath kuoll(d) kemr aunnur ath þui er synizt og kuad visu.

Vist er ath allualldr austan
eggiar uestr ath leggia
moz uid marga knutu
minn snudr er þath pruda.

þar æ valþidr velia
veit hann ærna sier beitu
steik af stillis haukum
stafns fylgi eg þui jafnan.

Og nu huerfr hun og þikiazt menn gloct [817] sea ath hun hleypr brutt. namu menn og þegar visur þessar og þotti uera ecke god bending. þath er og sagt ath j þesse ferd uar kuedin visa fyrir Haralldi konungi j suefni.

Gramr var frægr til fremdar
flestan sigr enn digri
hlaut eg þuiat heima satum
heilagt fall til vallar.

vggi eg epzt rad tiggia
ydr mun feigd vm byriud
troll giora fakum fylle
fiks velldrath gud sliku.

Eigi uita menn vist huer uisu þessa hefir kuedit fyrir konunge. en Olafi konungi ætla menn visuna þuiat so þikir hellzt til vikia j uisunne. Margt þotti monnum þat til bera j ferd þessi ath margir þottuzt vita ath konungrinn munde eigi lifs aptr koma. En eigi matti Haralldr konungr at helldr giora vid daudþa sinum þott hann uæri allra uitraztr og radspakaztur.

## Er Haralldr konungr j Ein(glande).

52. Kom Haralldr konungr þar fyrst ath Einglande er Kliflond

heita og flydi allt vndan. Konungr tok af landinu gisla og skatta og for so sudr til Skardaborgar. hann settiz vm borgina og uar hun torsott og fiolmenn og feingu þeir hana vnnid vm sidir med ellde. og lagde hann vndir sig allt landit nordan so sem hann for yfir. þadan hiellt hann flotanum sudr til Humru og lagde vpp eptir anne allt til Vsu. þar komu j moti honum Nordymbra jallar synir Gudna jalls þeir Maurukare og Ualþiofr af Hundatuni og hofdu ouigan her þann er saman hafdi dregizt allt sumarid vorit og haustid. Haralldr konungr ueitte þeim uidrtoku geck æ land og fylgti æ arbackanum sialfum so ath þeir mattu eigi aullu megin ath þeim ganga. let annan armenn horfa ath æanne en annar horfdi ad diki einu so at þat var diuft og fullt af vatne. þeir jallarnir letu siga fylkingar sinar medr öllum muginum med æanne ofan. konungsmerkit var nær anne. þar var þyckuzt konungsfylkingin en þynzst uid dikit og þar uar og lidid otraustazt. Og er at uar sott þæ uiknade sæ fyrirarmuren. en Einglismenn sottu fast ofan med anne og so ath dikinu og hugdu nu sannliga at Nordmenn villdu flyia. Haralldr konungr med sina fylking snarade nu til atgongu og giorde so harda orostu ath allt stock fra tueggia vegna. og giordezt þa flotti j landhernum og viku þangath vndan sem eigi voru vopnin fyrir en þat uar vt æ fenit. Maurukare jall hafde farit med þui merkinu er nær uar dikinu. en Valþiofr jall hiellt orostu uid konung meir til arinnar og flyde hann vpp medr anne. og annat komzt eigi undan vtan þat er honum fylgde. Maurukare jall fiell og so mart lid vm hann ad dikit var fullt af daudum monnum þar sem hinn mesti flottinn hafde til komit. þuiat eingin komz lifs vr dikenu sem ofan j for. Voru þar sumir felldir æ vt en sumir stangadir spiotum er æ vt hliopu dikith. og var þat fullt af likum sem Steirn Herdisarson segir.

þiod forst morg j modu
menn drucknudu sokner
dreingr læ ar vm vngan
ofár Maurukara.

Fila drottinn rak flotta
framr tok her æ ramer
ras fyrir roskum visa
riklundar veik vndan.

þessa visu edr drapu orte hann vm Olaf son Halldz konungs er sia visa er jnne. þetta munde vera Matheusmesso aptan enn hann stod þa æ miduikudag. Og[1] eptir þessa orostu geck vndir Haralld konung lid allt vm hin næstu hierod. en sumir flydu sem her segir.

Vngr uili let Vsu
allnær buendr falla
sottiz herr þar er hætti
hertraudr konungr lifi.

þeim mun þangathkuoma
þeingils vera leingi
enn sem eptir renne
iflaust er þæ lifdu.

[1]) er *tilf. Cd.*

Ogh enn kuad hann visu.

Fiellu vitt vm vaullu
vargr nade þar biargazth
benia regn en bragna
blod vikingar odu.

Þess getr og Arnor jallaskalld huersu mikil og agæt þesse orosta vard.

Þung raud jarn a Einglum
eirlaust ne kemr meira
visi vel nær Vsu
valfall vm her sniallann.

Og enn kuad hann.

Fiell ath funde stilles
fram odu ue moda
ott flo griot a gauta
glodheit ofan sucite.
Þiod hygt þadra nada
þusundum taug fusa
spiot flugu lif ath lati
laus j gumna hausum.

Gagn feck ginfuinr Sygna
geck hilldr ath mun villdra
hinn er a hæl fyrir monnum
hreinskialldar for alldri.
dundu jallar vndan
eir feckath lid þeirra
mannkyn hefir ath minnum
morgun þann til borgar.

## Her liggr konungr vid Jork.

53. Nu byriar Haralldr konungr ferd sina ath vinna borgina Jork og logdu hernum uid Stafnfurdu bryggiur. En fyrir þa sok ath Haralldr konungr hafde vnnid mikinn sigr vid stora hofdingia og ofrefli lids þa uar folk allt hrætt ordith og auruæntuzt j moti ath standa. giordu menn borgarennar þat rad fyrir sier at senda bod Haralldi konungi og biodazt j hans valld og so borgina. Ogh sunnudaginn for Haralldr konungr med ollum hernum til borgarinnar Jork og setti hann þing fyrir vtan borgina. og jatudu þæ aller hinir rikuztu menn j valld Haralldz konungs borgina og feingu honum gisla tiginna manna sonu. sem Toste jall kunne þat ath skynia fyrir konunge huerir huerigir voru. þuiat honum var allur kunnleike æ huerir tignaztir menn voru j borginne. Þeir foru ofan til skipa vm kuolldit med sialfgiorfum sigri og uoru aller katir og gladir. uar þath radit ath þing skyllde vera eptir vm morguninn j borginne. skyllde Haralldr konungr þa skipa stadinn og setia yfir stadinn rikismenn þa er honum likade og gefa þeim rettu og leni. Og þetta sama kuolld eptir solarsetr kom sunnan at borginne Haralldr konungr Gudnason med ouigan her og reid hann þegar j borgina [818] med villd og þock manna. voru þæ tekin aull borgarhlidin

og sett sterk uardhôlld vm nottina so ath einginn frett skyllde koma Nordmonnum. var og sia her allr j borginne vm nottina. Og manudaginn er Haralldr konungr uar mettr og lid hans ath dogurdarmali þa let hann blasa til landgongu. byr þa lidit og skiptir. segir þæ huerir fara skulu med honum eda huerir eptir skulu vera ath skipum. hann skipar ath upp skuli ganga .ij. menn vr huerri sueit þar er .j. vera skyllde eptir sem hefde hann .ij. hlute lids med ser. Tosti jarll byr sig til vppgongu med sinne sueit med Haralldi konunge. en var eptir til skipagæzslu Olafr son hans og Eysteirn orre magr hans son þorbergs Arnasonar er þa var agætaztr madr og kæraztr vinur Haralllds konungs allra lendra manna. þæ hafde Haralldr konungr heitid honum Mariu dottur sinne er þeir kæmi aptr. Vedrith var heitt af skine og logdu menn eptir bryniur sinar æ skipum enn geingu vpp med hialmum og skiolldum og kesium og voru gyrdir suerdum. margir hofdu og boga og aunnr skot. þeir voru nu katir miog og hugdu nu til einskis ofridar. Og er þeir sækia j nand borginne sia þeir joreykinn mykla og þui næst j joreykinn fagra skiolldu og huitar bryniur. Sia þeir nu ath þar ridr j moti þeim mikid lid. og þegar stauduar Haralldr konungr Sigurdarson herinn og let kalla Torsta jall og spyr hann huad lide þetta muni vera er ferr j moti þeim. Jarl suarar let meire von ath ofridr munde vera. mæ og þat vera segir hann ath se nockrir frændr vorir og mune vilia vikia til vor med vægd og vinattu og bioda oss traust sitt og trunad. Konungr mællti. hallda munu ver fyrst kyrru fyrir med herinn og skynia huad j moti ferr. þeir gera so. Ogh er lidit æ þui meira er meir nalgazt og þeir sia giorr og allt var ath sia sem æ jsmaul uæri. þæ mællti jarl. herra tokum nu nauckud gott rad og skiott og uitrligt. ecke þarf ath dyliazt uid ath ofridr er og mun herra hier kominn konungr sialfr med herinn. þa spurdi Haralldr konungr. huert er yduart rad jall. Hann segir. þath er hid fyrsta ath snua aptr til skipa sem huatazt eptir lide voru og vopnum veita sidan vidrnam eptir efnum. en ath ôdru lata skipin geyma sin er þa þikir eigi færi uera ath beriazt. og eiga riddarar ekke ualld æ oss. Konungr segir. annat rad vilium uer helldr hafa. setia helldr skiotuztu hesta vndir þria uaska menn. ride þeir sidan sem huatazt og segi vorum monnum huer efni j eru. munu þeir þæ koma skiott ath veita oss lid og mun þæ enn ecke til saka. og fyrr skulu Einglismenn eiga von af oss hardrar orostu enn ver flyium og enn skulu uær beriaz snarpliga vm hrid adr enn berum ver lægra hlut. Jall mællti. þier skulud rada herra þessu sem aullu audru vôr j mille. og ecke uæri eg so myklu giarnare ath flyia enn

eirnhuerr annarra sem eg uard þo ath segia huad mer syndiz radligazt og þath er mu(n) uænna til sigrsens. enn uillda egh vist ath einrhuer rynne fyrre j dag en eg. Haralldr konungr let þæ vpp setia merke sin. Sidan skipa þeir lidi sinu vndir merke sin. Merke Haralldz konungs kaullaudu þeir Landeydu. Fridrekr hiet sæ madr er merke bar. og j odrum stad let Thorsti jall setia vpp sitt merke. þæ mællte Haralldr konungr. þæ er Einglismenn rida ath ydr skiotid nidr spiozholunum j jord. enn setid eigi upp hærra oddana en gegn midium manne. og þeir er fremztir standa hafe og sina spiozodda fyrir briostum hesta þeirra er ath rida en hala j jordu nidri. hofum nu so aller kesiurnar fyrir þeim. en bogmenn vorir veri armana og se þeir æ bak fylkingum. stondum fast og midlum ecke spor vor nema uer þokum fram sagde konungr. So segir Arnor.

Vppgongu baud yngui
jtr med helming litinn
sæ er sinne æ æfi
sazt alldregi haska.
enn vm Eingland sunnan
auflaugr herr at beriazt
for uid fylke dyrann
funduz þeir af stundu.

Olli ofrausn stillis
orma latrs er mattud
stals j straungu jeli
stridir elli bida.
sæ er alldregi alldins
otams vitudr bramma
vigs j vopna gleyse
vardrunar sig sparde.

Ogh j þessum þys og bidum Einglahersins þæ kuad þiodolfr visu.

Skal eg fra þo ath fylkir
falle sialfr til vallar
geingr sem gud vill ungum
grams erfingium huerfa.

skin æ sol æ synne
sniallrads en þæ bada
Haralldz eru hauklig gerua
hefnendr konungs efni.

Og er Haralldr konungr hafdi fylkt lidenu þa var ath kominn herr Einglismanna. og stoduadizt oddrinn lidsins og beid þess er eptir for. Haralldr konungr Sigurdarson reid framan fyrir fylking sina æ suaurtum hesti blesottum og foruitnadizt huerso lidit stod og uisade til ef hann villde j nauckurum stad framar vera lata. Og j þessi reid fell hestrinn undir honum og konungr fram af hestinun og mællti. fall er farar heill. þa mællti Haralldr konungr Gudinason uid Nordmann einn er uar hia honum. huort kendir þu þann hinn mykla mann er þar skaut sier fram af hestinum og hafdi kyrtil blæn og fagran hialm. Herra segir hann þar var Haralldr Nordmanna konungr. þæ mællti Haralldr Gudinason. mikill madr og jtarligr og er þo vænna ath þrotinn se ath hamingiunne. þui næst ridu fram .xx. riddarar af Einglismonnum og fyrir fylking Nordmanna og uoru allir bryniader og so hestarner. Sidan

mællti eirn riddarinn. huar er Thorsti jall hier med lidinu. Hann segir. ecke er þui at leyna ath hier megit þer hann hitta. þa mællti riddarinn. Haralldr konungr brodir þinn sendir ydr kuediu og þau ord þar med ath þier skulid hafa grid og þar med eignaztt [819] þar med Nordymbraland allt. og helldr enn þu vilir ei til hans hneigiaz þa vill hann gefa ydr þridiung allz rikis vid sig helldr en suo oskapliga fari ath þith beriztt banaspiotum epttir. Tosti jall suarar. bodit er þa naukut annad enn suiuirda ein og ofridr sem j fyrra haust var er vær vrdum ath stockua vr lande fyrir þæ sok. og hefde þæ þetta verit bodit sem nu er þæ væri margr sæ vaskr madr æ lifi sem nu hefir mist heimkuomu og betr mundi þa standa riki Einglakonungs en nu. nu taukum uær þenna kost fyrir vora hond huad vill Haralldr brodir minn þa bioda Haralldi Nordmanna konungi fyrir sitt starf og kostnad. Riddarinn suarar. sagtt hefir kongr þar enn nauckud af huers hann vill vnna honum af Einglandi þess sem hann er makligr og hann hefir til vnnid. hann skal hafa .vij. feta rum edr þui leingra sem hann er hærri en flestir menn adrir. þa mællti Tosti jall. farid nu og seigit suo Haralldi kongi brodur minum ath hann buiztt til orostu. annad skal satt ath segia Nordmonnum en Tosti jall færi fra Haralldi konungi og j flok fiandmanna hans þa er hann skylldi beriaztt j Einglandi til rikis. helldr skulu ver taka allir eitt rad deyia helldr med soma edr vinna Eingland med sigri. Sidan ridu þeir aptr riddararnir. Og eptir þat mællti Haralldr konungr Sigurdarson til Tosta jalls. hver var sia riddari hinn vasklegi er so skiallraddadr var er vid ydr taladi og varla hefir eg heyrtt neinn mann tala sniallara. Jarlenn suarar. þar var Haralldr konungr brodir minn Gudnason. þa suarar Haralldr konungr Sigurdarson. ofleingi uar eg þessu leyndur þuiat kompir voru þeir suo fyrir lid vortt ath eigi mundi nafni minn kunna ath segia fra tid(i)ndum edr bannord vorra manna. Jarl suarar. saum vær þath ath vvarliga var farid þuiligs haufdingia og vel matti þetta vera sem þier seigit. en med þui ath hann villdi bioda mier grid og mikit valld vist væra eg þa sannliga kalladr verri haufdingi en hann ef eg bidi suo elli at eg væra banamadr hans. og betra er ath þiggia bana af brodr sinum en veita honum bana. þa mællti Haralldr konungr Sigurdarson til manna sinna. litill var madr þessi sueinar Einglakonungrenn og þo vaskligr og stod sterkliga j stigreip sin. þad seigia menn ath Haralldr konungr kuad þa visu þessa.

**Fram gaungu (ver)**
**j fylkingar**
**bryniulauser**
**vnd blar eggiar.**

hialmar skina
hefkad, eg mina
nu liggr skrud vortt
æ skipum nidri.

Emma hiet brynia hans. hun tok æ mitt bein honum. og suo sterk ath alldri hafdi vopn æ fest. en merki hans hiet Landeyda sem fyr var getid og hafdi þat suo vida farid sem fyr var getid suo sem þat hiet til. Og nu mællti Haralldr konungr. ecke er sia visa vel kueden er vær kuodum. og skulu vær gera adra betri. þa kuad hann þessa.

Kriupum vær fyrir vopna
valteigs braukun eigi
suo bad hilldr ath hialldri
halldord j bug skialldar.
hitt baud mier þa er mættumztt
menskord bera fordum
blackar iss og hausar
hialmstall j gny malma.

Nu veita Eingelsmenn harda atreid Nordmonnum og verdr vidrtakan haurd. og voru so settar kesiurnur ath ecki fiekk komiztt med hestana. og beriaztt nu huorirtueggiu med hinu mesta magni og hreyste og tektz seintt mannfallid. En suo mikill lidsmunr var ath Eingelsmenn ridludu sueitirnar og kringdu allt vm þa og geingu ath þeim aullu megen. og giordi nu sem dæmi finnaztt til ath æ orttiztt vm mannfallid j huorntueggia stad. losnar nu fylking Nordmanna og ridlaztt og fellur þa margtt lid Haralldz konungs. Og er konungr finnur ath fast er ath sott merkiunum og þeir eru magni borner þa spennir hann badum haundum medalkafla suerdzins og hauggr æ tuær hendr og bidr ecki merkianna og rydr suo stiginn fyrir sier og veitir maurgum monnum bana þath segia menn æ eina leid ath eigi hefdi sied dreingiligri vaurn og framgaungu og hada med meiri hugprydi. Hafdi Haralldr konungr þa badar hendr blodgar og geck suo mille vuina sinna naliga sem hann vædi reyk edr vind og syndiztt aullum sem hann hræddiztt ecki huorki elld ne iarn þo ath huorttueggia væri fyrir honum. sem Stufr blindi seigir.

Geck sem vind sa uaski
vardandi fior spardi
geira regn j gegnum
gladr og rostur adrar.
gramr flydi sa sidan
sæm en þess eru dæmi
els vnd eikistoli
elld ne iarn hit fellda.

Og þetta segir Annor jallaskalld j sinu kuædi.

Hafdid briost ne bifdiztt
baud snartt konungs hiartta
j hialm þrimu hilmir
hlitstyggr og þo litit.
þars er þarfar hersa
þat sa menn ath skatna
blodugr hiorr hins bara
beit dauglinga hneitis.

Nu fær Haralldr konungr lag framan j ostinn so ath þegar stod blodbogin vt vm munnen. þetta var hans banasar og þui næst fiell hann til jardar. Og nu er þesse tidende eru ordin þæ sækia Eingilsmenn so fram ath nu fellr lidith allt þath er næst hafde stadit konunginum. var þæ op mikid af Eingilsmonnum. Ogh er Toste jall verdr uarr ath Haralldr konungr er fallinn þa vikr hann þegar þangath til er merkit var Landeyda og eggiar fast lidit. bidr nu þat sama merke fyrir ser bera. Og uerdr enn snorp orosta fyrir þæ sok ath aller Nordmenn eggia þa huerr annan og alldri uilia þeir flyia. þa let Haralldr konungr Gudnason kalla hatt. bydr þa Tosta brodr sinum grid og aullu lidi þui er eptir var. enn þeir æpttu aller senn vpp æ mothi og saugdu ath alldri uilldu þeir grid hafa kuoduztt vilia sigraztt æ ouinum sinum edr liggia þar aller vm konung sinn. sem Arnor seigir.

Eigi vard hins ægia
audligr konungs daudi
hlifdud hlenna sæfi
hoddum reknir broddar.

helldr kioru menn hins millda
milldings enn grid villdi
vm folksnaran fylki
falla lidsmenn aller.

Nu hefzt orosta audru sinni med þui ath Tosti jall var þa fyrir lidenu og geck alluel fram. Og j þessi duaul adr saman sigi fylkingar j audru sinni þa kuad þorolfr[1] visu þessa.

Aulld hefir afbrod golldit
illt nu quad eg hann stillttan
baud [820] þessa faur þiodum
þarflaust Haralldr austtan.

suo lauk siklings æfi
sniallz ath uær erum aller
lofdung beid hinn leyfdi
lifs grand j stad vondum.

þessi orosta vard nu haurd og eigi laung og rædr bratt mannfallid og fellu Nordmenn miog. Jallinn bardiztt vaskliga og fylgdi sialfr merkenu. og adr en letti fiell hann þar med mikille hreyste og godum ordstir. Og j þui bili kom Eysteinn orri med þui lidi er ath skipum hafdi verit og uoru þeir aller albryniadir. og uerdr nu orosta hid þridia sinn og fær Eysteinn nad merkinu Landeydu. þessi orosta var einna snorpuztt af aullum og falla nu miog Eingilsmenn og uar uid sialftt buit ath hinir ennsku mundu flyia. eru þeir Eysteinn og hans menn suo odir ath þeir sækia med akefd. og j annan stad ver(d)a þeir bratt modir er þeir haufdu adr geingit langa leid j hringabryniu. og þess getr Ketell[2] hamarskalld er hann ortte vm Eystein orra. þeir baurduztt nu vm hrid og laugdu sig suo til ath þeir steypttu af sier bryniunum er vedrid var heitt af skini. og vrdu þeir naliga ofærir fyrir mædi sakir og logduztt nu suo til soknar ath annad tueggia skulu þeir fa bana edr sigr. Sia

[1]) r. þiodolfr [2]) r. þorkell

orosta for sem uon var at þeir hofdu meira hlut sem fiolmennare voru. fiell þar Eysteinn orre j þeirre sokn er sidan er kaullud orra hrid. þar fiell naliga alltt stormenni Nordmanna og var þa hinn efri hlut*r* dags. þar voru og eigi aller jafnfeiger.[1] þa hofdingiarner voru latnir og alltt stormenni nalega vard og sumum audit leingra lifs og kom(u)st af þui undan. Styrkar stallari komst undan og var hann hinn frægaztti madr. med þessum hætti komst hann æ brutt ath madr nock*ur* skaut undir hann hesti og reid hann suo j burtt vm kuelldit og giordiztt æ uindr nock*ur* enn lauk solarhitanum. enn hann var j skyrttu einni klæda og hafdi hialm æ haufdi og bertt suerd j hendi. þa sualadi honum er af tok mædina. þa kem*r* j mot honum vagnmad*r* einn og var j kausungi sidum. þa mælltti Styrkar. villttu selia mier kausunginn bondi segir hann. Eigi þenna[2] segir bondi þu muntt vera Nordmad*r* og kenni eg þig af male þinu. Styrkar suarar. ef eg em Nordmadr huad uillttu þa bondi. Hann suarar. eg villda þa drepa þig ef eg mætti. en nu er þo suo illa ordit ath eg ma þath eigi þuiat eg hefir ecki vopn þath ath nytt se. Styrkar mællti. ef þu matt eigi mik drepa bondi þa skal eg freista ef eg ma þig drepa. Reidir til suerdit og set*r* æ hals honum suo ath af fauk haufudit. tok hann kausunginn og for j. hliop sidan æ hest sinn og for ofan til skipa. þetta kuad Arni[3] jallaskalld vm þessa orostu er Haralldr konungr hadi efsta sinni.

Vitt for Vaulsungs heiti
vard marglofad*r* harda
sa er skaut vr Nid nyttla
nord*r* hafskida bordum.

Og en kuad hann.

Myrgtt er hu̇err meira orkar
mier allz greppr ne sæi ath
hard*r* er j heimi ordinn
hrafngrennir þræls jafnan.

aurtt gat oskelf*r* hiartta
æsinfims uid himne
mest hefir milldingr kaustud
minni huers grams vinur.

Og enn þetta.

Haralldr vissi sig huerium
hardged*r* vndir Midgardi
daugling*r* red til dauda
dyrd slikri gram rikra.

hefir afreka hins aurva
ætt styrendum dyrum
hingad hilmir frægri
heilug folld til molldar.

54. Epttir þessi hin miklu tidindi er nu hefir vm hrid uerit fra

[1] r. jafnskeleggir [2] r. þerna [3] r. Arnorr

saglt giordizlt Olafr son Harallds konungs haufdingi yfir lidinu þui er eptlir var og lifs vard audit og biugguzlt þa til burtferdar sem huatlegazth og leggia þa skipum vt til hafs og þui næst fra landi. sigla vm haustid nordr til Orkneyia og var Olafr þar vm uetrenn. þath segia menn ath æ þann sama dag er Haralldr konungr fiell æ Einglandi þa andadizlt Maria dottir hans vestr j Orkneyium og æ einni stundu dagsins. og mæla menn ath þau hafi eins mannz fior haftt bædi. Hun var allra kvenna vitruzth og frid synum og vinholl miog hardla. Hid næsta vor eptir for Olafr aullu lidinu til Noregs. sem Steinn Herdisarson segir.

Fylkir liet hin fliotu
flaust er leid ath hausti
skaut j haf þar er heitir
Hrafnseyr konungr stafni.
tiadu bord ueg breidan
brims gangr skipa langra
odr fiell siar vm sudir
sik bezttan gram miklu.

Og enn segir hann.

Austr hielltt Eingla þreystir
ot uin skipum sinum
storan braut vm styri
straum sækonungr Rauma.
gladr tok herr þa er hædra
hyrlestir kom vestau
allr vid auflgum stilli
Olafr borinn solu.

Olafr tok þath sumar konungdom j Norege med brodr sinum Magnusi og uoru þeir badir konungar vm hrid adr Magnus konungr fieck banasott. og uar hann adr uanheill og hafdi þess konar mein sem menn kalla reforma. Hann atti eptir son þann er Hakon hiet er fæddr var upp j Gudbrandzdaulum medr Steigarþori. Magnus konungr hafdi att hin nyrdra hlut sudr en Olafr hinn eystra hlut. enn eptlir andlat Magnus konungs þa var Olafr einn konungr yfir Noregi. Suo segir Steinn.

Helldr siztt harri folldu
heipttbradr jofur nadi
ætt þreifst Egda drottins
olaust konungs stoli.
mætr hilmir ver malmi
mun eg skiolldungs lof kaulldum
Rauma grund og raudum
riklundadr vndir.

þa kuomu þeir j Noreg med Olafi konungi Skuli son Tosta jallz Gudnasonar og Ketell krokur nordan af Halogalandi. fiek Olafr konungr honum þar kuonfang gott og gaf honum lendz mannz rett nordr þar og er fra Katli komit margtt stormenni nordr j landi. Skuli uar uitr madr og skaurungr mikell manna fridazttr synum og sniallur j mali. hann giordiztt forstiori j hird konungs og taladi æ þingum og hafdi aull landrad medr kongi og var kalladr konungs fostri. Olafr konungr baud ath gefa Skula fylki eitt j Noregi þat er honum þætti bezt medr aullum tekium og landskylldum þeim er konungr atti. Skule þackade konungi

uel bod sitt enn lezt þo uilia helldr beidazt af konungi annarra hluta. fyrir þui ef konunga skipti [321] verdr segir hann. þa kann vera ath riufiztt giofin. nu vil eg helldr þiggia af ydr eignir nokrar nær kaupstad þeim er þier erud jafnan vanir ath sitia og taka iolaveizlur. Konungr jatadi honum þui og skeytti honum jardir vid Konungahellu og vid Oslo vid Tunsberg og nordr uid Nidaros. og voru þath nalega hinu beztlu eignir j huerium stad og hafa þær eignir haftt sidan hans ættmenn. Son Skula konungs fostra var Asolfr fadir Guthorms æ Reini faudr Bardar faudr Jnga konungs og Skula jar(l)s. Eigi miklu epttir fall Haralldz for Skuli vestr til Einglandz og beiddiztt ath na liki Haralldz konungs og þath fiek hann auduellega og kom apttr til Noregs og hafdi þar fyrir uirding mikla og sæmdir. og liggr hann ath Elgisetri þuiath þath þotti fallid ath hann fylgdi þeirri kirkiu er hann hafdi sialfr latit gera. en Eysteinn erkibyskup liet hann þangad færa hreinlifismonnum vndir hendr og afladi þar til mikilla eigna og auktti miog stadarens giædi medr þeim eignum er hann sialfr hafdi þangad gefit. Og þa .xii. manadi er Haralldr konungr var vestr og þeir Olafr fedgar þa ried Magnus son hans fyrir Noregi og var hann hinn fridaztti madr.

55. Epttir fall Haralldz konungs Sigurdarsonar fystiztt Haralldr konungr Gudnason sudr æ Eingland medr her sinn fyrir þui ath jallinn af Nordmandi var komen sunnan vm sio medr miken (her) og lagdi vndir sig alltt land þar sem hann for. Sia Vilialmr var son Rodberdz langaspioz. Rodbertt var brodir Emu drottningar modur Jatvardar konungs hins goda og taldiztt Vilialmr sæmelegri ath taka arf epttir Jatvard konung hinn goda enn Haralldr Gudnason sa er sig hafdi adr suarid (af rikinu). Enn þannig[1] barst ath vm suardaga þann ath þa er Jatuardur godi var konungr j Einglandi og var madr barnlaus þa sendi hann Rodberth erkibyskup af Kanntarabergi til Vilialms frænda sins j Nordmandi og villdi hann giora konung eptir sig. og j annat sinn sendi hann hins sama erindis til Vilhialms og [Haralld Gudnason[2] og Gydu Þorgilsdottur Sprakaleggs. og var Haralldr med Vilhialmi um hrid og mælltu menn ath hann legdi hug æ konu jarls og væri þeirra ast ærid mikil. og nu grunar Vilialm af vmrædum annara manna og uill ath Haralldr færdiztt vndan og bæri af sier. med þui moti ath hann festir sier dottur þeirra og hratt suo þui æmæli er Vilhialmr ber æ hann og æ þat ofan suarde Haralldr eid Vilhialme jarle at skrine hins heilaga Otmarus at hann skyllde alldreige uera j mote honum. Og eptir þat for

[1]) þingit *Cd.* [2]) [Haralldz Gudnasonar *Cd.*

Haralldr aptr til Jatuardar konungs og var med honum medan hann lifde og tok sidan konungdom eptir hann. og þui þotte Vilhialme hann nu hafa geingit æ eidana þar sem Jatuardr konungr hafde gefit Vilhialme konungdom eptir sina daga. Og nu er hier til at taka ath Vilialmr er komen sunnan æ Eingland og leggr vndir sig þar sem hann fer. og þat seigia menn ath adr Vilialmr ridi heiman ath kona hans gek hia hestinum og bad hann ei beriaztt vid Haralld Gudnason. Vilialmr suarar styggliga og liet ath henni geingi eigi godr hlutr til þessarar bænar og keyrir hestinn med sporum. og kemr sporinn j haufut henne suo ath þegar fieck bana. og ræddu menn ogrliga vm þenna athburd. Vilialmur suarar. vist er athburdrin ogrlegr sem gud lati mig bætt fæ. en vera kann ath epttir makle(glei)kum se og hafi hun suikit mig og ei sidr sialfa sik og hafi þui þann veg til borit. Vilhialmr jarl liet binda vid merki sitt skrin hins helga Otmarus þat sama er Haralldr hafde suarit ath og bad gud og hinn helga[1] Otmarvm ath hann lieti þeim Haralldi ganga epttir malaefnum. þeir Haralldr konungr og Vilialmr jall attu orostu mikla er þeir funduztt og var þath .xii. manudum epttir fall Haralldz konungs Sigurdarsonar og veitir þungtt orosta. þa spurdi Haralldr konungr. huad er bundid vit merki Vilhialms. Honum var sagtt ath þath væri skrin hins helga Otmarus med helgum domi hans. þa kann vera seigir Haralldr konungr ath ei megi vndan komaztt og mun þar vid raman reip ath draga. þar fiell Haralldr konungr Gudnason og Gyrdr broder hans. Vilialmr vard sidan konungr j Einglandi og var kalladr bastardr. hann vard sottdaudr j Nordmandi. Epttir hann var (konungr) Vilialmr raude son hans .xiii. ær. þa var Henrekr konungr annarr son Vilhialms bastardar. Og lykr hier saugu Haralldz Sigurdarsonar.

## (HEMINGS ÞATTR ASLAKSSONAR).

56. þath er upphaf þessa mals ath Haralldr konungr ried fyrir Norege son Sigurdar syrs og Astu modur Olafs konungs ens helga. Haralldr konungr var .xx. vetr konungr yfir Noregi. hann hafde tuo uetr ens fiorda tigar þa er hann vard konungr ath Noregi. Hann atti Silkisif Hakadottur. hann liet hana epttir j Holmgardi. hann liezt hennar uitia mundu og liet epttir fe mikit ath vedi. þath var einn hafrbelgr fleigin hornaflætti. hann var fullr af skiru silfri. og kuad hana aud eignaztt mundu ef hann minttiztt hennar ei vm þath er .xv. uetr vorv lidner. og huortt þeirra sor audru sinn trunad. þeirra dottir var Maria er vænztt kuenna og manbeztt hefddi verid. Enn þa er konungr var

[1]) helg: *Cd.*

jlendr þa kuongadiztt hann j annad sinn og feck þoru þorbergsdottur Arnasonar og Ragnhilldar Erlingsdottur Skialgssonar af Jadri. þeirra synir uoru þeir Olafr kyrri og Magnus fadir Hakonar er Steigarþorir fostradi. Haralldr konungr var mikell madr æ voxtt manna kurteisazttr. hann var vitr og vel mali faren. margtt var med [822] honum rauskra manna. Nikulas þorbergsson var med honum magr hans mest virdr manna. annar islenskur madr Halldor Snorrason og Bauduar Elldiarnsson Arnorss(onar) kerlingarnefs og Oddr Ofeigsson af Mel vr Midfirdi. þar (var) og Hiorttr Olafsson og þoraren Nefvlfsson. þeir voru mikils virdir af konungi. Konungr uar þui vanr ath þiggia veizlur sin missare huortt nordr j lande edr sudr. æ einu hausti þiggr hann veizlur nordr j land.

Aslakr hiet bondi er bio j ey þeirri er j Torgum heitir. su ey liggr nordarlega fyrir Noregi. Aslakr var spekingr mikill. hann var haufdingi yfir þeirri ey. son atti hann sier er Biorn hiet. Biorn var manna giorui-ligazttr. Konungr sendir Aslaki ord þar er hann var æ veizlu og lieztt vilia finna hann. Aslakr vard vit skiott og fer æ fund konungs og geingr fyrir konung. konungr tok vel kuediu hans. Konungr tekur til orda. þu skalltt giora mier veizlu med .c. lidi. og mun eg sitia þar .iij. nætr. Hann suarar. vanfær em eg til ath giora þier veizlv enn gefa mvn eg fie til ath kosta fyrir mer fyrir ydr ei minna en þier munud upp taka ath veizlune og þar æ ofan velia ydr giafir sem eg munda þott eg hefda veitt. Konungr frettir. huad ber til er þu fer vndan ath giora mier veizlvna. Eigi þikiumztt eg hybyli til hafa seigir Aslakr. em eg kunnattu litill ath veita tignum monnum. þa mælltí konungr. eigi munv vær þath lata vit standa. Husbuning hefi eg aunguan seigir Aslakr og undan villda eg teliaztt ath þier þægit ath mier veizluna. Konungr suarar. finn þu moti þath þu villtt enn þangat mun eg sækia veizluna. þa skal og ecki vndan teliaztt seigir Aslakr. nær munu þier koma. Konungr seigir. eigi seinna enn æ morgen. Aslakr bad hann giora þa sem hann villde. Aslakr for heim vid suo buit. enn konungr kemr vm morgunenn. Aslakr geingr moti honum og fagnadi konungi æfar vel. þeim er [fylgt i[1] skala og skipad j sæti. þar var skalin allr skipadr skiolldum og sem kurt-eisligaztt innan buinn ath aullu. þa frettir konungr. huortt þiki þier þig sligtt skortta annad til veizlunnar sem husbunaden. þath ættla eg seigir Aslakr ath annad mvni meira skortta. en þo ættla eg ath meiri mvne favng veizlunar ef ath halldi kiæmi og hefi eg þo minum spytum tialldad og ecki af lani til tekit. Konungr lætr yfir þvi vel. Aslakr liet skemtunar afla. og eitt ræda þar aller ath þeir hefdi ei betri veizlu þeigit

[1]) [fylgdi *Cd.*

Nott leid af og vm morgvnen epttir tidir þa drecka þeir allir samtt. þeir talaztt vid konungr og Aslakr. Konungr frettir. hversv kunne þier laug þav er Olafr konungr hinn helgi Haralldzson setti. þv ertt sagdr lagamadr mikill. Ath þikiumztt eg þar naukut kunna seigir Aslakr. Huad hefir hann þar til lagtt seigir konungr ef madr lætr fostra son sinn æ lavn. Aslakr seigir. eigi er mier þath kunegtt ath madr meigi eigi fostra lata baurn sin þar sem hann vill. Konungr suarar. avnnur hefi eg heyrtt vmmæli hans en þav. Huad hefir þv þar vm heyrtt seigir Aslakr. þa seigir konungr. at sa skal vera vtlagi landz og lifs. þui skal honum suo hardan stafa seigir Aslakr. Konungr suarar. ei ma konungr þann til lids og landvarnar kiosa med sier er hann veit ei ath er og eigi ma hann þann vgga er hann veit ei ath er. Ecki vil eg þar vm tala seigir Aslakr þat kemr ecki til min. Hitt er mier sagtt seigir konungr ath þv mvnir son lata fostra æ laun. Hverr seigir þat seigir Aslakr. Nikulas þorbergsson sagdi mier seigir konungr. Seigir þu þat Nikulas seigir Aslakr. þath verdr mier þungtt ath sigla milli skers og baru seigir Nikulas. eg treystumztt ei ath væna konung lygi ennda ma eg þo ei þurtt af halmi bera ath eg hafa ekki um talad. þath man eg seigir Nikulas ath eg var hier j Torgum .x. vetra gamall og þotta eg þa aungvm annan veg en helldr rauskr. en þa atter[1] þv son þann er Hemingr hiet. og liekumztt uit barnleikvm og sa eg annan aungan honum likan og ath avllu var hann krapttameire .vi. vetra en eg .x. vetra. og þa sat hann hier epttir er vær forum brvtt og sidan hefi eg alldri til hans spurtt. nu hefi eg ei framar sagtt konungi seigir Nikulas. þa frettir konungr. huad er af þessum manni ordit. Suo er þath sem Nikulas seigir. ath (eg) atta son þan er Hemingr hiet og þotti mier miog væ(n)ligr seigir hann. enn littlu sidar tok hann uitfirring og senda eg hann j burtt or Torgum og suo langtt fra audrum monnum ath eingi skylldi til hans fretta. og alldri hefi eg vm foruitnaztt sidan og ei veit eg huortt hann er lifs eda laten. þa spyr konungr. Aslakr ei skallttv langan kostnad af oss hafa ath sinni. nu skal bua ferd vora brutt og ei skalltu taka uid oss fyr enn aunnur misari j þetta mund. þa lattv hier komen son þinn huortt sem hann styrir meira viti eda minna. og þo ath hann sie latin þa vil eg sia bein hans seigir konungr. þar er mier ecki fyrir þui seigir Aslakr.

Nu skiliaztt þeir. fer konungr heim og er heima þav missari og var alltt kyrtt j landino. en aunur missari epttir sækir konungr veizluna til Aslaks j Torger. Aslakr tekr vit þeim vel og virdulega. Enn er

[1]) attera *Cd.*

nott var lidin þa talaztt þeir vid konungr og Aslakr. Konungr frettir. manttv nokut til huad vid tauludumz uid j fyrra haust. Ecki hefi eg þar vm huxad seigir Aslakr. Hier mvn nv komen son þinn seigir konungr. ath þier hafit mesta lavn æ dreigit. þar hefi eg alldri vm huxad seigir Aslakr og ei fæ eg honum hingad komit. miklu sitr hann fir. Ei skal eg suo harda reidi æ þig leggia sem þv ertt verdr seigir konungr. nu skulv vær j burtt fara af veizluni og vera .ij. manadi æ burttv og mvnv þier ofegnir vera ydrum hluta ef ei er hier Hemingr fyrir. Aslakr svarar. eigi þurfi [823] þier suo mikit kapp æ þetta ath leggia. mier er ecki fyrir ath lata hann hier koma enn æ þeirri stundu lidenni sem þier hafit æ kuedit. Avllum monnum var avdsien reidiþokki æ konungi. og skiliaztt ath sinni. Konungr þiggr veizlur æ meiginlandi þar til ath manadr er af vetri. þa helldr konungr vt j Torgir. Aslakr hefir buna veizlvna fyrir og var sem katazttr og alldri þotti þeim sæmilegar veizlan fram hafa fared helldr en þa. En frettir konungr Aslak vm dagenn. huortt er nv hier komen Hemingr er þv hefir leingzst fyrir verit ath lath mik finna. Aslakr suarar. enn hefir mier eigi j hug komit vm þitt mal. Ecki þurfum vit mavrgum ordum vi! ath talaztt enn seigia ma eg þier ættlan mina. senntv eigi fyrr epttir syni þinum en þu villtt enn hier mvnv vær nv sitia þar til er hann kemr. enn ef þig þrotar fyrri fong þa munnttv ei fleire veizlur gera edr Biorn son þinn. þier mvnvd slikv rada verda seigir Aslakr. þeir skilia tal sitt ath sinni. þegar er Aslakr geingvr j brutt þadan þa heimtir hann menn sina .xii. til tals vit sig. sendifavr hefi eg ydr hugda seigir Aslakr. þeir skilia tal sitt. seigiaztt þeir vilia fara hvertt er hann vill. Aa skip skulv þier stiga seigir hann. þier skulud roa nordr fyrir Snos og lenda æ nesi þvi er æ Framnesi heitir. þar gangi vpp .v. menn. Kalfr hiet sa er hann kuedr til fararennar. hann var fyrir þeim sendimonnum. adrir skulu skips giæta. þier skulud fara vpp fra bygd æ skoginn. þar mvn fyrir ydr verda stigr æ maurkinne. stigr er þeim mvn breidari er þier hafit leingr geingit. þier mvnvd fara hliota .iiij. daga þo ath þier gangid vel snudegtt. þa munv þier ganga vr fram skoginum ath alidnum deigi. þa verdr fyrir ydr dalvr. hann er haumrvm lugttr og skogum en hann sier eigi fyr en þier komit or dalnvm. þar mvn verda fyrir ydr husabær. gangit til. þar mun ei fleira manna en karlmadr og kona. þav mvnv fretta hvadan þier sied. en þier seigit hid sanna til. þav munv bioda ydr allann greida. þier skulud þath þekiaztt og taka þar huilld. latid snemma veita ydr vmbud. þier mvnud huila j elldaskala. einnhuerr skal hallda vokv af ydrum monnum. þa get eg ath madr gangi inn þa

af er nokut af nott vænn og mikill og sællegr. þar mvnv elldar upp kueikttir. hann mvn setiaztt vit elld. ecki dyl eg ath hann se skyrlegri enn eg hefi fra sagtt. þa skal Kalfr standa vpp og heilsa Hemingi og seigia honum kuediu mina og bioda honum æ minn fund. og ef hann lætr obratt vid þa bid þv hann rada sia(l)fan og seg at þar liggi vit lif mitt og Biarnar sonar mins. enn meiri von þikia þath ath hann fae sier fordad. enn seigi þier honum ath eg hygg ath þar liggi lif hans vid ef hann kemr. nu bidi þier hann þann af taka er honum þiki kosttigazttr. Nu bidr hann þa vel fara.

Nu fara þeir epttir þui sem Aslakr hafdi þeim til visad. Kalfr gekk æ land og þeir .v. saman. og ecki vard savgvlegtt vm þeirra ferd fyrr enn þeir koma til Karls. þeim erv veittar godar vidtavkur þegar þav vissv huadan þeir vorv. Nv er þar hybylvm æ leid snuid og fara þeir til hvilu Enn þav sitia vid elld hion. og þa tekr hvn til orda. seintt verdr fostra okrvm nv seigir hvn. Karl suarar. litil æ eg fien enn þo villda eg gefa þav til ath hann kiæmi eigi heim æ þessi viku. Hvad ber til þess seigir hvn. þath er mig vggir ath þessir men se sendir epttir Hemingi seigir hann. Eigi veit eg hvern veg þa mvn verda ef eg skal skilia vid fostra minn seigir kerling. Vel mvnda eg yfir lata seigir karl ef eg vissa vist ath hann tæki hid betra vid. enn ei er mier æ þvi minni æhyggia enn ath skilia vit hann. þa er skamtt ath bida adr geingit er hia vti og kemr þar inn madr j ravdvm kyrttle og drepit blaudum upp vndir bellttit. gullhlad var vm havfut honvm. en harit la æ herdum nidri. onguan þottiztt Kalfr sied hafa jafnvaskligan mann ne ath avllv gilldligra. þav standa vpp og heilsadi vel Hemingi fostra sinum. hann tekr vel kuediv þeirra og seztt nidr vid elldinn. Karl frettir huad til veida hefir orded. Hann svarar. ei sa eg fuglana marga enn sialfratt var mier ath veida þæ ei er eg sa. Hann frettir. huad er komed. Kerling suarar. hier erv komner menn faudur þins og vggir ockr ath þeir sie epttir þier sendir. Margir mvnv þath mæla ath þvi væri ecki of bratt þa skal seigia fra Kalfi ath hann stendr vpp og geingr ath honum og kuedr hann. Hemingr tekr vel kuediu hans og frettir huadan hann væri. Eg em sendr þeirra erenda fra favdur þinum ath hann bydr þier til sin og vilidi ath þv kiæmir. þo er nv mikit vm seigir hann er mier skal nv ord senda. bær þikiumztt eg ath rada og mvn eg heima sitia seigir hann. Eg ættla nv seigir Kalfvr ath ecki þurfi holan bavg vm þath ath klappa ath Aslakr bad þig rada. Seigir honum nv vmmæli favdur sins. Hemingr suarar. þa fari þier þegar æ morgen og nemit ei stadar fyr enn þier komit til skips seigir hann. enn ef

þier siait þa ecki til minna ferda þa fare þier heim og ecki þurfi þier þa min ath væntta. þa skilia þeir tal sitt. Og þegar vm morgenen radaztt þeir Kallfr til ferdar og nema ei fyr stadar enn vit skip sitt og setia fram skipit. og þa er þeir erv bunir þa sia þeir huar Hemingr rennir æ skidum af landi ofan. hann stigr æ skip. Kalfr frettir hue nær hann færi heiman. Hann sagdi. j morgen for eg heiman.

Ecki er getit vm ferd þeirra fyr en þeir koma j Torgar. Aslakr tok vel vit syne sinum. þæ var so komit morne ath menn forv til tida. enn epttir tidir þa er konungr var j sæti komenn þa geingr Hemingr fyrir konung og kuedr hann. Kònungr tok þui vel og frettir huer hann væri. Hemingr segir honum heite sitt. Eigi villde eg sia þa hud er þu ert einn hemingr af segir konungr. Eigi er huer slikr sem hann er kalladr. enn þui em eg hier kominn at eg vil ydr alla þa hlute bioda er þier vilit af mier þiggia hier. þott eg eiga litit brautargeingi at bioda læt eg ydr heimillt þat. [824] ef þier uilit mik til þess nyta seigir hann þa vil eg og vera med ydr ef þier vilit þath. en ef þier vilit mik meir minka þa vil eg bioda ydr vtlegd mina til frida(r) faudur minum og audrvm frændvm seigir Hemingr. en þott þier vilid mier dauda dæma segir Hemingr þa mvn eg ecki vndan hlaupa. Kongr spurdi. ertt þv navkur jþrottamadr. Hemingr seigir. suo þotti þeim karle og kerlingv sem eg kynna margtt vel en eg hefi ecki avdrum monnum mina kurteisi synda. enn litit get eg ydr vm finnaz. eina jþrott þikivmztt eg kunna fyrir ydr ath fremia segir Hemingr. Konungr frettir. huer er su. Skidaferd hirdi eg ei vit huern eg reyne af þvi ath þath skal eingi vm mik vinna. Konungr svarar. sia skulvm vær leika þina og vita huerr slægr oss þikir til vera. Hemingr svarar. vid skal eg leita ath leika epttir þath er þier latit leika fyrir. Vær skulum nu vt ganga seigir konungr og leikaztt vid. Aslakr gekk þa ath konungi og seigir. þuit hefi eg ydr brottflutning æ skipum ef þier vilid þuiat oss þikir mal at nu letti leikunum. Konungr suarar. sitia mvnvm vær j dag. þa ganga menn vt aller. Eyen var skogott miog og geingv menn til skogarens. konungr tok eitt spiot og setr nidr j vollin odd spiozens. þa leggr hann aur æ streing og skytr j loptt vpp. auren sneriztt j lopttinv og kemvr nidr avrvaroddrinn j spiozhalann og stod rett upp. Hemingr leggr aur æ streing og skytr epttir. og su var auren vpp horfin leingi og þar kemr nidr aurvaroddrinn j streinglag hinnar aurfarinnar. þa tekr konungr spiotit og skytr af hendi. hann skytr suo hartt og langtt ath aller havfdv ath orde og þo gegntt. þa baud hann Hemingi þar til epttir ath skiota. Hemingr skytr epttir og vm fram avllv

svo ath aurfalurenn la æ spiozoddi konungs. Konungr tekr spiotit og skytr annad sinn og skytr yfir fram skot Hemings avllv spioti. Nv villda eg ei epttir skiota seigir Hemingr þui ath (eg) sie ath eg get ei inntt. þv skalllt skiota seigir konungr og hafa einavrd vid ath skiota leingra ef þv matt. þath er allz mals sannaztt ath angradr er gume huerr ef vegr med vopnvm þeim er hann hefir til. Nu mvn eg skiota verdr sem ma seigir Hemingr. Nv skytr hann og langtt vmfram. þa leggr konungr avr æ streing og hann tok knif og stingr j eikina. hann skytr apttan æ knifsskepttit suo ath avren stendr favst. þa tekr Hemingr avrvar sinar. Konungr stod hia honum. gulli erv rey(r)dar avrvar þinar og metnadarmadr mikill ertt þv seigir konungr. Avngvar hefi eg þessar avrvar gera latit gefnar hafa mier verit og hefi eg avngvan buning af þeim tekit. Hemingr skavt epttir og kom j knifskepttit og stok j sundr hefttid avrvaroddren stod j tanganvm. þa mællti konungr. leingra skulv vit nv skiota. Og tok aur eina og var reiduglig*r* og leggr avr æ streing og dregr suo bogann ath saman þotti bera halsana. Avren flaug allangtt af boganvm og nemr stadar æ einum kuisti allmiofum. þa mæla aller ath þetta þotti hid mesta afreksskot. þa skytr Hemingr og navkru leingra og þa stod avren j gegnum eina knot. þetta vndruduztt aller þeir er hia vorv. Konungr mællti. nv skal taka hnotina og lata j havfut Birni brodur þinum og þar skalltv hæfa hnotina. ei skalltv nv skemra til skiota enn adr. en ef þv missir þa skal þar liggia vid lif þitt. þier verdit lifi ath rada enn ei mvn eg þetta skot skiota segir Hemingr. Biorn mællti. helldr skalltv skiota enn þv takir davda æ þig. af þui at þath er hverivm bodit ath leingia lif sitt medan hann ma. Erttv raden til ath standa kyrr og skiotaztt huergi vndan ef eg skyt hnotina. Efalaust skal þat seigir Biorn. þa standi konungr hia seigir Hemingr og hyggia ath huortt eg hæfi hnotina. Konungr suarar. hia þier mvn eg standa. En kuaddi til Odd Ofeigsson. hann geck þangad og kuad sier hæfis manravn ath hallda þar einord vm. þa geingr Hemingr þangad er konungr vill ath hann standi og signir sig. Gud nefni eg j vitni ath eg fel alla æbyrgd æ hendr konungi ath eg vil ei brodur minum mein giora. þa skytr Hemingr. Spiotid fer skiott og rennr apttr yfir huirfilinn og nam vndir hnotina. og hann skeindiztt ecki. hnotin valltt apttr af havfdi. enn spiotit flavg leingra og stavdvadiztt ei fyr enn nidr kom. þa kom konungr at og spyr huortt æ kiæmi hnotina. Skulu þier navkud þui trua er eg seigi fra seigir Oddr. Konungr suarar. sa hlytr ath bera er veit. Betr þotti mier enn hann hæfdi seigir Oddr er hann skaut vndir hnotina enn hun valltt ofan en hann

sakadi ecki. Ei virdiztt mier ath hann hafi suo skotid sem eg baud seigir konungr. Og sofa af nottina.

En vm morgenen geingr Aslakr til tals vid konung. enn hefi eg buna ferd ydra ef þier vilit til meiginlandz. Konungr suarar. duelia mvnv uær j dag. En er drykivmale var lokit þa kuedr konungr þa vt og ganga til siovar. þa kom konungr ath mali vit Halldor Snorrason. þier ættla eg ath fyrirkoma Hemingi æ sundi j dag. Haldor svarar. heptaztt mvn þeim þat er betr erv færir en eg. þa kuedr hann til Bodvar Elldiarnsson. Hann suarar. þott eg hefda allra manna jþrottir þeirra sem hier erv þa skyllda eg þo hann ath avngv pina. enn allra siztt er eg veit ath mig skorttir alltt vid hann. þa mællti konungr vit Nikulas þorbergsson. þv skalltt þreyta Heming æ sundi.[1] Nikulas suarar. eigi veit eg hversu geingr en freista ma eg ef þier vilit. Konungr kuaddi þa bada til sunz. Hemingr mællti. eigi þarf eg nv ath hlifaztt vit. þui eg villda hellztt vid hann reyna ef eg ætta vid nokurn. Nv afklædaztt þeir og fara æ sund. þa spurdi Nikulas. huortt skulv vit reyna kappsund æfram langtt. þess er kostr segir hann ath reyna kappsund er þu hefir mig fyrirlagtt æ hinv adr. þa legst Hemingr vndan landi. Nikulas frettir þa er þeir hafa [825] leingi lagiztt. syniztt þier ei ath ver huerfvm apttr. Hemingr svarar. framar get eg ath þier vilit konungsmagarner lykiv giora æ leidinni. Hann legst sem adr. Nikulas legst hoti seinna og frettir hoti sidar. erttv raden til ath leggiaztt leingra. Hann svarar. einfær hugda eg ath þv mundir þott villdir at landi. en fara mvn eg leingra. Vel þiki mier þath ættlad vera a þath mvn eg hætta aptr ath hverfa. Nikulas huerfr þadan apttr og hefir ei leingi lagiztt adr honum dapradiztt sundit. og þar kemr ath Hemingr legst ath honum og frettir hversv gangi svndit. Avngv skipttir þik þat. fara mattv leid þina. Hemingr svarar. hafa þætti mier þu maklegleika til þess. en þo megum vid nv flytiaztt badir saman. Ecki skal neita þui seigir Nikulas. Tak þv nu hendinne æ bak mier og styd þig suo. Og vit þetta flytiaztt þeir til landz. Nikulas geingr sialfr æ land vpp og var ordin alstirdr. en Hemingr settiztt æ stein vt j flædarmali. Konungr frettir Nikulas huersv ath hefdi farit vm sundit. Nikulas svarar. eingi tidindi munda eg seigia til landz ef Hemingr yrde mier eigi betri dreingr en þier. Nu skallttv Halldor fyrirkoma Hemingi. þath mvn eg ei giora segir Halldor. mier þikir sem þeim hafi litit æ vnniztt er fyri reyndi sundit. Konungr kastar klædvm. En Aslakr geingr til fundar vid Heming og seigir. hallttv vndan og forda þier. nv vill konungr þik

[1]) syndi *Cd.*

feigan. en skamtt er æ skoginn seigir Aslakr. Hemingr svarar. avndverdir skvlu ernir kloraztt. enn þann ma ei kefia er gud vill hefia. fari hann þegar er hann vill. þa reis Hemingr af steininum en konungr j annan stad. og þegar er þeir finnaztt þa legst konungr ath honum og rekr hann j kaf. þa sa adrir ecki til þeirra athgangs en sioinn giorir suo okyrran yfir þeim. og þa tok ath lida aptninvm og þa er litit skortti var myrgtt ordit. þa kyrrir sioinn og legst konungr ath landi. hann var suo reiduligr ath eingi madr þordi vit hann ath mæla. Konungi vorv feingin þurr klædi. enn avngvir sav Heming og aller ættlvdv hann daudan. en eingi þordi ath spyria. Konungr geingr heim og hans menn. þar var litil aulteiti. konungr var hryggur af reidi enn Aslakr var hryggr af harmi. log[1] voru kueiktt j skalanum og konvngr j sæti kominn. þa geingr Hemingr inn j skalann fyrir konung og leggr knif j kne honum þann er konungr hafdi haftt æ bellttinv. þottuztt aller vita ath hann mvndi af honum knifinn tekit hafa.

Nu leid af nottin. og vm morgenen þa mæler Aslakr vit konung. buit haufum vær ydra ferd ef þier vilit j brutt fara. Konungr mællti. nu skal ecki duelia. enn Hemingr skal oss fylgia til meiginlandz. Nv buaztt þeir og fara til meiginlandz. þeir lendv uit eitt mikit fiall. þar var siobratt og var leid ef æ fæti skylldi fara med hlidinni og la þar einstigi. flugahamrar vorv fyrir nedan en hatt fiall fyrir ofan og var eingi meiri hiallinn en einn madr mætti rida fram. Konungr svarar. nv skallttv skemtta oss j skidafari þinv. Hemingr seigir. ei er nv til fallid ath fara æ skidvm. þui seigir hann nu er snialaust og suellott og hartt miog j fiallinv. Konungr svarar. ei væri raun j ath fara æ skidvm ef alla vega væri sem beztt þath. þier radit. Hemingr ste þa æ skid og rennir fram vm hlidina ymezt upp edr ofan. og þath mæla aller at avngvan mann hefdi þeir sied jafnmiukliga fara. Hann rennir at konungi og mæler. hætta uillda eg nu skidafarinv. Konungr seigir. eigi skallttv nu fara meir en vm sinn. nu skallttv ganga hier vpp æ fiallid þuers og renna fyrir ofan og gæta at þu stoduir þik ef þu matt æ framanverdvm biorgunvm. þa seigir Hemingr. ef þier vilit dauda minn þa þurfv þier ecki ath fresta þui. Ef þv villtt ei giora sem eg byd seigir konungr þa mvnttv daudan fa. Litil er mer daudaduol j þui. enn þath er þo hverivm bodit ath leingia lif sitt þa skal eg og þath giora. Aslakr geingr ath konungi og bydr alla eigv sina til ath Hemingr væri þa nær lifi en adr. Konungr lieztt ecki fe hans vilia. ennda mvn hann ecki meir þreyta enn þessa favr skal hann fara seigir konungr. Hemingr

[1]) laug *Cd.*

bad sik avngvan mann vndan mæla. Hann snyr j brott fra audrvm. Oddr Ofeigsson med honum og mæler. illa skilivmztt vær hier vid godan dreing og syna skal eg þier j einum hlut ath eg vill(d)a ath þu lifdir. eg hefi hier linduk þann er verit hefir fordum dvkr hins helga Stefani hann mvn eg ath þier snara. þui eg veit einskis þess hattar kykuendi dait hafa er haftt hefir dukinn vm sik. enn ef þv rennir fyrir biorg ofan og lateztt þv þa þike mier dukren ei betri en annat lin. enn ef þier verdr lifs audit þo ath vit finnvmztt ei þa skalltv god skil æ giora þuiat eg gef þier hann ei. Hann svarar. vera mæ ath þu hafir ei launen god en ei skulv verri en eingi. Nu skilia þeir ath sinni. eingi madr hafdi vitad vidrtal þeirra. Konungr geingr fram æ biargit og aller menn hans. konungr hafde mavttvl raudan æ tyglvm yfir sier og spiot j hendi. Hann snyr dalk vr skikivnne og stydr nidr fiodrenni spiozens. Nikulas þorbergson stod ath baki honum og studdi haundum vm hann midian. og suo huerr þeirra hia avdrvm. Enn Hemingr geingr upp æ fiallit og stigr æ skid sin og rennir ofan fyrir fiallit. hann for suo hratt ath þath vorv olikindi Honum kastadi alldri suo ath ei yrdi vndir honum skidin. og þui næst kemr hann þar nidr sem þeir vorv og stydr nidr skidageislanum er hann kemr æfram æ biargit og hleypr j loptt vpp. skidin hlaupa fram vndan honum. hann kemr fotvm vndir sig æ framanverdv biarginv. hann reidir miog. Hann þrifr j ski(ki)una konungs. en konungr rekr nidr haufudit og steypir af sier fram skiki-unni. þa rykr Hemingr ofan fyrir biargit. Konungr mællti þa. skildi hier nv feigan og ofeigan. Oddr svarar. ei mundi þath verit hafa ath þit hefdit einn veg farit [826] þo ath þid hefdut badir latiztt. Hueria gisting ættlar þv huorum okrum seigir konungr. Villda eg seigir Oddr fara til þeirrar gistingar sem eg ættla Heming buna enn eg ættla ath Kristr mune ei vilia ath fiandinn verdi þier suo feigen ath hann taki vit þier j kuelld. Ei mætta eg þier minna veita seigir kongur enn þv naer þeirri hinni godv gisting er Hemingr er til komenn. Bidr þa taka hann og reka ofan fyrir bergit. þa suarar Halldor Snorrason. annat huortt mvnum vær nv aller lataztt Jslendingar edr eingi vorr ella. enn þo ættlvm vær aller navkut ath hafa fyrir oss. þath skal giora fyrir ord þin Halldor seigir konungr ath Oddr fari fra mier og veri j fridi j vetr. en fara til Jslandz j vor. enn þegar Oddr er j bruttu þa skal eg giora hann vtlaga fyrir allan Noreg. Oddr svarar. þat skal leyfa er lidit er. en ecki þiki mier saka ath skili med ockr. Nu verdr Oddr þegar j bruttv. Nu fer konungr þangat til veizlv er honum var fyrir buin og

er hann þar fyst ath sinni. Enn þat er fra Oddi ath segia ath hann for vt til Jslandz vm sumarit og kemr hann sidar til þessa mals.

Nv er fra Hemingi ath segia ath hann rauk ofan fyrir biargit. En honum for sem avdrum þeim sem stokua ath blies ut af honum klæden avll. Nv belger duken og bar ath biarginv og festir æ einum steini. og þar hangir hann og veit ecki til sin. og þa er hann vitkadiztt þa var hann felmsfullr og otta. og suo sem vit hans ox þa dregr ottan vr briostinu. þa mællttiztt hann vit einn saman. hui meigi suo ordit hafa er eg skal hier staddr vera. en eigi er gudi meira fyrir at lata mik j brutt komaztt enn lata mik vera hier komen med heilsv. nv mvn eg heit festa og heita eign minni allri. þat er helmingr fiar allz j Torgum. þui fe skal skiptta j þria þridiunga. skal eg einn gefa hinum helga Olafi konungi. annann þridivng skal gefa æ svdrvegum og þurfamonnvm enn hinn þridia skal eg gefa helgum Stefano og þui fe skal veria til auaxttar þar til er eg finn Odd Ofeigsson. og sudr ættla eg mier ath ganga ef gud vill at eg komiztt j burtt hiedan og eg mega jafnnær vera staddr dauda konungs sem hann þottiztt nv minum dauda. þa uar sem myrkuaztt nætr er hann sier lios mikit yfir sig koma og hann sier mann ganga epttir biarginv. sa tekr j haund honum og kipir Hemingi upp æ bergit. og sa talar vit hann. hier er komen Olafr hinn helgi til fundar vit þig fyrir þui ath eg villda ei ath þv fyrirfæriztt suo ath Haralldi konungi ykiztt æbyrgd j. en heit þitt skallttv efna og ganga sudr. en ef þv kemr fyrir okunna menn þa skallttv nefnaztt Leifr medan Haralldr konungr er æ lifi. veitaztt mvn þier þath er þv batt at vitridin mvnttu vera þa er Haralldr konungr læztt. enn ecki þiki mier þv vel launa mier lifgiofina ef þu veitir þier þar mikil afskiptti. nv mvnv vit skiliaztt fyst ath sinni. Nu sa Hemingr konunginn lida j loptt upp fra sier med liosi. en Hemingr fiek sier skip og reri vt j Torgar. Hann geingr til kirkiv og sa hann þar biortt log og þar erv þeir æ bænum Aslakr og Biorn . . . .[1]

## (ÞATTR AUDUNAR VESTFIRZKA.)

57. [828] Madr hiet Audun vestfirdzkr og fielitill. hann var æ vist med þeim manni er Þorstein hiet og var frændi hans. þat sumar kom skip vestr j Vadel. hiet Þorir styrimadr og for hann til vistar med Þorsteini

[1]) *Afskriveren har her ladét 1½ Spalte ubeskreven i Codex, i den Tanke senere at fuldstændiggjöre Fortællingen.*

þui ath su var bezlt vist. Audun var styrimanni radhollur og selldi varning hans j goda skulldarstadi er honum var kunnegtt fyrir. Styrimadrinn baud honum laun fyrir. en hann kaus ath fara vtan med honum. þorir kuad honum heimilltt ath vera æ skipi med honum. Audun seigir þorsteini ættlan sina og kuad miog æ endum standaztt þa er hann hefde selltt saudfe sitt til biargar modur sinni og þæ voru epttir .iij. merkr silfrs og hafde hann þæ ættlad henne .iij. vetra biorg med þorsteini. þorsteinn kuad hann likligan til giæfu. og for hann vtan vm sumarid med þori. Og er þeir koma vm haf þæ baud þorir (honum) til vistar med sier æ Mæri þar sem hann atti bu og var þar gott ath vera. og spyr þorir huad hann ættladi fyrir sig ath leggia. en vita skallttv ættlan mina ath eg ættla til Grænlandz og er þier heimillt ath fara med mier. Audun kueztt þath vilia. og fara þeir nv annad sumar til Grænlandz og kuomu j Eiriksfiord og vistuduztt þar aller hinv feemeiri menn enn hinir foru j Vestrbygdir. og suo giordi Audun og tok sier þar uist. Eirekur hiet veidimadr Grænlendinga. hann hafdi ueitt biarndyr eitt ækafa fagrtt og raudkinna. og er Audun vissi þat faladi hann dyrit. veidimadrinn sagdi honum þath eigi haglegtt ath gefa vid alla eigu sina. og veit eg ath þath mvn æ endum standaztt. Audunn lieztt þat ei hirda og kauper dyrit og gaf þar fyrir aleigu sina.

Hann for nu til Noregs med þori og baud þorir honum med sier ath vera. enn hann lieztt fara mundu med byrdingsmonnum sudr til Danmerkr æ fund Sueins konungs Vlfssonar og gefa honum dyrit. þorir kuad þath hættvmikid ath fara med gersimar slikar. so mikill ofridr sem er j milli Haralldz konungs og Sueins konungs. Sidan for Audun sudr æ Haurdaland og var þar fyrir Haralldr konungr æ veizlu. Konungi var sagtt ath þar var komit biarndyr og hin mesta gersemi. Hann sendi epttir þeim er atti. Audun for æ konungs fund og kuaddi hann. Konungr tok kuediu hans og mælltti. attu gersemi mikla. Hann kueztt eiga gersemi og sagdi ath þath væri eitt biarndyr. Villttv selia mier vid sliku verdi sem þu keypttir. Hann kueztt þath ei vilia. Konungr mællti. þath er og ei rett mællt. villttv fyrir tuenn verden þuilik sem þu keypttir. og er þæ æuogstr þier j þui og samir þat ef þu gaftt hier fyrir alla eigu þina sem þu seigir. Audunn lieztt þath ei vilia. Konungr mællti. villttv gefa mier þæ. Hann kuad eigi þath vera. Konungr spyr huad hann vill þæ af giora. Audvn mællti. eg ættla sudr til Danmerkr og gefa Sueini konungi. Haralldr konungr mællti. huort er ath þu ertt madr suo heimskr ath þu veiztt eigi ofrid hier j milli landa. edr ættlar þu gipttu þina suo miklu meiri enn annarra manna

ath þu munir komaztt þar med gersemar er adrir megu varla fara lausir þo ath aunguar hafi sakir. Audun mællti. þath mun nu æ ydru valldi vm mina ferd og optt hefi eg þat heyrtt ath þid Sueinn konungr hafit deilld illa og ma vera ath mig saki þath ecki. Konungr mællti. eg ættla þat rad ath þu farer leidar þinnar og mæ vera ath þu verder giæfumadr. enn þath vil eg ath þier eiga ath þu seigir mier fræ ferd þinne. Audun hiet þui.

Sidan for hann sud*r* fyrir land og aust*r* j Vik og suo til Danmerk*r*. og var vppi þæ fied alltt og vard hann þæ ath bidia matar fyrir þæ bæda. Eitt kuelld kom hann til þess mannz er Aki hiet. hann var ærmadr Sueins konungs. og seigir Audun honum vm ferd sina og beiddi hann vista naukura fyrir dyrit er þæ var ath bana komit. en hann kueztt mundu selia honum vistir. Audun kueztt ecki hafa til fyrir ath gefa. enn eg villdi giarna fæ Sueini konungi dyrit. Armadr suarar. eg vil eiga halftt dyrit og mattu sia ath dyrit mun deyia nu ef þu velld*r* einn vm. Enn er Audun sæ j huertt efni komit var þæ tok hann þenna kost ath hann selldi honum halftt dyrit. og fara nu þadan æ konungs fund og margtt manna med þeim. Armadr kuaddi konunginn og stod fyrir bordinu og hann Audun. Konungr spyr Audun huerr vtlend*r* hann væri. Hann suarar. eg er islendzk*r* og komen af Noregi og ad*r* af Grænlandi. og ættla eg ath færa þier biarndyr þetta og keyptta eg þat allri eigu minni. eg kom æ fund Harallz konungs og leyfdi hann mier ath fara sem eg villda þott hann nædi ei ath kaupa. enn þæ herra er eg sotta heim Aka þenna þæ var farid fenu. en eg var ath þrotum komen og suo dyrit. enn nu er orden galle æ giofenni þui hann villdi huorki vit hialpa mier nie dyrinu nema hann ætti halftt. Konungr mællti. er suo Aki sem mad*r*en seigir. Aki kuad hann satt eitt seigia. og villda eg þui gef(a) honum halftt dyrit. Konungr mællti. þotti þier þath til liggia þar sem eg setta þig [829] mikinn mann vr litllum og heftta þat er mad*r* giordiztt til ath færa mier gersemi og gaf þar fyrir alla eigu sina. og þath rad sæ Haralldr konungr ath lata hann fara j fridi og er hann ouin minn. nu væri þath maklegtt ath eg lieta drepa þig. og far nu þegar or landi brutt og kom alldri mier j augsyn. kann eg þier Audun slika þauk sem þu giæfir mier alltt dyrit og ver med mier bædi leingi og þo velkomen. Og þath þekttiztt hann. Og eitt sinn mællti Audun. herra sagdi hann brutt fysir mik nu Konungr suarar seintt og spyr þo huad hann vili. hann sagdiztt vilia sudr ganga. Konungr mællti. ef þu villdir ei suo god rad þæ mundi mier

ath þikia. enn nu mvn eg fæ þier fe og fauruneyti med palmorum. Og bad hann nu einkum til sin koma er hann kiæmi apttr.

Audun for til Roms. og er hann for apttr tok hann sott og giordi herfiligan. geck vpp fied fyrir honum og tok hann sidan stafkallz stigh[1] og vard bædi magur og osælegur. og kom aptr j Danmork ath paskum og þar sem konungr var þæ staddr. Audun þordi ei ath lata sia sig og var j kirkiuskoli og ættladi þæ ath ganga fyrir konung er hann geingi til aptantida. En er hann sæ konung og hirdina fagrbuna þæ þordi Audun vist ei ath lata sia sig. Enn er konungr for til hallar ath drecka þæ mathadiztt Audun vti hia kirkiu sem sidr er til pilagrima medan þeir hafa ei kastad staf og skreppu. Enn er konungr for til nattsaungs ættladi Audun ath hitta konung. en suo mikid sem honum þotti fyrir vm kuelldit þæ iok nu mikid æ er hirdin var druken. Og er þeir geingu inn þæ sæ konungr mannen og sæ ath hann hafdi ei frama til vid hann ath tala. og er hirdin geck inn þæ veik konungr vt og mælltti. gangi sæ fram er mik vill hitta. þæ geck Audun fram og fiell til fota honum. en konungr kenndi hann varla. þæ tok konungr j haund honum og bad hann velkomen og mælltti. og hefir þu skipztt. En hirdin hlo ath honum. Konungr bad þæ ei þath giora þui ath hann hefir betr sied fyrir saleni en þier. Sidan var honum giaur laug og fiekk konungr honum þau klædi er hann hafdi haftt vm faustuna. konungr baud honum med sier ath vera og giora hann skutulsuein sinn. Hann mællti. þat er vel bodit herra enn þo ættla eg til Jslandz. Konungr mællti. vndarliga er sligtt kosit. Audun mælltti. eigi mæ eg þath vita ath vera hier fullsæll en modir min trodi stafkallz stig æ Jslandi. þui ath nu er liden su stund er eg lagda mitt fram fyrir hana. Konungr mællti. vist munttu verda giæfumadr. sæ einn var nu hlutren til ath mier mundi ei mislika ef þu villdir burtt fra mier. enn ver nu med mier vnz skip buaztt. Hann kueztt þath giarna vilia.

Og einn dag þæ er æ leid vorit geck konungr æ bryggiur og voru menn þæ j bunadi til ymsra landa j Austrveg edr Saxland edr til Suiþiodar edr Noregs. sidan kuomu þeir ath einu skipi favgru og voru þar menn ath bua þath. Konungr mælltti. huern veg liztt þier æ skip þetta. Vel seigir Audun. Konungr mællti. þetta skip vil eg gefa þier og launa þier biarndyrit. Audun þakar konungi giaufina Og er stund leid og skip var buit þæ mællti konungr. nu villttv æ brutt fara þæ mun eg nu ecki letia þig. enn þath hefi eg spurtt ath auræfi eru vida fyrir Jslandi og hætt skipum miog og mæ þath henda ath þu

[1]) stigli *Cd.*

briotir skipit en tynir fenu og litt sier þat þæ ath þu hafir fundit Suein konung og færtt honum hinu mestu gersemi. tak þu hier eina ledrhosu fulla af silfri. ei erttu þæ felaus ef þu helldr þessu fe. enn verda mæ ath þu tynir þessu fe og mæ þæ enn litt sia ath þu hafir fundit Suein konung og gefit honum aleigu þina. Og dro þa hring af hendi sier ena mestu gersemi og gaf honum. Konungr mællti þæ. þott suo illa beri til ath þu briotir skipit en tynir fenu þæ erttu ei felaus er þu kemr æ land ef þu helldr hringinum og mæ þæ sia ath þu hefir fundit Suein konung. enn radlegtt þiki mier ef þu att naukrum gaufgum manni gott ath launa þæ gef þu honum hringenn þui ath tignum manne somir. og far nu vel.

Sidan for hann sem leid liggr vm Eyrasund og sotti sunnan med landi til Noregs og suo til kaupangrs. og var Haralldr konungr þar fyrir. Audunn þurftti þæ marga þionusttumenn. sidan geck hann æ konungs fund og kuaddi hann. Konungr tok vel kuediu hans og bad hann drecka med sier. og suo giordi hann. þæ mællti konungr. færdir þu Sueini konungi dyrit. Jæ herra seigir hann. Hueriu launadi hann þier. Audunn mællti. þat fyrst ath hann þæ þat. Konungr mællti. launad munda eg þier þui hafa edr launadi hann þier fleira. Hann gaf mier math og silfr mikit til Romferdar. Maurgum gefr Sueinn konungr fe þo ath eigi færi honum gersemar. og munda eg hafa gefit þuiligtt fe. edr huad gaf hann þier fleira. Hann baud mier hirdvist er eg kom fra Romi sunnan stafkall og ath dauda komen og gaf mier klædi þau er hann sialfr hafdi borit vm faustu. Konungr mællti. skylltt þotti mier ath hann sperdi ecki math vid þig edr faustuklædi. þath er ei suo mikils vertt þat mæ vel giora vit stafkalla. og giortt munda eg sligtt hafa. edr huad var þæ enn fleira. þæ baud hann mier ath giora mik skutulsuein sinn. Konungr mællti. þath var mikell somi og munda eg giortt hafa þat. edr hueriu launadi hann enn. Audunn suarar. hann gaf mier knor einn med aullum reidingi og farmi þeim er hingad er beztt farid j land. Konungr mællti. þat var stormannlega gefit og munda eg hafa launad þessu. edr huar nam stadar vm launen. Audunn mællti. hann gaf mier mikinn siod fullan af silfri og kuad mig þæ ei fielausan þo ath skip mitt bryti vit [333] Jsland. Konungr mællti. þath var ægiætliga giortt og eigi munda eg þath giortt hafa og af hendi munda eg þikiaztt leyst hafa ef eg hefda gefit þier skipit huad sem æ yrdi sidan. edr huortt namu hier stadar launin. Audun mællti. hann gaf mier hring þenna. og liet suo mega ath beraztt ath eg tynda fenu aullu en sagdi mik ei felausan ef eg hefda hringin. og bad mik ei loga nema

eg ætta naukrum tignum manni suo gott ath launa ath eg villda gefa honum hringen. en nu hefi eg þann fundit. þui ath þier attud kost herra ath taka lif fra mier enn eignaztt gersemi mina. en þu leztt mik fara j fridi þo ath adrir nædi eigi og hefi eg af þier alla giæfu hlotit. Konungr mællti. vlikr er Sueinn konungr flestum monnum þo ath med ockr sie fætt. en þiggia myn eg hringen og ver med mier. en eg mun lata bua skip þitt og fæ þier vist sem þu villtt. Og þath þæ Audun. Enn þæ er hann er albuenn mællti konungr. ecki mun eg storum þier gefa. þigg ath mier suerd og skikkiu. þath var huortueggia gersemi. Hann for til Jslandz vm sumarit og kom vt vestr j Fiordu og vard hinn mesti giæfumadr. Fra honum er komen god ætt og þangad atti ath telia þorsteinn Gyduson og margir adrir godir menn.

## (ÞATTR SNEGLUHALLA.)

58. (þ)ath er vpphaf þessar frasagnar ath Haralldr konungr Sigurdarson ried fyrir Noregi. þath var j þann tima er Magnus konungr frændi hans var andadr. Suo er sagtt ath Haralldr konungr var allra manna vitrazttr og radugazttr. vard þath og flest ath radi er hann lagdi til. hann var skalld gott og jafnan kastadi hann hædyrdum ath þeim monnum er honum syndiztt. þoldi hann og allra manna beztt þott ath honum væri kastad klamyrdum þæ er honum var gott j skapi. Hann atti þæ þoru dottur þorbergs Annasonar. Honum þotti mikit gaman ath skalldskap og hafdi jafnan þæ med sier er kueda kunnu. þiodolfr hiet madr hann var islendzkr og ættadr vr Suarfadardal kurteis madr og skalld mikit. hann var med Haralldi konungi j hinum mestum kiærleikum.[1] kalladi konungr hann haufutskælld sitt og virdi hann mest allra skallda. hann var ættsmar og menntr vel avfundsiukr vit þæ er til kuomu. Haralldr konungr elskadi miog Jslendinga. gaf hann til Jslandz marga goda hluti. kluku goda til þinguallar. og þæ er hallæri þat hid mikla kom æ Jsland er ecki hefir sligtt komit annad þa sendi hann vt til Jslands fiora knorru hladna med miol sinn j huern fiordvng. og liet flytia j brutt fatæka menn sem flesta af landinu.

59. Bardr hiet madr og var hirdmadr Halldz konungs. hann sigldi til Jslandz og kom vt ath Gasum og vistadiztt þar vm vetrenn. Sæ madr tok sier far med honum er Halli hiet. og var kalladr Snæglu-

[1]) hann *tilf. Cd.*

halli. hann var skalld gott og ordgreppr mikill. Halli var hær madr og halslangr herdilitill og handsidr og liotlimadr. hann var ættadr vr Fliotum. þeir sigldu þegar þeir voru bunir og haufdu langa vtivist. toku Noreg vm haustit nordr vit þrandheim vid eyiar þær er Hitrar heita og sigldu sidan inn til Agdaness og lagu þar vm nott. Enn vm morgenen sigldu þeir inn epttir firdenum liten byr. Og er þeir kuomu inn vm Rein sau þeir ath langskip þriu reru innan epttir firdinum. dreki var hid þridia skipit. Og er skipen r(e)yru hia kaupskipenu þæ geck madr fram vr lyptingunne æ drekanum j raudum skarlazklædum og hafdi gullhlad vm enni bædi mikell og tigulegr. þessi madr tok til orda. huer styrir skipenu edr huar voru þier edr huar toku þier fyst land edr huar lagu þier j nott. þeim vard næsta ordfall kaupmonnum er suo var margs spurtt. enn Halli suarar þæ. vær vorum j vetr æ Jslandi. en yttum af Gasum. enn Bardr heitir styrimadr. enn tokum land vid Hitrar. enn lagum j nott vit Agdanes. þessi madr spurdi. er reyndar var Harralldr konungr Sigurdarson. sard hann yd(r) ei Agdi. Eigi enna seigir Halli. Konungren brosti ath og mællti. er naukur til rads vm ath hann mvni enn sidar meir veita ydr þessa þionuzttv. Ecki sagdi hann Halli. og bar þo einn hlutr þar mest til þess er vær forum einga skaum af honum. Huat[1] var þath seigir konungr. Halli vissi giorla vid huern hann taladi. þath herra seigir hann ef ydr forvitnar ath vita at hann Agdi beid ath þessu oss tignari manna og vætti yduar þangat (j) kuelld og mun hann þæ giallda af haundum þessa skulld otæftt. þu muntt vera ordhækr mikill seigir konungr. Ei er getit orda þeirra fleiri ath sinni. Sigldu[2] þeir kaupmennerner inn til kaupangs og skipudu þar upp og leigdu sier hus j bænum. Fam nottum sidar kom konungr inn apttr til bæiar og hafdi hann farit j eyiar vt ath skemtta sier. Halli bad Bard fylgia sier til konungsins og kueztt vilia bidia hann vetrvistar. enn Bardr baud honum med sier ath vera. Halli bad hann hafa þauk fyrer enn kueztt med konunginum vilia vera ef þess væri kostur.

60. [831] Einn dag geck Bardr til konungs og Halli med honum. Bardr kuaddi konung. konungr tok vel kuediu hans og spurdi margs af Jslandi edr hu(o)rtt hann hefdi flutt vtan naukra islendzka menn. Bardr sagdiztt flutt hafa einn islendzkan mann og heitir hann Halli og er nu hier herra og vill bidia ydr vetrvistar. Halli geck þæ fyrir konunginn og kuaddi hann. Konungren tok honum vel og spurdi huortt

[1]) hnar *Cd.* [2]) silgdu *Cd.*

hann hefdi suarad honum æ firdinum er vær fundumztt. Sia hinn sami segir Halli. Konungrin sagdiztt ei spara mundu mat vid hann og bad vera ath bui sinu naukru. Halli kueztt med hirdenni vera vilia edr leita sier annars ella. Konungren kuad suo fara iafnan. ath mier er vmkentt ef vor vinskapr fer ei vel af hendi þo ath mier þiki varla suo vera. erud þier einradir Jslendingar ok osidblandnir. nu ver ef þu villtt og æbyrgst þig sialfr huad sem j kann gioraztt. Halli kuad svo vera skylldu og þakadi konunginum. Var hann nv med hirdenni og likadi huerium manni vel til hans. Sigurdr hiet sessunautr Halla gamall hirdmadr og giæfr. Sæ var sidr Haralldz konungs ath eta einmælltt. var fyst borin vist fyrir konung sem von var og var hann þæ iafnan miog mettr er vistin kom fyrir adra. enn þæ er hann var mettr klappadi hann med knifskaptti sinu æ bordit ok skylldi þæ þegar rydia bordin og voru margir þæ huergi næri mettir. þath bar vit eitt sinn er konungr geck vti vm stræti og fylgdin med honum og voru margir þæ huergi nærri mettir. þeir heyrdu j eitt herbergi deilld mikla. þar voru ath sutari og iarnsmidr og þar næst fluguztt þeir æ. Konungvren nam stadar og sæ æ vm stund. sidan mælltti hann. gaungum brutt hier vil ek aunguan hlut ath eiga. en þu þiodolfr yrk vm þa visu. Herra seigir þiodolfr ei samir þath. þar sem ek er kalladr haufudskalld yduartt. Konungr suarar. þett(a) er meiri vanndi enn þu muntt ættla. þu skalltt giora af þeim alla menn adra en þeir eru. lat annan vera Sigurd Fafnisbana enn annan Fafni og kenn þo huern til sinnar idnar. þiodolfr kuad þæ visu.

Sigurdr eggiadi sleggiu
snaak valigrar brækar
enn skapdreki skinna
skreid af leista heidi.
monnum leiztt ormr adr ynni
iluegs buen kiliu
nautaledrs æ nadri
neflangr konungr tangar.

þetta er vel kuedit seigir konungr og kued nu adra og lath nu vera annan þor enn annan Geirraud iotun og kenn þo huern til sinnar idnar. þa kuad þiodolfr visu.

Varpp vr þrætu þorpi
þorr smidbelgia storra
huaftt elldingum holldnu
hafra kiötz ath iotni.
hliodgreipum tok hudar
hraukikafls af afli
gladr vit galldra smidiu
Geirraudr sin þeirri.

Ecki ertlu mælltr vm þath segir konungr ath þu ertt vrleysingr til skalldskapar. Og lofudu aller ath vel væri ortt. Ecki uar Halli vit þetta. Og vm kuelldit er menn satu vit dryck kuadu þeir fyrir Halla og saugdu hann ei mundu suo yrkia þott hann þættiztt skalld mikit. Halli kueztt vita ath hann ortti ver enn þiodolfr. ennda mun þæ first vm fara ef

eg leita ecki vit ath yrkia ennda se eg ecki vit seigir Halli. þetta var þegar sagtt konungi og snuit suo ath hann þættiztt ei minna skalld en þiodolfr. Konungr kuad honum ei ath þui verda mundu. enn vera kann ath vær fæum þetta reyntt af stundu.

61. þath uar einn dag er menn sætu yfir bordum ath þar geck inn j haullina duergr einn er Tuta hiet. hann var friskr ath ætt. hann hafdi leingi verit med Haralldi konungi. hann var ei hæri enn þreuett barn en allra manna digrazttr og herdimestr. haufudit mikit og elldiligtt hrygrinn ei allskamr en sylltt j nedan þar sem fætrnir voru. Haralldr konungr atti bryniu þæ er hann kalladi Emmu. hann hafdi latit giora hana j Myklagardi. hun var suo sid ath hun tok nidr æ sko Haralldi konungi þæ er hann stod rettr var hun aull tuefaulid og suo styrk ath alldri festi iarn æ. Konungrin hafdi latit fara duergen j bryniuna og setia hialm æ haufut honum og gyrdi hann suerdi. sidan geck hann j haullina sem fyrr var ritad og þotti madrinn vera undrskapadr. Konungrinn kuaddi sier hliods og mælltti. sæ madr er kuedr um duerginn visu suo ath mier þiki vel kueden þiggi ath mier knif þenna og belltti. og lagdi fram æ bordit fyrir sig gripina. enn uitit þath uist ef mier þikir ei vel kueden ath hann skal hafa oþok mina enn missa gripanna beggia. Og þegar er konungr hafdi flutt erendi sitt kuedr madr visu vtar æ becken og uar þat Snægluhalli.

Færdr syncztt mier frændi
Frisa kyns j bryniu
geingr fyrir hird j hringum
hialmfalldinn kurualldi.
flærath elld j ari
vthlaupi vanr Tuta
se eg æ sidu leika
suerd rughleifa skerdi.

Konungr bad færa honum gripuna. og skallttu næ hier æ sannmæli þuiat uisan er uel kueden. þath var einn dag er konungren var mettr ath konungr klappadi knifi æ bordit og bad rydia. þionuzttumenn giordu suo. þæ uar Halli huergi næri mettr [832] tok hann þæ styki eitt af diskinum og hielltt epttir og kuad þetta.

Hirdi eg ei
huad Haralldr klappar
læt eg gnada graun
geing eg fullur ath sofa.

Vm morgunen epttir er konungr uar komen j sæti sitt og hirdin geck Halli j hollina og fyrir konungenn. hann hafdi skiolld sinn og suerd æ baki sier. hann kuad visu.

Selia mun eg uit sufli
suerd mitt konungr verda
og rymskyndir randa
raudan skiolld vit braudi.

hungrar hilmis dreingi
helldr gaungum vær suangir
mier dregr hrygg ath huoru
Haralldr suelltir mik bellti.

Eingu suarar konungr og liet sem hann heyrdi ei. enn þo vissu aller menn ath honum mislikadi. Litlu sidar uar þath einn dag er konungrin geck vti vm stræti og fylgdin med honum. þar var og Halli j faur. hann snaradi fram hia konunginum. Konungren kuad þetta.

Huertt stiller þu Halli.

Halli suarar

hleyp eg fram ath kyrkaupi.

graut munttu giorfan lata

segir konungr.

gior matr er þat smiorfan

segir Halli. Hleypr hann Halli þæ upp j gardinn og þangad sem var elldahus. þar hafdi hann latit giora graut j steinkattli og settiztt til og etr grautin. Konungrinn sier ath Halli huerfr vpp j gardinn. hann kuaddi til þiodolf og .ij. menn adra ath leita Halla. konungr veik og upp j gardinn. þeir finna hann þar sem hann æt grautinn. Konungrin kom þæ ath og sæ huad Halli hafdiztt ath. Konunguren var hinn reid-aztti og spurdi Halla þui hann for af Jslandi til haufdingia til þess ath giora af sier skom ok gabb. Latit eigi suo herra seigir Halli. jafnan sie ek ydur ei drepa henndi vid godum sendingum. Halli stod þæ upp og kastadi nidr katlinum og skall vit haddan. þiodolfr kuad þæ þetta.

Haddan skall en Halli
hlaut offylli grautar
hornsponu kued ek honum
hlyda betr en prydi.

Konungrin geck þæ brottu og var allreidr. Og vm kuelldit kom eingi matr fyrir Halla sem fyrir adra menn. og er menn haufdu snætt vm stund kuomo enn .ij. menn og baru j milli sin trog mikit fulltt grautar og med spon og settu fyrir Halla. Hann tok til og æt sem hann lysti og hætti sidan. Konungr bad Halla eta meira. hann kueztt ei mundu eta meira ath sinni. Haralldr konungr bræ þæ suerdi og bad Halla eta grautinn þar til er hann spryngi af. Halli kueztt ei mundi spreingia sig æ grauti enn seigir konung næ mundu lifi sinu ef hann væri æ þath einhugi. Konungr seztt þæ nidr og slidrar suerdit.

62. Naukru[1] sidar var þath einn dag ath konungr tok disk einn

[1]) nakrv *Cd*,

af bordi sinu og var æ steikttr gris og bad Tutu duerg færa Halla. og bid hann yrkia visu ef hann vill hallda lifinu og hafa kuedit adr þu kemr fyrir hann og seg honom ei fyr en þu kemr æ mitt golf. Ecki er ek þess fus seigir Tuta þuiat mier likar vel vit Halla. Se ek sagdi konungr ath þier þikir god visan su er hann ortti vm þig og munttv giolla heyra kunna. nu far j burtt j stad og gior sem ek byd. Tuta tok nu vid diskinum og geck æ mitt golfit og mællti. þu Halli yrk visu ath bodi konungs og haf ortt adr ek kem fyrir þik ef þu villtt halda lifinu. Halli stod þæ upp og retti hendr j moti diskenum og kuad visu.

Gris þæ greppr ath ræsi
grunntrauduzttum daudan
niordr sier burg hia bordi
bauglandz fyrir stannda.

runa sidr lit ek raudar
ræd ek skiott gera kuædi
rana hefir seggr af suine
send heill konungr brenndan.

Konungr mællti þæ. nu skal gefa þier vpp reidi mina Halli þui ath visan er vel kueden suo skiott sem til var tekit.

63. Fræ þui er sagtt einn dag ath Halli geck fyrir konungen þæ er hann var gladr og katr. þar uar þæ þiodolfr og margtt annarra manna. Halli sagdiztt hafa ortt drapu vm konungenn og bad sier hliods. Konungren spurdi huortt Halli hefdi naukud kuædi fyri ortt. Halli kueztt ecki hafa ortt. þat munu sumir menn mæla seigir konungr ath þu tak-iztt mikit æ hendr slik skalld sem ortt hafa vm mik adr eptir naukrum malefnum. eda huad syneztt þier rad þiodolfr. Ecki kann ek herra ath gefa ydr rad seigir þiodolfr enn hitt mun hoti nærr ath ek mun kunna ath kenna Halla heilrædi. Huertt er þath seigir konungr. þath fyst herra ath hann liugi ecki ath ydr. Huad lygr hann nu seigir konungr. þath lygr hann ath hann sagdiztt ecki kuædi ortt hafa seigir þiodolfr. enn ek seigi hann ortt hafa. Huertt er kuædi þath seigir konungr. edr vm huad er ortt. þiodolfr suarar. þath kollum vær Kolluvisur er hann ortti vm kyr er hann giætti vt æ Jslandi. Er þath satt Halli seigir konungr. Satt er þath seigir Halli. þui sagdir þu ath þu hefdir ecki kuædi ortt seigir konungr. þui seigir Halli ath litil kuædismynd mundi æ þui þikia ef þetta skal heyra og litt mun þui verda æ loptt halldit. þath uilium vær fyrst heyra seigir konungr. Skemt mun þæ fleira seigir Halli. Hueriu þæ seigir konungr. Kueda mun þiodolfr þæ skulu Sodtrogsuisur er hann ortti ut æ Jslandi seigir Halli og er þath vel ath þiodolfr leitadi æ mik eda afvirdi [533] fyrir mier þui ath vpp eru suo komnir j mer bitar og iaxlar ath ek kann vel ath suara honum jofnum ordum. Konungr brosti ath og þotti honum gaman ath etia

þeim saman. Huern veg er kuædi þat edr umm huad er ortt seigir konungr. Halli suarar. þat er ortt vm þath er hann bar vt auskv med audrum syskinum sinum og þotti þæ til einkis annars fær fyrir vizmuna sakir og vard þo vm ath sia ath ei væri elldr j þui ath hann þurftti alltt vit sitt j þann tima. Konungr spyr ef þetta væri satt. Satt er þath herra seigir þiodolfr. þui hafdir þu suo ouirdulegtt verk seigir konungr. þui herra seigir þiodolfr ath ek villdi flyta oss til leika enn ecki voru verk æ mik lagin. þath olli þui seigir Halli ath þu þottir ei hafa verkmannz vit. Ecki skulud þit vid talaztt seigir konungr en heyra vilium vær kuædin bædi. Og suo vard ath vera. kuad þa huor sitt kuædi. Og er lokit var kuædunum mælltti konungren. litit er kuædit huorttueggia enda munu litil hafa verit yrkisefnin. og er þat þo enn minna er þu hefir ortt þiodolfr. Suo er og herra seigir þiodolfr. og er Halli ordhuass miog. enn skyldara þætti mier honum ath hefna faudr sins enn eiga sennr vid mik hier j Noregi. Er þath satt Halli seigir konungr. Satt er þath herra seigir hann. Hui forttu af Jslandi til haufdingia vid þath ath þu hafdir eigi hefntt faudr þins seigir konungr. þui herra seigir Halli ath ek var barn ath alldri er fadir minn var vegen og toku frændr malit og sættuztt æ fyrir mina haund. enn þath þikir illt nafn æ voru landi ath heita gridnidingr. Konungrinn suarar. þath er naudsyn ath ganga ei æ grid edr sættir og er vr þessu alluel leyst. Suo hugda ek herra seigir Halli. enn vel mæ þiodolfr tala stormannlega vm slika hluti þui ath aunguan veit ek iafngreypilega hefntt hafa sins faudr sem hann. Uist er þiodolfr liklegr til ath hafa þath hraustliga giortt seigir konungr edr huad verkum giortt vm þath ath hann hafi þath framar giortt enn adrir menn. þath hellztt herra seigir Halli ath hann æt sinn faudurbana. Nu æpttu menn vpp og þottuztt alldri slik undr heyrtt hafa. Konungrenn broste ath og bad menn vera hlioda. Gior þetta satt er þu seigir Halli seigir konungr. Halli mælltti. þath hygg ek ath þorliotr hieti fadir þiodolfs. hann bio j Suarfadardal æ Jslandi og var hann fætækr miog enn atti fiolda barna. enn þath er sidr æ Jslandi æ haustum ath bændr þinga til fætækra manna og var þæ eingi fyrri til nefndr enn þorliotur fadir þiodolfs. og einn bondi var suo storlyndr ath honum gaf sumargamlan kalf. sidan sæker hann kalfen og hafde æ taum og var lykkia æ enda taumsins. og er hann kemr heim ath tungardi sinum hefr hann kalfen vpp æ gardin. og var furdulega hær garduren en þo var hærra fyrir innan þui ath þar hafdi verit grafit torf til gardzins. sidan fer hann inn yfir gardinn enn kalfrinn velltr vt af gardinum. en lyckian er æ var taumsendanum braztt vm

hals honum þorlioti og kendi hann ei nidr fotum. hieck nu sinu meigin huorr og voru daudir badir er til var komit. drogu baurnin heim kalfin og giordu til matar og hygg ek ath þiodolfr hefdi oskertt sinn hlut af honum. Nærri hofi mundi þat seigir konungr. þiodolfr bræa suerdi og villdi hauggua til Halla. hliopu menn þæ j milli þeirra. Konungr kuad huoregum hlyda skylldu ath giora avdrum mein. leitadir þu þiodolfr fyrri æ Halla. Vard nu suo ath vera sem konungr villdi. Færdi Halli drapuna og mællttiztt hvn vel fyrir og launadi konungr honum godum peningum. Leid nu æ vetrinn og var alltt kyrtt.

64. Einarr uar madr nefndr og var kalladr fllvga hann var son Hareks or þiottu[1]. hann var lendr madr og hafdi syslu æ Halogalandi og finnferd af konungi og var nu j kiærleikum miklum vid konung enn þo elldi þar iafnan ymsu æ. Einar var veinardarmadr mikell. drap hann menn ef ei giordu alltt sem hann villdi og bætti aungvan mann. Einars var von til hirdarennar ath jolunum. þeim Halla og Sigurdi sessunaut hans vard talad til Einars. sagdi Sigurdr Halla fra ath eingi madr þordi ath mæla j moti Einari eda j adra skal ath leggia enn hann villdi og hann bætti ecki fe fyrir vig edr ran. Halli suarar. vændishaufdingiar mundu sliktt kalladir æ voru landi. Mæl þu varliga felagi seigir Sigurdr þui ath hann er litilþægr ath ordum ef honum er j moti skapi. þo ath þier sieud aller suo hrædder seigir Halli ath eingen yduar þori ath mæla eitt ord j moti honum þæ seigi eg þier þath ath eg skylldi kiæra ef hann giordi mier rangtt og þess get eg ath hann bæti mier. Hui þier enn audrum seigir Sigurdr. þath mundi honum synaztt seigir Halli. þar til þræta þier hier vm ath Halli bydr Sigurdi ath vedia hier vm. leggr Sigurdr hier vid gullhring er stod halfa mork enn Halli leggr vit haufud sitt. Einar kemr ath iolunum og sitr hann æ adra haund konungi og menn hans vt fra honum. var honum aull þionuztta veitt sem konungi sialfum. Og ioladag er menn voru mettir mælltti konungrin. nu vilium vær hafa fleira til gamans [834] en drekka. skallttu nu Einar seigia oss huad til tidinda hefir ordit j faurum ydrum. Einar suarar. ecki kann eg þath j frasagnir ath færa herra þo ath vær hnuskum Bufinna edr fiskimenn. Konungr suarar. seigit setliga þui ath vær erum litilþægir ath og þikir oss gaman at þui aullu þo ath ydr þiki litils vertt er jafnan standit j stridi. þath er þo herra hellztt ath seigia seigir Einar ath j fyrra sumar er vær kuomum nordr æ morkina mættu vær Jslandzfari einu og haufdu þeir vordit þangad sæhafa

[1]) þorottv *Cd.*

og setid þar vm vetrinn. bar eg æ hendr þeim ath þeir mundu att hafa kaup vit Finna fyrir utan yduartt lof edr mitt. enn þeir duldu og geingu ei vit enn oss þottu þeir otrulegir og beidda eg þæ ransoknar enn þeir syniudu þuerliga. eg sagda þath þæ ath þeir skylldi hafa þath er þeim væri verra og makligra og bad eg mina menn vopnaztt og leggia ath þeim. eg hafda fimm langskip og laugdu vær ath æ bædi bord og liettum ei fyr en hrodid var skipit. og einn islendzkr madr er þeir kaulludu Einar vardiztt suo vel ath hans maka fann eg alldri og vist var skadi ath vm þann mann og ei hefdum vær vnnit skipit ef sliker hefdi aller verit innanbordz. Jlla giordir þu þath Einar seigir konungr er þu drepr saklausa menn þo ath ei giori alltt sem þier likar beztt. Mun ek ei seigir Einar sitia fyrir hættu þeirri. enn mæla þat sumir menn herra ath þier giorit ei alltt sem gudrettiligaztt. en þeir reynduztt illa og fundu vær miken finnskrepp j skipinu. Halli heyrdi huad þeir tauludu og kastadi knifinum fram æ bordit og hætti ath eta. Sigurdr spurdi ef hann væri siukr. (Hann kuad þat ei) vera enn kuad þetta þo sott ver(r)a. Einar fluga sagdi læt Einars brodur mins er hann kueztt felltt hafa æ kaupskipinu j fyrra sumar og mæ vera ath nu gefi til at leita epttir botunum vit hann Einar. Tala ecki vm felagi seigir Sigurdr sæ mun vænzttr. Nei sagdi Halli ecki mundi hann suo vit mik giora ef hann ætti epttir mik ath mæla. Hliop hann þæ fram yfir bordit geck innar fyrir hæsætit og mælltti. tidindi saugdu þier Einar bondi þau mier acktta ærit miog i drapi Einars brodr mins er þier saugduztt felldan hafa æ kaupskipinu j fyrra sumar. nu vil eg uita huortt þu villtt nauckru bæta mier Einar brodur minn. Hefir þu ei spurtt at eg bæti eingan mann seigir Einar. Eigi er mier skylltt ath trua þui seigir Halli ath þier væri alltt illa gefit þo ath eg heyrda þath sagtt. Gack burtt madr seigir Einar annar mun verri. Halli geck ath sitia. Sigurdr spyr hue fariztt hefdi. Hann suarar og kueztt hafa hotun fyrir febætr. Sigurdr bad hann ei opttar koma æ þetta mal og sie laus vedianen. Halli kuad honum vel fara en æ skal koma opttar. Og annan dag epttir geck Halli fyrir Einar og mælltti. þath mal vil eg vekia Einar ef þu villtt naukru bæta mier brodur minn. Einar suarar. þu ertt seinþreyttr ath og ef þu dregst ei brutt þæ munttu fara slika faur sem brodir þinn edr verri. Konungren bad hann ei suo suara. og er þath frændunum ofraun og veit ei huers hugar huerium lier. en þu Halli kom ei apttr æ þetta mal þui ath stærri bockar verda ath þola honum sliktt en þu ertt. Halli suarar. svo mun vera uerda. Geck hann þæ til rums sins. Sigurdr fagnar honum vel og spurdi hue fariztt hafdi. Halli kueztt

hafa heitan fyrir febætr af Einari. þotti mer þath j hug seigir Sigurdr og sie laus vedianin. Vel fer þier (segir) Halli en æ skal ek koma þridia sinn. Gefa vil ek þier nu til hringinn sagdi Sigurdr ath þu latir vera kyrtt er þetta hefir þo naukud af mier til blotiztt j fyrstu. Halli suarar. synir þu huerr madr þu ertt og ecki mæ þier vm kenna huersu sem til vegar fer. en profa skal enn vm sinn. Og þegar vm morgunenn er konungr tok handlaugar og Einar fluga geck Halli ath honum og kuaddi konunginn. konungrinn spyr huad hann villdi. Herra seigir Halli. ek vil segia ydr draum minn. ek þottumztt vera allr madr annar enn ek er. Huad manni þottiztt þu vera seigir konungr. Ek þottumztt vera þorleifr skalld. enn hann Einar fluga þotti mier vera Hakon jall Sigurdarson og þottumztt ek hafa ortt vm hann nid og munda ek sumt nidit er ek uaknada. Sneri Halli þæ vtar epttir haullunni og kuad naukud fyrir munni sier og namu menn ei orda skil. Konungr mællttí. þetta var ecki draumr annar en hann dregr þessi dæmi saman. og suo mun fara med ykkr[1] sem for med þeim Hakoni Hladaialli og þorleifi skalld. og þath sama giorir Halli hann suifiztt einkis og megu vit sia ath bitit hefir nidit rikari menn en suo sem þu ertt Einar sem var Hækon iall. og mun þat munad medan Nordrlond eru bygd ok er verri einn kuidlingr ef munadr uerdr epttir en litil femuta vm dyran mann kueden. og gior suo vel og leys hann af med naukru. þier skulud rada herra seigir Einar og seg honum ath hann taki .iij. merkr silfrs af fehirdi minum er ek fieck honum sidarztt j siodi. þetta var sagtt Halla. geck hann ath finna fehirdinn og sagdi honum. Hann kuad vera .iiij. merkr silfrs j siodnum. Halli kueztt .iij. hafa skylldu. Halli geck þæ fyrir Einar og sagdi honum. Hafa mundir þu þath er j uar siodnum seigir Einar. Nei sagdi Halli audruuis skallttu na lifi minu en ek uerdi þiofr af fe þinu og sa ek ath þu hafdir þath ættlad mier. [33b] Og suo uar ath Einar hafdi þath ættlad Halla ath hann mundi þat er j uar siodnum hafa og þotti honum þath nog banasok. Geck Halli nu til sætis sins og syndi Sigurdi fied. Sigurdr tok hringinn og kuad Halla vel hafa til unnit. Hann suarar. eigi eru vit þæ iafner þegnar og tak hring þinn og niot manna beztt. en þier satt ath seigia þæ atta ek alldri skyll(tt) vid þenna mann er Einar hefir drepit og villda ek vita ef ek næda fenu af honum. Eingum manni erttu likr ath prettum seigir Sigurdr. Einar for brutt epttir jolin nordr æ Halugaland.

65. Vm vorit bad Halli konung orlofs ath fara til Danmerkr j kaupferd. Konungr bad hann fara sem hann villdi. og kom apttr skiott

[1]) ukkr *Cd.*

þui oss þikir gaman ath þier. og far varlega fyrir Einari flugu hann mun hafa illan hug æ þier og sialldan veit ek honum jafnsleptt tekiztt hafa. Halli tok sier far med kaupmonnum sudr til Danmerkr og suo til Jotlandz. Raudr hiet madr er þar hafdi syslu og rieztt Halli þar til uistar. þath bar til eitt sinn er hann skylldi hafa þing fiolmennt. og er menn skylldu þar mæla laugskilum sinum þæ uar suo mikit hareyste og gap ath eingi madr mætti þar malum sinum fram koma. og foru menn vit þath heim vm kuelldit. þath var vm kuelldit er menn kuomu til drykiar ath Raudr mælltti. þath væri radleitinn madr er rad fyndi til ath folk þetta alltt þagnadi. Halli suarar. þath fær ek giortt þegar ek vil ath hier skal huertt mannzbarn þagna. þath fær þu ei giortt landi seigir Raudr. Vm morgunen kuomu menn til þings og var nu sliktt op og gap sem hinn fyrra dag og vard aungum malum skilad. foru menn vit þath heim. þæ mælltti Raudr. villttu vedia vm Halli huortt þu fær hliodit æ þinginu edr ei. Halli kueztt þess buinn. Raudr suarar. legg vit haufut þitt en ek gullhring er stendr mork. þath skal vera seigir Halli. Vm morgunenn spurdi Halli Raud ef hann villdi vedianina hallda. Hann kueztt hallda uilia. Kuomu menn nu til þingsins og var nu sliktt op eda meira sem hina fyrri dagana. Og er menn vardi siztt hleypr Halli vpp og æpir sem hæst matti hann. hlydi aller menn mier er mals þorf. mier er horfin hein og heinasmior skreppa og þar med allur skrepuskrudi sæ er kallmanni er betra ath hafa enn ath missa. Aller menn þaugnudu. sumir hugdu ath hann mundi ær vordin en sumir hugdu ath hann mundi tala konungs eyrendi nauckur. Og er hliod fiekst settiztt Halli nidr og tok vit hringinum. Enn þegar menn sau ath þetta var ecki nema daruskapr þæ var hæreysti sem adr. og komst Halli æ hlaupi vndan þui at Raudr villdi hafa lif hans ok þotti þetta verit hafa hin mesta ginning. Letti hann ei fyrr en hann kom til Einglandz.

66. þa ried fyrir Einglandi Haralldr Gudinason. Halli fer þegar æ konungs fund og kueztt hafa ortt um hann drapu og bad sier hliods. Konungr let gefa honom hliod. seztt Halli fyrir kne konungi og flutti fram kuædit. Og er lokit var kuædinu spurdi konungr skalld sitt er var med honum huern veg væri kuædit. Hann kueztt ætla ath gott væri. Konungr baud Halla med sier ath vera enn Halli kueztt buen vera til Noregs adr. Konungr kuad þæ þann veg fara mundu af hendi vm kuædislaun vit þig sem vær niotum kuædisins þui ath eingin brodr verdr oss ath þui kuædi er einginn kann. sit nu nidr æ golfit en ek mun lata hella silfri j haufud þier og (haf) þæ þath er j hærinu lodir og

þikir mier þæ huortt horfa eptlir audru er vær skulum eigi næ ath nema kuædit. Halli suarar. bædi mun vera ath litilla launa mun vertt vera enda munu þessi launin og litil vera. lofa munu þier herra ath ek ganga vt naudsynia minna. Gack sem þu villtt seigir konungr. Halli geck þar til er skipsmidir voru og bar j hofut sier tioru og giordi sem diskr uæri og geck sidan inn og bad hella silfrinu yfir sig. konungr kuad hann vera braugdottan. og var nu helltt yfir hann og uar þath mikit silfr er hann feck. For hann sidan þangat er skip þau voru er til Noregs ættludu og uoru aull burttu nema eitt og var þar radinn fioldi manna med miklum þunga. en Halli hafdi of fiær og villdi giarna j burtt þui ath hann hafdi ecki kuædi ortt vm [1] konung annat enn kuedit endilausu og matti hann þui ecki kenna þath. Styrimadr bad hann fæ til rad ath Sudrmenn geingi vr skipinu og kueztt þæ vilia giarna taka vid honum enn þa uar komit ath uetri. Halli uar hia þeim j herbergium vm hrid. Eina nott let Halli illa j suefni og uar leingi adr þeir fiengu vakit hann. þeir spurdu huad hann hefdi dreymtt. Halli kuad lokit þui ath hann mundi bidia þæ fars hiedan fra. mier þotti madr koma ath mier ogrlegr og kuad þetta.

Hraung er þars hafnan þaungul
[836] helld ek vm siztt ek for selldag
huertt er sitk ath Ranar.
sumir eru j bud med humrum
liost er lysu ath gista
lennda ek vt vit strondu.
þui sit ek bleikr j bruki
blakir mier þarmr vm hnaka
blaker mier fyrir þinum h(naka).

Og er Sudrmenn vissu draum þenna re(du)zt þeir vr skipinu og þotti bani sinn ef þeir færi þar j. Halli reztt þegar j skip og sagdi ath þetta uar prettr hans enn eingi draumr. og toku þeir vt þegar þeir voru bunir og toku Noreg vm haustit. og for Halli þegar til Harallz konungs. Hann tok vel vid Halla og spurdi huortt hann hefdi þæ ortt vm adra konunga. Halli kuad þetta.

Ortta ek eina
vm jall þulu
verdrath drapa
med Daunum verri.
faull eru fiortan
og faung tiu.
opit er og aunduertt
aufugtt stigandi.
suo skal yrkia
sæ er illa kann.

Konungr brosti ath og þotti honum jafnan gaman ath Halla.

67. Haralldr konungr for vm vorit til Gulaþings og um dagenn

[1]) vinn *tilf.* *Cd.*

spurdi konungr Halla huersu honum yrdi til kuenna um þingit. Halli suarar.

Gott er Gulaþing þetta
giliv vit huad er vilium

Konungrinn for þadan nordr til þrandheims. Og er þeir sigldu fyrir Stad attu þeir þiodolfr og Halli budarvord ath hallda og uar Halli sæsiukr miog og læ vndir bati. en þiodolfr vard ath þiona einn. og er hann bar vistina fell hann vm fot Halla er stod vt vndan batinum. þiodolfr kuad þetta.

Wt stendr vnndan bati
ilfat. munttu nu gilia.

Halli suarar.

þion giori ek þann ath suemi
þiodolf læt ek mat sioda.

For konungrinn nu leidar sinnar vnztt hann kom j kaupangr. þora drottning var nu med honum og var hun litt till Halla. en konungr var vel til hans og þotti gaman ath Halla iafnan. þess er getit einn dag ath konungrinn geck vt vm stræti og fylgdin med honum. Halli var þar j faur konungrin hafdi auxi j hendi og aull gullreken en silfrvafit skapttit og silfrholkr mikell æ forskepttinu og þar j ofan steinn godr. þath var ægiætr gripr. Halli sæ iafnan til auxarennar. konungr fann þat bratt og spurdi huortt Halla litiztt vel æ auxina. Honum kueztt vel æ litaztt. Hefir þu sied betri auxi. Eigi ættla ek seigir Halli. Villttu lata serdaztt til auxarennar seigir konungr. Eigi seigir Halli. en vorkun þiki mier ydr ath þier vilid suo selia sem þier keypttud. Suo skal uera Halli seigir konungr tak med og niot manna beztt. gefin var mier ennda skal suo selia. Halli þakadi konungi. Vm kuelldit er menn kuomu til dryckiar taladi drottning vit konung ath þath væri undarlegtt og ei vel til skiptt ath gefa Halla þæ gripi er varla er otigna manna eiga fyrir klamyrdi sin en þæ fæ sumir litit fyrir goda þionuzttu. Konungr kueztt þui rada vilia huerium hann giæfi gripi sina. vil ek ei snua ordum Halla til hins verra þeim er tuirædi eru. Konungr bad kalla Halla og suo uar giortt. Halli laut honum. Konungr bad Halla mæla naukur tuirædisord vid þoru drottningu. og vit huersu hun þoler. Halli laut þæ ath þoru og kuad.

þu ertt makleguztt miklu
munar storum þath þora
flenna vpp ath enni
alltt ledr Haralldz redri.

Takit hann og drepi seigir drottning. vil ek eigi hafa hropyrdi hans. Konungr bad aunguan suo diarfan uera ath æ Halla tæki hier fyrir. enn ath þui mæ giora ef þier þikir aunnur maklegri til ath liggia hia mier og uera drottning og kanttu varla at heyra lof þitt. þiodolfr skalld hafdi farit til Jslandz medan Halli var j burttu fra konungi. þiodolfr hafdi flutt vtan af Jslandi hest godan og uilldi gefa konungi og liet þiodolfr leida hestinn j konungsgard og syna konungi. Konungrinn geck ath sia hestenn og uar mikell og feitr. Halli uar þar hia er hesturen hafdi vti sinina. Halli kuad þæ

Dyr er 'æualltt
hefir saurugtt ast
hestr þiodolfs erdr
hann er drottins serdr.

Tui tui seigir konungr hann kemr alldri j mina eigu ath þessu. Halli giordiztt hirdmadr konungs og bad sier orlofs til Jslandz. konungr bad hann fara varlega fyrir Einari flugu. Halli for til Jslandz og bio þar. eydduztt honum peningar og lagdiztt hann j vtrodr og eitt sinn feck hann androda suo mikenn ath þeir toku naudulega land. og um kuelldit var borinn fyrir Halla grautr og er hann hafdi etit fæ bita hnigr hann apttr og var þæ daudr. Haralldr spurdi lat tueggia hirdmanna sinna af Jslandi Kolla ens pruda og Snægluhalla. hann suaradi suo til Kolla. fyrir daurum mun dreingren hnigit hafa. enn til Halla sagdi hann suo. æ grauti mundi greyit sprungit hafa. Lyk ek þar saugu fra Snægluhalla.

## (ÞATTR HALLDORS SNORRASONAR).

68. þa er Halldor Snorrason goda var med Haralldi konungi Sigurdarsyni bar þath til ath einn islendzkur madr vard fyrir konungs reidi og bad hann Haldor æsia um malit. Hann giordi suo. enn hann var stirdmall og fæmalugr en þo beiddi hann konung ath gefa upp mælit. enn konungr villdi þath ei. Halldor uar uirdinga [237] samr og þotti mikils vm vertt er hann feck ei þath er hann beiddi. for hann nu æ brutt fra hirdenni med Jslending æ fund Einars þambaskelfis og beiddi hann æsia. Einar kueztt honum ath trausti verda skylldu er hann hafdi hans fund sottan. Halldor mælltti. visa mier til sætis. Einar kuad hann sitia skylldu j aundaugi gegntt sier. og toku sessunautar vel uit honum. Halldor sat optt og skemtti Bergliotu og sagdi vtfararsaug-

una Haralldz konungs og geingu menn optt til þeirrar frasagnar. Kalli hiet madr og uar kalladr gyllingarkalli ungr og aufundsiukur og rægdi huern mann uit Einar er hann mætti. enn Einar virtti hann mikils af hagleik sinum. Kalli hafdi alltt ath fynndi uid Halldor og bad menn yrkia um hann þa er tilfærir væri enn eingi uard til ath ganga j berhaugg uit hann. en þo uard hann (uarr) uit eigi ath sidr þo ath þath færi lagtt. Og einnhuern dag er dryckia dualdiztt geck Halldor ut til stofu Bergliotar. og er hann kom ath stofudyrunum þæ uar mikill glaumr inn ath heyra. var þæ Kali og hans sueitungar og hielldu þar þæ upp hropi þui er þeir haufdu saman borit vm Halldor. Halldor geck j stofuna og ath Kala og hio hann banahaugg. Og er Bergliot uard uor vit uigit þa kuad hun aunguan mann skylldu ganga brutt ur stofunne fyrir sitt leyfi. Halldor mælltti. huertt rad munttu til leggia med mier. Hun suarar. rad er þath. senda þik lenndum manni naukrum til traustz. Hann mælltti. sia þu suo fyrir ordsendingu ath ek uil ecki æ laun vera. þæ mun uendaztt um raden seigir hun. til er rad annad og er þath þo hættu meira. Hann *spur*di huertt þath væri. Hun suarar. þath ath þu gangir inn j stofu. uiti munu tuau æ hendi þier annat uigs uiti enn annad er þu hefir ei komit undir bord. gack nu fyrir Einar og seg honum tidinndin og fær honum hofud þitt. þath hygg ek ef hann gefr þier ei grid uit þetta ath uantt uerdi audrum ath uardueita þig. Halldor mælltti. þenna kost uil ek hellztt. Og geingr nu þegar fyrir Einar og mælltti. Einar mællti. hefir þu drepit Kala. Hann suarar. þeirrar sakar er ek sannr. þæ mælltti Einar. Jndridi einn mundi sæ vegen er mier mundi ver þikia. Halldor suarar. þath uæri þo manntionit meira og þat uillda ek sidr giortt hafa. Einar mælltti. brædr æ Kali sier og munu þar til bota (sia) er ek em. en nu mun rad ath nyta astrad Magnus konungs fostra mins og gefa ro reidi og þikir þæ optt annad satt. gack undir bord og mun ek seigia þier uiti þitt. Halldor giorir suo. enn sessunautar hans badu ath hann færi æ brutt og fordadi sier. enn Halldor sagdiztt ecki mundu stelaztt j brutt fra Einari. Og epttir dryckiu geck Halldor æ fund Einars og spurdi hual uitum Einar legdi æ hann. Einar kuad hann þath bratt mundu uita. Sidan liet Einar þings kuedia og uard allfiolmenntt. sidan kuaddi hann sier hliods og mællti. ek mun skemtta ydr rædu fra þui er ek uar æ Orminum langa med Olafi Trygguasyne. þæ var ek atian uetra og fyrir laug fram teken æ Orminn þui ath eingi skylldi þar yngri vera en .xx. og eingen ellri en .lx. Kolbeini hinum vpplendzka var skipad hia mier j halfrymi og enum þridia Flesmumbirni og var þæ gamall enn þæ uoru fæer hans jafningiar.

en þath var fætt manna æ Orminum er afkuomu yrdi audit. En fra oss kann eg ath seigia .iij. felaugum ath uær vorum leiddir æ land upp af uorum ouinum og settir nidr æ eina læg og fiotradir. og uilldi sæ selia oss til þræla er oss atti en hiet oss mei(di)ngu ef uær unnum ei. Sidan var stefntt mot og uard allfiolmentt og æ motit kom einn madr mikell j sidum kaufli og hafdi grimu fyrir annliti. sæ falar enn gamla þrælinn. vor meistari spyr huad honum skylldi gamall madr og nentti ecki ath uinna. Hann suarar. seigia mun eg ath sia sie odyrazsttr madrinn. mat hann .xii. aurum silfrs. Grimumadrinn suarar. dyr þiki mier hann vera og mun eg gefa fyrir mork silfrs. og þui keypttu þeir. þæ geck hann ath mier og spurdi huerr mig hefdi keyptt. Sæ sami suarar grimumadren spurdi ef eg uæri falur. hann kuad falan[1] og mat þrim morkum silfurs. Sia þikiumztt eg seigir grimumadrin ath uinir hans giæfi fyrir hann sliktt verd. Sidan falar hann Kolbein og kuad þath gott verk ef .iij. ynni fyrir einu bui. Hann var og metenn .iij. morkum silfurs. Grimumadrenn mælltti eigi veit eg huad fram fer vm fied mitt. og steypir fenu j kne honum og bad hann þath hafa fyrir skulld sina. og hann kaupir oss alla og bath nu leysa af oss fiotra og suo var giortt. (syndiztt oss) þæ þegar vænna vm. Geingur þæ grimumadrenn j skogen en vær e(p)tter og spyrium vær hann ath nafni. hann kuad mier ecki unndir enn eg uilldi þo uita huers þræll eg skylldi vera. og ef þu giefr mier meira frelsi þæ uillda eg uita huerium eg æ þath ath launa. [838] Hann suarar. eg ueit ei huortt sæ dagr mun koma ath eg muni vita sialfr nafn mitt. enn hitt veit eg at uerit hafa þeir dagar er eg ried meirr en þrimr monnum. en ei veit eg huortt þier truit þui. Sidan lyptti hann upp grimunni og sagdi oss ei leingi skylldu æanaudga ef hann mætti rada. Nu liggr hier stigr til skips er Nordmenn eigu og munu þeir uit ydr taka. enn þu Biorn seigir grimumadrinn muntt koma æ land og lifa halfan mæanud og ei leingr. þu Kolbeinn muntt fara til Upplanda og uerda hinn merkiligaztti madr og aullum mun þar þikia uel til feingit er þu ertt fyrir. en þu Einar seigir hann muntt verda mestr madr og yduar ellzttr og uera vm marga konunga æfi og fæ goda mægd. enn af þier einum vil eg laun hafa Einarr þui ath þier ættla eg mest þikia vertt er þu ertt leystr fra þrældomi. Eg suaradi ath uhægra væri ath launa ef eg vissi ei huerium eg ætti ath launa. edr hueriu skal eg launa þier. Grimumadrinn mælltti. þui skallttu launa ef nockur madr giorir naukkud j moti þier suo miog ath þier þiki dauda verdr þæ fria þu ei honum minnr en

[1]) fallan *Cd.*

nu fria eg þier. og mun þier þath dælltt þuiath fæer munu til verda ath giora j moti þier. eda huad ættli þier huerr hia skoginum ridi. Oss uar aullum litit til en þæ var grimumadrinn horfinn. Sidan fundu uær skip. og for vm æfi vora sem hann hafdi oss sagtt. en aller þottumztt vær kenna Olaf Trygguason. Nu ef suo var sem oss þotti þæ mun eg skylldr ath minnaztt og ei synlt ath hann hafi meir sied fyrir audrum manni enn þier Halldor. Nu mun Bergliot ei vordin allliugfeigen vm skemtanarlaunen vit þig þuiath ef ei hefdir þu mik heim sottan þæ hefdir þu ei þenna frid. þæ var og Bergliot þar komin med flock manna og ættladi til bardaga ef Einar villdi ei Halldori grid gefa. Og æ þessu þingi voru brædr Kala og bætti hann þeim fe. enn hann hielltt uingan sinni vit Halldor. Og lykr þar þessi frasogn.

## (ÞATTR ÞORSTEINS FORVITNA).

69. þorsteirn hiet eirn islenzkur madr er kom æ fund Haralz konungs fielitill og fraligr og tok konungr vid honum. hann var vaskligur madr. þath barst ath eitt sinn er konungr var i laugu ath þorsteirn gætti klæda hans og vard þath fyrir ath (hann) tok j pussi konungs og sæ þar j heptti tuo er honum þotti hafa gullz lit en honum syndiztt sem tre uæri j endan. Og er konungr kom ur laugu og sat hia klædum sinum sa hann athæfi hans og mælltti. þessa þurftir (þu) ecki ath raufa hier til. og þo sæmdi þier vel ath annar madr ætti ath lata vera kyrtt en nu er þier myklu skylldara. eg tok uel uit þier og giorda eg uel til þin en nu er mest uon ath æ liggi miog mikit þinu mæli. þar uar hann til sumars og uar konungr fær uid hann. En er sumar kom mælltti konungr. nu munttu Jslendingr hafa naukud fyrir foruitni þina. þu skalltt nu færa mier þuiligtt heftti og ath eg meigi skilia ath af einum uid sie edr ella dugir þier ei. þorsteirn mælltti. huertt skal eg sækia. Konungr suarar. þu uerdr sialfr fra þui ath seigia huad þier þikir liklegaztt huar eg hafa mest um laund farit. Sidan geck þorsteirn unndir skrin ens helga Olafs konungs. þæ dreymdi hann um nott ath madr kom ath honum og sagdi hann miog ouisa uegs fara. og þath ræd eg þier ath[1] snua enn ut j laund. Sidan uaknadi hann og giordi sem honum uar kentt for hann nu mædiliga og dro miog j uokum og hungri. Hann for um langa skoga og kom þar vm sidir er steinn vard fyrir honum. þar bio fyrir einsetumadr og tok hann vel uit honum þui ath hann þurftti beina. Hann var þar vm nott og spurdi

[1]) þu *tilf. Cd.*

einsetumadrinn ath vm ferder hans. en þorsteinn sagdi honum alltt malit. Einsetumadrinn mælltti. mikel þarflausa uar þath er þu giordir ennda kom og mikit fyrir. enn rettan farueg hefir þu enn nu skallttu ganga tuo daga og annan til middags. þæ munttu sia holma einn skoge uaxenn. en skogrinn sæ er allur ath sia sem gull og er þar orma bæli. nu ef þu legst j holminn þæ tak þier .ij. heftti enn aunguan hlut skallttu annan j brott hafa og munttu þo allz uid þurfa at komaztt æ brutt. en þath er þeirra einna manna er beztt eru syndir ath komaztt j holmen. Sidan for hann og komst yfir sundit. þæ sæ hann ath ormuren hafdi skridit til uaz. þar skortti ei gull og allur uidr uar þar sem æ gull sæi. og þar sæ hann fagran sprota og ath þar hafdi uerit skorat af. Sidan rædr hann til og skorar af .ij. heftti og nu ættladi hann ath hafa meira. þæ heyrdi hann gny til ormsins og fleygir hann sier vt æ uatnit og lagdiztt æ sund. Enn er ormuren kom apttr huesti hann illsliga og þottiztt vita ath madr hafdi komit til bygda hans og reis æ spordin. hann saknadi þess er æ bruttu uar og lagdiztt epttir honum og dro skiott saman med þeim. þæ hiet hann æ enn helga Olaf konung og þæ sæ hann ath ormuren lagdiztt j hring sem hann sæi ekki og for sidan til eyiarennar. en Jslendingrin komst æ land og [339] fann nu aunguan mann. For hann sidan um laund og kom ath lygttum til Noregs og hitti Haralld konung. Hann spurdi uannliga ath ferdum hans. enn hann seigir honum alla saugu og syndi honum heptten. og bar Haralldr konungr uit þau heftti er hann hafdi adr og sæ ath af þui tre uar. þæ mælltti Haralldr konungr. mikla giæfu hefir þu til borit og enn sami hefir til komit um þitt mal sem mitt. nu vil eg hafa hepttí þessi af þier. enn eg mun fæ (þier) kaupeyri sem þu uilltt. og suo mun sæ vilia er æ hefir sied med þier. og hefir þath uerit hinn helgi Olafr konungr brodir minn. þorsteinn for fyrst til Jslandz enn þo fell hann med (konungi) æ Einglandi.

## (ÞATTR ÞORSTEINS ASGRIMSSONAR).

70. Vlfr hiet madr er bio æ þelamork hann var hersir. Gulpir hiet madr hann bio æ Fiflauollum j Tinzdal. son hans hiet Asgrimr. hann atti þorkauttlu er kaullud uar bringa. Asgrimr tok vid faudrleifd sinni og uar hinn mesti mannsomamadr. En er Asgrimr for j viking þæ var kona hans vanheil og villdi Asgrimr lata ut bera barnit. Hun uard lettari um kuelldit er hann skylldi fara um morgunenn. Asgrimr kuaddi til þræl sinn ath grafa sueininn. Hann suarar. mun ei ræd ath bua

graufina. Asgrim*r* kuad þath vel mega. Enn sueinn læ æ golfinu. þæ heyra þeir ath sueinninn kuad.

Legit miog til mod*ur*
mier er kalltt æ golfi
huar sie sueinninn sæmri
enn ath sins faud*r* ernum.

þarf ei jarn ath eggia
ne jardarmen skerda
lettit liotu verki
lifa uil eg enn med monnum.

þæ mællti Asgrim*r*. vist skalltu lifa frændi og muntt verda hinn mesti merkismadr af þessum fyrirburd. Sidan liet Asgrimr hann vatni ausa og var kallad*r* þorsteinn. þæ var Haralldr enn harfagri konungr yfir Noregi og hafdi miog lagtt land alltt vndir sig ath skauttum. Hann heimti til sin þann mann er þororm*r* hiet og uar konungs frændi og bio j þ*ro*mu. Konungr mællti. eg ueit ath ei hafa skattar golldiztt af þelamonnum. nu uil eg ath þu heimttir af Asgrimi syne Ulfs hersis þui ath aungum gef eg upp mina skulld. enn þath hefi eg sannfregit ath þeir fedgar hafa miken æhuga haftt sidan er eg feck Noreg med suo miklu starfi þæ uil eg hann hafa med aullum skylldum. þororm*r* kueztt mundu fara erinda konungs. enn litt seigir mier hug*r* umm ath þeir muni suara. Konungr mællti. þæ skal uita huorir rikari eru. enn mæl til allz uel j fyrstu. Fer hann nu og hittir Asgrim. ber upp konungs eryndi og kref*r* þar þuiliks fiar sem annarstadar. nu giorit yd*r* ei endimi ath hallda rettu fyrir konungi. Asgrim*r* suarar. þath hygg eg ath minir frænd*r* siti æ þessum eignum skattalausum. enn þott konungr sia ægirn(i)ztt meira enn menn uiti dæmi til þæ uil eg þo frials uera og eingan skatt giallda. þororm*r* kueztt ættla ath hann mundi ouit*r*lega fyrir buaztt og hefir þeim monnum ei ueitt ath deila kappi uit konung sem ecki hafa uerit orikari menn en þu ertt. Fer þororm*r* æ konungs fund og seigir honum suo buit. Konungr mællti. skiott munu vær giora skipttin þæ. vær munum eignaztt land hans og lausafe. en ættla honum leingd af iordu. Og kuaddi til þori ærmann sinn ath giora til hans. En er þororm*r* var j bruttu fræ Asgrimi atti Asgrim*r* þing uit bændr og mællti. þath er meiri uon ath konungr sia taki þunglega uoru mali. nu uil eg sennda honum giafir en ei skatt og giora eg þat fyrst*r* minna manna. Sidan valdi hann til sendimenn og færa konungi giafir. þath uar hestr gauzkur og þar med mikit silf*r*. Koma sendimenn fyrir kong og mællttu. Asgrim*r* herser senndi yd*r* goda quediu og riki ydru. enn hann hefir spurtt ordsending ydra vm skatt. enn hann uill ei hann giallda. helld*r* hefir hann sentt ydr margar uingiafir. Konungr mællti. berit apttr giafir hans allar. eg skal konungr j þessu landi og setia laug og rett en ei hann. Nu uerda sendimenn apttr ath fara

vit suo buit. og æ þessi stundu kom þorormr[1] og liet Asgrimr þings kuedia. þæ stod Asgrimr upp og mællti. vita munud þier ækall uit oss af Haralldi kongi. hygg eg nu hier uera komna vel flesta bændr af þelamork þæ er radamenn eru. nu vil eg ath uær uerdum samdoma fyrir konungs monnum ath ei brioti þetta æ mier einum. er þath mest von ath konungr leggi fiandskap æ þann er fyrir beitiztt. nu vil eg vita suor af ydr. Bændr lietuztt hann hafa feingit formælanda fyrir sig. en ecki er oss um skatt ath giallda. þæ ueli þier ydr þann sagde þorormr[1] sem uest gegnir. hafa margir þeir borit lægra hlut fyrir Haralldi konungi er suo mundi synaztt sem huergi mundi hafa min(n)i haming(i)u og hafa þo lagtt fyrir honum farit. Asgrimr suarar. æ þath uil eg sættr uera sem adrir bændr uilia. Enn þingit uar sett uid skog naukurn. Enn er þingit raufst þæ mællti þorormr[1] uit þræl sinn. gack þu til og drep Asgrim og leita þegar i skoginn. Hann giorir suo. leitar fram j mille mannanna og hio hann þegar banahogg. og suo hafdi konungr rad til sett. en bændr drapu þegar þrælinn. En þorormr[1] komst þo nauduglega j skoginn undan og sidan til skips. fer nu æ konungs fund og seigir honum sem komit uar. Konungr mællti. trautt mun [845] fæztt hugfullari þræll og þui feck eg hann til ath eg vissi ath sæ mundi feigr er hann uægi. enn sært villda eg leika alla þæ er mier briotaztt j moti. þorsteinn Asgrimsson var j hernadi og uar manna gioruiligazttr mikell og sterkur. Enn er hann kom heim ur vikingu kuomu menn æ fund hans og seigia honum liflæt faudr hans. þorsteinn suarar. bitu hann enn ræden Haralldz konungs. enn bratt mun epttir uerda ætt uara ef Haralldr konungr skal einn fyrir sia. Sidan vardi hann faudrleifd sinni j silfr og lausafe og kueztt ættla ath hann mundi ei keppa vit Haralld konung. En þæ uar faur mikel til Jslandz or Noregi epttir þau storuirki er menn ræku harma sinna. Nu bioztt þorsteinn til Jslandz og med honum þorg(eir)r brodir hans .x. uetra gamall og þorun faudrsystir þeirra fostra þorgeirs. En er buit var skip til hafs þæ mællti þorsteinn uit felaga sina. þath mundi fadir minn ættla þæ er hann liet mik ei ut bera ath eg mundi naukud minnaztt ath hefna hans ef hann yrdi ei sottdaudr. nu þo ath ei komi þar nidr sem vera skylldi þæ er þo ei æmælis uertt ef iafnmenni kemr fyrir. nu vil eg fara j þraummu til þororms.[2] Og suo giorir hann. koma þar æ nattarþeli og toku hus æ þeim. þæ mællti þorsteinn. nu skulu menn þath vita ath eg ættla hier til faudurhefnda og uillda eg hafa þar til yduartt lidsinni. Enn þeir saugduztt honum veita skylldu sliktt er þeir mætti.

[1]) þorir *Cd.* [2]) þoris *Cd.*

Sidan sla þeir elldi j bæinn og brann þar inni þorormr[1] og sueit hans oll. en vm morgunenn hauggua þeir upp buit og bera til skips. lata i haf epttir þath. og lieztt þorsteinn[1] nu fusari j haf ath lata enn þæ ath honum uæri þui brugdit æ Jslandi ath hann hefdi ei hefntt faudur sins. þeir lata nu j haf og kom(a) skipi sinu j Rangæros. Enn sæ madr uar fyrir sueit er Flosi hiet og uar þorbiarnarson. hann var landnamsmadr. Rida menn til skips. kom þar Flosi og kannadiztt hann þegar uit þorstein og spurdi hann huad hann hafi til rekid ath fara ut hingad. þorsteinn mælltti. eg hefir farit (sem) sumir adrir helldr skyndiliga af Noregi med uandkuædi og nu j saukum uit Haralld konung. nu uilldi eg hier stadfestaztt og vera frials. Hann kuad sliktt þæ menn hennda sem ecki vilia lata yfir drifaztt. en vær skulum þier uel fagna. Hann nam land ath radi Flosa fyrir ofan Uikingalæk og ut til motz uid Sinhaga.[2] bio j Skardi enu eystra. hann atti þordisi[3] dottur Gunnars Sigmunda(r)sonar Siguatz[4] sonar ens rauda er fiell vid Sanndhola. Sighuatr enn raudi atti Jngibiorgu[5] dottur Eyuindar lamba Berdlukarasonar systur Finz faudur Eyuindar skalldaspilliztt. Sonr þorsteins og þordisar[6] uar Gunnar. þorsteinn uar dreingr godr og sier gnogr um alla hluti. þath er sagtt ath skip kom j Rangæros þath er fylgdi osuipr mikill og siukleiki. og sæ menn uit ath koma til þeirra ath ei feingi menn illindi af þeim og for suo um hrid. Enn er þorsteinn fra þetta kuad hann monnum ei sama ath þeir færizth af biargleysi. for þæ þorsteinn æ fund þeirra og spyr med hueriu moti væri sott þeirra. Enn þeir sogduztt uordnir fyrir giorningum. enn nu uill eingi æ sia med oss. þorsteinn mællti. mun ei þath uænztt ath þier farit med oss. En er þeir koma heim kuad þordis ei medal endimi j uera huad hann tok til og uilldi flyia bæinn. En þorsteinn kuad ei þath skylldu og bio eitt tialld skamtt fræ bænum. þui uar (hann) kalladr þorsteinn tialldstædingr. Nu giordiztt hallæri mikit yfir þeim suo eingi mætti hia þeim uera nema þorsteinn einn. og ecki uar athæfi þeirra fridligtt þuiath sæ þeirra sem leingst lifdi fal silfr mikit og uilldi ath eingi nyti. þorsteinn atti sidar þordisi[7] Sigfusdottur. þeirra son uar Skeggi fadir Gunnars fodur Skeggia fodur Lopttz fodur Gunnlaugs[8] smids.

## (ÞATTR BLOÐEGILS).

71. Ragnar hiet madr og uar ættadr sudr æ Jotlandi. hann uar rikr madr og atti bu þar sem heita Ragnarsstadir. þath er j Ripa

[1]) þorir *Cd.* [2]) *r.* Suinhaga Biorn [3]) *r.* þuridi [4]) Sigurdz *Cd.*
[5]) *r.* Rannveigu [6]) *r.* þuridar [7]) *r.* þuridi [8]) *r.* Gudlaugs

byskupsdæmi. þar er og uatn þat er heitir Ragnarssiar. Ragnar hafdi uerit kiær uin Sueins konungs Vlfssonar medan þeir lifdu badir. Eigell hiet son Ragnars. hann uar hinn mesti geruimadr hann uar manna mestr og sterkasttr uigr uel og allmikill hermadr. Sæ atburdr uard j Danmork ath þar anndadiztt einn rikr madr j Borgundarholmi sæ er Aaki hiet. hann hafdi radit fyrir .xii. konungsbuum. Borgundarholmr liggur austr j haf fra Skaney.[1] þat er mikit riki og liggr undir byskup j Lundi. þar eru .xiiij. kirkiur og .xx. konungsbu. Nu læ þetta riki audtt og haufdingialaust. uoru þæ menn sendir æ fund Knutz Sueinssonar er þæ uar konungr yfir Danmork og uoru honum saugd þessi tidindi. budu menn þæ ath hann feingi annan mann yfir rikit. J þenna tima kom til Knutz konungs Eigell Ragnarsson og bydr honum ath gioraztt hans madr og þiona honum med trunadi. hafa og sligtt starf sem haftt hafa hinir fyrri frændr hans. Konungr suarar. mikell madr ertt þu Eigell og manlegr og ei med aullu giæfusamlegr. enn med þui ath þu ertt mikell madr til framkuæmdar þæ mun eg fæ þier j hendr Borgundarholm. skallttu skylldr til allra utgiorda og konungs starfs en þo munu uær af taka .iij. buin þau er þar eru. Eigell tekr nu þenna kost[2] og gioriztt nu uallzmadr yfir þessu riki. Hann giordiztt bratt rikur og fiolmennur og hafdi med sier mikla sueit. uar hann aurr af fe og lifdi rikmannlega. [⁊ill] hann uar iafnan j hernadi æ sumrum og aflade mikels fiar og lagdi fyrir menn sina æ uetrum. hann uardi rikmannliga riki sitt og giordiztt af sliku miog ægætr. Og er suo hafdi uerit um stund geck fied miog upp j kostnadi er hann hafdi (m)inni ueizlur af konungi enn þeir menn er þar haufdu fyri uerit og haftt konungs starf. enn hann hafdi meira kostnad. þetta likadi konungi illa og bad Eigel minka fiolmenni sitt þui hann sagdiztt af hafa tekit hernad þar innanlandz og annan ofrid.

72. þath uar eitt sinn ath Eigell bioztt or landi med lid sitt og hafdi .xviij. skip. hann for til Uindlandz. og er hann kemr þar heriar hann. Vinndar saufnuduztt saman og feingu ogrynni hers og foru j moti Egli med lid sitt. enn er þeir finnaztt uerdr þar bardagi mikell og fell margtt lid af huorumtueggium. geingr Eigell fram uel og dreingiliga og bardiztt hermannlega. þeir baurduztt æ skipum og læ þath skip næst Eigels skipi er æ uar haufdingi þeirra Uindanna. Og er orostan uar sem oduz og menn þottuztt uarla skilia huersu hniga mundi þæ hliop Eigell af skipi sinu og æ Uindasneckiuna og hio til

[1]) Skamey *Cd.* [2]) kgs *Cd.*

haufdingians og ueitti honum banasær. og þegar iafnskiott hliop Eigell aufugtt apttr æ skip sitt. Epttir þetta brestr flotti æ Uindum. Fær Eigell þar ægiætan sigr og mikit fe. Hann vard suo modr ath hann fiell nidr j ouit. og er hann sat æ skipi sinu þæ bad hann suein sinn gefa sier dryck. Sueinninn suarar. vordit hefir hier þath hark j dag æ skipinu ath brottnad hafa verplar aller og allur dryckur er hlaupenn nidr j kiol. Eigell suarar. ei mun eg ath sidr drecka mega. Sueinninn suarar. eigi herra seigir hann þuiath meiri hluti er blods og manna dreyri. Eigell stendr upp og tok hialmenn af haufdi sier og saukuir nidr j kiolinn og (dreckr) .iij. drycki mikla. Epttir þath uendir hann heim apttr ferd sinni med sigri og kemr ath hausti heim j Danmork og fer sidan til Borgundarholms. skorttir nu ei fe vm uetrenn til framflutnings monnum hans. þetta spyrst uida og kom þetta fyrir Knut konung. lofar hann sem adrir menn afrek Eigels og sigr enn talar fætt um þath er honum var sagtt fra dryckiunne Eigels. Af þessum athburd feck Eigell kenningarnafn og uar kalladr Blodeigell.

73. En er Eigell hafde skamma stund heima uerit þæ for hann æ fund Knutz konungs. Knutr konungr tok sæmiliga uid Egli og spyr ath ferdum hans. Eigell seigir sliktt er hann spyr og uar honum lettrætt um þetta. Sidan kalladi kongr hann æ einmæli og spyr ef þath uæri satt er honum uæri sagtt ath hann hefdi druckit manna blod. Eigell segir ath mikit uæri til þess haftt. enn sagdiztt þo litit til þessa huxad hafa fyrri. Hui uard suo illa seigir konungr. Eigell suarar. þorsti kom ath mier suo mikell ath eg þottumzt ei þola mega. enn dryckr uar eingi annar nær. Konungr mælltti. þessi hlutr er hardla þungr uordin og mikit kristnispell og er þath kallad ath uær sieum refsingasamir um smæri hluti. en med þui ath mier likar uel þin þionuztta fyrir margs saker þæ munu vær þui ei suo stridan dom æ leggia at sinni sem maurgum mun þikia likligtt. vilium vær þo heilrædi til leggia med þier ath þu bætir uit gud og seg sem fyrst kennimonnum og tak skrifttir fyrir. enn þath sem uor rettr hefir brotin uerit j þessu mali þæ uilium uær ydr upp gefa. enn ei syniztt mier þetta minna uera enn þu hafir etit manna holld sodit er þu hefir druckit blod þeirra. Eigell heitr ath hann skal suo giora. dualdiztt hann þar naukrar nætr med konungi. og adr þeir skildu bydr Eigell konungi til ueizlu heim til sin. væntti eg herra seigir hann ath mier sie þath heilla uæntt ath þier komit ath sia yfir hybyli min. Lagdi Eigell þar til maurg ord uid

konungenn. Konungr heitir ferdenni er æ lidr uetrinn. Epttir þetta for Eigell heim. sitr hann heim(a) j Borgundarholmi þann uetr.

74. Knutr konungr byriar ferd sina til Borgundarholms. Eigell hafde buit fyrir honum ueizlu dyrlega. sækir konungr til ueizlu med miklu fiolmenni. þar uar mikel stofa sem konungshaull uæri. hun uar alskipud skiolldum. konungr uar .iij. nætr ath ueizlunni og uar hardla katr. Eigell leiddi konunginn ut med stormannlegum giofum. Konungr mælltti til Eigels. huad er nu Eigell seigir hann hefir þu ath þui gaum gefit er eg mælltta uid þig næstum at hafa sagtt kennimanni til misuerka þins og sættaztt uid gud. Eigell suarar. eigi er þath. gleymtt hefi eg enn þessu. Konungr bad hann ei fresta leingr. Eigell kuad suo uera skylldu. og skiliaztt nu med uinattu. Eigell for j hernad um sumarit og aflar enn mikils fiar. kemur heim ath hausti og fer ecki æ konungs fund.

75. Knutr konungr spyr þetta ath Eigell hafdi uerit j hernadi um sumarit og likar honum þath litt þuiath (hann) bannadi monnum ræn [842] og uspeckttir j sinu riki. Konungr stefndi Egli æ fund sinn vm uetren. Eigell for æ fund Knutz konungs og fagnar honum vel konungren. þeir konungr og Eigill toku tal med sier og spurdi konungr. hefir þu heriad enn j sumar Eigell seigir konungr. Eigill sagdi ath þath uar. Konungr mælltti. þar tekr þu illtt ræd vpp er þu giorir þig ath uikingi. er þath heidinna hættr og uil eg þath banna þier. þath er mier og sagtt ath þu hafir fiolmenni med þier sem konungar og halldir þig ath aullu sem þeirra sidr er til og cyder þar upp nælega fe þinu aullu enn takir þar til annarra eign ef þig skorttir. koma þar margir æ uorn fund er sliktt bera. uil eg þath Eigell seigir konungr. ath þu minkir fiolmenni þitt og gior þig ecki stærra enn þu att ætt til. uil eg ath þu giorir þig hofsmann ef þu uilltt oss leingi þiona. enn huad er nu Eigill seigir konungr um þann hlut[1] sem eg hefir þig naukrum sinnum æ mintt og þu mætt uit kannaztt hefir þu þath til bota borit. Eigill suarar þæ helldr reiduglega. þath uænttir eg hera þo ath þier minniztt þess hlutar optt uid mik ath mier sie þo mest umm hugad umm ræd mitt. Konungr mælltti. nu er meiri uon ath komi fram er eg sagda j fyrra sinn er eg sæ þig ath þu mundir eigi uera med aullu giæfumadr. nu suo miog sem þu orækir naudsyn sialfs þins þæ uil eg ei leingr hafa þina þionuzttu og ei skallttu uardueita mina eigu hiedan fra. þæ suarar Eigell. þier munud ræda ueizlu uit mik herra. enn þath

[1]) hlaut *Cd.*

mun ydr þikia undarligtt seigir hann ef eg helld mig ei orikmannligar þo eg hafi minni kostina. skal eg ei bidia yduarar þionuzttu meir enn ydr likar. Konungr suarar. eigi þarfttu ath giora þig suo storan Eigill seigir hann beygtt hefi eg suira æ feitari bockum enn þu ertt. ættla eg þier þath munu uerr hentta en mier ath ockra uinattu skili. er þath og mitt hugbod seigir konungr ath nauckra h(l)uti hendi þig þæ er en eru stæri en þeir er adr eru berer ordnir vm hagi þina. Epttir þetta skilduztt þeir Eigell og konungr med litilli blidu. Epttir þetta setti konungr annan mann yfir rikit j Borgundarholmi en Eigell liet af hendi stiorn rikisins. Eigell sat þæ heima ath bui sinu og minkadi þo ecki fiolmenni sitt helldr hafdi hann naukru mannfleira og ath aungu minni rausnn enn adr.

76. J þenna tima ried fyrir Noregi Olafr kyrri son Haralldz konungs Sig*ur*da(r) sonar. hann atti Jngiridi dottur Sueins konungs Ulfs sonar syst*ur* Knuz konungs og uar uinatta kiær med þeim mægum. þath uar eitt sumar ath skip bioztt af Noregi mikit og audigtt. þath ættu kaupmenn þeir er fara ættludu j Aust*r*ueg. þeir sigldu fyst j Danmork og sidan aust*r* j gegnum Eyrarsund og sidan aust*r* til Borgundarholms. sidan huarf skip þat sua ath ecki sp*ur*diztt til og fanztt af skipi huorki menn nie fe. þetta þotti monnum med miklum bysnum og uoru margar get*r* æ huad til þessa mundi bera. Olafr konungr or Noregi sendi ord Knuti Danakonungi mægi sinum ath hann leitadi epttir skipi þessu huad af mundi ordit. en Knutr konungr hiet þui.

77. Knut*r* konungr bio ferd sina til Borgundarholms med naukrum skipum. þar uar med honum Bendickt brodir hans og bræd*r* .ij. hiet annar Sueinn enn annar Astrad*r*. þeir uoru danskir rikir menn og storættadir og uoru kendir uit mod*ur* sina og kalladir þorgunnu synir. þorgunna modir þeirra uar dottir Uagns Akasonar. þeir bræd*r* uoru frægir menn og kiærir Knuti konungi. þæ uoru og j ferd med Knuti konungi haufdingiar þeir er ei uoru nefndir. Knut*r* konungr sigldi til Borgundarholms med lid sitt þæ er honum gaf byrr. þæ sigldu þeir hia eyium nockrum og bad konungr þar ath landi leggia og suo uar gortt. Sidan geck konungr æ land og epttir fiorunni. þar uar storgrytt miog. konungr hugdi ath griotinu og sæ ath þath uar rautt miog. konungr sp*ur*di menn sina hui suo mundi uera. þeir suorudu. þier munud sliktt giorst kunna ath siæ herra. Konungr suarar. þath munda eg ættla ath hier hefdi uerit um hrid ellzneyti ærit mikit. mæ uera ath nu komi

þath fram ath mier sagdi laungu hugr umm. ecki er nu þui ath leyna seigir konungr ath eg hygg ath þetta sie af manna uolldum. enn þath mun bratt reynaztt. munu uær ecki hier leingr dueliaztt ath sinni. Fer konungr nu leidar sinnar. Hann tok ueizlv skamtt fra bæ Blodeigels. Eigell hafde med sier mikit fiolmenni suo ath hann hafdi hird sem konungar fyrir utan þath ath Eigell hætti þæ hernadi. enn vndruduztt menn þath er hann mætti fæda lid suo mikit. enn ei lægu suo bryn fefaung fyrir enn þo uard honum fefætt til kostnadar fyrir lidit. Margtt ræddu menn umm þetta fyrir konunginum umm sidu þeirra Eigels manna. þetta sama kuelld liet konungr ueita heimferd ath Egli og fieck þar til haufdingia Bennidicktt brodur sinn og med honum j ferd þeir brædr Sueinn og Astradr. þeir uoru med .c. manna. þeir foru (þar) til er þeir kuomu til bæiar Eigels um nattina. þat uar hættr þeirra Eigils ath drecka til midrar nætr. enn er þeir Benedicktt kuomu æ bæinn þæ geingu þeir ath dryckiustofunni. þeir Eigill uoru uarir uid ofridinn. þæ hlupu menn til uopna sinna og ætlludu ath ueriaztt. Benedictt seigir ath sæ mundi þeirra kozttr beztlr ath gefaztt upp. Og er Eigell uissi ath þeir [843] haufdu ofrefli lids. þæ geck hann ut j hendr þeim. Sidan uar Eigell tekenn haundum og for Eigell æ fund Knutz konungs. En þeir þorgunnusynir uoru epttir med suma sueitina. Enn er Eigell kom æ konungs fund þa mælltti konungr. langtt hefir nu uerit j millum funda uorra Eigill seigir konungr. villdi eg ath þessi uæri hinn sidarsti. Eigill suarar. þier munud nu hafa valld æ þui ath sinni herra. uænttir eg þo þess ath eingen kalli ydr ath meira haufdingia nie betra konungr þo ath þier drepit saklausa menn. þæ suarar konungr. ecki mun nu tia at fara med dirfd edr stridlæti þui ath tekit haufum uær þig nu suo j fang oss ath nu mun seigia uerda sligtt er yfir hefir lidit þo ath ei sie fagrtt. munu uær nu ath ganga um epttirleitina. skallttu og seigia um skiphaufn þæ er uær hyggium ath þu og þinir menn hafi myrtt og tekit fied. hefir þetta þo ærit leingi leyntt uerid. haufum uær og seigir hann komit j þann stad er uær hugdum ath þetta hafi unnit uerit. Eigill sæ þæ ath sæ einn mundi kostr til ath seigia sem farid hafdi. þui ath hann uissi ath suo uoru margir hans menn samuitandi þessa med honum ath til mundi uerda nauckr af þeim ath seigia ef fast uæri epttir sott. Eigill suaradi þæ. ath þath sama skip er þier spurdud epttir hafdi lagtt undir þær saumu eyiar er þier kuomud uid. hielldum uier niosnum til um ferd þeirra. þar er utgruntt. en þath uissu þeir ei Nordmennernir og fiaradi ut undan hafskipinu um nottina. þæ foru uær til seigir Eigill og kuomum j nætrellding ath kaupskipinu

og toku uær menn alla og bundum enn ræntlum fenu aullu er æ uar skipinu. leiddu(m) sidan upp skipit æ hellurnar og brendum upp alllt saman skipit og menn. suo ath þess sæ eingi merki nema þath eina ath griotit uar rautt epttir. Enn er Eigill hafdi þetta sagtt þæ mællti konungr. nu for sem mik uardi ath þu ertt olifismadr. litit nu æ storir haufdingiar segir konungr huersu uær skulum refsa slik nidingsuerk. þar uoru uit staddir margir frændr Eigils þeir er mikels uoru uirdir og budu fe til fridar Egli. Eigi skal þath spyriaztt seigir konungr ath eg nidumztt suo æ tru minni ath taka fe edr naukra mutu edr uinattu manna til þess ath dæma rangtt. eru ei sliktt olifisuerk. og þo uæri suo ef einn madr uæri myrttr enn nu eru margir. enn fædaztt uid þat eina sidan nalega er stolit uar til. Nu uar bædi ath illtt þotti til moti ath mæla ennda þordi eingi j moti konungi ath giora. En epttir þetta uar farid med Eigil til skogar og uar þar reistr gælgi og Eigill þar upp festr. Sidan for konungr til bæiar Eigils er hann hafdi ætt og liet þæ sæta refsingum menn hans. suma liet hann drepa edr meida suma og suma rak hann ur landi og aunguan liet hann ohegndan þann er nauckurn hlut hafdi ætt ath þessu mali edr radagiord. eyddi hann suo þeim oalldarflocki. þetta uard þo miog aufundsamtt þuiat Eigill uar bædi ættstor og frændmargr. Epttir þetta toku haufdingiar ath strida uit konunginn og þar epttir alþydan. þotti þeim konungr rikr og refsingasamr. en þeir uanir sialfrædi og sidleysu. Og lykr þar þessum þætti.[1]

[1]) *Her fölge 3½ ubeskrevne Spalter i Codex.*

## [847]. GRÆNLENDINGAÞATTR.

Socki het madr ok var þoris sun. hann bio i Brattahlid a Grænlandi. hann var mikils virdr ok vinsæll. Ormr het son hans ok var mannvænligr madr. þeir fedgar ættu mikit valld æ Grænlandi ok voru þeir þar miok fyrir monnum. Einhueriu sinni let Socki þings kuedia ok tiadi þat fyrir monnum at hann villdi at landit væri eigi leingr byskupslaust ok villdi at allir landzmenn legdi sina mune til at byskupsstoll væri efldr. Bændr iættudu þui allir. Socki bad Einar son sinn fara þessa ferd til Noregs. quad hann vera sendiligzstann mann þess erendis at fara. Hann quez fara mundu sem hann villdi. Einar hafdi med ser tannvoru mikla ok suaurd at heimta sik fram vid hofþingia. þeir quomu vid Noreg. þa var Sigurdr Jorsalafari konungr at Noregi. Einarr kom æ fund konungs ok heimti sik fram med fegiofum ok tiadi siþan mæl sitt ok erendi ok beiddi konung þar til fulltings at hann nædi sliku sem hann beiddi fyrir naudsyn landzins. Konungr let þeim þat vist betr henta. Siþan kalladi konungr til sin þann mann er Arnalldr het. hann var godr klerkr ok vel til kennimannz fallinn. konungr beiddi at hann redizst til þessa vanda fyrir guds sakir ok bænar hans. ok mun ek senda þik til Danmerkr æ fund Auzsurar erchibyskups i Lund med minum brefum ok insiglum. Arnalldr quaz ofuss til at rædazst fyst fyrir sialfs sins sakir er hann væri litt til fallinn ok siþan at skilia vid vini sina ok frændr. i þridia stad at eiga vid torsottligt folk. Konungr quad hann þui meira gott mundu eftir taka sem hann hefdi meiri skapraun af monnum. Hann quez eigi nenna at skerazst vndan hans bæn. en ef þess verdr audit at ek taki byskupsvigslu þa vil ek at Einarr sueri mer þess eid at hallda ok fulltingia rett byskupsstolsins ok eignum þeim er gudi eru gefnar ok hegna þeim er æ ganga ok se varnarmadr fyrir ollum lutum stadarins. Konungr quad hann þat gera skylldu. Einarr kuaz mundu vndir ganga. Siþan for bysk-

upsefni æ fund Auzsorar erchibyskups ok sagdi honum sitt erendi med konungs brefum. Erchibyskup tok honum vel ok reynduzst hugi vid. ok er byskup sa at þessi madr var vel til tignar fallinn vigdi hann Arnalld til byskups ok leysti hann vel af hendi. Siþan kom Arnalldr byskup til konungs ok tok hann vid honum vel. Einarr hafdi haft med ser biarndyri af Grænlandi ok gaf þat Sigurdi konungi. feck hann þar i mot sæmdar ok metord af konungi. Siþan foru þeir æ einu skipi byskup ok Einarr. æ audru skipi biozst Arnbiorn austmadr ok noræner menn med honum ok villdu ok fara vt til Grænlandz. Siþan letu þeir i haf ok greidiz eigi byrrinn miok i hag þeim ok komu þeir Einarr ok byskup i Holltavatzos vndir Eygiafiollum æ Jslandi. Þa bio Sæmundr enn frodi i Odda. hann for æ fund byskups ok baud honum til sin vm vetrinn. Byskup þackadi honum ok letz þat þiggia mundu. Einarr var vndir Eyiafiollum vm vetrinn. Þat er sagt þa er byskup reid fra skipi ok menn hans at þeir ædu æ bę nockurum i Landeyium ok sætu vti. Þa geck vt kerling ein ok hafdi vllkamb i hendi. hon geck at einum manni ok mællti. muntu festa bocki tindinn i kambi minum. Hann tok vid ok kuaz mundu at gera ok tok hniodhamar or mal einum ok gerdi at ok likadi kerlingu alluel. enn þat var byskup raunar. hann var hagr vel. ok er þui fra þessu sagt at hann syndi litillæti sitt. Hann var i Odda vm vetrinn ok for med þeim Sæmundi alluel. enn til þeirra Arnbiarnar spurdizst (ekki) ok þotti þat vndarligt ok lidu sua nockur sumur. ætludu þeir byskup at hann mundi kominn til Grænlandz. Vm sumarit eftir foru þeir byskup ok Einarr af Jslandi ok komu vid Grænland i Eiriksfiord ok toku menn vid þeim alluel. spurdu þeir þa enn ecki til Arnbiarnar. gerdiz nu æ vmræda mikil at þeir mune tynzst hafa. Byskup setti stol sinn i Gaurdum ok reezst þangat til. var Einarr honum þa mestr styrktarmadr ok þeir fedgar. þeir voru ok mest metnir af aullum landzmonnum af byskupi.

## Arnbiorn fanz daudr ok hans menn.

2. Sigurdr het madr ok var Niælssun grænlenzkr madr. hann for opt æ haustum til fangs i obygdir. hann var sægarpr mikill. þeir voru .xv. saman. þeir komu vm sumarit at joklinum Huitserk ok hofdu fundit nockurar elldstoar manna ok enn nockurn veidiskap. þa mællti Sigurdr. huars eru þer fusari at huerfa aftr edr fara leingra. er nu eigi sumars mikit eftir enn fang vordit litid. Hæsetar kuoduzst fusari aftr at huerfa ok sogdu mannhættu mikla at fara vm storfiordu vndir ioklum. Hann kuat þat satt. enn sua segir mer hugr vm at eftir muni et meira fangit

ef þui nair. þeir bædu hann ræda quoduzst leingi hans forsia hlitt hafa ok þo vel gefiz. honum quez meira vm at hallda fram ok sua var gert. Steinþorr het madr er æ skipi þeirra var. hann tok til orda. dreymdi mik i nott Sigurdr sagdi hann ok mun ek segia þer drauminn. nu er ver forum æ fiordinn þenna enn mikla þottumz ek kominn i milli biarga nockurra ok æpa til biargar mer. Sigurdr quad draum medallagi godann ok skylldir þu þar eigi biorg vndir fotum troda ok hitta eigi i þann einangr at þu mættir eigi munni hallda. Steinþorr var helldr ædimadr i skaplyndi ok vforsiæll. ok er þeir sækia inn æ fiordinn. þa mællti Sigurdr. huort er sem mer syniz at skip se inn æ fiordinn. þeir quadu sua vera. Sigurdr quad þat tiþendum mundu gegna. Helldu nu siþan inn at ok sa at skipit var sett vpp i einn æros ok gert fyrir ofan. þat var mikit hafskip. Siþan geingu þeir æ land ok sæ skæla ok tiolld skamt fra. þa mællti Sigurdr at þeir munu tiallda fyrst. ok er nu lidit æ dag ok vil ek at menn se kyrlætir ok varudgir. Ok sua gerdu þeir. Ok vm morguninn ganga þeir ok siazst vm. þeir sia stock einn hia ser ok stod j bolaux ok mannzhræ hia. Sigurdr quad þann mann vidinn hoggit hafa ok hafa vordit vanmeginn af megri. Siþan geingu þeir at skælanum ok sæ þar annat mannzhræ. Sigurdr kuad þann geingit hafa medan hann mætti ok munu þessir verit hafa þionustumenn þeirra er i skælanum eru. Aux læ ok hia þessum. þa mællti Sigurdr. þat kalla ek ræd at riufa skælann ok læta leggia vt daun af likum þeim er inni eru ok ylldu er leingi munu legit hafa. ok varizst menn fyrir at verda þuiat þess er eigi litil vôn at monnum verdi at þui mein ok miok er æ mot edli manna. þott likendi se æ þui at menn þessir[1] muni oss ecki illt gera. Steinþorr quad slikt vndarligt at gera ser meira fyrir enn þurfti Ok geck æ hurdina enn þeir rufu skælan. [348] Ok er Steinþor geck vt þa leit Sigurdr til hans og mællti. allmiok er manninum brugdit. Hann tok þegar at æpa ok hlaupa. enn þeir eptir felagar hans. hann hleypr siþan i hamarrifu nockura þar er eingi mætti at honum komaz ok þar feck hann bana. Sigurdr quad hann of berdreyman. Siþan rufu þeir skælann ok gerdu eftir þui sem Sigurdr mællti. ok vard þeim ecki mein at. þeir sæ þar i skælanum menn dauda ok fe mikit. þa mællti Sigurdr. þat syniz mer ræd at þer hleypit holldi af beinum þeirra i heitukotlum þeirra er þeir hafa ætt ok er sua hægra til kirkiu at færa. ok er þat likazst at Arnbiorn muni her verit hafa þuiat skip þetta annat it fagra er her stendr æ landi hefi ek heyrt at hann hafi ætt. þat var hofdaskip ok steint ok mikil gersemi. Kaup-

[1]) menn *tilf. Cd.*

skipit var brotid miok nedan ok quaz Sigurdr ætla at þat mundi at engum nytium verda. þeir taka or sauminn enn brendu skipit ok hofdu hladna feriuna or obygdum eptirbætinn ok haufdaskipit. þeir kuomu i bygdina ok fundu byskup i Gaurdum ok sagdi Sigurdr honum tiþendin ok fiærfundinn. nu kann ek ei annat at sia sagdi hann enn þat fe þeirra mune bezst komit er beinum þeirra fylgir ok ef ek a æ nockuru ræd þa vil ek at sua se. Byskup kuat hann vel hafa med farit ok vitrliga. ok þat mælltu allir. Mikit fe fylgdi likum þeirra. Byskup kuat gersemi mikla vera hofdaskipit. Sigurdr kuat ok þat sannligaz at þat færi til stadarins fyrir sælum þeirra. audru fe skiptu þeir med ser er fundit hofdu at grænlendzskum logum. Ok er þessi tiþendi komu til Noregs þa spurdi þat sæ madr er Ozsor het ok systurson Arnbiarnar. Ok fleiri menn voru þeir [er sina frændr hofdu mist æ þui skipi [1] ok væntu tilgreizlu vm fecit. þeir komu i Eiriksfiord ok sottu menn til fundar vid þa ok slogu kaupum. siþan toku menn ser vistir. Ozsor styrimadr for i Garda til byskups ok var þar vm uetrinn. J vestri bygd var þæ annat kaupskip. þar var Kolbeinn þorliotzsun norænn madr. hinu þridia skipi red sa madr er Hermundr het ok var Kodransson ok þorgils brodir hans ok hofdu mikla sueit manna.

## Fra Ozsori ok byskupi.

3. Vm vetrinn kom Ozsor at mæli vid byskup at hann ætti þangat fevæn eftir Arnbiorn frænda sinn ok beiddi byskup þar gera greida æ bædi fyrir sina hond ok annarra manna. Byskup kuaz fe tekit hafa eftir grænlendzskum logum eftir slika atburdi. kuaz þetta eigi gert hafa med einrædi sitt. quad þat makligazst at þat fe færi þeim til sæluhialpar er aflat hofdu ok til þeirrar kirkiu er bein þeirra voru at grafin. sagdi þat manndomsleysi at kalla nu til fiar þess. Siþan villdi Ozsorr eigi vera i Gaurdum med byskupi ok for til sueitunga sinna. ok helldu sik sua aller samt vm vetrinn. Vm vorit bio Ozsor mæl til þings þeirra Grænlendinga ok var þat þing i Gaurdum. kom þar byskup ok Einarr Sockasun ok hofdu þeir fiolmenni mikit. Ozsur kom þar ok þeir skipueriar hans. Ok er domr var settr þa geck Einarr at domi med fiolmenni ok quez ætla at þeim mundi erfitt at eiga vid vtlenda menn i Noregi ef sua skylldi þar. vilium ver þau laug hafa er her ganga sagdi Einarr. Ok er domrinn for vt nædu Austmenn eigi mælum fram at koma ok stucku fra. Nu likar Ozsŏri illa. þickizst hafa af vvirding enn fee ecki. ok vard þat hans vrrædi at hann ferr til þar er skipit er þat

[1]) [æ þui skipi er sina frændr hofdu mist *Cd.*

id steinda ok hio or tua(u) bord sinu megin huart vpp fra kilinum. Eftir þat for hann til Vestribygdar ok hitti þa Kolbein ok Ketil Kalfssun ok sagdi þeim sua buit. Kolbeinn quad vsæmd til tekna enda sagdi hann orrædit eigi gott. Ketill mællti. fysa vil ek þik at þu rædizst hingat til vôr þuiat ek hefir spurt fastmæli byskups ok Einars. enn þu munt vanfærr at sitia fyrir tilstilli byskups enn framkuæmd Einars ok verum helldr aller saman. Hann kuat þat ok likligazst at þat mundi af rædazst. þar var j sueit med þeim kaupmonnum Jsasteingrimr. Ozsorr for þæ aftr til Kidiabergs. þar hafdi hann ædr verit.

## Vig Ozsorar.

4. Byskup vard reidr miok er hann spurdi at spillt var skipinu ok kallar til sin Einar Sockason ok mællti. nu er til þess at taka er þu hetz med suardaga er ver forum af Noregi at refsa suiuirding stadarins ok hans eigna vid þa er þat giordu. nu kalla ek Ozsor hafa fyrirgert ser er hann hefir spillt eigu vorri ok synt oss i ollum hlutum oþektarsuip. nu er ecki at dyliazst vid at mer likar eigi suo buit ok ek kalla þik eidrofa ef kyrt er. Einarr suarar. eigi er þetta vel gert herra. enn mæla munu þat sumir at nockur vorkunn se æ vid Ozsor sua miklu sem hann (er) suiptr. þott eigi se vel i hondum haft þa er þeir sa goda gripi er frændr þeirra hofdu ætt ok nædu eigi ok veit ek varla hueriu ek skal her vm heita. þeir skildu fæliga ok var reidisuipr æ byskupi. Ok þa er menn sottu til kirkiumesso ok til veizslu æ Langanes var byskup þar ok Einarr at veizlunni. mart folk var komit til tiþa ok saung byskup messo. þar var kominn Ozsor ok stod vndir kirkiu sunnan ok vid kirkiuvegginn ok taladi sa madr vid hann er Brandr het ok var þordarsun heimamadr byskups. þessi madr bad Auzsor vægia til vid byskup. ok væntir ek sagdi hann at þa muni vel duga enn nu agir vid sua. Ozsurr kuaz ecki fæ þat af ser sua illa sem vid hann var buit. ok ættu þeir nu vm þetta at tala. þa geingu þeir byskup fra kirkiu ok heim til husa ok var Einarr þar i gaungu. Ok er þeir komu fyrir skæladyrnar þa sneriz Einarr fra fylgdinni ok geck einn i brot til kirkiugardzins ok tok auxi or hendi tidamanni einum ok geck sudr vm kirkiuna. Auzsur stod þar ok studdiz æ auxi sina. Einarr hio hann þagar banahogg ok geck inn eftir þat. ok voru þa bord vppi. Einarr steig vndir bordit gegnt byskupi ok mællti ecki ord. Siþan geck hann Brandr þordarsun i stofuna ok fyrir byskup ok mællti. er nockut tiþenda sagt ydr herra. Byskup kuaz eigi

spurt hafa edr huat segir þu. Hann suarar. sigazst leet nu einn her vti. Byskup mællti. [849] huerr velldr þui edr huerr er fyrir vordinn. Brandr quad þann nær er fra kunni at segia. Byskup mællti. velldr þu Einarr liftioni Ozsorur. Hann suarar. þui veldr ek vist. Byskup mællti. eigi eru slik verk god enn þo er vorkunn æ. Brandr bad at þua skylldi likinu ok syngia yfir. Byskup kuad mundu gefa tom til þess. ok sætu menn vndir bordum ok foru at ollu tomliga ok feck byskup sua fremi menn til at syngia yfir likinu. enn Einarr bad þess ok quad þat sama at gera þat med sæmd. Byskup kuez ætla at þat mun rettara at grafa hann eigi at kirkiu. enn þo vid bæn þina skal hann her jarda at þessi kirkiu at eigi er heimilisprestr. ok feck hann eigi til fyrr kennimenn yfir at syngia enn ædr var vm lik buit. Þa mællti Einarr. nu hafa vordit i staucki braug(d) ok ecki litt af ydru tilstilli. enn her eiga þo hlut i ofsamenn miklir ok get ek at storir vfar risi æ med oss. Byskup quaz vænta at menn munu þessum ofsa af ser hrinda enn vnna sæmdar fyrir mæl þetta ok vmdæmis ef eigi væri med ofsa at geingit.

## Dræp Einars Sockasunar.

5. Tidendi þessi spurduzst ok frettu þat kaupmenn. Þa mællti Ketill Kælfssun. ecki for fiarri getu minni at honum mundi haufudgiarnt verda. Madr het Simon frændi Ozsorar mikill madr ok sterkr. Ketill quad vera mega ef Simon fylgdi atgerfi sinni at hann mun muna dræp Auzsorar frænda sins. Simun quaz þar eigi mundu ferlig ord vm hafa. Ketill let bua skip þeirra ok sendi menn æ fund Kolbeins styrimannz ok sagdi honum tidendin. ok segit honum sua at ek skal fara med mæli æ hendr Einari þui mer eru kunnig grænlendzsk laug ok er ek buinn til vid þa. hofum ver ok mikinn lidskost ef at oss kemzst. Simon kuaz vilia Ketils rædum fram fara. Siþan for hann ok hitti Kolbein sagdi honum vigit ok þar med ordsending Ketils [1] ok þeir skylldu snuazst til lidueizlu vid þa or Vestribygd ok sækia til þings þeirra Grænlendinga. Kolbeinn quaz koma mundu at vissu ef hann mætti ok quaz vilia at Grænlendingum yrdi þat eigi hagkeypi at drepa menn þeirra. Ketill tok þegar mæl af Simuni ok for med nockura sueit manna. en sagdi at þeir kaupmenn skylldu hallda skiott eftir ok hafit varning med ydr. Kolbeinn for þegar er honum quomu þessi ord bad ok felaga sina fara til þings ok quezst þa hafa sua mikla sueit at vvist væri at Grænlendingar sæti yfir lut þeirra. Nu hittuzst þeir Kolbeinn ok Ketill

[1]) Kolbeins *Cd.*

ok bæru ræd sin saman. huartueggi þeirra var gilldr madr. Nu foru þeir ok bægdi þeim vedr ok komazst þo fram ok hofdu mikla sueit manna enn þo minni enn þeir hugdu. Nu komu menn til þings. Socki var þar kominn þorissun. hann var vitr madr ok var þa gamall ok miok tekinn til at gera vm mæl manna. hann geingr æ fund þeirra Kolbeins ok Ketils ok kuaz vilia leita vm sættir. vil ek biodaz til segir hann at gera i milli yduar. ok þott mer se meiri vandi æ vid Einar sun minn þa skal þat þo vm gera er mer ok odrum vitrum monnum litzst nær sanni. Ketill quaz ætla at þeir mundi malum fram hallda til mæls fyllingar enn fyrir kuedazst eigi at taka sættir. enn þo er aurt at geingit vid oss enn hofum ecki vanizst þui her til at minka vorn hlut. Socki kuezst ætla at þeir munu eigi iafnt at vigi standa ok kuad vuist at þeir fengi meiri sæmd þo hann dæmdi eigi. Kaupmenn geingu at domi ok hafdi Ketill mæl fram a haund Einari. þa mællti Einarr. þat mun vida spyriazst ef þeir bera oss her mælum. Ok geck at dominum ok hleypir vpp ok fengu þeir eigi halldit. þa mællti Socki. kostr skal enn þess er ek baud at sættazst ok gera ek vm mælit. Ketill quez ætla at þat mundi nu ecki verda. er þu leggr til yfirbota þat er þo er hinn sami viafnadr Einars vm þetta mæl. Ok skildu at þui. Enn þui komu kaupmenn eigi or Vestribygd til þings at þa var andvidri er þeir voru bunir med .ij. skipum. Enn at midiu sumri skylldi sætt gera æ Eidi. þa komu þeir kaupmenn vestan ok logdu at vid nes nockut ok hittuz þeir þa allir saman ok ættu stefnur. þa mællti Kolbeinn at eigi skylldi sua nær hafa geingit vm sættirnar ef þeir hefdi allir samt verit. enn þat þicki mer nu ræd at ver farim allir til þessa fundar med slikum faungum sem til eru. Ok sua var at þeir foru ok leynduzst i leynivogi einum skamt fra byskupsstolinum. þat bar saman at biskupsstolinum at hringdi til hæmessu ok þat at Einarr Sockasun kom. Ok er kaupmenninir heyrdu þetta þa sogdu þeir at mikla skylldi gera virding til Einars at hringia skal j mot honum. ok quadu slikt mikil endemi ok vrdu illa vid. Ketill mællti. verdit eigi illa vid þetta. þuiat sua mætti at berazst at þetta yrdi at likhringingu ædr kuelld kæmi. Nu komu þeir Einarr ok settuzst nidr i brecku einni. Socki leet fram gripi til virdingar ok þa er til gialldz voru ætladir. Ketill mællti. þat vil ek at vit Hermundr Kodranssun virdim gripina. Socki quad sua vera skylldu. Simon frændi Ozsorar syndi æ ser vþektarsuip ok reikadi hia medan gripagialldit var sett. Siþan var framborin spangabrynia ein forn. Simon mællti þa. suiuirdliga er slikt bodit fyrir slikann mann sem Ozsurr var. ok kastadi bryniunni æ vollinn a brot ok geck vpp at

þeim er þeir sætu j breckunni. Ok er þat sæ þeir Grænlendingar þa spretta þeir vpp ok horfdu forbreckis ok i moti honum Simoni. ok þui næst geck Kolbeinn vpp hia þeim er þeir (h)orfdu allir fra ok slæz æ bak þeim ok for einn fra sinum monnum ok var þat iafnsnemma at hann komz æ bak Einari ok hio med auxi milli herda honum ok Einars aux kom i hofud Simoni ok fengu bædir banasær. Einarr mællti er hann fell. sliks var at von. Siþan hliop þordr [850] fostbrodir Einars at Kolbeini ok villdi hoggua hann. enn Kolbeinn snaradiz vid honum ok stack fram auxarhyrnonni ok kom i barkann þordi ok hafdi hann þegar bana. Siþan slær i bardaga med þeim. Byskup sat hia Einari ok andadizst hann i kniæm honum. Steingrimr het madr er þat mællti at þeir skyldu gera sua vel at beriazst eigi ok geck a milli med nockura menn. enn huorirtueggiu voru sua odir at Steingrimr var lagdr suerdi i gegnum i þessi hrid. Einarr andadiz vpp æ breckunni vid bud Grænlendinga. Ok nu vrdu menn særir miok ok komuz þeir Kolbeinn til skips med .iij. sina menn vegna ok foru siþan yfir Einarsfiord til Skialgsbuda. þar voru kaupskipin ok voru þa miok i bunadi. Kolbeinn kuad i hafa giorst nockura rostu. ok vil ek ætla at Grænlendingar vni nu eigi betr vid enn ædr. Ketill mællti. sannyrdi gafz þer Kolbeinn sagdi hann at ver myndim heyra likhringina ædr ver færim i brott. ok ætla ek at hann Einarr se daudr borinn til kirkiu. Kolbeinn quez helldr þannig hafa at stutt. Ketill mællti. þess er vôn at Grænlendingar mune sækia æ varn fund ok kalla ek ræd at menn halldi æ bunadi sinum eftir faungum ok se allir æ skipum vm nætr. Ok sua gerdu þeir. Socki harmadi miok þessi tiþendi ok bad menn fulltingis at veita ser vigsgeingi.

## Sætt Grænlendinga ok kaupmanna.

6. Hallr het madr. hann bio at Solarfiollum vitr madr ok godr bondi. hann var i lidi med Socka ok kom sidazst med sinu lidi. hann mællti til Socka. ecki vænligh litz mer þin ætlan at leggia smaskipum at storskipum vid slikann vidbunat sem ek hyggr at þeir munu hafa. enn ek veit eigi huersu traust lid er þu hefir. enn allir vaskir menn munu vel gefazst. enn hinir munu hlifazst meirr ok verda hofudsmenn fyrir þat vppgefnir ok horfir þa enn þunglegar vorr mælalutr enn ædr. nu syniz mer ræd ef menn skulu at leggia at eidar fari fram at huerr madr skyli annathuart her falla edr hafa sigr. Enn vid þessi ord Hallz dignudu menn miok. Socki mællti. eigi munu ver þo skilia vid þetta at vsett se mælnunum. Hallr quez mundu leita vm sættir milli þeirra ok

kalladi æ kaupmenn ok mællti. huart skal mer fritt at ganga æ fund yduarn. þeir Kolbeinn ok Ketill suara at honum skylldi fritt. Siþan hitti hann þæ ok leet naudsyn at mælum veri sett eftir slik storvirki. þeir quaduz nu bunir vid huoru sem adrir villdi. quadu af þeim landzmonnum allann þenna viafnat stadit hafa. enn nu er þu synir sua mikla godgirnd þa vnv ver þui at þu gerir i milli vŏr. Hann quaz eftir þui gera mundu ok dæma er honum syndizst rettligazst huorsu sem huorum likadi. Siþan var þetta fyrir Socka borid. Hann kuezst ok mundu vna vmdæmi Hallz. Kaupmenn skylldu vm nætr at bunadi sinum vera ok quodu Socka ecki annat lika enn þeir yrdi i brotu sem fyst. enn ef þeir seinka bunad sinn ok gera mer skapraun i þui þa er vis væn at þeir skulu botalausir ef þeir verda teknir. Nu skildu þeir at þui ok var æ sættarfund kuedit. Ketill mællti. ecki horfir skiotliga bunadr vorr enn vistafaung þuerra helldr. ok er þat mitt ræd at leita eftir vistunum ok veit ek huar sæ madr byrr er mikinn mat æ ok kalla ek ræd at sækia eftir. þeir kuoduz þess albunir. Siþan lupu þeir vpp eina nætt fra skipum .xxx. manna saman allir vopnadir ok komu at bænum ok var þar autt allt. þorarinn het bondi sa er þar bio. Ketill mællti. eigi hefir mitt ræd vel gefiz. Ok fara siþan i brot fra bænum ok ofan æ leid til skipa ok var þar hrisott er þeir foru. þa mællti Ketill. syfiar mik sagdi hann ok verd ek at sofa. þeir quadu þat ecki miok rædligt. enn þo lagdiz hann nidr ok sofnadi. enn þeir sætu yfir. Litlu sidarr vaknadi hann ok mællti. mart hefir fyrir mik borit. huat mun varda þott ver kippim vpp hrislu þessi er her er vndir hofdi mer. þeir kiptu vpp hrislunni ok var þar vndir jardhus mikit. Ketill mællti. vitum fyst huat her er fanga. þeir fundu þar .lx. slatrgripa ok .xij. vættir smiors skreid mikla. Vel er þat sagdi Ketill at ek hefir eigi villt vpp borit fyrir ydr. Nu fara þeir til skips med feing sinn. Nu lidr at sættarfundinum ok komu huorirtueggiu til þess fundar kaupmenn ok landzmenn. þa mællti Hallr. su er sættargiord min yduar i milli at ek vil at æ standiz vig Oszorar ok Einars enn fyrir manna mun skulu koma sektir Austmanna at þeir skulu her ecki eiga vist nee væri. þau vig skulu ok iofn vera Steingrims bonda ok Simonar. Kræks austmannz ok þorfinnz grænlendings. Vighuatz austmannz ok Biarnar grænlendings. þoris ok þordar. nu er einn vbættr vorr madr er þorarinn heitir omegdarmadr. hann skal fe bæta. Socki quad ser þungt gerdir lika ok sua odrum Grænlendingum er þannig for vm manniafnat. Hallr quaz ætla at þar muni þo stadar nema hans vmmæli. ok vid þat skildu þeir. Siþan rak is æt ok þakti alla fiordu ok hugdu Grænlendingar þa

gott til ef þeir mætti taka þa ok þeir færi eigi sua brot sem mællt var. enn vid þat sialft at mæanadar motid kom þa rak i brot allann isinn ok gaf kaupmonnum brot af Grænlandi ok skildu vid þat. þeir komu vid Noreg. Kolbeinn hafdi haft einn huitabiorn af Grænlandi ok for med dyrit æ fund Haralldz konungs gilla ok gaf honum ok tiadi fyrir konungi huersu þungs hlutar Grænlendingar voru af verdir ok færdi þa miok i rog. enn konungr spurdi annat sidar ok þotti honum Kolbeinn hafa fals fyrir sik borit ok komu eingi laun fyrir dyrit. Siþan hliop Kolbeinn i flock med Sigurdi slembidiakn ok geck inn at Haralldi konungi gilla ok veitti honum æverka. Ok siþan er þeir foru fyrir Danmork ok sigldu miok enn Kolbeinn var æ eptirbæti enn vedr huast þa sleit fra bætinn ok druknadi Kolbeinn. Enn þeir Hermundr komu til Jslandz til ættiarda sinna. Ok lykr þar þessi sogu.

---

þessir hafa byskupar verit æ Grænlandi. Arnalldr. Jonn kauttr. Eirekr. Haralldr. Jonn smyrill AArnason. Helgi. Nickulæs. Olæfr. þordr.

Sua margar eru kirkiur a Grænlandi. Heriolfsnes er austazst ok er þat kirkia i Heriolfsfirdi. aunnur i Vatzdali i Ketilsfirdi. hin .iij. j Vik enn i Ketilsfirdi. jnn .iiij. j Vogum j Siglufirdi. hin .v. vndir Hofda j Austfirdi. Hinn .vj. byskupsstollinn i Gaurdum i Einarsfirdi. hin .vij. at Hardsteinabergi. hin .viij. i Brattahlid enn i Eireksfirdi. hin .ix. vndir Solarfiollum i Jsafirdi ok hin .x. hin .xi. j Hualseyiarfirdi .xij. æ Gardanesi i Midfiordum. þessar eru i Vestribygd. a Sandnesi [871] i Lysufirdi. aunnur i Hopi i Agnafirdi. þridia j Anavik j Rangafirdi.

## FRA HELGA OK VLFI.

Sigurdr jarl Lauduerssun reed fyrir Orkneyium. hann var hofþingi mikill. Madr het Vlfr illi hann bio i Sandey j Orkneyium. hann var mikill hermadr ok fylgdi náfni. Haralldr het madr er bio i Rinansey. Helgi het son hans. hann var efniligr ok vænn i asionu. Hann mællti til faudur sins. skipa villda ek at þu afladir mer ok villda ek heria æ Skotlandzfiordu ok vita huat fyrir legdiz. Hann suarar. þat mæ ek gera ok er þat vngra manna sidr. Siþan heriadi Helgi ok for vel med hernadi sinum þott hann væri heidinn. þa voru þo eigi allir iafnir. Ok er Helgi var i brotu or Orkneyium þa ferr Vlfr inn illi til Rinanseyiar ok hittir Haralld ok mællti. lendur þinar villda ek kaupa. þær falla mer vel i hag enn ek skal fæ þer lausafe fyrir. Haralldr kuezst eigi mundu honum eignir sinar selia. quez eigi þess vita væn at hann ætti[1] þar vist ne veru. Vlfr quez ætla audru sinni er hann kæmi at hann mun verda laust at læta þat er kraft verdr. Eftir þat skildu þeir. Fæm nottum sidar kom Vlfr æ (v)vart ok tok Haralld hondum ok kuez ætla at þau vmskipti mundi nu verda at hann mun læta bædi laundin ok lifit. ok let Vlfr siþan drepa hann. þetta verk mælltizst illa fyrir. ok er Sigurdr jarl spurdi lastadi hann verkit. Vlfr kom æ fund jarls ok sagdi honum. Jarl segir at honum likar illa slik tiltekia. ok vil ek at þu bætir frændum sæmiliga. Vlfr kuad hann mundu þui ræda enn quad ser margt hafa verit i mot gert af Haralldi. Nu vard eigi miok eptir geingit mælinu er Helgi var eigi i eyiunum. Madr het Bærdr fagri frændi Vlfs illa. hann var vinsæll madr ok vel at ser ok var þo opt med Vlfi. Eitthuert sinn mællti Bærdr til Vlfs. ecki munu vit samhuga verda. þu slæzst æ illuirki ok er þat fiarri minu skaplyndi ok mun ek i brot rædaz. Vlfr suarar. þat er nu medallagi rædligt medan mælum er ecki sett enn Helgi Haralldzsun er i vikingu. Hann kuaz þo fara mundu ok byr

[1]) ætt ei *Cd.*

sik med skipi or Rognualldzey. Ok i þui er hann er buinn þa sigldi Helgi at eyiunnm ok hafdi þa spurt dræp faudur sins. heitr nu æ menn sina at þeir drepi Bæard quad hann skylldazstan mann Vlfi einnhuern. Bæardr bioz vid ok quez ecki til saka hafa gert vid hann en sagdiz eigi vilia frændsemi i sundr segia vid Vlf. Siþan beriaz þeir ok fellr Bæardr þar þuiat Helgi hefir mikit lid. ok er Vlfr spyrr þetta safnar hann ser lidi. Enn er Sigurdr jarl frettir þetta stefnir hann Helga æ sinn fund. ok er þeir finnazst mællti jarl. þu hefir gert illt verk i moti hormum þinum ok leitadir eigi eftir þinni sæmd med voru rædi. var nu ædr sættum æ komid ok þer sæmd hugud. Helgi suarar þa. skal enn vera allt æ ydru valldi enn vkunnigt var mer vm sætt þæ. Jarl mællti. þat mun ek vilia at gera sætt med minum monnum her i eyiunum. Ok siþan helldr Helgi i brott. Vlfr gerir þegar menn til hans med .ij. skipum ok hittuzst eigi. ok var Helgi fyrr heim kominn til bua sinna. ok fretti þetta ok kuez ætla at honum mundi engi ro i eyiunum ok selldi iardir sinar ok bio sik brot ok kuad þa vel þo þeir Vlfr hittizst ef hann villdi eigi hlita domi jarls sem hann gerdi sik berann i. Siþan snyr hann til bua Vlfs ok var hann eigi heima. Helgi rænir þar ok tekr i brott dottur hans er Helga heitir ok quad ser slikt helltz henta i faudurbætr. hon bad hann þat eigi gera þuiat fadir minn mun þræliga eftir sækia. hann quaz hætta mundu til þess. Sidan for hann sudr vm eyiar. Enn er Vlfr spyrr þetta ferr hann eptir honum med morg skip ok quaz opt hafa hefnt minni suiuirdingar. Enn er þeir hittuzst þa borduzst þeir ok var Helgi lidfæri ok rudduz skip hans enn hann vardiz vel ok vard særr. Enn er næattadi þa gerdi æ storm vedrs. ok er þat hans fangaræd at hann hleypr fyrir bord med dottur Vlfs ok lagdiz med hana fra skipunum ok kemz sua til landz i næattmyrkri ok i skog ok sæ þar elld ok einn mann vid. Helgi spyrr huerr sæ væri. hann quaz vera boandkarl einn. ok veit ek deili æ þer ok fortu vel med hernadi þinum vid oss smabændr. Helgi sagdi honum sua sem var vm sina hægi. Bondi þessi het þorfinnr ok veitti hann Helga vm vetrinn allt slikt er hann þurfti ok gafz þeim bædum vel. Helgi quaz vilia gera brudlaup sitt til Helgu i hans husi. þorfinnr quad þat dæligt enn ecki virduligt. Enn þat for þo fram ok lidr vetrinn af hendi. þa quaz Helgi vilia leiga jord af bonda ok quaz ætla at vera mundi annat huart at Vlfr mun deyia skiott edr hann mun finna hann. Nu leigir hann jord ok gerir bu. Siþan spyrr hann at Vlfr var daudr. Helgi ætti son vid konu sinni Helgu ok het hann Bæardr. hann var vel i lydzsku ok sidlætr. vænn madr ok giorr at ser. Ok er .ij. vetr lidu þa fara þau

Helgi aftr til Orkneyia ok taka vid eignum sinum. bædi þeim er Vlfr hafdi att ok þeim er Helgi ætti eftir fedr sinn Haralld. ok skorti nu eigi fe. Ok er Bærdr son hans var .xij. vetra villdi hann æ brott ok quaz vilia afla ser fiær. Helgi quad hann enn vngann til ferda. Bærdr mællti. vid erum vskaplikir fadir minn sagdi hann ok vil ek til þeirra þioda fara er mer er sagt at trui æ sialfan himnagud. Helgi quad hann vlikan Vlfi modurfedr sinum. Siþan for hann ok kom til eins bonda miok i fiarlægd ok quaz vilia vinna fyrir honum. Bondinn kuad ser þat vel lika. Hann sat at fe ok vann ser einn. enn bondi var hardla rikr. Sueinninn var litt klæddr enn þo for syslan vel fram ok kuaz bondi mundu gefa honum ku i kaup sitt ok kuaz (hann) þat vilia. Ok (ferr) hann nu til skogar vm daginn ok i skoginum mætti hann stafkarli einum. þessi bad Bærd gefa ser kuna til Petrs þacka. Bærdr suarar. þu kant vel at bidia ok skylldi Petr þessi verda vinr minn enda skal ek gefa honum kuna. Bærdr kom enn til bonda ok vann fyrir honum. ok foru þau misseri enn betr fram vm fee bonda ok feck honum þa enn ku adra. For enn sem fyrr at stafkarlinn kom med sama hætti ok beiddizt enn kyr fyrir Petrs skylld enn Bærdr gaf honum. Bondinn spurdi huad af vard kunum. Bærdr sagdi þa hafa er þurftu. Medr þessum bonda var Bærdr hinn þridia vetr ok gætti enn fiær ok voru þa nær tua(u) hofud æ hueriu þui er hann ætti. ok lukti hann Bærdi ku enu þridiu. kom enn æ sama degi stafkarlinn til hans i skoginum ok quaz enn vilia þiggia þessa ku i Petrs nafni. hann veitte þat þegar ok gaf kuna. [852] þa mællti þessi madr til Bærdar. nu vil ek fara hondum vm þik. Ok sua var. ok þotti honum sem dofi færi or hueriu hans beini. Siþan mællti hann. hamingiumadr muntu verda. Ok þa setti hann bok æ auxl honum. ok sa Bærdr þa vida vm lond. þa mællti stafkarlinn. þicki þer nu launadar kyrnar. Sua er vist sagdi Bærdr. Sidan sæ hann vm allt Jrland. þa mællti enn hinn komni madr. þicki þer þa launadar kyrnar ef þu hefir valld iafnvidan sem nu ser þu. Bærdr quad sua vera. Her er nu kominn Petr postuli sagdi hann. ok gaf hann honum þa plenarium. ok skal ek sua launa þer kyr at vid skulum alldri skildir vera. Siþan fann Bærdr bonda ok sagdi honum þenna atburd. Bondi kendi hann trautt sua var hann biartr ok hamingiusamligr. ok baud honum at þiggia af fe sinu slikt er hann villdi. Hann bad bonda klappa ser einn stein ok sua var gert. var hann þa skirdr. en settiz siþan i þann sama stein ok vard allmikill dyrdarmadr. Eftir nockur ær lidin vard hann byskup æ Jrlandi ok hinn mesti hofþingi. þar kom til hans fadir hans ok modir brædr ok systr ok gæddi hann þau oll morgum

godum hlutum. Launadi allzvalldandi gud honum sem ollum odrum sitt litillæti sem hann sialfr vottar at huerr er sik lægir i augliti skaparans þann skal hann siælfr vpp hefia. Fadir ok modir Bærdar foru aptr til Orkneyia ok nædu ollum eignum sinum ok biuggu þar til elli. Ok lykr þar þessi soghu.

---

## SAGA ENS HEILAGA EDUARDAR.

Eduardr konungr hinn helgi var son Adalræds konungs Edgeirssunar. Af honum heyrdi enn heilagi Dunstanus byskup eingla saung i lopti æ hans burdardegi med þeim hætti at æ hans dogum mundi heilug kristni fæ frid ok framgang i Englandi. Modir Eduardar var Emma drottning dottir Rikgardar hertuga af Nordmandi. hon var systir Rodbertz er kalladr var diabaul. Hann leet hertugadom ok geck i heremitalif Heilagr Eduardr elskadi þegar æ vnga alldri heilaga kirkiu ok tidagerd. hann for klaustra at vitia ok þa munka at elska er honum þottu helgazstir ok sidsamazstir. hann gerdi margar ǫlmosur þeim er fatækir vorų ok þurftugir. hann kalladi iafnan æ almattigann gud ok hans helga menn i bænum sinum. enn þo tignadi hann vmfram alla adra næst gudi vora fru sanctam Mariam guds modur. þar næst Petrum postula sem sinn fostrfaudur ok Johannem postula ok evangelistam sua sem gædzslumann þess reina lifnadar er hann hellt alla sina æfi. þui at sua segia sannfrodir menn at þær þriar meyiar sem hann feck ser til eiginkuenna hueria eptir adra helldu hreinlifi vm alla sina daga eftir hans fortolum. Eptir Rodbert modurbrodur hins heilaga Eduardar er sigh hafdi fra skilit rikinu tok hertugadom Vilhialmr son hans er kalladr var bastardr. enn hann var þo eiginkonu sun ok het Gunnhilldr modir hans. hon var systir Adalræds konungs. enn allir hertugar i Nordmandi fyrir honum voru frillusynir ok var hann þui bastardr kalladr sem hans forelldrar allir. þeir gerdu frid milli sin Vilhialmr bastardr ok Ballduini milldi greifi af Flandr. þa het Ballduini greifi at gifta honum Matthilldi dottur sina. Ok er hertuginn kom til greifans at sia iumfruna. hann taladi til hennar blidliga ok kalladi hana vnnastu sina. þa suarar jumfruin. ęr ertu vallari þinn er þu hyggr þar sem ek er komin af konungligri ætt mune vilia giptaz einum bastardi. þa reiddiz hertuginn ok tok i hær henne ok felldi hana til iardar ok trad hana vndir fotum

ok mællti sua. eigi er ek bastardr nema at auknefni. Siþan liop hann æ hest sinn ok menn hans ok reid i brot skyndiliga. Greifinn ok hans greifina huggudu jumfruna ok hetu henni at gifta hana innan mæanadar hertuganum af Saxon. Jumfruin suarar. engum skal ek giptazst a minum lifsdogum nema þeim er ek var heitin þuiat engin ma at minni hugsan vid hann iafnazst. Eftir þetta sendi greifinn menn eftir hertuganum at kalla hann aftr. Hertuginn hugdi at þeir mundi vilia taka hann aftr med forzsi ok þui hio hann einn þeirra sundr i midiu i einu hauggi. enn sendimenn sogdu at greifinn villdi honum gott eina. sneri hertuginn þa aftr med þeim. ok i þessi ferd gerdi Vilhialmr bastardr brudkaup til jumfru Mathilldar ok for siþan heim i Nordmandi.

### Fra Eduardi konungi.

2. Nv er at vikia soghunni til ens heilaga Ethuardar konungs. at þa glodduz allir hofþingiar med alþydu i Englandi er þeir hofdu þat frelsi feingit eftir Knut konung hinn rika ok sonu hans at taka Jathuard til konungs i Englandi er kominn var af rettri ok fornri Englakonunga ætt. siþan var hann koronadr. ok þar af feck heilug kirkia frelsi enn hofþingiar framgang enn vtlendir vikingar ok vondir menn nidran enn alþyda frid ok farsælu. Margir lutir vrdu þeir i hans lifi vm hans iarteinir ok spædom at sannfrodir menn hafa rita lætid æ bokum. enn fyrir fæfrædi vitum ver varla huat fyrr edr sidar hefir verit æ hans dogum. ok þui segium ver þat fyst er oss þickir mestrar frasagnar vert.

### Fra synum Eduardar konungs. capitulum.

3. Þat var æ einum huitasunnudegi sem enn heilagi Jathuardr konungr var staddr at Petrskirkiu i Vestmusteri skryddr ollum krunuklædum ok hlyddi messo. ok j þann tima er vpp var halldit likam vors herra Jesu Cristi kom at konunginum hlætr sua mikill at allir vndraduzst þeir er hia voru. [853] Eftir messo spyria hans menn huat uolldi þessum fæheyrda hlatri. Konungr suarar. Danakonungr bioz med vtalligann fiolda skipa at heria æ vort land. ok sem hann skylldi vpp stiga j skipit af einum bæti þa fell hann æ kaf ok druknadi at rettum guds domi. þa voru menn sendir sem skiotazst til Danmerkr ok reyndiz þetta allt satt sem konungr hafdi sagt. En med þui at Danakonungr var ecki nefndr þa þickiaz frodir menn i Noregs konungs riki eigi vist vita huerr þessi konungr hefir verit. nema þat er hellz sagt fra ordum Gizsurar Hallzsunar er vitrazstr logmadr var æ Jslandi at þessi konungr hafi verit Sueinn son Knutz konungs rika ok Alfiuu. Sua bar enn

til þridia dag iola a hætid Johannis evangeliste sem konungr geck i processione skryddr krunuklædum þa sa hann hia ser sua sem einn pilagrim af Jorsolum kominn i fogrum slagningi. þessi pilagrimr bad konung gefa ser nockut enn konungrinn kuezst ecki þar til hafa þat er hann mætti gefa honum. Pilagrimr mællti gef þu mer nockut fyrir skylld þess heilaga mannz er þu elskar mest. þa mintiz konungr a Johannem postula er þa var hætid halldin ok gaf pilagrim krunugull sitt. þa huarf pilagrimr at syn. A næstu nott eptir birtiz heilagr Johannes postuli einum gofgum manni enskum herteknum er þa hafdi verit .ix. (vetr) i fanghelsi af Saracinis ok baud honum at segia Englakonungi at sialfr Johannes ewangelista hafdi honum vitrazt a sinni hætijd ok bad hann færa konungi fingrgull sitt at hann efadi eigi at þat væri satt er hann sagdi. þæ færdi hinn heilagi Johannes hann heim i Eingland æ einni stundu til sinna eigna. var hann ok skiott kenndr af sinni hustru ok bornum ok huildiz hann þann dag med þeim. Enn vm morgininn eftir for hann til Jathuardar konungs ok nædi at tala vid hann sua at allir mattu heyra þeir er inni voru þau ord er heilagr Johannes hafdi bodit at hann skylldi konungi segia. hann sagdi ok inniliga fra þui huersu heilagr Johannes hafdi fært hann æ einni momentu ok leyst af grimmum Saracinis þrældomi. þetta vndraduzst allir er heyrdu ok kueiktuz einkannliga af þessum fæheyrda atburd til lofs ok astar vid sælann Johannem postula ok evangelistam ok til sannrar hlydni vid enn heilaga Jathuard konung.

## Fyrirburdir. capitulum.

4. Jathuardr konungr var enn einn tima i Vestmyst ok sat yfir bord koronadr milli margra hofþingia. þat var a paschadag. enn þessir voru agætazstir Haralldr jarl ok einn byskup ok einn aboti volldugr. Jathuardr konungr hugsadi meirr vm himneska luti enn jardlega sua sem hann sæi i einn spegil þa vndarliga luti er hann feck mikinn lætr af. Ok þa er bordin voru burt tekinn spurdu hofþingiar at hueriu hann hafdi hlegit. ok sem þeir hofdu leingi eftir spurt þa suarar hann þeim. .vij. sofendr er huila i fiallinu Chelio ok nu hafa þeir .ccc. æra legit æ (hægri) hlid en er ek tok hlæia þa snævruzst þeir a vinstri hlid ok sua munu þeir liggia .lxx. ok .iiij. ær. ok hefir þetta at merkia mikla vhamingiu daudligra manna þuiat æ þessum ærum munu þeir lutir allir fram koma er gud hefir fyrir sagt at verda mundu vm heims enda at þiod mun risa vpp i moti þiodu ok riki i moti riki ok verda storir landzskialftar

ok drepsottir hallæri ok himneskar ognir þuiat nu verdr vfridr ok orrostor af heidnum monnum æ kristna menn. enn cristnir menn skulu vinna stundum sigr æ heidnum monnum. Marga luti sagdi konungr þeim þa er þeir vndraduzst huersu hann matti vita bædi[1] af pinu .vij. sofendra ok alitum þeirra ok flest þat sem æ engum bokum stendr af þeim ritad ok sagdi sua inniliga fra þeim sem hann hefdi optliga seet þæ. Enn er þessir .iij. hofþingiar hofdu þetta heyrt gerdu þeir sina sendiboda jarlinn riddara byskupinn klerk aboti munk til keisara i Miklagardi. þeir hofdu med ser bref ok præsentur Jathuardar Englakonungs. Keisarinn tok sæmiliga vid þeim ok sendi þa til erchibyskups af Effeso med sin bref er Girkir kalla sacram at hann syndi sendimonnum Englakonungs likami .vij. sofenda. Byskup gerdi sua ok profadizt allt sem Jathuardr konungr hafdi þeim sagt. Grickir kuoduz þat ok sueria meghu at þeirra forelldrar hofdu sua sagt at .vij. sofendr lægu æ hægri hlid. enn nu sem profuat var fyrir þa ensku menn þa lægu þeir a vinstri hlid. Eptir þetta kom þat skiott fram er enn heilagi Jathuardr hafdi sagt vm vfrid þann ok onnur veralldar afelli. þuiat Agarene Arabes ok Tyrkir gerdu mikinn vfrid i Syria Licia ok minni Asia ok eyddu margar borgir Effesum ok Jerusalem. ok .vij. ær eftir þetta anduduz .iij. (pafar) æ odrum .vij. ærum Victor Stephanus ok Nicholaus.

## Fra Eduardi konungi.

5. þat bar at a nockurum hatidardegi er Jathuardr konungr hlyddi messu ok stod nær honum einn byskup. ok þa er vpp var halldit vars herra likama syndiz konunginum sem þat væri vngr sueinn hardla fagr. Konungr visadi byskupi til þessa stortakns. syndiz honum þa sua sem konungi enn engir sa fleiri þessa iarteign. Sa atburdr vard er Jathuardr konungr sat i hæsæti sinu at einn kryplingr læ fyrir herbergisdyrum hans. hann sagdi sua at Petr postuli hafdi hann þangat sendan ok quedit a þat at sialfr konungr skylldi bera hann til Petrskirkiu ok hann mundi þa heill verda. Enn er þetta var sagt Jathuardi konungi geck hann til hans ok heyrdi sialfr af honum þessi ord ok fyrir sakir trufesti ok litillætis þa tekr konungr kryplinginn i fang ser ok berr til Petrskirkiu i Lundunum ok setti þar nidr. þa vard hann þegar alrettr. lofudu allir gud þeir er sa ok [854] heyrdu þessa jarteign. þat var einn hatidardag þa er Jathuardr konungr sat yfir bordi at i herbergit kuomu

[1]) bædr *Cd.*

menn .iij. ok voru .ij. blindir enn einn hafdi eitt auga ok sa þo litid. þeir bædu konung miskunna ser ok sogdu honum vanheilsu sina. Konungrinn bad fa þeim handlaug sina er hann hafdi tekit eftir mat ok bad þa striuka vm augu ser. ok er þeir hofdu þetta gert vrdu þeir skiott heilir ok foru fegnir i brot ok hofdu fyrir heilagleik konungs feingit .v. augu. Opt fengu menn af hans handlaug heilsubot ok af þui er hann for hondum vm siuka menn.

## Liflæt Gudina jarls.

6. J þann tima er andadar voru .ij. konur Jathuardar konungs ok badar hofdu halldit skirlifi af hans fortolum þa feck hann ennar þridiu. su var dottir Gudina jarls Vlfnadrssunar systur Haralldz jarls ok Tosta jarls ok annarra Gudina sona. Toku þeir fedgar þa virdingar miklar i Englandi ok hofdu allir ena bezstu jarldoma. Sua segia enskir menn at Haralldr jarl Gudinason hafi verit fræknazstr madr ok bezstr riddari i Englandi bædi at fornu ok nyiu. Jathuardr konungr atti vngan brodur sammædra enn ei kunnum ver at nefna fedr hans ok var hann þo mikill hofþingi. þessi madr var næstr konungdomi i Englandi eftir Jathuard konung brodur sinn ef hann andadizst sonlauss. Enn er Gudini jarl vard þess viss af drottningu sinni at hon hellt reinlifi af fortaulum konungs ok þau mundu eingann sun eiga til rikis eptir sik þa villdi Gudini jarl þar rædum til ræda at Haralldr sun hans yrdi konungr er þa þotti mestr agætismadr af ollum enskum hofþingium. Ok i þann tima feck konungs brodir brædasott ok do. vm þat var miog margrætt huat sueini þessum mundi hafa at bana vordit. þat var einn hatidardag er Jathuardr konungr sat yfir bordi ok sat Gudini jarl til annarrar handar konungi enn æ adra hond konungi sat byskup. ok er skutilsueinn bar einn disk fyrir konunginn þa drap hann fæti ok rasadi naliga til fallz. þa stack hann nidr odrum fæti hart ok studdi sik sua. þa mællti Gudini jarl. hlifdi þar nu brodir brodur. Konuugr suarar. eigi hlifir minn brodir mer sua. þa suarar jarl. sua læti gud mik niota þersa morsels er nu ętla ek at eta sem eigi red ek dauda brodur þinum þottu grunir mik vm þat jafnan. Siþan tok jarl morsel af diskinum ok ætladi at eta. þa tok konungr hond jarls vm vlflidinn ok retti til byskups ok mællti. herra lauardr blezadu sagdi konungr. Byskup gerdi sua. Siþan lagdi jarl Gudini bitann i munn ser ok æt ok er hann villdi suelgia þa stod hann i halsi honum sua at huarki geck vpp ne nidr. ok þar do jarl þegar i stad ok var dreginn ofugr or hasætinu ok vt fyrir

hræfugla. enn þo var hann grafinn siþan at kirkiu fyrir bæn frænda ok vina.

7. Sva hugsadi enn heilagi Jathuardr konungr eptir at honum þotti hertugi Vilhialmr bastardr næst konungdomi i Englandi eftir sik bædi fyrir þær sakir at hann var kominn af ætt Englakonunga ok nainnar frændsemi er þeirra var i milli. þat var eitt sinn er Jathuardr konungr atti tal vid alla hofþingia i Englandi. let hann þa sueria ser eida syni Gudina jarls ok þar med alla adra at þeir skylldu engan konung taka eftir hann i Englandi nema Vilhialm bastard. þat var nockuru sidar at Haralldr jarl Gudinasun for at erendum sinum sudr vm sio ok gaf honum eigi aptr til Englandz fyrir motvidri þa kom hann til Vilhialms bastardz ok dualdiz med honum vm rijd. þa veitti Haralldr Vilhialmi suardaga til þess at hallda eigi riki i moti honum i Englandi þa er Jathuardar konungs misti vid. þat er ok nockurra manna sogn at þa festi hann ser jumfruna dottur hertugans Vilhialms ok rauf sialfr þau festamæl. þa er Jathuardr konungr hafdi radit Englandi .xx. ok .v. ær tok hann sott i Lundunum a jolum. kalladi hann þa til sin marga hofþingia ok lysti þa enn þui at Vilhialmr bastardr skylldi konungr vera i Englandi eftir hann. Enn er sottin tok at þrongua honum sua at litill var mættr hans ok mal segia menn at Haralldr jarl Gudinasun lyti yfir hann ok skirskotadi þa þegar at konungr hefdi þa gefit (honum) rikit eftir sik i Englandi. Jathuardr konungr andadizst litlu sidarr ok var jardadr i Lundunum i Pælskirkiu. Hann skein þegar iarteinum eftir dauda sinn sem ædr. hann la i iordu allt þar til er heilagr Thomas erchibyskup tok hann vpp ok let leggia hann i skrin. Enn med þui at Haralldr jarl Gudinasun var storættadr i Englandi ok mannadr vel enn landzmonnum þotti þungt at ganga vndir riki vtlendra hofþingia þa toku þeir Haralld til konungs ok var hann vigdr vndir koronu sem sidr er til enskra konunga. Vid þetta var ecki Tosti jarl brodir hans ok var hann þo þeirra elldri ok þotti hann þui nær konungdominum. fann hann þa Haralld brodur sinn ok beiddiz at vera jafn vid hann enn Haralldr konungr syniadi þess. þa for Tosti jarl or landi ok fyrst til Danmerkr a fund Sueins konungs Vlfssunar frænda sins ok bad hann vinna England vndir sik sem gert hofdu enir fyrri Danakonungar. enn Sueinn konungr var þess eigi buinn. For þa Tosti jarl nordr i Noreg ok eggiadi Haralld konung Sigurdarson at vinna England vndir sik. Ok þetta sumar eftir foru þeir Haralldr konungr Sigurdarson ok Tosti jarl til Englandz med her ok felldu i Joruik Maurukara jarl Gudinasun en Gyrdr jarl brodir

hans flydi or þeirri orostu. Enn fæm nottum sidarr baurduz þeir Haralldr konungr Gudinasun ok Haralldr Sigurdarsun ok med honum Tosti jarl vid Stafnfur(d)u bryggiur. ok fellu þeir þar badir Haralldr ok Tosti sem segir i æfisogum Noregs konunga. Enn er Vilhialmr bastardr hertugi spurdi andlæt Jatuardar konungs frænda sins ok þat at Haralldr Gudinasun hafdi sik lætid taka til konungs likadi honum storilla ok þotti Haralldr hafa rofit særi sin ok einkamal vid sik. safnar hann þa þegar til sin hofþingium ollum þeim er hann feck ok stormiklum her odrum. Hann hio her þann allan vt i England i þann tima er þeir hofdu barizst Haralldarnir. tok hann þegar at heria er hann var landfastr vordinn ok lagdi vndir sik land huar sem hann kom. Enn er Haralldr Gudinasun spurdi þetta þa for hann i mot honum ok vard fundr þeirra sudr vid Helsingiaport ok hafdi huartueggi allmikinn her. þa mællti Gyrdr jarl vid Haralld konung brodur sinn. þat vggir mik at þer takizst eigi [855] at hallda bardaga moti Vilhialmi bastardi þui at þu ert eidsuari hans ok hefir þu suarit honum þat at hallda eigi England fyrir honum. Haralldr konungr suarar. vera kann þat brodir sagdi hann at þer se betr hent at beriaz vid Vilhialm enn mer. enn ecki hefir ek vanr verit at liggia i hreysum þa er adrir menn hafa barizst. ok eigi skal Vilhialmr bastardr þat spyria at ek þora eigi at sia hann. Eftir þat let Haralldr konungr setia vpp merki sitt ok red siþan til orrostu moti Vilhialmi ok vard þar allmikill bardagi ok þotti leingi vsynt huarr sigr mundi hafa. Enn er æ leid orrostona þa tok at snua mannfallinu a hendr enskum monnum ok fell þar mikill her enn allir flydu þeir er lifit þagu. þar fell Haralldr konungr af mædi ok af frabærri sokn ok Gyrdr jarl brodir hans enn Valþiofr jarl brodir þeirra flydi or orrostu. Vilhialmr let siþan brenna hann i skogi einum ok med honum .c. manna. þat er sogn enskra manna sannordra at a næstu nott eftir bardagann hafi nockurir vinir Haralldz konungs farit til valsins ok leitat eftir liki hans ok fundu hann lifanda ok fluttu til lækningar ok var sidan græddr æ laun. Enn er Haralldr konungr var heill vordinn þa var honum bodit af sinum vinum at strida æ Vilhialm ok fæ landit huat er kostadi. Enn Haralldr konungr villdi þat eigi ok kuaz vndirstanda at gud i himinriki vnti honum eigi rikisins enda ma vera at sua se betr. Tok konugrinn þæ vpp æskiligt ræd at fyrirlæta þessa heims metnat ok geck i stein ok var einsetumadr medan hann lifdi þionandi sua almættigum gudi vaflætliga bædi nætt ok dag. ok er þat margra manna sogn at Haralldr konungr hafi lifat allt fram æ daga Heinriks gamla.

## Vilhialmr vard konungr.

8. Vilhialmr bastardr lagdi vndir sik allt England ok let taka sik til konungs ok let vigia sik vndir koronu ok var hofþingi allmikill. Hans riki var þo miok ðfundsamt af morgum monnum ok hofdingium i Englandi ok gerdu enskir menn þeir er eigi villdu þiona Vilhialmi bastardi ordsendingar til Sueins konungs Vlfssonar Danakonungs at hann kæmi til Englandz med Danaher ok þeir mundi þa ganga til handa honum ok beriazst med honum i moti Vilhialmi bastardi. Enn er Vilhialmr vissi þessa ordsending þa sendi hann til Danmerkr Gudina junga Ballduinasun jarls ok med honum einn agætann byskup. þeir foru med storgiofum af Vilhialmi til Sueins Danakonungs ok bad at Sueinn konungr skylldi eigi heria æ riki hans. ok fyrir þetta lattizst Sueinn konungr at fara med her i England. ok for sua nockur ær at Vilhialmr konungr sendi Sueini konungi giafir ok frelsti sua riki sitt. ok þat hafa Danir til er þeir kalla at Sueinn Vlfsson Danakonungr hafi rædit Englandi eftir Haurdaknut ok eftir Jathuard konung hinn helga. Enn er enskir hofþingiar vrdu vissir þess at Danakonungr villdi ecki lid veita þeim i mot Vilhialmi enn þeir voru radnir i þui at þeir villdu eigi vndir hans riki bua þa letu þeir odul sin ok flydu brot af Englandi med mikinn her. þar voru formenn þrir jarlar ok atta barunar ok var mest fyrir þeim Sigurdr jarl af Glaucestr enn þeir hofdu halft fiorda hundrat skipa ok þar æ bædi mikit lid ok fritt. þeir foru fyst sudr vm sio ok siþan vestr fyrir Matheusnes[1] ok sua vt fyrir Galiciam. þadan foru þeir til Niorfasunda ok vt vm sundin til hofudborgar þeirrar er Septen heitir. þeir veittu þar atsokn mikla ok fengu vnnit borgina. þeir drapu þar fiolda heidinna manna. þeir fengu þar sua mikit fe i gulli ok i silfri at þat var meira fe enn allt þat er þeir hofdu ædr ok var þat storfe af þui at þeir hofdu i lausafe varit ollum eignum þeim er þeir hofdu i Englandi. þadan helldu þeir austr eftir Niorfasundum ok kuomu til eyianna ok vnnu badar Maiork ok Minork. Eftir þat foru þeir til Sikileyiar. ok er þeir voru þar þa spurdu þeir vfrid mikinn vr Miklagardi ok sat vm stadinn heidit folk bædi a skipum ok landi. þa var Kirialax mikli stolkonungr ok hafdi nytekit vid riki. þetta var nockurum vetrum eftir fall Haralldz konungs Gudinasunar.

## Fra Engilsmonnum.

9. Enn er enskir menn spurdu vfrid mikinn or Miklagardi væntu þeir ser þar framkuæmdar mikillar þuiat langan tima ædr hofdu Nord-

[1]) Mh'tsnes *Cd.*

menn þar storsæmdir feingit þeir er mæalamenn gerduzst. Siþan helldu þeir austr eftir hafi ok sua nordr til Miklagardz ok komu vm nott til stadarins. tunglslios var æ mikit ok logdu þeir þegar til orostu. þar vard enn hardazsti bardagi ok hofdu þeir myklu meira lid er fyrir voru. enskir menn logdu at sua fast at þeir nædu þegar vppgongu a þau skip er yzst lægu. þeir ruddu skipin sua sem komuz vpp. folkit var sumt drepit enn sumt liop æ kaf sumt æ onnur skip ok geck sua flottinn skip af skipi vnz þeir hofdu vnnit aull skip þau er eigi flydu. þat folk er æ land hafdi komizst hliop i herbudir ok sogdu at oflyiandi her var kominn sa er ecki vetta stod vid. lupu þa vpp allir þeir er i budunum voru ok vard ecki annat ræda tekit enn herrinn flydi þadan sem hann var huerr er matti farandi med slikt er hann gat med komiz. Enn vm morgininn er liost var fengu borgarmenn sęt at herrinn var i brottu sa er vm stadinn hafdi setid enn þar voru komin skip morg ok stor ok ger a allann annan hætt enn þau er þar hofdu ædr verit. Sendu borgarmnnn þa til skipamanna ok siþan fundu þeir konunginn ok tok hann vid þeim hardla vel ok þackadi þeim sigr þann mikla er þeir hofdu vnnit honum ok hans lidi til fridar ok frelsis. þeir duolduz vm rijd i Miklagardi ok fridadu riki Grickiakonungs. Kirialax konungr baud þeim at stadfestazst þar ok gæta vel lifs sins sua sem sidr er til þeirra manna er æ mala ganga. enn Sigurdi jarli ok morgum odrum enskum monnum þotti oflitit forlaug sin at elldaz þar med þui moti at þeir hefdi ecki riki til forræda ok beiddu konunginn at fa ser borg nockura edr stad nockurn þann er þeir mætti eiga ok þeirra erfingiar. Konungr þottiz eigi mega taka adra menn af odðlum sinum. ok er þeir attu þetta at tala þa segir Kirialax konungr þeim at hann vissi land eitt liggia til landnordrs j haf þat er legit hefir at fornu vndir Miklagardz keisara enn siþan vnnu heidingiar þetta land [856] ok bygdu. Ok er þetta vissu enskir hofþingiar bædu þeir keisarann heimilldar a þessu landi at þat skal vera (þeirra) eign ok þeirra erfingia skattalaust ok skyllda i alla stadi ef þeir fengi landit vnnit vndir sik af heidnum monnum. þessu iattar keisarinn þeim. Eptir þetta foru enir ensku menn brot af Miklagardi ok helldu nordr i hafit. enn nockurir hofþingiar af lidi þeirra duolduz þar eftir ok geingu æ mala. þeir Sigurdr jarl komu til landz þessa ok attu þar margar orrostor ok fengu vnnit landit enn ræku brott allt folk þat er þar bygdi adr. Siþan bygdu þeir land þetta ok gafu nafn ok kolludu England. borgum þeim er þar voru a landinu ok sua þeim er þeir gerdu þar gafu þeir nafn stadanna or Englandi.

þeir kolludu þar Lundun ok Jork ok annarra hofudborga nofnum i Englandi. þeir villdu eigi hafa Pælsbok sem geck i Miklagardi ok sottu þeir byskupa ok adra kennimenn i Vngariam. þetta land liggr i ætt beggia austr ok landnordrs fra Miklagardi .vj. dægra sigling i hafit ok er(u) þar hinir bezstu landzkostir. hefir þetta folk ok þeirra synir þar bygt siþan.

## HER HEFR ANNAAL FRA HEIMS VPPHAFI OK TAULU JERONIMI PRESTZ.

Gvd skapadi alla skepnu senn enn hann syndi hana a sex dogum ok heita þat verkdagar. hinn siðndi heitir huilldardagr. enn hann greindi skepnuna i .ij. greinir ok .xx. Enn fyrsta dag kollum ver drottinsdag. þa syndi gud .vij. luti þat er efni omotad. engla. lios. himna hina efri. þat hafa spekingar kallat elld. jord. vatn. ok vind. Annan dag syndi hann einn lut þat er festingarhimin. þridia dag syndi hann .iiij. luti. sio. fræ. graus. ok vidu. Fiorda dag syndi gud þria luti. sol. tungl. ok stiornur. Fimta dag syndi hann þria luti. siokykuendi oll. dyr ok fugla. Setta dag syndi hann .iiij. luti. smala. dyr jardar. skriddyr. ok mann. A enum siðnda degi fylldi gud alla skepnu sina ok setti hann þann huilldardag. ok hefir verolldin sua siþan stadit at æ .vij. dogum fylliz huer vika eftir adra. merkia þeir ok .vij. giafir ens helga anda.

### Alldatal Beda prestz.

Fra vpphafi heims þessa til hingatburdar vors herra Jesu Cristi voru fim þushundir æra hundrat æra. niu tigir ok .ix. ær. þessa tolu samþyckir Beda prestr. ok þessa hefir ok helldr heilug kristni almennilig. Sua segir Joseph(us). þa er Salomon hof musteris smid þa var lidit fra vpphafi veralldar þriar þushundir .c. ok .ij. ær. enn fra flodinu þushundrat .cc. ok .xv. ær. enn fra þui er Abraham kom til Cananeam af Mesopothameam þushundrat ok .xx. ær. enn fra ferd Moyse yfir Rauda haf fimm hundrat ok .ij. ær. Musteri hof hann at gera æ fiorda æri rikis sins ok vard fullkomit æ .vij. ærum. enn Liber regum segir vart fim hundrat. Enn þa er þadan leid fiogur .cccc. ok .lxx. æra vard mustared nidr brotid ok brent af Babilonismonnum. þa var lidit fra þui er Adam var skapadr þriar þushundir .v. hundrat .xiij. ær .vj. mænadir ok .x. dagar.

Sva segir Hystoria Scolastica. þa er vorr herra holdgadiz var lidit fra vpphafi veralldar fimm þushundir .c. .xc.[1] ok .ix. ær. enn Roma hafdi stadit .vij. hundrat ok .lxx. ara enn Olimpiadis .iiij. ær.

## Alldatal.

Fra andlati Romuli til andlætz Julij Cesaris .vij. hundrat ok .iiij. enn hann rikti fimm tigu ok sex ær. konungar i Roma .cc. ok .xl. consules .cccc. .lx. ok .iiij. Sua segir Josephus. Fra Saul konungi til nidrbrotz Jorsalaborgar væri .v. hundrat .xiiij. ær. .vi. manadir ok .x. dagar. Fysti alldr heims af Adam til Noa flods ok er i honum at ebreskra manna tolu þushundrat .vi. hundrat .l. ok .v. ær. enn .lxx. tulka segia .ij. þushundir ok .iiij. hundrat æra. Annar heimsalldr fra Noa flodi til Abrahams telia ebreskir menn þushundrat .cc. .xx. ok ij. ær. enn tulkar telia þushundrat .lxx. ok .viij. ær. Hinn þridi heimsalldr fra Abraham til Dauids. sa hefir i ser at ebreskra manna tolu niu hundrat .xl. ok .ij. ær. enn tulkar segia .ij. minna. Hinn fiordi heimsalldr fra Dauid til herleidingar Juda. segia þar ebrescer menn i .cccc. .lxx. ok .v. ær. enn tulkar .xij. meira. Sua segir Hystoria Scolastica at þa er Sedechias konungr var tekinn ok blindadr enn Jorsalaborg nidrbrotin ok musterid brent hafdi Juda riki stadit eftir sogn Josephi .ccccc. .xiiij. ær .vj. manudr ok .x. daga. enn eftir konunga (bok) i biblea eigi full fimm hundrat. Hinn fimta heimsalldr fra herleidingu Juda til holldganar Jesu Cristi .ccccc. .lxxx. ok .v. ær.

## Tala.

Sva telr hinn heilagi Jeronimus prestr i sinni cronica þeirri er hann skrifadi sialfr sinni hendi. at fra vpphafi heims til Noa flods væri .ij. þushundir .cc. .xl. ok .ij. ær. Enn þa er Noi geck i orkina var et .xviij. ær solar alldar enn hinn .xiiij. (vetr) pacta alldar. þat var miduikudagr. enn tungl var .ix. natta. Noe var i orkinni .x. nattum meirr enn eitt ær. þadan geck hann drottinsdag ok var þa tungl .ix. natta ok .xx. Enn fra Noa flodi þushundrat .lxx. ok .ij. ær til Abrahams. enn fra Abraham til holldganar vors herra Jesu Cristi væri .ij. þushundir ok .xv. ær. enn þat var et siotianda ær solar alldar enn et niunda pacta alldar. þat var drottinsdag ok einnætt tungl. þetta allt saman verda [857] fim þushundir .c. niu tigir ok niu ær. Maria var þa fiortan vetra at alldri er gud kom med henni at vera. hann var med henni .cc. daga. .lxx. ok .v. daga vnz hann let higat berazst. þat var eftir midia

[1]) .ix *Cd.*

nætt fyrir drottinsdag enn tiunda vetr pacta alldar enn tungl ellifu natta. þa er gud var skirdr vatzskirn var (hann) æ þritughanda vetri. þat var annan dag viku. sa var hinn fyste vetr pacta alldar enn hinn attiandi solar alldar ok var tungl fiogurra nætta ok tuttugu. enn sumir telia at hann væri skirdr þa er hann var þritugr ok væri þridi dagr viku. en hinn .xix. vetr solar alldar enn annar pacta alldar. tungl fimm nætta ok .xx. Sua er talt at gud væri i þessum heimi fiortan vetr ok .xx. ok atta daga ens niunda tigar ok stundir .xv. vnz hann tok liflæt at noni fostudag langa. sa var hinn fimti pacta alldar enn annar ok tuttugt(i) solar alldar. þriar stundir var Jesus a crossi andadr. enn likami hans var i grǒf fiorar stundir ok .xx. þa var tungl .xvij. natta. þa lidu .xl. daga ok atta stundum minnr vnz gud steig til himna fimta dag viku stund fyrir midiann dag. þa var tungl .vij. natta ok .xx. þadan lidu .x. dagar ok þrimr stundum minnr vnz gud sendi helgann anda postulum sinum. þat var drottinsdag. þa var tungl .vij. natta. I pacta aulld er ver kollum tunglaulld eru nitian ær. enn i solar olld atta ar ok .xx. enn i miklu aulld atta tunglalldir ok .xx. solar alldir .xix. verdr þat fimm hundrat .xxx. ok .ij. ær.

## Fra Julio ok Romueria hofþingium.

þa er lidit var fra vpphafi veralldar fimm þushundir .c. .v. tigir ok .iiij. ær tok rikisstiorn med einvalldi yfir Romverium ok ollum heime Julius Cesar er Gaius het odru nafni. þa hafdi Romueria riki stadit vndir konungum .cc. .xl. .ij. ar. enn vndir consulibus .cccc. .lx. ok .iiij. ær a hinu tuttugta æri solar alldar ok a þrettanda tunglalldar. ok af honum hafa Romueria keisarar þat nafn tekit at heita Cesares. þessi Julius var fystr einvalldzhofþingi yfir ollum heime ok rikti fimm ær at sogn Petri commestoris. þa var lidit fra þui er Romaborg var smidut af Romulo siau hundrat ok .v. ær.

[46 f. Chr.] *d i.* Julius Gaius Cesar rikti .v. ær enn sami ok fyrr segir.
*c b .h a n. g e.*
*f. .e* Octouianus Cesar Augustus rikti .lx. ara .vj. man. ok .x. daga.
*e d q.*
[40] *c .i b .a a .f g f .e e r. d i. c b. b a n.*
*g .n* Herodis Ascalonita rikti .xxx. ara ok .viij. ær.
*f .e*
[30] *e k. d c .i b .a*

*a f.* Egiptaland vard skattgillt vndir Romueria ok uar settr Cornelius Gaius skalld stiornarmadr yfir ok af þessu telia nockurir menn þetta id fysta einualldzær Augusti keisara yfir ollum heime. nu eru lidin .xx. ar siþan riki Julij hofz.
*g .f* *fe r.* *d b.* *c .b* *b o.* *a g n.*
[20] *f s.* *e k.* *d .k* *cb o.* *a f.*
*g .f* Bu(r)dar tid sancte Marie modur drottins.
*f l.* *ed .k* [858] *c .b* *b o.*
[10] *a .g* *gf s.* *e k.*
*d .k* nu eru .xl.
*c p.* *ba f.* *g .f* *f l.* *e .l*
*dc .b* Holldgan drottins a fostudag eptir sogn Dionisij ok Elpricij.
*b g.* Burdr drottins a drottinsdegi.
*a .g* komu Austrvegskonunga(r) til Jesum.
*g t.* Sueinar voru drepnir i Bethlem af Herode Ascalonita.
*fe c.* *d .c*
*c p.* Andadiz Herodes konungr Aschalonite.
*b .p* Archilaus son Herodis tok riki ok styrdi .ix. ær.
*ag t.* *f l.*
[10 e. Chr.] *e l.* *d q.* *cb g.*
*a .g* Jesus sat in templo domini millum spekinga frodra.
*g t.* nu eru .lx.
*f d.*
*ed .c* Andadiz Augustus Octouianus cesar enn Tiberius tok riki ok styrdi .xx. ar ok .iij.
*c p.* Herodes tetrarcha son Herodis gamla tok riki eftir Archelaum brodur sinn.
*b .p* *a v.*
[20] *gf l.* *e .l* *d q.* *c h.* *ba .g* *g m.* *f .m*
*e .d* Pilatus tok skipan af Octouiano Tiberio at vera hofþingi yfir Judea. hans riki stod .x. ær i samt.
*dc h.* *b .h*
[30] *a v.* Johannis baptista bodadi vatzskirn.
*g e.* Cristus var skirdr af Johanne in Jordan.
*fe .d* Drottinn gerdi vin or vatni i bæ Galilee enn Herodes Antephas setti Johannem baptistam i myrquastofu.
*d q.* Jonn baptista halshogginn.

[1263] byskup af Hamri. Eklipsis solis nonas Augusti. Andadiz Hakon konungr i Orkneyium. Vtanferd Sturlu þordarsonar. þorleifr logmadr. Andadiz Einar erchibyskup. Magnus konungr godi tok riki. Lafalin konungr af Bretlandi sigradi Engilsmenn. Adalbrikt hertugi af Brunsvik tekinn i Thyringia ok inni settr.

fe .l Var flutt lik Hakonar konungs af Orkneyium til Noregs. Andadiz Vrbanus papa. þa var pafalaust halfan fimta man. þa var seen cometa i Paris. A þessum timum var strid millum Heinreks Engla konungs ok iarlla hans ok j þui stridi var Heinrekr konungr sigradr af Simoni jarli ok odrum landzhofþingium. þa var sira Eduardr son Hei(n)riks konungs fanginn ok Rikgardr konungr af Alimannia fodurbrodir hans. hann hafdi verit kosinn til keisara af nockurum þyduerskum hofþingium. Kom Eirekr Dana konungr son Kristophori konungs vtan af Brandersborg af hertekning gefinn vt af margreifanum. Andadiz Brandr byskup. Boduar i Bæ. A þessu sumri suardi Ormr Ormssun Noregs konungum skatt ok Sidumenn æ alþingi. þa hofdu allir formenn a Jslandi samþykt vm skatt vid Noregs konunga. Vtanferd þoruardz þorarinssonar. Vig þordar Andressonar. Vigdr Runolfr Sigmundarson aboti i Veri. Vtanferd Olafs Grænlendinga byskups. Komu til Magnus konungs berfættu brædr af Skotlandi.

d q. Vigdr Clemens papa .iij. ar. Bansettir jarlar ok barunar i Englandi. Sira Eduardr komz or valldi ovina sinna ok bardiz vid Simon jarl er atti faudursystur hans ok adra jarla þa er honum fylgdu. ok þar var Heinrekr konungr naudigr i bardaga moti Eduardi syni sinum. þar fell Simon ok .ij. synir hans ok .xviij. þushundir manna. Andadiz meistari Johannes af Sacrabosco i Paris. Feck Clemens papa erchibyskups kosning til Nidaros kirkio .iiij. klaustramonnum abota af Lysa. abota af Holmi. Predicara priori i Nidarosi. Custodi dominus af Berfættu brædra lifi. ok kusu þeir Hakon byskup af Oslu. Andadiz Halfdan Sæmundarson. Vtquama þoruardar þorarinssonar. Sætt Magnus konungs ok Alexandri Skota konungs med þui moti at Skota konungr skylldi ræda ęfenliga fyrir Skotlandi ok Sudreyium en Noregs konungr taka af Skota-

[1265] konungi .ix. hundrad marka enskra sterlinga a hueriu æri æfinliga. Andadiz Birgir hertugi i Suiariki. Tyndiz Grænlandzfar ok þar med .xl. manna. For vtan Jorundr prestr Þorsteinsson.

*c h.* Vigdr Karl brodir Louiss Franka konungs til konungs yfir Sikiley hinn .xiij. dag iola. Hann sigradi Manfredum prinz i Februario manadi. med princinum fellu .iij. þushundir ok .dcc. enn af Karli konungi .l. manna. Siþan vann Karl konungr Pul a .xx. dogum. Magnus konungr setti allra heilagra spital i Vogsbotni i Biorgyn ok let vigia kirkiu spitalans er Hakon konungr fadir hans let reisa þar af steini en þessi fullgera. Magnus konungr let þar ok gera Katrinar kirkiu skamt ifra ok jok hann ok siukra manna spitala. Andadiz Magnus konungr i Mðn Olafsson. Sighuatr Boduarssun. Þa braut Grænlandzfar a Hitarnesi .xij. menn letuz þar. Sigurdr logmadr. Brann hallin i Biorgyn.

*b .h* Kom sira Johannes de curia korsbrodir af Nidarosi til Hakonar byskups med pallio .xij. dag [888] iola. kom Magnus konungr at palmsunnudegi i Nidaros. Enn a scirdag logdu þeir Petr byskup af Biorgyn ok Þorgils byskup af Stafangri pallium yfir Hakon byskup. Þar var vid Magnus konungr ok Jngibiorg drottning ok Olafr Grænlendinga byskup ok Gauti Færeyia byskup. Þetta gerdu byskuparnir eftir bodi Clemens papa. A huitasunnudag i Paris var dubbadr til riddara Philippus son Lofiss Franka konungs ok .dccc. annarra riddara med honum. Vigdr Andres byskup i Oslo ok Jorundr byskup til Hola. Andadiz Hakon erchibyskup ok Laurentius erchibyskup af Suiþiod. Margret drottning Skuladottir. Jonn logmadr. enn heilog Maria Magdalena birtiz ok var logd i skrin i Franz. var þar vid Lofuis konungr ok margir adrir agætir hofþingiar. Andadiz jungherra Olafr. Sætt Jatuardar ok jarla ok baruna i Englandi. Karl konungr af Pule var crossadr til Jorsala ok Lofuiss Franka konungr brodir hans ok margir hofþingiar. Hofz Konradr son Konrads af Alimania mot Karli konungi. Laugtekin Gulaþingsbok su er Magnus konungr gerdi.

*ag t.* Fundr Magnus konungs ok Valldimars Suia konungs i

Liodhusum. Jonn vigdr erchibyskup ok kom heim til Nidaros litlu fyrir jol ok song fyst messo at kirkio joladag. Andadiz Clemens papa. Siþan var pafalaust nær .v. ar. Andadiz Dufgall Sudreyia konungr. Fæddr Eirekr son Magnus konungs. Andadiz Siguardr byskup ok Gizor jarl .ij. Jdus Januarij. Sigradr Konradr af Karli konungi vt vid Arans ok Heinrekr hertugi af Lothoringa i þyuersku. Konradr flydi i Beneuent ok var þar halshogginn. enn Heinrekr brodir Alphonsi konungs af Kastel var meiddr. Andadiz Andres Gudmundarson. Vtanferd þoruardar þorarinssonar ok Orms Ormssonar. Ryskiss sott a Jslandi. þorleifr logmadr. Vtanferd sira Arna þorlakssonar. Andadiz Gauti byskup af Færeyium.

*f d.* Andadiz Heinrekr byskup i Orkneyium. Fæddr Gizorr Galli ok hafdi nafn Gizorar jarls þorualldzsonar. Magnus konungr ok Jonn erchibyskup voru a Frostaþingi. þa feck Magnus konungr samþyckt allra Frostaþingsmanna at skipa sua Frostaþingsbok vm alla þa luti sem til veralldar heyra ok konungdomsins sem honum syndiz bezst bera. þa var þat logtekit at Frostuþing skal iafnan vera vm Botholfs voku. Vigdr Arni byskup þorlaksson til Skalholltz ok Erlendr byskup til Færeyia. Vtkuoma Arna byskups. Vtanferd Rafns Oddzsunar. Jonn logmadr. þessir konungar tynduz af eitri þui er i brunna var kastad. Sulltan af Thuniz. Theoballdus af Nauare. Jacob for til Jorsala.

[1270] *e d.* Cristz ar .mcclxx. Vigdr Petr byskup til Orkneyia. Fæddr Hakon son Magnus konungs. Brann klaustr Berfættu brædra i Biorgyn. Andadiz Petr byskup i Biorgyn ok Gautr Jonsson a Meli. Kosinn ok vigdr Ascatin byskup i Biorgyn. Louiss Franka konungr for af landi ok sira Eduardr af Englandi ok margir adrir hofþingiar. Louiss konungr vann Kartaginem. J þessum vfridi fell Jonakrs son hans. ok þa lezt mart folk af herlidi cristinna manna af þvi at eitri var kastad i brunna fyrir þa. þa lezt Louiss konungr i Affrika. Jacob kom af Jorsolum. Druknun Orms Ormssonar. Vtkuoma Rafns Oddzsonar. Koronadr Philippus konungr af Franz. Striddu þeir Bele konungr af Vngaria ok konungr af Bethleem vm riki þat er Austræ

[1270] heitir. þat liggr a medal þeirra. konungr af Bethleem sigradizst. Drapu synir Symonar Heinrik son Rikgardar konungs af Akuintania i kirkiu. Komu noræn log a Jsland.

*d q.* Hafdi Magnus konungr fiolment i Biorgyn vid Jon erchibyskup. Magnus konungr sendi til Jslandz þoruard þorarinsson ok Sturlu þordarson logmann ok Eindrida bongul med logbok ok var þæ iattad konungi þegngilldi a Jslandi. þa var logtekinn þingskaparbalkr i bokinni ok .ij. kapitular i Erfdaþætti vm festarkonu born ok arfleiding. þa for Olafr byskup annat sinn til Grænlandz. þa gerdu Ke(re)lear ok Kueinir mikit hervirki a Halogalandi. Koronadr Philippus Franka konungr in Assumptio beate Marie uirginis. þa striddu þeir Bela konungr af Vngaria ok konungr af Bæheimum vm riki er liggr i Austrhalfu milli landa þeirra. Drapu synir Symonar Mufort Heinrek son Rikgardar konungs af Alimania i kirkiu. Setti Magnus konungr a jolum profast ok chorsbrædr at Postulakirkiu i Biorgyn. þorleifr logmadr id þridia sinn.

*cb .p* Vigdr Gregorius papa. Stefnt eptir .ij. ar almenniligt þing. Andadiz Heinrekr Engla konungr. þa var logtekin logbok su er Magnus konungr hafdi sent til Jslandz oll nema erfdabælkr. vtan þa .ij. kapitula er ædr voru logteknir. Beiarbruni i Stafangri. Vtanferd Arna byskups ok Rafns Oddzsunar ok þoruardar þorarinssonar. Sturla legifer.

*a v.* Sen cometa i Noregi. Fundr Magnus konungs ok Valldimars Suia konungs i Sarpsborg vm midfostuskeid ok hellt Magnus konungr þeim allan kost. Magnus konungr gaf konungsnafn Eireki syni sinum enn hertuganafn Hakoni syni sinum. Andadiz Magnus jarl i Orkneyium Gibbonsson. Vilhialmr prestr. þorsteinn Halldorsson. Ketill Loptzson. Vtquama Arna byskups ok Rafns Oddzsonar. þoruardar þorarinssonar. Vtanferd Jorundar byskups. þetta haust var iattad æ Jslandi at Marteins messo erfdabelki i logbok þeirri er Magnus konungr hafdi sent til Jslandz med fulltingi Rafns Oddzsonar ok Sturlu logmannz. Eirekr Dana konungr sigradi þyduerska menn.

*g m.* Gregorius papa hafdi almenniligt þing i Leons. þar var

[1274] Jonn erchibyskup af Nidarosi ok Andres byskup af Oslo ok Askatin byskup af Biorguin ok komu a sama æri aftr med þeim bodskap Gregorij pafa ok stadfastligri skipan at klerkar skylldu til Jorsalaferdar leggia af ollum rentum sinum sex ær ok gefnar miklar aflausnir þeim er krossadiz til Jorsalaferdar. Þa sneruz ok Grikir aftr til truar almenniligrar med guds miskun ok rædi Gregorij pafa. Philippus Franka konungr sendi Magnusi konungi i Noregi part af þornkrunu vars herra Jesu Cristi. Coronadr Eduardr Engla konungr. Andadiz Jacob erchibyskup i Danmork. Vtquoma Jorundar byskups. Vtanferd Gudmundar.

*f* .*e* Let Magnus konungr setia kirkiu grunduoll i grasgardi sinum i Biorgyn. Valldimar Suia konungr [889] vard forflotti fyrir brædrum sinum hertuga Magnusi ok jungherra Eireki til Noregs. ok sua sem hann kom aftr i Suiariki var hann fanginn ok gaf vpp krununa brædrum sinum hertuga Magnusi ok jungherra Eireki ok komz eftir þat med flotta i Konungahellu. A Laurentius messodag kom þat hagl i Þrondheimi at enir stærstu haglsteinar stodu .xv. aura. Komu transcripta paualigra brefa til Jslandz vm frelse Jorsalalandz med brefum Jons erchibyskups. Andadiz Gudmundr Boduarsson.

*ed q*. Andadiz Gregorius papa .iiij. idus Januarij. ok kallar alþyda hann helgann. Jn festo Agnetis var kosinn Jnnocentius ok vigdr litlu sidarr fystr af Predicarahusi ok lifdi eigi allt til Jonsvoku. Þa var tekinn til pafa Octobonus cardinalis agætr ok kalladr Adrianus quartus. hann song enga messo þuiat hann vard eigi vigdr til prestz. enn hann andadiz fyrir vigsludaga millum Mariumesna. Eptir þat var tekinn til pafa meistari Petrus hyspanius cardinalis a drottinsdag fyrir crossmesso ok kalladr Johannes. Vfridr mikill Dana ok Suia. Valldimar Suia konungr kom til Biorgyniar a fund Magnus konungs. Vm sumarit var fundr þeirra Magnus Noregs konungs ok Magnus Suia konungs Birgissonar er Suiar hofdu þa tekit til konungs. sa fundr var i Gautelfi vid Horsaberg ok var talat vm sættir þeirra brædra Valldimars ok Magnus ok sættuz ecki at þui sinni. Magnus Noregs konungr gaf

Magnusi syni Magnus jarls af Orkneyium (jarlsnafn) j Tunsbergi. Andadiz þorgils byskup i Stafangri. Druknun þordar Rafnssonar .iii. kal. Junij. ok xj. menn. Braut knorr hinn mikla vid Vestmannaeyiar. Eclipsis solis.

*c h.* Andadiz Johannes papa Nichulas papa var vigdr nær Katrinar messo. hann het adr Johannes Gagitanus Romuerskr kardinal. Vigdr Arni byskup til Stafangrs. Andadiz Ascatin byskup. Sætt Magnus konungs ok Jons erchibyskups. Tatarar drapu Solldan af Babilon ok med honum .xxx. þushunda manna. Valldimar Suia konungr ok Eirekr Dana konungr foru i Vestra Gautland ok heriudu i Suiariki. Magnus Noregs konungr gaf lendum monnum baruna nafn ok herra. en skutilsueinum riddara nafn ok herra. Sættuz þiler vid Magnus konung. Vtanferd Rafns Oddzsonar ok þoruardar þorarinssonar ok Sturlu logmannz. Veginn Eilifr i Naustdal.

*b .h* Vigdr Narfui byskup ok þorfinnr byskup. Leidangr Magnus konungs til Elfar. Tekinn Valldimar Suia konungr aftr i riki sitt. Drepinn Jngimar i Gautlandi. Heituduz Suiar at heria i Noreg af eggian Dana. Vtkuoma Sturlu logmannz.

*a n.* Kirialar toku þorbiorn skein syslumann Magnus konungs ok drapu a fialli fyrir honum .xxx. .v. menn. Vtquoma þoruardar þorarinssonar ok herra Rafns Oddzsonar. þa hafdi Magnus konungr gert hann merkismann sinn. Jorundr byskup ok Arni byskup leystu Odd þorarinsson ok færdu bein hans i Skalhollt til legstadar. Vtanferd Jorundar byskups ok Arna byskups. Andadiz Vermundr aboti. Haflidi prestr Olafsson. Kom vt Eindridi boggull ok Lodinn af Backa med logsogn.

[1280] *gf .m* Cristz ar .mcclxxx. Andadiz Nichulas papa ok Magnus konungr Hakonarson. Eirekr son hans koronadr af Joni erchibyskupi ok .vij. byskupum odrum. Andadiz Olafr Grænlendinga byskup. Vtkuoma Jorundar byskups ok Arna byskups ok Jons logmannz med nyia bok. Vigdr Biarni aboti til þingeyra.

*e .d* Vigdr Martinus papa Suarit Eireki Noregs konungi ok Hakoni hertuga land ok þegnar a Jslandi. Eirekr Noregs konungr feck Margretar dottur Alexandri Skota konungs.

[[illegible]] Vtanferd herra þoruardar þorarinssonar. Rafn vard aptrreki. Herra Arni byskup for vm Vestfiordu ok gerdi vigslur i Hollti a huitadogum.

*d i.* Beiarbruni i þrondheimi. Vtanferd herra Rafns. Jonn erchibyskup for or landi. ok Andres byskup af Oslo. ok þorfinnr byskup af Hamri. Andadiz Jonn erchibyskup i Skaurum i Vestra Gautlandi. þingit fiolmenna i Nidarosi.

*c .i* Likami Jons erchibyskups fluttr heim til Nidaros ok þar jardadr ok hyggia menn hann helgann. Andadiz Margret drottning dottir Alexandri Skota konungs. Vtquoma herra Rafns Oddzsonar. Andadiz herra Erlingr Alfsson ok þordr prestr Sturluson. þorarinn prestr Eigilsson. Vtquama herra Erlendar logmannz. hofu þeir Rafn Oddzson þa tilkall til erfdastada a Jslandi. þa for mikil sott yfir Jsland. Margreta drottning hafdi gefit kirkiunni at Holum mottul sinn ok let Jorundr byskup gera or kapu er kollud er drottningarnautr.

*ba v.* Andadiz Martinus papa. Karl konungr a Puli. Petr byskup i Orkneyium. Magnus jarl i Orkneyium ok herra Sturla lǫgmadr. Teknar nockurar kirkna eignir æ Jslandi vndir leikmanna valld eftir skipan herra Rafns Oddzsonar. Sott mikil fiardaudi ok do mart folk i sulti ok margir beir eydduz.

*g e.* Vigdr Honorius Septimus papa. Fall Philippus Franka konungs. Andadiz þorfinnr byskup af Hamri. Andres byskup af Oslo kom i land med pafabrefum. Andadiz herra Asgrimr þorsteinsson ok Biorn Sæmundarson. Druknadi þorualldr Steinmodsson med nockurum monnum. Andadiz þurid prior. Fanz land vestr vndan Jslandi. Sott mikil vm Vestfiordu.

*f .e* Andadiz Alexander Skota konungr. Dræp Eireks Cristiphorus sonar Dana konungs. Andres byskup af Oslo vigdi Jorund byskup til Hamars enn Dolgfinn byskup til Orkneyia. Komu sendibodar Tatara konungs til Eireks Noregs konungs. Drepinn ok myrdr Eirekr Dana konungr. Gerfir jarlar i Noregi Alfr ok Audunn. Seet spiot a fundi einum standanda i lofti i Borgarfirdi. Gudmundr Hallzson kom vt med vtanstefningha brefum. Andadiz Adalbrandr prestr.

*e r.* Andadiz Honorius papa Andres byskup af Oslo. Jngibiorg drottning Eireksdottir. Drap Hallkels Ogmundarsunar. Bæiarbruni i Tunsbergi. Vtanferd Jorundar byskups ok herra þoruardar þorarinssonar. Alfr vtlægr ger ok allir þeir er honum fylgdu ok sidan drepnir .cc. ok .xx. menn. Alfr komz i klaustr i Suiariki. Heingdr Aslakr skeinkir ok þeir .viij. Bansettir i Danmork allir þeir er drapu edr redu Eirik konung. A Tiburtius messodag sigldu Eirekr konungr ok Hakon hertugi af Biorgyn.

*dc h.* Vigdr Nichulas papa. Vtquoma Jorundar byskups ok herra þoruardar ok herra Olafs stallara. [890] Vtanferd Arna byskups ok herra Rafns. Jorundr byskup af Hamri tok pallium ok erchibyskups tign i Nidarosi. Vigdr þordr byskup til Grænlandz.

*b .a* Herferd Eireks Noregs konungs til Danmerkr. þordr byskup for til Grænlandz. Andadiz Rafn Oddzson. Eirekr konungr sendi Rolf til Jslandz at leita Nyialandz. Jorundr Holabyskup for vm syslu Arna byskups at heimta aftr stadi at radi Jorundar erchibyskups.

[1290] *a n.* Cristz ar .mcclxxxx. Eirekr Noregs konungr bar koronu fiorda dag pascha. Hann brendi ok Langaland a þui ari ok Suinaborg a Fioni ok Falstr. Vtanferd Jorundar byskups. Andadiz jumfru Margret dottir Eireks Noregs konungs. Andadiz Magnus Suia konungr Birgisson. Fellivetr mikill. Vard þorlakr Narfason logmadr. Meiddr ok drepinn Aalfr Erlingsson. For Rolfr vm Jsland ok krafdi menn til Nyialandzferdar. Byskupaþing i Nidarosi.

*g n.* Heidnir menn brutu Akrsborg. Bolnasott a Jslandi .i. Vtkuoma Arna byskups. Gefnar kirkiu eignir prestum flestar i Skalholltz byskupsdæmi. Sniovetr mikill. Sætt Eireks konungs ok byskupanna i Biorgyn. Missætti Jorundar erchibyskups ok korsbrædra i Nidarosi.

*fe r.* Andadiz Nichulas papa. þa var pafalaust .iij. ær. Skrinlagdr Thorlakr byskup. Vtkuoma Jorundar byskups ok herra þordar Hallzsonar ok herra Petrs af Moi med bodskap Eireks konungs vm kirkna mæl. Vnnin aftr Akrsborg ok barizst .xl. ok .iiij. daga. Patriarchi færdi krossinn helga i Krit. Vtkuoma Cristiphori a Falkanum. Crossuduz menn a Jslandi til Jorsalaferdar. Sott mikil.

[1293] *d i.* Andadiz Eyiolfr aboti at þueræ. Eirekr Noregs konungr feck Jsibel dottur sira Rodbertz sonar Rodbertz jarls af Brunsvik(!). Vigd Agatha abbadis i Kirkiubæ. Leikmenn toku nockurar kirknaeignir a Jslandi med skipan þoruardar þorarinssonar. Bætt Akrsborg af .iiij. konungum. Kom vt herra Petr af Heidi ok skipadr allr Nordlendinga fiordungr. Herra Lodinn af Backa gerr vtlægr til Jslandz. Vtanferd herra þordar ok þorlaks logmannz.

*c .i* Vpphaf strids med Philippo Franka konungi ok Eduardi Engla konungi. Skrida liop i Fagradal. þar letuz .xi. menn. Sprack jord i sundr i landskialfta a Rangarvollum ok hus fellu ofan ok Rangæ fell or farveg sinum. Forbodadir stadamenn margir. Herra Petr for vtan. Komu vt Jonn ok þorlækr logmenn ok herradir bædir ok herra þordr. herra Erlendr ok herra Snorri. Vtanferd herra þoruardar. Visleifr af Ry brendi Hising.

*b o.* Vigdr Adrianus heremita til pafa sancti spiritus dag ok kalladr Celestinus ok var pafi eigi allt til Jonsvoku. vid hans vigslu voru staddir .x. likþrair menn ok fengu allir heilsu med guds miskunn ok morg stormerki vrdu þar. Hann resigneradi pauadom aptr gangandi i einsetu. þa var kosinn ok vigdr Benedictus einn af cardinalibus ok kalladr Bonifacius. Eirekr Dana konungr ok hertugi Cristiphorus brodir hans toku erchibyskup af Lundi ok kostudu i myrkuastofu. Danmork i banni. Jorundr byskup setti klaustr at Stad i Reynisnesi ok a Modruvollum i Horgardal. Fæddr Eigill er sidan var byskup. Vard Haukr Erlendzson logmadr. Vtkuoma Bærdar Hognasunar med bodskap Eireks konungs. Brunnu hallir erchibyskups i Nidarosi iola nott. Andadiz Landarolfr ok þoruardr þorarinsson. Braut kiol a Borgarfirdi. þar letuz .xiiij. menn.

*ag e.* Hertugi Eirekr af Langalandi feck Agnesar modursystur Eireks Noregs konungs. Sætt Eireks Noregs konungs ok Eireks Dana konungs ok hertuga Valldimars. Fanginn sira Karl brodir konungs af Franz. Andadiz Liotr aboti at þueræ. Vtanferd herra Erlendz. herra þorlaks. Sturlu Jonssunar. þordr Narfasun vard logmadr. Eduardr Engla konungr striddi a Skotland. Vtanferd Arna byskups. Hualrettr

[1296] mikill. Herra þorgils drottseti feck dottur Suia konungs. Skipadr Nordlendinga fiordungr Gudmundi skalldstikli. Sóru .xij. bændr kirknaeignir a stodu(m) i Skalholltz byskupsdæmi. Vrdu .ix. stauckuivig a Jslandi.

*f .e* Andadiz Arni byskup .xv. kal. Maij. Jonn erchibyskup af Lundi for or myrkuastofu. kardinali kom i Danmork ok leysti konunginn ok brodur hans ok landit allt af pafabanni. Herlid kom til Eduardar konungs æ England til lidveizslu fra konungi af Hispania. Franka konungr tok riki allt þat sem Eduardr Engla konungr atti fyrir sunnan sio. Engla konungr brendi Beruvik ok mikit af Skotlandi. Sætt Jorundar erchibyskups ok korsbrædra af Nidarosi. Arni prestr Helgason hafdi vmbod vm allt Skalholltz byskupsdæmi. Fanginn sira jarl (*d. e.* Carl) brodir konungs af Franz af enskum monnum. Eduardr konungr fangadi jarl af Ros ok jarl af Munter ok jarl af Gerlostes. Vard Teitr prior a Modruvollum. Vtanstefnt bændum þeim er soru kirkiueignir.

*e r.* Vigdr þorir aboti til þuerær. Katrin abbadis til Reynisnes. Kom af helgum domi Magnus jarls til Skalholtz. Hofz strid med Bonifacio pafa ok cardinalibus. Sætt Noregs konungs ok Dana konungs. Vtkuoma þorlaks logmannz. Andadiz Eirekr aboti af Michialsklaustri. Seen cometa.

*d .k* Andadiz Eirekr Noregs konungr Magnusson .vj. Jdus Julij. Hakon hertugi brodur hans tok þa konungdom i Noregi. ok var koronadr a allra heilagra messodag. Hakon hertugi son Magnus konungs er nu vard konungr feck Eufemiam greifadottur. Andadiz Petr byskup af Skaurum ok Tiorui prestr Runolfr aboti i Videy ok Biarni aboti af þingeyrum. þui vottadi Laurentius er vard byskup at .ij. menn hefdi hann þa seet at honum syndiz heilags mannz yfirbragd hafa Arna byskup þorlaksson ok Biarna abota. i framferd Biarna abota sa menn lios skina til stadarins a þingeyrum enn klockur sialfar hringduz. Vtanferd Arna prestz Helgasonar. Runolfr aboti af Veri hafdi vmbod vm allt Skalholltz byskupsdæmi. Vtkuoma herra Sturlu med brefum þeim sem vtan stefndu tylft bænda ok tylft handgenginna manna. Braut Hollta-

biarna buzu vid Færeyiar ok tynduz .l. manna. Vtanferd Snorra Jngimundarsonar. Vtkuoma herra Erlendz. herra Eyiolfs Asgrimssonar. Herra Jonn logmadr sagdr af nafnbot. Bardiz Tattara konungr i Armenia ok i Campus Damasci ok i Egiptalandi ok hafdi iafnan sigr ok drap Solldan i siduzstu ok fridadi Jorsalaland.

[1300] *cb .a* Cristz ar .mccc. Andadiz Jonn Skota konungr. Vigdr Hoskulldr aboti til þingeyra. Elldz vppkuoma hinn .v. i Heklufelli med sua miklum fædæmum at fiallit rifnadi sua at siaz mun [891] mega medan Jsland er bygt. J þeim elldi leku laus biorg stor sem kol a afli sua at af þeirra samkuomu vrdu brestir sua storir at heyrdi nordr vm land ok vida annars stadar. þadan flo vikr sua mikil a bæinn i Næfrhollt at brann þak af husum. Vindr var af landzsudri sa er bar nordr vm land sand med sua miklu myrkri at engi madr vissi huart var nætt edr dagr vti ne inni medan sandinum dreif a iordina ok huldi sua alla iord med sandi a medal Vatzskardz ok Oxarheidar. Annan dag eftir fauk sandrinn sua at menn fætu trautt leid sina i summum stodum. þessa .ij. daga þordu menn eigi a sio at roa fyrir myrkri. þetta gerdiz fyrir midsumar ok vard alldri myrkra vm nott vm skamdegi. A þessum tima kom vpp elldr i Sikiley ok brendi vpp .ij. byskupsdæmi. Settu natt jola vard landskia(l)fti sua mikill fyrir sunnan land at ofan fell bær i Skardi eystra. þar i kirkiunni var mikill mælmpottr festr vid brunæsinn. honum bardi sua vid ræfr kirkiunnar af skialftanum at braut pottinn. Kistur .ij. stodu i anddyrinu. þeim bardi sua saman af landskialftanum at þær brotnudu i smæan mola. þa vard hallæri mikit ok fiærfellir. Vtkuoma herra Oddz þoruardarsunar. Vtanferd herra þorlaks herra Sturlu ok Jons Einarssunar. Andadiz herra Bærdr Serksson. þa kom or þyduersku kona su er vera kuez dottir Eireks konungs ok Margretar dottur Alexandri Skotakonungs ok kuez selld hafa verit af Jngibiorgu Erlingsdottur. Fest dottir Eireks konungs Joni jarli Magnussyni or Orkneyium. Skiption vid Færeyiar. letz halfr fiordi tugr mannz. Voru logmenn þordr ok þorsteinn. Skip

kom i Dyrafiord Gullskorrinn. þar kom vt Philippus Loptzson Suartr þorleifsson ok Thomass Snartarson.

[1301] *a n.* Andadiz herra Snorri Jngimundarson ok herra Oddr þoruardarson. Eclipsis lune. Seen cometa vm allt Jsland. þa var brend þessi sama kona er vera quaz dottir Eireks konungs ok halshoggin bondi hennar. Vtkuoma herra Alfs or Kroki med bodskap Hakonar konungs ok herra Sueins langs ok skipadr Skagafiordr ok herra Kolbeins. þa komu vt .ij. norænir logmenn herra Lodinn af Backa ok Bærdr Haugnason. Fædd jumfru Jngibiorg dottir Hakonar konungs. Andadiz Bærdr kanziler. Hernadr Lokuland i Sudreyium hann drap Jon fostbrodur sinn ok konu hans ok sonu .ij. ok .xi. skorar af karlmonnum. ok .vij. skorar af bornum ok brendi margar bygdir. Eru .cccc. i skor. Eduardr Engla konungr striddi a Skotland. Einn rikr hofþingi striddi a sialfa Romam. siþan gerdi hann sætt vid Bonifacium pafa sua at hann feck systur dottur pafans. enn herra pafi vann þat til fridar heilagri kristni at hann sialfr veitti brudkaup þeirra ok lofadi at eta kiot a palmsunnudag enn fyrirbaud at nockurr madr skylldi slikt gera eptir hans dæmum. Vtkuoma herra Jons er verit hafdi logmadr. Missætti med Jorundi byskupi ok korsbrædrum i Nidarosi. Herra pafi stefndi erchibyskupi a sinn fund enn hann for eigi leingra enn i Paris. Manndaudr enn mikli (i) Fliotum ok i Skagafirdi. Cometa var sen af kaupmonnum i hafi vm Michialsmesso skeid. Syndiz hon þeim meiri ok dockari enn adrar stiornor ok var kleppr nidr ok for huern aftan ǒfugt fra landnordri til nordrs. Fyrir sunnan land var sen cometa halfann mæanad nær vetrnottum.

*g .n* Eclipsis lune .xix. kal. Februarij. Suarit Hakoni konungi land ok þegnar a Jslandi. ok iattat logbok i hans valld til vmbotar med rædi allra bezstu manna. Andadiz Valldimar Birgisson Suia konungr Olafr aboti at Helgafelli ok herra Visleif af Ry. herra Vidkunnr af Biarkey. Vtanferd herra Alfs or Kroki ok herra Sueins langs. herra Lodins af Backa. herra Erlendz ok Bærdar Hognasunar. Andadiz herra Eyiolfr Ꜳsgrimsson ok Gudmundr Sigurdarson ok Snorri Markusson logmenn. Heingdr

Audunn hestakorn. Aftrreka Fleyit mikla til Noregs. Jorundr Hola byskup let hefia song at nyiu kirkiu at Modruvollum er hann hafdi gera latid. Cometa var sen i Biorgyn moti langafostu. enn i Roma fyrir pascha. Hernadr Karela nordan æ Noreg. Hakon konungr sendi mot þeim Augmund jungadanz med miklu lidi. Vard þordr Narfason logmadr.

[1303] *f s.* Andadiz herra þorlakr. Arni byskup i Stafangri ok Jonn prestr Ormsson. Vtkuoma herra Erlendz. herra þordar Hallzsonar. herra Bærdar logmannz. herra Sueins langs. Andadiz Bonifacius papa ok Eyuindr byskup ok Markus byskup af Maun. Narfi byskup. herra Sturla. Arni byskup þorlaksson vigdr til Skalholltz. Vtanstefnt Jorundi byskupi. Runolfi abota af Veri ok herra þordi. herra Sighuati. morgum odrum handgengnum monnum ok bændum. Brotin kirkia i Hollti vndir Eyiafiollum. Vigdr Benedictus papa ok kalladr enn Bonifacius. Andadiz Jonn Helgason. Jonn prestr Ormsson. Krakr Thomasson. Loptr Gislason.

*ed i.* Tekinn Bonifacius pafi af monnum cardinalanna ok settr i iarn vttekinn sidan af sinum monnum ok andadiz litlu sidarr. Teknar af Predicorum ok Berfættum brædrum allar generales remissiones. Franka konungr ok allt riki hans i banni af pauanum. Tekinn jarl af Flæmdr af Franka konungi ok inn kastadr. Tekit vpp heradsþing a Jslandi vm Vestfirdinga fiordung ok Nordlendinga fiordung tuo i huorum fiordungi. Alþingi ecki vppi haft af þeim luta landz. Vtanferd herra Alfs or Kroki. Edvardr Engla konungr vann England. Hakon konungr tok Romaskatt af Jslandi. Greifi Jacob gaf halft Halland Hakoni konungi enn konungrinn atti ædr halft. Skipation ok manna. rak vndan Hornstrondum i miklum stormi næsta dag eftir Petrsmessu. Haukr Snorri ok Gudmundr logmenn hofdu verit allir senn a þingi ok sagdi sin laug huerr vm skattgialld.

*c .i* Vigdr Clemens papa. Strid med Suia konungi ok brædrum hans Magnusi ok jungherra Eireki. Hakon Noregs konungr for til lidueizlu vid Magnus mæg sinn med .xl. þushundrad manna. enn adr hann kom voru þeir sættir. Fundr Noregs konungs ok Suia konungs a Gullbergsheidi

ok þar sætluz þeir. Danir dræpu Halluard bæt fyrir Noregs konungi ok .lx. manna. Sætt Noregs konungs ok Dana konungs. Vtkuoma herra Erlendz ok herra Sighuatz. Andadiz Ormr prestr Dagsson. Gizorr Hafrbiarnarson. Tekin aftr varnadarbref a Jslandi. Franka konungr let drepa Lokulant. Eklipsis lune. Kaupmenn þeir er vt letu or Gautavik vrdu aftrreka ok quoduz set hafa margygi ok hafstramb ok morg skripi onnur. þeir letu vt litlu fyrir vetrnætr. Vigdr Andres dreingr til Videyiar. Gudmundr til Helgafellz. Gefnir stadir prestum i Skalholltz byskupsdæmi. þa kom vt herra Alfr or Kroki ok var skipadr Nordlendinga fiordungr ok Austfirdinga fiordungr. [893] hann for med sua þungum bodskap at hann beiddi at huerr leikmadr a landinu skylldi gefa konungi alin af hueriu hundradi þui sem menn ætti. Margar hafdi hann adrar fæheyrdar beizslur. þa gerdu Nordlendingar at honum faur a Hegranesþingi ok Oddeyrarþingi. þa vard hann sua ræddr at hann vissi varla huar hann skylldi hafa sik. saladiz hann litlu sidar i Dynhaga i Horgardal. Var siþan borit at morgum islendzskum monnum i Noregi at þeir hefdi drepit hann. enn þat var þo eigi satt þui hann andadiz or sott. Clemens erchibyskup kosinn til paua.

[1306] *b o.* Eduardr Engla konungr let drepa Vilhialm Valisok ok brytia i stycki ok senda i alla hofudstadi i Englandi. Frost sua mikit i þyduersku landi ok Franz sem verda i Noregi. sua at menn geingu af Raudstock til Danmerkr yfir Eyrasund a isi. Andadiz herra Jonn Raudsson. Moti mællt a alþingi bodskap þeim sem herra AAlfr hafdi vt fiutt. Vtanferd herra Bærdar Hognasonar logmannz. Vtkuoma herra Hauks Erlendzsonar logmannz ok herra Sueins langs. Hafiss fyrir nordan land nær allt sumar fimtæn alna þyckr. Jss yfir Eyrasund. Skirdir sendibodar Tattara konungs i Roma. Skip þat er vt let at Gæsum tyndiz nordr fyrir Melracka slettu ok komz engi madr af. Andadiz Biarni prestr Helgason ok Snorri Sturluson. Ætladi Clemens pafi vt yfir hafit at skira Tattara konung. Braut skip a Eyrum. Kom vt Jonn murti. Andadiz Runolfr aboti i Veri ok herra Jonn logmadr.

Kyniasott for vm allt land. Gizsor galli vo þann mann er Hauskulldr het.

[ J!] *a f.* Komu ut sendibodar erchibyskups brodir Biorn ok sira Lafranz at visitera huarttueggia byskupsdæmi Skalholltz ok Hola ok samdi þeim vel (vid) Arna byskup enn greinir vrdu i medal Jorundar byskups ok Lafranz. Andadiz Eduardr konungr i Englandi. herra Eduardr vngi son hans vard konungr eftir hann ok feck dottur Philippi Franka konungs. Fæddr sira Einarr Haflidason. Vtkuoma herra Bærdar med konungsbrefum ok rettarbotum Vigdr Lodmundr aboti til þyckuabæiar i Veri. Fæddr þorleifr Suartzson.

*gf .e* Andadiz Gudmundr aboti at Helgafelli. þa var kosinn til abota brodir þordr af Videy ok var vigdr næsta drottinsdag eftir Michialsmesso. a þessum degi var ok vigd kirkia at Helgafelli. Vtanferd sendibodanna brodur Biarnar ok sira Lafranz ok herra Bærdar Hognasonar ok herra Hauks Erlendzsonar ok Gizorar galla. Herra Arni byskup ok herra Haukr settu lærdra manna spital i Gaulueriabæ i Floa. Vtan stefnt Jorundi byskupi at Holum af erchibyskupi ok sira Lafranz. Dana konungr heriadi i Suiþiod. Landzskialfti fyrir sunnan land ok fellu nidr .xviij. bgir enn .vi. menn do. Risu Lidungar moti Suium. Suiar drapu af þeim a þridia tigi. Lafranz hafdi tekit saung af klaustrinu at Munkaþuera a paschum. Heybruni mikill i Skalhollti. Arni byskup gerdi vigslur vm haustid i Hvammi. Andadiz þordr Narfason.

*e k.* Brann kirkia i Skallhollti fyrir Pælsmesso af loptelldi ok husbunadr stadarins nær allr. bækr ok kantarakapur. kalekum vard borgit flestum ok hǒklum. episcopalia brunnu. Skrini ens heilaga Thorlaks vard borgit med helgum domi hans þotti þat flestum vndr a huersu litilli stundu kirkian brann. þa var farit vm allt Jsland at bidia til kirkiugerdar. gengu menn þar allvel vndir. Vig herra Kolbeins Biarnasonar er Karlamagnus Magnusson Andressonar vǒ fyrir þa sok at hann hefdi lætid kueda flim vm hann. enn herra Kolbeinn duldi ok baud vndanfærslu. Vtanferd Arna byskups. Strid med Hakoni Noregs konungi ok Eireki hertuga magsefni hans. þa vard Gizur

galli hirdmadr Hakonar konungs. Drepsott en mikla fyrir nordan land. Andadiz Hauskulldr aboti at þingeyrum. Andadiz Jorundr erchibyskup enn kiorinn Eylifr korti til erchibyskups. Vig Fliotabiarnar. Var innkastad sira Lafranz ok fluttr i fiotrum aptr til Jslandz ok leiddi þat til af missætti þeirra Jorundar byskups ok einkanliga af þui er hann helll med Jorundi erchibyskupi þa er voru deilur þeirra korsbrædra. Drepinn Augmundr jungidanz. Ofridr i Noregi af Suium. Andadiz Gamli prestr at Hauskulldz stodum. margir prestar ok leikmenn. Hualrettr mikill. For þordr byskup af Grænlandi.

[1310] *d .k* Cristz ar .mcccx. Vtkuama Arna byskups med kirkiuvid ok margar gessimar adrar er Hakon konungr ok drottningin ok adrir enir bezstu menn i Noregi hofdu gefit til stadarins i Skalhollti sua at þat er allra manna mæl at engi byskup hefdi meiri sæmdarferd farit til Noregs enn hann sidan Jsland vard cristid. Vtkuoma herra Bardar Haugnasunar ok Jons Erlendssunar. Vig Orms steypis ok þeirra Karlamagnus ok þorsteins Finnbogasunar. Andlat sira Grims vnga. kom til Jslandz bref Clementis pafa i hueriu þat stod at menn skylldu leggia peninga sina til frelsis Jorsalalandi ok gefnar miklar afgiftir þeim aullum er til villdi leggia þuiat Solldan af Babilon hafdi heriat i Kiprum ok Armeniam. Vtkuoma herra Sueins langs. Bolnasott suo mikil at menn funudu i sundr. Vigdr Gudmundr aboti til þingeyra. Hakon konungr hafdi leidangr vti eftir jol ok for moti Eireki hertuga þui hann brendi Vikina. þar fell þorir þinghofdi. Hakon konungr sendi Gizor galla a Finnmork eftir skatti er ecki hafdi feingiz vm morg ær. med honum for Valtirr Prettapæls brodir.

*c .b* Landzskialfti eftir jol. Auskufall vida vm land næstu nætt fyrir Pælsmessu sa menn lios mikit a himni nær alla nætt vm nordrætt milli vestrs ok landsudrs ok tok meirr vpp enn a midiann himin. þetta lios var sua mikit at menn sa i husum inni sem þa er miok er liost af degi. Kennimanna fundr i Franz i Vihennia. Andadiz Thomas Krakson. Vpphaf kirkiusmidar ennar miklu i

Skalhollti. Gizor galli kom aftr af Finnmork med skatt Hakonar konungs.

[1312] *ba f.* Komu sendibodar herra pafa til Noregs. Andadiz Eufemia drottning. herra Cristiphorus. herra þordr. herra Loptr. þerrileysu sumar. Kom vt herra Juar holmr. Gizor galli. Vard vti mart manna.

[313] *g .f* Andadiz Jorundr byskup at Holum Brigdarmesso. efldi hann klaustr at Stad ok Modruvollum ok let vpp gera kirkiu heima at Holum ok pryda med klockum ok skruda. For vtan med erendum Hola kirkiu sira þorsteinn ok Sniolfr prestr. Var vigdr Audun þorbergsson byskup til Hola. var hann adr kanunkr i Nidarosi. Feck Gizor galli þuridar Ogmundardottur þordarsonar or Bæ. Var Gizor særdr vm sumarit a Gæseyri. var at þui herra Vlfr af Dunga ok .ij. skipshafnir. la hann .xij. manadi i særum ok vard alheill. Hallæri mikit a Jslandi. þetta sumar kom Marteinn Finna konungr til Hakonar konungs.

*f s.* Vtkuoma Audunar byskups ok herra Ketils ok þa komu vt bref vm pafatiundir. Andadiz Clemens pafi. Andadiz Arni byskup af Biorgyn. Andadiz þordr Grænlendinga byskup. Andadiz herra Biarni Erlingsson ok Philippus Franka konungr. Suikinn keisarinn a paschadaginn med þeim hætti at þa er hann hafdi tekit corpus domini þa var borit eitr i kalekinn er hann drack af ok þar af feck hann bana. For Arni byskup til Grænlandz. Audun byskup let taka vpp bein Gudmundar byskups .vi. kal. Nouembris. Vard Johannes papa .xx. ok .ij. Andadiz Jngialldr byskup af Hamri. Vigdr Einar Haflidason krunuvigslu.

*e c.* Kirkiubruni a Stad a Reykianesi. Laugtekit nymæla bref a alþingi þat sem herra Ketill hafdi vt. þurkusumar. Missætti vard millum Audunar byskups ok sira Kodrans. Suspenderadi byskup hann af officio et beneficio enn Kodran appellauit til erchibyskups. var ok Sniolfr i sliku. vann hann þat til sættar at hann þa Greniadarstad. Let Audun byskup sueria ser eida nær alla presta. Giordiz ok missætti millum Gudmundar abota ok brædra af þingeyrum af annarri halfu enn Audunar byskups af annarri vm tiunda mal. Var sira Lafranz at þingeyrum ok hellt

allt med brædrum. Vigdr sira Eigill Eyiolfsson til prestz. Vtanferd Gizorar galla. Komu sendimenn af Armenia til Hakonar konungs. Herra Ketill kom vt i Dyrafirdi. Jarteinagiord fyrir aheit ok arnadarord jumfru Marie. Fæddr Arni þordarson.

[1316] *dc .b* Herra Eirekr Sueinbiarnarson kom vt i Huitaa. Fæddr Eirekr dotturson Eireks konungs. Fæddr Magnus minniskiolldr dotturson Hakonar konungs. Drepnir margir menn a Halogalandi af Ruzsum. Vtkuoma herra Gudmundar or Hlid. Hofdu gerst fiorir ok .xx. riddarar a einum degi i Noregi. Brann kirkia ok klaustr a Modruvollum i Horgardal .ij. nættum eftir krossmesso vm haustid. ger timbrstofa at Holum. Vtkuoma herra Grims. Brann klaustr i Nidarholmi. Af settr þorir abotadæmi at Munkaþueræ. Var sira Eigill at Holum scolameistari enn Einar klerkr Haflidason lærdiz hia honum. Giordiz Lafranz professus monachus ad þingeyrum jn capite jeiunij. ok hans son AArni. Appeleradi Gudmundr aboti adr vm vetrinn til erchibyskups. var þa enn mesti agi i meda(l) þingeyramanna ok herra byskups. Sigldi Gudmundr aboti vm sumarit ok var i Noregi tua vetr. Læstu brædr klaustr fyrir byskupi ok sua kor sua at hann nædi ecki vid brædr at tala. Var brodir Biorn prior. Feck byskup at kalla mat af stadnum ok hans menn.

*b o.* Vtanferd þoris abota Andadiz Ketill byskup af Stafangri ok þorir byskupsson. Hafdi Hakon konungr vti leidangr ok for til Suiarikis. þar fellu hertugarnir badir Eirekr ok Valldemar. enn vm haustid er konungr for brott fraus inni eitt skip hans er styrdi herra Giardar. Suiar logdu at þeim enn þeir vorduz vel. þa var Gizor galli skotinn i gegnum aflvoduann a vinstra armlegg med spioti. þa var þeim heitid gridum ok fangadir sidan allir ok hoggnir nema Giardar ok Gizor. þeim var inn kastad i Ymbrodogum vm haustid ok i iarn settir. Litlu sidar var herra Giardar hogginn enn Gizor sat eptir til pascha. Fall Nichulas ok Gregorius sona Jacobs greifa.

*a .o* Vtan stefnt bædum byskupum a Jslandi. ok herra Ketli ok logmonnum bædum .vj. handgeingnum monnum ok .vj. bændum. Tok logsogu herra Grimr þorsteinsson ok

Erlendr Hauksson. Braut staupul ok mikit af kirkiu i Skalholl'ti a þorlaksmessodag fyrir jol. Vtleystr Gizor galli af turninum i Suiariki laugardag fyrir pascha ok kom aftr i Noreg a fund Hakonar konungs.

*g l.* Andadiz Hakon konungr Magnusson atta idus Maij. Birgir brosa konungr i Suiþiod suellti inni .ij. brædr sina til bana Eirek hertuga ok Valldemar mæga Hakonar konungs. Eirekr langa hertugi atti Jngibiorgu dottur Hakonar konungs er sidan var kollud hertuginna. þeirra son var jungherra Magnus. Andadiz Haflidi prestr Steinsson af Breidabolstad. hann hafdi verit hirdprestr Eireks konungs. þa(t) bar þa til er hann var med honum at Margret dottir Eireks konungs at þui er hon vottadi sialf sidan adr hon var brend i Nordnesi. at þa er ek var sagdi hon þetta sama port ofan flutt ok mik skylldi flytia til Skotlandz var þa hia Postulakirkiu einn islend(z)kr prestr er Haflidi het hia faudur minum Eireki konungi ok þa er klerka þraut saunginn hof sira Haflidi vpp Veni creator ok þann ymna sungu þeir vt sua sem ek var a skip borin. þetta sama sannadi sira Haflidi þa er honum var sagt at su sama Margret var brend i Noregi. Vtanferd Arna byskups. Vtanferd herra Ketils. Snorra logmannz. Veginn Jonn i Bolungarvik.

[1320] *fe k.* Cristz ar .mcccxx. Andadiz Arni byskup Helgason atta kal. Februarij. Kiorinn til byskups i Skalhollt Ormr þorsteinsson Tekinn til konungs Magnus Eireksson dotturson Hakonar konungs yfir Noreg Suiariki ok Gotland. Vtkuoma herra Ketils ok Snorra logmannz. Var suarit Magnusi konungi land. Kirkiu braut i Steinum. Jsavðr. Braut skipit Skankann fyrir Austfiordum. var þar a þorir aboti ok sira Sniolfr. komuz allir menn lifs æ land. For Audun byskup vtan. Vppi þorskafiardar þing. Andadiz Jonn murti Eigilsson ok Hafþorr Jonsson. Vtkuoma Gudmundar abota at þingeyrum. Braut Grandabuzsu fyrir Melracka slettu. druknudu þar af .ijj. menn. Andadiz Ormr electus þorsteinsson.

[894] *d .k* Andadiz Ormr Steinsson. Vigdr til Skælholltz Skutugrimr. Kom huitabiorn mikill af isum nordr a Strðndum ok drap .viij. menn i Heliarvik ok reif alla i sundr enn æt

summa. hann var drepinn Vitalis messo. Andadiz Grimr byskup. Oæran mikit æ Jslandi ok do menn vida af sulti. Kiorinn Jonn Halldorsson.

[1322] c .b Andadiz Hakon byskup af Stafangri ok Helgi byskup. Vigdr Jonn Halldorsson til byskups i Skælhollt enn Salomon til Osloar. Eirekr til Stafangrs. Andadiz Audun byskup. Vtanferd þoris abota ok sira Snævlfs a Laxabolla. Vtkuoma sira Eigils med kosni(n)gsbref brodur Lafranz.

b ġ. Kom vt Jonn byskup Freygerdarson. Vtanferd Lafranz electi. Andadiz þorir aboti. Vetr allhardr ok sua vær. batnadi at Jons messo Holabyskups. Braut Krafsinn er Lafranz var æ vid Halogaland. sat hann hia erchibyskupi.

ag .f Vigdr Laurentius Kalfsson til byskups at Holum. kom vt þat sumar. Tekin af þordi abota stett fra Helgafelli enn vigdr þorsteinn þorualldzson til abota. Andadiz herra Sæbiorn ok Juar nef. Fæddr Hakon Gizorarson.

f s. Tekinn abota stett af Andresi i Videy enn vigdr Helgi Sigurdarson til abota. Kiorinn Bergr aboti til Munkaþuerar. Logtekit festum corporis Christi a alþingi. Gerdu þeir Laurentius byskup ok Gudmundr aboti pactum vm tiundamæl sua at Huammr i Vatzdal skylldi ęuenliga liggia vndir þingeyra klaustr.

e c. Kom ecki skip til Jslandz enn .vij. sigldu i brott. At paschum tok Markarfliot vpp sua þat tok eigi i kne vm stund dags. þa tok kirkiu or stad a Breidabolstad i Fliotzhlid ok sakadi ecki. Vinfætt i Skalholltz byskupsdæmi sua at lagdr var messosaungr i summum staudum. Laugtekin Magnusmessa enn lofat at vinna .v. daga vm jol ok gefit leyfi miduikudaga fyrir jolafostu ok langafostu. Knutr possi fas(t)nadi fru hertuginnu. Vtkuoma brodur Jngimundar Skutusonar med bodskap Eylifs erchibyskups. Voru þeir herra Jonn Halldorsson ok þorlakr aboti skipadir domendr at dæma milli þeirra Laurentij byskups ok brædra a Modruvollum. ridu þeir nordr ok voru Olafsmesso fyrri a Modruvollum ok gerdu pactum milli Hola kirkiu ok Modruvallar klostrs. voru þeir ath Holum Olafsvoku sidarri Var þat pactum at brædr

a Modruvollum ok klaustrid skylldi vndir valldi Hola-
byskups.

[1327] *d .c* Do suartfygli sua mart vm Vestfiordu at eydd voru fuglberg vm sumarit. Reistuz brædr a Modruvollum vpp (til) vhlydni ok villdu riufa fyrri giord Jons byskups ok þorlaks abota. Reid Jon byskup ok þorlakr aboti enn vm sumarit nordr ok letu stefna Laurentium byskup til Modruvalla. kom hann þa eigi fyrst þui hann sagdi þa ent hafa sitt valld fyrra pacto gerfu. Foru þeir sua hart at Lafranze byskupi at buit var vid at þeir mundi suspendera hann. enn Laurentius byskup gerdi pro bono pacis at þat pactum var þa giort at brædr a Modruvollum skylldu stiorna gozi a Modruvollum. Sendi Laurentius byskup sira Eigil Eyiolfsson til Noregs med brefum a erchibyskups fund. for hann vtan a Gæseyri. Jonn byskup sendi sira Arngrim sinna vegna. vard su lykt a mælum þeirra at med vitrleik sinum vann sira Eigill aull Maudruvalla mæl. kom þar til gifta hans ok klerkdomr Laurenti byskups.

*cb o.* Brann Cristz kirkia i þrandheimi. Vpp hafit klaustr a Modruvollum. Andadiz þorsteinn aboti at Helgafelli. kiorinn til abota þorkell Einarsson. Vard eclipsis sole (!) vida vm Jsland. Vtkuoma sira Eigils a Eyrum ok færdi Laurentio byskupi þau bref er þat vottudu at vndir Holabyskups valldi skylldi vera klaustrid a Modruvollum. Eylifr erchibyskup sendi Laurentio byskupi mitram þa sem bezst er at Holum.

*a .o* Snorri logmadr let skera vebönd a alþingi i sundr. Sæz margygr af landi sudr fyrir Nesium. Strid medal Knutz possa ok herra Juars rófa. Fothoggin Asbiorn teddiass. Kom vt liknesci Gudmundar byskups ok heim til Hola. Laurentius byskup let smida .ij. texta ok kalek. Vigdr til prestz þorsteinn Hallzson. gert Laurentius skrin at Holum. Vtkuoma sira Arngrims med organum.

[[illegible]] *g t.* Cristz ær .mcccxxx. Andadiz Laurentius byskup. Hann dreymdi ædr litlu at hann þottiz hallda a heilags mannz beini. Hann gaf sira Egli vigslugull sitt er i voru helgir domar Jons byskups. þa kom huitadaga hrid vm allt land i fardogum. þa vard hinn mesti fiærfellir. Vtan-

ferd sira Eigils. Vigdr Einarr Haflidason til prestz. grasleysu sumar. Komu bref pafa til Jons byskups hann bad ser peninga moti Romverium. Tekin logsogn af Snorra Narfasyni. Andadiz Audfinnr byskup af Biorgyn. sira Finnr af Postulakirkiu ok Knutr possi. Herra Grimr tok lögsogn i Stafhollti. Vtkoma herra Hauks Kiorinn Hakon til byskups. Manntapi i Grimsey. Gisli Philippusson veitti brudlaupit et fiolmenna i Haga Katrinar systur sinnar. þar var Jonn byskup Halldorsson. herra Ketill. herra Eirekr. Snorri logmadr.

[1331] *f l.* Manntapi or Vestmannaeyium fimtigir karla ok .iij. konur .iij. born secundo nonas Marcij. Morduig Torræds þormodarsonar. Vig þorualldz Hauskulldzsonar. Hallæri mikit vm allt land. Herra Eirekr vard aftrreka i Crossbuzunni. Sira Benedikt særdr ok la i reckiu leingi vetrar. Kom skip i Dyrafiord ok annat i Skutilsfiord. Vigdr herra Eigill byskup til Hola in festo sancte trinitatis af herra Hakoni byskupi i Biorgvin þui Eylifr erchibyskup var ei til færr sakir krankleika. ok vtkuoma hans. þorsteinn Jllhugason þæa Greniadarstad.

*ed k.* Andadiz Snorri Narfason .vij. Jdus Martij. Vtanferd herra Ketils ok herra Eireks. Andadiz Eilifr erchibyskup .iiij. nonas nouembris. Sæz elldr i austri nær vm allt Jsland .ij. nættum fyrir Barbaramesso. Bęiarbruni i Biorgyn. Ræntir kaupmenn i Sudreyium ok tekit af þeim skip þat er Gullsudin het. enn Glodin kom til Noregs ok voru þeir þo ræntir er þar voru æ. Druknan Sturlu Snorrasonar. A þessu ari drap þ rleifr þorbiorn prest Michialsmessodag þa er hann var skryddr ok stod fyrir alltari. siþan lagdi þessi þorleifr sialfan sik med knifi til bana i kirkiunni. Einar prestr Haflidason þa Hoskulldzstadi.

[895] *c p.* Andadiz sira Benedikt Solmundarson .x. kal. Nouembris. Meistari Paall archielectus for or landi a pafagard. Herra Erlendr ok Hafþorissynir ok Vlfr Saxason helldu Tunsbergshus fyrir Magnusi konungi ok geingu siþan a konungsvalld. enn konungrinn gaf þeim bædi lif ok eignir sinar. enn Vlfr kom ecki a konungs fund ok rymdi or landi. Kom vt herra Eirekr med crossliþum er Johannes

pafi hafdi dictat ok kom þat eitt skip til Jslandz .ij. ærum fyrr var bęiarbruni i Biorgyn.

[1334] *b g.* Vtanferd Jons byskups. Andadiz sira Biarni Olæfsson. herra Haukr Erlendarson. Vtkuoma sira Vigfusar med brefum af pafagardi er nuntius pafa hafdi til Noregs. ok voru byskupar bædir Jonn ok Eigill stefndir til Noregs vm reikning pafatiundar For Jonn byskup vtan enn sira Olafr tilætladr Holakirkiu vegna ok vard hann strandarglopr. Andadiz þorsteinn prestr Jllhugason. var Olafi presti gefinn Greniadarstadr.

*a .g* Krafenn vt fiordungr kirkiutiunda eftir brefi herra Jons byskups. Vtkuoma herra Jons byskups. Magnus konungr feck Blancie drottningar. Vtanferd herra Eigils byskups. Særdr sira Asgrimr prestr i Vatzfirdi i kirkiugardi af þorarni Eirekssyni pentur. Sira Sniolfr var med Hakoni byskupi i Biorgyn. hafdi hann vmbod nuntij pafa at taka reikning af byskupunum a Jslandi ok for til Jslandz vm sumarit.

*gf l.* Herra Magnus konungr krunadr i Suiariki æn erchibyskups rædi ok annarra valldzmanna i Noregi. Heyrdiz stynr mikill i skala i Kirkiubæ sua sem til siuks mannz af allri alþydu miok optliga leingi sumars. enn ecki fanz til nylundu þo leitad væri. A þui sumri kom vatzhrid mikil sua at ross naut ok saudfe do af a Rangarvollum ok vm Skalholltz sueit sua at hundrudum skipti af serhuerium a tueimr dægrum. þann vetr eftir jol kom sniohrid sua mikil at marga bæi i sueitum lagdi vndir. sua fellu ok hus nidr fyrir sunnan land ok margir fengu storskada. Fru Blannz hon var dottir hertuga af Flændr ok brodurdottir konungs af Franz. Arni aboti af Lysu var halshogginn vid England ok oll hans skipshofn. Eigill byskup sat i þrandheimi annan vetr þui honum gaf eigi i brott vm sumarit.

*e l.* Komu .v. menn af Noregi er ætludu til Skotlandz austr vid Stafafell æ .xx. alna longu skipi. voru þeir komnir miok at þrotum ok foru samsumars til Noregs. Vtkuoma Eigils byskups a Eyrum. Hliop griotskrida æ bæ nordr i Myrkærdal. letuz .vij. menn. Komu .iij. skip miok snemma a Eyrar. leet eitt jnn i hofn þegar. enn .ij. rak

[1337] vpp a Skeidi fyrir vestan Olfausæ. komuz menn til landz. spiltiz fiarhlutr enn tyndizst mikill. Manntapi or Flatey a Breidafirdi. letuz .xj. menn .v. nonas octobris.

*d c.* Vtanferd herra Jons Halldorssonar byskups ok herra Ketils. Tyndizst þrændaskip nordr i Vogum med allri ahaufn vtan menn er komuz med bæti æ haf vt ok vrdu þeir fundnir af kaupmonnum ok fluttir hingat til landz. Vnninn risi nordr a Morkum .xv. alna hærr af vikuerskum manni er Halldorr het ok odrum .iij. hans kumpanum ok hetu allir sudrgongu til lifs ser ok æ hinn heilaga Olaf konung. Gudmundr aboti at þingeyrum lagdi abota stett.

*c h.* Andadiz herra Jonn byskup af Skalhollti in purificatione beate virginis. kiorinn Jonn Eindridason aboti af Seliu. Hliop skrida a bæ i Kios er a Tindzstodum het in festo Agathe. letuz .ix. menn. Kom landzskialfti sua mikill fyrir sunnan land .x. kal. Junij. at monnum ok fenadi kastadi til jardar sua at onyttizst Hus fellu mest vm Skeid ok Floa ok Holltamanna repp ok vidaz hitt nedra milli þiorsær ok Eystri Rangær. enn fioldi bæia fellu allir til jardar edr tok hus or stad. letuz nockur born ok gamalmenni. Jordin rifnadi vida til vndirdiupa vpp sprettandi heitt vatn ok kallt. Hraupudu fioll enn hamrar sprungu vida i sundr. Vthuerfdizst Hollt i Holltamanna repp ok færdi or stad. Eclipsis solis in translatione Thome archiepiscopi. Sæzst stiarna a himni vm hædegisskeid. þann sama aptan syndiz ollum monnum i Steinum vndir Eyiafiollum alblodugt allt vti þat er fyrir augu bar til þess er menn logduz til suefns. þessi syn likt bar ok fyrir Suein þordarson ok Magnus Steinmodsson þann sama aftan a Kolbeinsstodum i Borgarfirdi. Vigdr herra Jonn secundus byskup til Skalholltz in festo Jacobi ok let i haf hinn næsta dag eftir ok kom vt i Hualfirdi in vigilia Bartholomei enn heim i Skalhollt nesta dag eftir festum decollationis baptiste. Andadiz Arni Olafsson af Leirubacka ok Eyiolfr Brandzson gammr. hann andadiz i hafi nær Hialltlandi ok var fluttr hingat til landz ok grafinn i Skalhollti. Sundrþycki medal Magnus konungs ok valldzmanna i Noregi. Lagin þingstefna austr i Vik

a Baghhusi fra Mariumesso sidarri ok til Michialsmesso. Kom vpp huerr i Heinglafiollum .x. fadma huern veg ok var þar ædr slett jord Andadiz Gudmundr aboti. hann sæladiz at Munkaþueræ ok var flutr nordan til þingeyra. hyggia margir hann vera helgann mann. vrdu ok margir merkiligir fyrirburdir i hans likferd.

[1340] *ba .g* Cristz ær .mcccxl. Skipadr Biorn aboti til þingeyra. Andadiz Kolbeinn þorfinnzson ræzmadr at Holum enn sira Einar Haflidason tok radin. Vetr sua godr fyrir sunnan land at menn mundu trautt þuilikann. funduz egg vndan fuglum i Floa nær midri Goi a auskudag ok optliga siþan æ Einmænadi. Sæz .ij. tungl a himni af morgum monnum i Gaulueriabæ a Gregoriusmesso aftan. annat eftir þui sem von var i landzsudri. enn annat i landnordri.

*g t.* Andadiz herra Jonn byskup Eindridason a Gudmundardag. Veginn Styrkær i Nesi vppstigningardag af Sigurdi Gyridarsyni. Elldz vppkuoma i Heklufelli .vj. drottinsdaginn næsta eftir med sua miklum fædæmum ok auskufalli at ey(d)duz margar sueitir þar i nændir ok myrkr sua mikit enn fyrsta dag vti sem þa er suartazst er i husum a hævetri vm nætr. [896] dunur vm allt land sem hia væri. auskufall vm Borgarfiord ok Skaga sua ad fenadr fell af ok hueruetna þar i milli. Menn foru til fiallzins þar sem vppvarpit var ok heyrdiz þeim sem biargi storu væri kastat innan vm fiallit. þeim synduzst fuglar fliuga i elldinum bædi smair ok storir med ymsum lætum. hugdu menn vera sælir. Huitasallt sua mikit læ þar vmhuerfis opnuna at klyfia mætti hesta af ok brennusteinn. .vj. skip i Hualfirdi ædr vt letu .iiij. Andadiz herra Egill byskup Eyiolfsson at Holum. Byskupslaust landit. Vtkuoma Aslaks korsbrodur af Nidarosi sendr af Pæli erchibyskupi at visitera allt Jsland. þa kom vt Botolfr Andresson skipadr af konunginum hirdstiori vm allt Jsland. Andadiz Benedictus papa secundus. Vetr godr. Vtanferd brodur Jons Sigurdarsonar.

*f l* Andadiz herra Eirekr Sueinbiarnarson ok herra Ketill Thorlaksson. þorkell dunk. Sira Jon Kollsueinsson ok Rafn Jonsson af Glaumbæ druknadi hann i þiorsæ. Braut

[1342] skip a Langanesi. lifdu menn. Annat braut fyrir Gautavik. fluttir af .ij. menn ok bætzfarmr. enn skipit rak vmhuerfis Jsland. Aflimadr Arnor þordarson hægra hendi ok vinstra fæti austr vid Selialandz foss af radum þorsteins Nichulassonar gunnhylltings enn tilskipan Jons Hallzsonar. Eklipsis lune. Vig þorsteins gunnhylltings. Brudhlaup Botholfs ok Steinunnar Rafnsdottur i Glaumbæ gert med miklum metnadi. til bodit monnum vm allt Jsland. Vtanferd sira Aslaks. Vigdr Klemens pafi.

*e .d* Vigdr Ormr byskup Aslaksson til Hola. Jonn byskup Sigurdarson til Skalholltz. þorsteinn byskup til Biorgyniar. Guthormr byskup til Stafangrs. Jonn byskup skalli til Grænlandz ok lifdi Árni byskup a Grænlandi at ovitanda Pæli erchibyskupi. Vtkuoma Orms byskups. Braut skipit vid þiorsaar sand. druknadu af .xviij. menn. Vtkuoma Jons byskups austr i Reydarfirdi. Braut skip er æ (var) Snorri fotr. druknadi hann ok .v. menn adrir. Braut Lysubuzsuna i pollinum a Eyrum. Lesti Postula-udina. ok vard aftrreka a Seleyri. J Grindavik sponbraut Augualldznesbuzsuna. do af .ij. menn. Braut Katrinarsudina vid Nyia hraun. Brend systir ein i Kirkiubæ er Kristin het er gefiz hafdi pukanum med brefi. hon hafdi ok misfarit med guds likama ok kastad aftr vm nædahustre. lægiz med morgum leikmonnum. Jonn byskup fangadi Arngrim Eystein ok Magnus brædr i þyckuabæ fyrir þat er þeir hofdu bart a þorlaki abota sinum. þeir vrdu ok opinberir at saurlifi sumir at barneign. Var Arngrimr settr i fótiarn enn Eysteinn i halsiarn. Hola byskup fangadi .iij. brædr a Modruvollum ok iarnadi fyrir þær sakir hann gaf þeim. Andadiz Finnr Augmundarson. Sira Jonn Kodransson. Snorri dalr. Fru Vilborg ok þordis Marteinsdottir.

*dc p.* Sira Einar Haflidason feck Breidabolstad. Vigdr Eirekr aboti til þingeyra. Giorduz byskupar hardir vid lærda ok leika a Jslandi. Brattr feck Oddnyiar ok þotti þat tidendi at herra Ormr lagdi mikla peninga vt af Holastad med honum fatækum ok veitti brudkaup hans heima at Holum med miklum kosti. Veginn Prettapall i Dolum vestr. Sidan vm vorit vogu synir Pæls i Langavatzdal

þa sem þeir kendu atvist vm vig fodur sins het Halldorr huorrtueggi. Jonn byskup vigdi hælfkirkiu i Aluidru.

[1345] *b g.* Veginn Helgi Halldorsson ad Melum .v. skip komu af hafi i Hualfiord enn et setta braut i Kuiguvogum. Vtanferd Orms byskups. sira Einars Haflidasonar. sira Runolfs. Sucku nidr margir bæir i Orkadal af vatnavoxtum.

*a .g* Andadiz Pæll erchibyskup i Nidarosi enn kiorinn i stadinn Aarni vædi. Strid med Fracka konungi ok Engla konungi. kom Fracka konungr a flotta ok fellu af honum .iij. konungar ok .ij. hofdingar ok .xl. þeirra manna er eingi var minni at nafnbot enn jarl edr byskup. Vtkuoma Orms byskups ok Einars Haflidasonar ok braut skipit Rosinbergina vid Melracka slettu i spon ok tyndiz fiærlutr miok allr enn menn hellduzst. Drozsetabuzsan i Hualfirdi. kom vt Hollti bondi þorgrimsson medr hirdstiorn yfir ollu landinu. Druknun Boduars Bærdarsonar med sinum monnum.

*g m.* Vtanferd Jons byskups ok Orms byskups i Hualfirdi a einu skipi ok byskupslaust a landinu. .xiij. skip komu af Noregi til Jslandz ok braut .ij. letuz .xxx. manna af odru enn .vij. skip voru fyrir. þa kom skip af Grænlandi þat er sott hafdi til Marklandz ok attian menn æ. þa var eitt skip ok .xx. a Jslandi vm vetrinn. Byskupar a Jslandi gerduzst sua hardir vid landzfolkit sua at landzfolkit þottizst varla mega vndir bua. Hofdu Nordlendingar samtok moti Ormi byskupi leikmenn at þeir villdu hafa fornann vana. Bædir byskupar foru vtan a einu skipi i Hualfirdi. Jtem bolnasott mikil vm allt land ok andadiz fioldi folk(s). Aarni vadi vigdr til erchibyskups i Nidærosi a pafagardi ok kom aptr i Noreg med pallium. Vtanferd Snorra Ketilssonar ok andadiz a Sudrvegum. Andadiz Jngimundr Eyuindarson. Valgerdr þordardottir.

*fe .l* þriu skip letu vt æ Gæsum. eitt sigldi vpp a Gæseyri. annat kom til Noregs. þridia tyndizst. Vtkoma Jons byskups Sigurdarsonar med brefum Orms byskups ok Eirekr prestr þorsteinsson ok settu þing at Holum. kom þar saman bændafioldi af Nordlendinga fiordungi ok villdu med engu moti vndir Jon byskup leggia ok ecki

sættaz vid Orm byskup. Jon byskup reid sudr Kiol ok tok sott þegar hann kom heim ok læ framan til Magnusmesso ok andadiz sidan. Frostavetr sua mikill a Jslandi at fraus sioinn vmbergis landit sua at rida matti vmbergis landit af hueriu andnesi vm alla fiordu. fell snior mikill. Grasleysu sumar. Andadiz Hollti hirdstiori ok hormudu þat fair ok Rannuc(i)g Gestzdottir.

[1349] *d c.* J þenna tima kom drepsott sua mikil vm alla Nordrhalfuna at alldri kom slik fyrri [397] siþan londin bygduz. Fyrst kom sottin vpp i Babilone a Serklandi vt i Affrica. sidan for hon higat i Jorsalaborg ok eyddi næliga borgina. þadan for hon nordr yfir Jorsalahaf ok vm alla Romaniam ok sua nordr eftir londum ok vm pafagard ok eyddi allt naliga. Vigdi pafinn æna Rodanum. voru þar vt æ kastadir daudir menn. gaf pafi þat af guds halfu at þat skylldi þeirra kirkiugardr þui ei mætti iarda folkit fyrir mannfæd ok sott. Siþan for hon vm Frankariki ok vm Saxland ok sua til Englandz ok eyddi næliga allt England ok þat til marks at ei lifdi meirr eftir i borginni Lundunum enn .xiiij. menn. J þann tid sigldi kuggr einn af Englandi ok var a mart folk ok lagdi inn vid Biorgyniarvog ok var litt ruddr. Sidan andadiz folkit allt af skipinu. enn þegar vpp kom gozit i byinn a(f) skipinu þa do þegar beiarfolkit. þa for sottin vm allan Noreg ok eyddi sua at eigi lifdi eftir einn þridiungr folksins i landinu. Englandz kvggr sauck nidr med nær ollu gozinu ok daudum monnum ok vard eigi ruddr. Fleiri skip ok buzsur sucku nidr ok rak vids vegar. En sama sott for vm Hialltland Orkneyiar Sudreyiar ok Færeyiar. þat var kyn sottarinnar at menn lifdu eigi meirr enn eitt dægr edr .ij. med hordum stinga. eftir þat setti at blodspyiu ok for þar aundin med. Af þessi sott sæladiz AArni erchibyskup ok allir korsbrædr i Nidarosi vtan einn lifdi eftir er Lodinn het ok hann gerdi electionem kiosandi Olaf abota af Holmi til erchibyskups. þa andadiz þorsteinn byskup af Biorgyn ok Gudtormr byskup af Stafangri ok Halluardr byskup af Hamri. þessi sott kom eigi til Jslandz. Letti med þeim hætti af drepsottinni at Clemens pafi het at syngia skylldi

messu þa er hann hafdi componat fim sinnum ok standa a kn(i)æm med liosi. Nockuru sidar andadiz Clemens pafi. Vigdr Gyrdr Juarsson til byskups i Skalhollti. herra Gilsbrikt til Biorgyniar af Salomone i Oslo. enn þeir voru astantes Ormr ok herra Jon skalli þui at þeir einir byskupar lifdu i Noregi.

[1350] *c h.* Cristz ær .mcccl. Vigdr Johannes papa. Kom Magnus konungr ok drottning Blanz til Biorgyniar gaf hann Eireki syni sinum Suiariki enn Hakoni Noreg ok setti þa i konungasæti ok skipadi þeim hird enn sialfum ser ætladi hann til rikis Halogaland Jsland Færeyiar ok Hialltland. Elldz vppkuoma i Hnappafellzjokli ok myrkr sua mikit at eigi sa vegu vm middegi ok aleyddiz allt Litlaherat. Gerdiz Ormr Eysteinsson drozseti i Noregi skipadr af herra Hakoni vnga. Kom ecki kaupskip til Jslandz. Andadiz Stephann aboti. Fæddr Jonn Hakonarson. Vigdr Arngrimr aboti at þingeyrum. Var Olafr Biarnarson hirdstiori.

*b .h* Vtkuoma herra Gyrdz byskups. Andadiz herra Grimr. Olafr erchibyskup kom vtan af curia. Andadiz þorlakr aboti ok þorsteinn aboti. Hogginn a alþingi med domi Guthormr Asgrimsson. Magnus konungr for i Ruzaland ok striddi vid Ruzsa ok hafdi ætlat at leida þa til almenniligrar truar. gætu Noregsmenn vnnit nockurar borgir enn ecki vanz at meira. Herra Biarni var þar med konunginum. Vtkuoma Orms byskups ok hafdi konungsbref at vtan voru stefndir margir mikils hættar bændr þeir sem samtak hofdu haft i mot honum.

*ag t.* Vigdr Eyiolfr aboti i þyckabæ. Kom aftr Augustinus regla i Videy ok vigdr þangat Biorn aboti enn Asgrimr aboti til Helgafellz. Syndizst blodugt Olafs liknesci þorsteini presti at Hofdabrecku. Foru bændr af Nordlendinga fiordungi æ konungs fund. Var þordr Eigilssun logmadr.

*f d.* Andadiz Gudmundr Snorrason. Oddr Suarthofdason. Engla konungr striddi vid Franka konung ok lect Fraka konungr fiorar þushundir. Hallæri mikit a sio ok landi. Vtkuoma bænda or Nordlendinga fiordungi med konungsbrefum at konungr villdi byskupa lata engar nyiungar

fremia i moti þegnum sinum ok baud Ormi byskupi at leysa þa. Veginn Gudmundr Gunnarsson.

[1354] *e .d* Vtanferd Orms byskups i Hualfirdi. Vtkuoma Juars holms Vigfussonar ok hafdi leigt landit allt vm .iij. ær ok var skipadr hirdstiori.

*d q.* Vtanferd Gyrdz byskups. Allhardr vetr vpp fra atta degi. batnadi eigi fyrr enn hinn Dyradag ok vard enn mesti fiærfellir. Andadiz sira Pæll þorsteinsson. Loptr þordarsun. Ragneidr Audunardottir.

*cb .p* Andadiz Ormr byskup Aslaksson.

*a v.* Vtkuoma Gyrdz byskups. Jonn byskup skalli for a pafagard at inpetrera byskupstolinn a Jslandi. Prestar i Hola byskupsdæmi af sogdu hlydni vid Arngrim abota þui hann var borinn hinum liotuzstum malum. Var Arngrimr ok af settr officiolatu ok abotadæmi ok sagdiz iattaz hafa vndir predicara lifnat. Tok þorsteinn Hallzson officiolatum. Drepinn Sigurdr diakni Asgrimsson i Skalhollti hina þrettandu nott i iolum af klerkanna vidreign ok vard alldri vist siþan huerr gert hafdi. Fangadi Benedikt Kolbeinsson þann mann er Biorn het. huerr er kendiz at hann hefdi legit med .ij. kuum. var hann kuiksettr enn kunum saukt fyrir siofar hamra. hafdi engi þetta fyrr kennz sua menn myndi. Jonn murti Nichulæsson vo mann er het Jonn Styrmisson ok for alldri vtan ok lifdi meirr en þriatigi vetra siþan ok vard sottdaudr. Andadiz Rafn Sueinbiarnarson. þorkell Marksson. Bæiarbruni at Stad a Olldurygg.

*g m.* Vtkuoma sira Eyiolfs Brandzsonar korsbrodur af Nidarosi ok Eysteins Asgrimssunar. voru þeir skipadir af Olafi erchibyskupi visitatores a Jslandi. Sogdu þeir at Jonn byskup skalli væri aftr kominn af pafagardi ok Olafr erchibyskup gaf honum ok skipadi med speciali mandato dompni paua byskupstolinn at Holum ok hann var confirmatus ok þui lyst a kor i Cristzkirkiu. þat sama sumar komu vt Arni þordarson ok Andres Gislason med hirdstiorn [898] yfir Austfirdinga fiordung ok Sunnlendinga fiordung. enn þorsteinn Eyiolfsson fra Vrdum vm Nordlendinga fiordung ok Vestfirdinga fiordung. þessir .iiij. leigdu allir landit med skauttum ok skylldum

vm .iij. ær af konunginum. Foru visitatores kirkiunnar vegna enn þessir fyrrnefndir vm allt Jsland aflandi ok heimtandi peninga af lærdum ok leikum sem þeir kunnu at fæ. atti vndir þessu at standa landzfolkit ok þynkt med þessum afdrætti. skipudu þeir Arngrim aftr i abota stett at þingeyrum gefandi ðngan gaum at heiti hans edr annarri vfrægd er æ honum var. Sigurdr Gudmundarson logmadr. Hoggin Tumi Starkadarson eftir dome.

*f .m* Vtkuoma Jons byskups skalla. Braut skipit Benedictsbætinn j spon er hann var æ. lifdu menn allir. reid hann heim til Hola. lagdi þorsteinn Hallzson i hond honum officiolatus jnnsigli æn lærdra manna radi. var engis skilrikis kraft af honum. gæfu allir menn sik lærdir ok leikir vndir hans hlydni.

[1360] *ed q.* Cristz ar .mccclx. Ormr Eysteinsson drozseti var afsleginn vndir konunganna bodi.[1] Eirekr konungr Magnusson eitradr i Suiariki ok þar af andadiz hann. drottningin andadiz af barnburd. Gyrdr byskup ok Andres i Mork ok margir menn adrir letu vt ok er þeir komu skamt fra landi austr vndan Vestmannaeyium sock nidr skipit med ollu gozi enn menn allir lupu i bæt. tok bætrinn .xl. manna med iarteign en(s) heilaga þorlaks sa er eigi var uanr at bera meirr enn halfan þridia tug manna. kistu heila rak vpp æ Eyrum er i var brent silfr Skalholltz kirkiu ok pontificalia byskupsins. Vtkuoma Orms langa i Hualfirdi. atti hann Olafssudina. var þat allra skipa stærst. Gerdu Nordlendingar i moti Joni skrafeifu hirdstiora samblæstr ok villdu eigi yfirreid hans hafa ok mættu honum at þueræ i Vestrhopi nærri .ccc. manna. stack hann þa sudr vm land ok feck enga yfirreid vm Nordlendinga fiordung Elldzvppkuoma i Trolladyngium ok eydduz margir bæir i Mydal af oskufalli. en vikrina rak allt vestr a Myrar enn sa elldinn af Sniofellznesi. Mannfall vid Myvatn halfr niundi tugr mannz i þrimr kirkiusoknum. Markuss barkadr for heim at Ormi at Krossi. kona hans ok synir .ij. ok veitandi honum averka enn sum halldandi fyrir ok þar fyrir var Markuss kona hans (ok) sonr dæmd daudamenn a Lambeyiar-

[1]) bordi *Cd.*

þingi af .xij. monnum ok siþan let Árni þordarson er þa hafdi konungs valld hoggua þau eftir dominum.

[1361] *c h.* Baurduzst æ alþingi menn Árna þordarsonar ok Jons Guthormssonar. særdr Suartr þorleifsson miok ok klofa-Gizor ok nockut Philippus þorleifsson. voru þeir allir Árna menn. Vtkuoma Smids Andressunar med hirdstiorn vm allt Jsland ok leigt vm .iij. vetr. hafdi vt morg konungsbref. þat sumar foru vtan Gyrdr byskup ok Helgi aboti ok .v. sæmiligir prestar med Ormi langa ok nærri .lxxxx. manna. hyggia menn at þetta skip hafi farizst med allri ahofn. þetta sama haust reisti þorsteinn Hallzson sik i moti Joni byskupi ok let alla presta milli Oxnadalsheidar ok Reykiardals handleggia ser hlydni ok komu til Hola Katrinarmesso ok af sogdu Joni byskupi hlydni allir nefndir prestar ok leikmenn or Eyiafirdi. kolludu hann Grænlendinga byskup enn toku þorstein ser til yfirmannz. Funduz þeir Smidr ok Árni þordarson ok bundu sina vinattu med fastmælum. Vard Jonn Gudthormsson logmadr skraveifa.

*b .h* Fundr æ Holum Tiburtius messo. komu nordan Eyfirdingar allir lærdir sem leikir. þar kom Smidr ok officialis af Skæalhollti. vard engi sætt. Foru Eyfirdingar vtan æ feriu. þorsteinn Hallzson Stephann. Gudmundr lægr prestar. þorsteinn Eyiolfsson. Olafr Petrsson leikmenn toku Halogaland. greip Hreidarr darri bædi skip ok gozs. færdi leikmenn til konungs i halldi enn sira þorsteinn andadiz ok allir hans kumpanar. Brann kirkia i Haukadal ok allr skrudrinn med. Smidr Andresson fangadi Árna þordarson ok gaf honum at sauk Barkadarmæl. baud Árni aull þeirra mæl fram til konungs ok þo Smidr villdi hann i fanghelsi hafa. huat er Smidr villdi med engu moti hans þau bod hafa ok let hoggua hann i Lambey friadag næsta fyrir Johannis messo baptiste. var lik Arna fært innan mænadar til Skalholltz ok grafinn þar i kirkiugardi. Eftir alþingi reid Smidr nordr vm land ok med honum margir Sunnlendingar ok eigi ort halfr fiordi tugr manna. Eyfirdingar hofdu niosnarmenn ok kom saman mikill lydr a Grund i Eyiafirdi a Seliomanna voku. voru þeir Smidr þar fyrir. Eyfirdingar toku a þeim hus.

vard þar bardagi ok let Smidr þar sitt lif Jonn Guthormsson Jarpr Hannis Jonn langr Biarni Magnusson Gudmundr Andresson ok þorualldr Helgason. enn af Eyfirdingum fellu Andres Ormsson Steinn Bryniolfsson Magnus Biorn þordarson Gudmundr Halldorsson. Einn er eigi nefndr. Fellu allz .xiiij. Vard samkuoman nærri midium morni enn lokit var ollum vigum eftir dagmæl. Var þar grid gefin Ormi Snorrasyni þorgeiri Eigilssyni ok ollum odrum þeirra kumpanum. hafdi Ormr med ser flest aull tygi þau er þeir hofdu att. Margir menn fengu þar lemstr ok limalæt. þetta kuat Sniolfr vm fundinn.

Miok eggþunn aux
i iardar faux
suiku lyda lif
enn lestu hlif.
dreif hrotta hregg
vm heila vegg
gaf ei huilldar hlid
hardfeingiat lid.

Sonr Kolbeins sitt
suerd reyndi fritt
vard þorsteins vigr
vel long ok digr
med huerri hann
hugarprydi vann.

Fra ek stæla storm
miok sturla Orm
þar er kysti kyrr
kirkiunnar dyrr.
kuad hann þurfa þess
at þylia vers
þo er bænin bezst
honum byrgi mest.

Jonn skreiddiz skiott
skraveifa hliott
kamars eygat vt
vid ærna sut.
su en liota leid
leitz virdum greid
þeim er fylgdi þann
þreklausa mann.

Smidr vardiz vel
feck virdum hel
hans brandrinn breidr
þa er bardizst reidr.
honum fylgir fast
i fleina kast
sueit huergi hrædd
hringserkium klædd.

Kilpr[1] herdi haugg
hialm gridr taugg
[899] vel hudrs ok hrein
rett holld sem bein.
med þunga þraut
þegn falla laut
hiors neytti hagr
her falli bragr.

Jtem vtanferd Jons byskups. sat hann i þrandheimi vm vetrinn ok feck engan letta af Olafi erchibyskupi i sinum malum. Hofuz Kisamæl. Vo Nichulas Ala.

[1363] *a n.* Vigdr þorarinn byskup til Skælholltz ok kom vt ok

[1]) r. kylfu

heim til stols sins ok sua Jonn byskup. helldu Eyfirdingar samri vhlydni vid byskup sem ædr. Kom Nikulas Broddason vt med lögsogn ok profadiz eftir vm sumarit a alþingi landradamadr. Var Ormr Snorrason logmadr. Vig Snorra þorleikssonar.

[1364] *gf d.* Suikin med eitr kong Eirekr Magnusson ok Blanzia hans fru i einu storu hofi. Vigdr Gunnsteinn aboti til þingeyra. Vig Jons Benedictzsonar a Mariu messo sidarri. Kuiksettir Selbelgiusynir.

*e .d* Vtkuoma herra Arna suælu byskups ok vard hann sæhafi fra Færeyium. þa voru .iij. byskupar æ Jslandi þann vetr. Vo Jonn klafi Arnbiorn. Veginn Jonn hordr af Atla. Veginn Erlendr af Arna.

*d q.* Suikit Suiariki vndan Magnusi konungi ok hann sialfr handtekinn i stridi ok innkastadr. Toku Suiar Albrikt til konungs yfir Suiariki. Hakon konungr feck Margretar dottur Valldimars Dana konungs. Vtkuoma Juars gallta i Kolbeinsærosi. godr vetr. Andadiz .b. Eysteinn.

*c .i* Kom vt Andres Gislason med hirdstiornn. gengu tylftareidar a alþingi fyrir Grundarmæl.

*ba v.* Forgeck skip er æ var Narfi þorleifsson. Jonn grarofa vo einn bonda vm kuelldit fyrir Mariu messo.

*g m.* Vtkuoma Juars holms hafdi hann vmbod yfir pafatiundum. Andadiz Gudny abbadis fra Stad enn vigd Oddbiorg. Andadiz þorarinn byskup. Veginn Eyiolfr Butason. Setid fyrir sira Pæli þorsteinssyni i Kækiskordum ok særdir menn fyrir honum af Joni kyrtli. Var Snorri officialis.

[1370] *f .e* Landflæmdir þyduerskir or Biorgyn fyrir Hakoni konungi. Vigdr herra Oddgeirr byskup til Skælholltz. Andlat abotans i Videy enn vigdr Jonn Gudmundarson til abota. Vtkuoma Oth(g)eirs byskups. Cristz ar. mccclxx. Haugginn Jonn klafi eftir domi. Veginn Valgardr. Andlat Gizsorar galla.

*e r.* Vtanferd Jons byskups. for hann til Roms ok feck styrktarbref af Vrbano pafa med hans bulla til byskupsstolsins at Holum. Andadiz Haflidi aboti. Vigdr Arni aboti til þuerar. Hallæri mikit. Vör hart. varla saudgraus at Jons messo baptiste. Einar officialis. Sunnifusudin a Gæseyri. Kom vt þorgautr Jonsson med hirdstiorn vm

allt land. þorsteinn Eyiolfsson logmadr. Druknadi Klofa-Gizorr. Andadiz Helgi Dadason. Tekinn af Hroi a þingi fyrir mordvig.

[1372] *dc h.* Vtkuoma Jons byskups med brefum pafans. Gengu til sættar allir Eyfirdingar leikir ok lærdir. Hallæri mikit. Vetr hardr. Druknun Pæls þorleifssonar. Tekinn af Klofa-Oddr fyrir morg illuirki.

*b .h* Andadiz Olafr erchibyskup ok herra Gilsbrikt. Manndaudr allmikill vm allann Noreg. Vigd(r) Benedict byskup til Biorgyniar. Biarni Kolbeinsson vð a Dyradag þann mann er þorkell (het). Andadiz Klofa-þorbiorn.

*a n.* Herra þrondr kiorinn til erchibyskups. Kom Sunnifusudin i Siglufiord. Fangadi þorgautr þann mann vt af þingeyra kirkiu er Einarr dyntr het. profadizst hann sidan mordingi ok var kuiksettr.

*g .n* Vtanferd Othgeirs byskups af Skalhollti. Fell sætt a med Hakoni konungi ok þyduerskum. Kom Magnus konungr aftr i land ok skipadr Andres Sueinsson hirdstiori a Jslandi. Andadiz Boduar prestr bard. Vetr sua hardr ok vðr at eingi mundi slikt. Grasvoxtr engi. Hafisar framan til Bartolomeus messo. Vtanferd Jons byskups a Mariubollanum er hann hafdi reisa lætid. Kalladi konungrinn ser skipit. Jtem letz Magnus konungr i sio med sinum monnum. kom hans lik eins a land ok kalla menn hann helgann. Geck fyrir Sunnifusudin. var þar æ Andres Gislason. Seen cometa vndir Eyiafiollum. Ecki skip æ Jslandi. Veginn Pæll hoppr. Vo Snorri nautztæ einn bonda er þorsteinn het. Hualavetr.

*fe d.* Vetr sua hardr (a) Jslandi at engi mundi þuilikann. fellu fatækir menn vm allt land sua at morgum hundrodum sætti. Vtkuoma Jons byskups i Vestmannaeyium. Vð Boduar Jonsson Kolbein Benedictzson drottinsdaginn at fiorum vikum. komu .vj. skip til Jslandz enn .ix. hofdu tilætlat Sigurdr logmadr.

*d i.* Vetr sua hardr at fenadr var at þrotum kominn at Langafostu. hetu menn þa fyrir nordan land a Gudmund byskup til ærnadarordz med samþycki Jons byskups at gefa alin af hueriu hundradi ok fara med a pauagard at tekin yrdi vpp helgi hans. Skipadiz vid þat heit hardla

vel. vard engi fellir. for brott medr gozinu Sigurdr prestr Loptzson ok þorsteinn prestr Bryniolfsson. Vtkuoma Andres Sueinssonar med hirdstiorn vm allt Jsland. ok þorsteinn Eyiolfsson med logsögn vm halft land i Straumsfirdi fyrir vetrnætr. Sira þorsteinn Jonsson vard rædsmadr at Holum. Andadiz sira Snorri officialis af Skalhollti. Geck fyrir skipit er a var Skuli þordarson. Jonn Teitzson. Klofa-Biorn logmadr.

[1378] *c* .*i* Andadiz Eyiolfr aboti i Veri. Vigdr Runolfr aboti Magnusson. Suarit land a alþingi Hakoni konungi af þrennum tylftum. Vig Nichulas prestz þorsteinssonar i Hollti i Onundarfirdi a Petrs messo. Vig Halldors Kolbeinssonar i þingey i Borgarfirdi a almenniligu þingi logmannanna þorsteins ok Sigurdar. Andadiz Sigurdr prestr Loptzson ok prior Erlendr a Modruvollum. Vo Eirekr Hall Solmundarson.

*b* .*a* Andadiz Jonn aboti af Videy. Vigdr Pæll aboti. Vtanferd herra Othgeirs byskups ok Andres hirdstiora ok Gudmundar Sigurdarsunar. Bolnasott mikil i Noregi. Andadiz sira Petr af Gilsbacka. Vig Jons Brandzsonar. Andadiz Asgrimr aboti at Helgafelli. Vigdr þangat Gudmundr Arason til abota af Joni byskupi af Holum. Andadiz Benedict Kolbeinsson. Andadiz þorleifr Suartzson. Hogginn þorsteinn.

[1380] *ag* *e*. Komu .vj. skip til Jslandz ok i bolnasott .v. ok for vm allt land ok vard mikill manndaudr. Andaduz .xij. prestar fyrir sunnan land ok nockurir fyrir nordan land. lagdi þegar hridir[1] æ at .v. vikum ok stora sniofa sua at fenti fe. Forgeck skip er Olafr þorsteinsson var i. Vetr hardr ok fellir litill. Andadiz kong Hakon ok ætla menn godann mann. enn tekinn til konungs Olafr vngi son hans ok Margretar dottur Valldimars kongs af Danmork yfir Noregh ok nu er Cristz ar .mccclxxx. Andadiz Gudmundr Sigurdarson. Vo þorleifr nef þorlæk huarm.

*f* .*e* [900] Vig Guthorms Ormssunar a sunnudaginn i fardogum i Snoksdal. vo hann þorsteinn Jonsson. Grasvoxtr litill. Regn sua mikit vm haustid at skridr hlupu vida þar sem alldri hofdu [fyrr] hlaupit. Spilltuzst andvirki manna.

[1]) heidir *Cd*.

Andadiz herra þrondr erchibyskup ok herra Othgeirr byskup af Skælhollti. Suarid land Olafi konungi Hakonarsyni i Noregi. Andadiz Botholfr byskup af Stafangri enn vigdr þangat herra Hallgeirr Asmundarson til byskups af þrandi erchibyskupi. enn nockuru sidar kom herra Olafr byskup af pafagardi er þar hafdi vigdr verit til Stafangrs. Vard herra Hallgeirr at ryma. Skipadr drozseti i Noregi herra Augmundr Finnsson. For sott mikil yfir allt Jsland. Andadiz Thorleifr prestr Bergþorsson. Eirekr riki Magnusson. Hakon Gizorarson. Bryniolfr riki Biarnarson. Var sira Halldor Loptzson rædsmadr at Holum. Vtkuoma Rafns Botolfssonar. hafdi Olafr konungr veitt honum logsogn vm hælft land æ medan Rafn lifdi. Leez Grimr prestr i Huitæ.

[1382] *e r.* Kom til Jslandz Andres Sueinsson hirdstiore skipadr af kong Olafi. Jtem bref Vrbanni pafa kom til Noregs ok vpp lesit at huerri kirkiu ok Robertus er kalladiz pafi bodadr bannsettr. Kosinn sira Hakon Juarsson til erchibyskups af ollum korsbrædrum ok ætladi i brott til pafa ok komz eigi lengra enn i þyduerskuland. þar fretti hann at vigdr var til erchibyskups a pafagardi einn danskr leikmadr er Nichulas het. Forgeck skip stadarins i Skalhollti komz af folkit a bæti til Grænlandz med miklum iarteinum. Kenndizst Jonn kiagi þriu mord ok var kuiksettr siþan. Vard endiligr vegr a Kisamælum ok vann Syslu-Oddr. Efiduz flockar ok fridleysi.

*d b.* Suarit Jsland kong Olafi Hakonarsyni i logrettu. Kom skip af Grænlandi til Noregs er þar hafdi verit .ij. vetr ok i nockurir menn þeir er kuomuz af Thorlakssudinni ok sogdu andlæt Alfs byskups af Grænlandi ok hafdi hann þa andazst fyrir sex vetrum. Jtem vighdr herra Michael byskup a pafagardi til Skalhölltz. var hann ædr penitentiarius i Rom danskr at ætt. Jtem letz Einarr bondi Eireksson af skipi. Helgi ok Krækr Pælssynir ok margir adrir rosknir menn. þa vrdu ok hormulig tiþendi i Orkneyium at drepinn var Vilhialmr byskup. Andadiz sira Marteinn þiodolfsson.

*cb .a* Fyrirgeck skip Hakonar Jonssonar ok letuzst nær .lxxxx. manna. Kong Olafr for til Danmerkr. Tekinn af Nichulas

Broddason eftir domi. Hofuzst Ásgeirsær mæl. Vigfuss Flosason i banni ok skriptadi a pafagard fyrir nog brot. Var Pæll prestr officialis. Fyrirburdir storir fyrir sunnan land.

[1385] *a n.* Vtkuoma herra Michiels byskups. var hann fluttr a land austr fyrir Mydal. ok .x. menn med honum enn skip þat atti hustru Margareta. rak þat vndan ok letz af huert mannzbarn ok fanz rekinn vid Hialltland edr Færeyiar. þa rak ok vndan .iiij. Jslandzfaur til Grænlandz ok voru þar .ij. vetr med heilu ok holldnu. Gudmundr Ormsson ok Eirekr Gudmundarson ridu heim at þordi Jonssyni a iolum ok fongudu hann. var hann sidan hogginn eftir domnefnu Orms Snorrasonar. ok æ sama ari hogginn Jonn Snorrason. þrongdr med manna gangi Gudmundr ok Ormr a þingi. Seen cometa.

*g .n* Andadiz Nichulas erchibyskup. hafdi hann ecki officium byskupligt gert ok engar vigslur gert ok eigi born fermt. Jtem andadiz herra Ogmundr Finnzson drozseti i Noregi. Kiorinn herra Vinalldi til erchibyskups. Ræn ok stuldir vm Vestfirdinga fiordung ok Sunnlendinga fiordungh af monnum Gudmundar Ormssonar. Vtanferd Eireks Gudmundarsonar. Do mart folk af hual i Skagafirdi.

*f s.* Fiogur skip komu inn i Hualfiord er verit hofdu .ij. vetr a Grænlandi. þar var æ Biorn Einarsson. Vtkuoma Eireks Gudmundarsonar med hirdstiorn ok Narfua Sueinssonar med lögsogn yfir hælft land. Skipadir bædir af Ogmundi drozseta ok þotti þat nylunda. Vtanferd Andres Sueinssonar enn þorsteinn Eyiolfsson tok af honum hirdstiorn. Fun[dr] kaupmanna i Hualfirdi vid Sumarlida. efldiz hann sidan med flockum ok framferdum. Strid mikit med drottning Margretu ok Albrikt. vard hann fanginn ok synir hans .ij. Fell mart manna. nær þushund allz.

*ed i.* Vig Eireks Gudmundarsonar. var hann bædi hirdstiori ok hirdmadr. Fangadr Hallsteinn Palsson ok vard lauss. Sysludeilur miklar a Jslandi. Embættislausir margir prestar i Skalholltz byskupsdæmi ok margar nylundur giorfar af Michele byskupi. Vo Skallason saklausann mann at rettum.

Vo Gudmundr þorsteinsson Gudlaug Gudmundarson a Nichulas messudag i kirkiugardinum at Saudafelli. Huarf Gudmundr Ormsson i Færeyium um nætt med vndarligum hætti. tok Greipr syslumadr þar slika peninga sem Gudmundr hafdi ætt ok kalladi kongs gozs eftir orskurdi sakir þungra sakagifta. Kom skip i Dyrafiord. Hofuz Hualsærmæl. Vtkuoma þorkels prestz sæls ok Hallz Magnussonar at heimt(a) subsidium palij erchibyskups vegna. Hofuz þa mæl þeirra sira Einars Haflidasonar. Vetr godr. Grasvoxtr mikill.

*c. i* Vtanferd Biarnar Einarssonar ok Michiels byskups. sira Halldors Loptzsonar. Var hogginn Gudmundr þorsteinsson med domi. Skarr i Dyrafirdi. Særdr Gudmundr af Bryniolfi ok sua Bryniolf(r) af Gudmundi en Vigi sparri hio allt nef af Einari Olafssyni var Einarr særdr fleirum sarum. Let vt skip i Dyrafirdi. Flutt bein þordar Jonssonar til Stafholltz i kirkiugard eftir skipan officialis ok samþycki allra lærdra manna ok hyggia menn hann helgann mann. Andadiz sira Ari i Reykiahollti. For krefdusott. Andadiz mart manna. komu .xi. skip til Jslandz enn .iij. voru fyrir sua ecki foru brott. Tok Margreta drottning rikisstiorn i Noregi ok Danmorku. Fanginn Hallsteinn Pælsson ok kuiksettr. kendiz hann .iiij. mord. Vtanferd þordar Sigmundarsonar. Særdr Erlendr. Letz Juarr krokr af dryckiuskap. Meira vin kom til Jslandz enn menn myndi fyrr.

[1390] *b o.* Cristz ar .mccclxxxx. Vtkuoma Vigfussar Juarssonar med hirdstiorn yfir allt land. Veginn Markus þorsteinsson i Skogum af þeim manni er atti dottur hans er Sæmundr het. Vð Magnus Sturluson þann mann er Guthormr het. Vetr hardr. Sumar regnsamt sua at [901] onyttuzst andvirki manna. Var byskupslaust ok engi officialis i Skalholltz byskupsdæmi ok allr kristinn domr þar litt standandi. onduduzst prestar margir enn fioldi i burtu reknir af l[and]inu. enn hinir þo flestir sem eftir voru embættislausir. Andadiz Gudmundr aboti at He[lga]felli. manntapar miklir a Sniofellznesi ok sua vidara. Vðr sua hart at kuldum ok sniofum at varla voru saudgraus at Petrs

[1390] messo vm sumarit. Elldzvppkuoma i Heklufelli hin .vij. med sua miklum fadæmum af gny ok dunum at heyrdi vm allt landit. Eydduz Skard ok Tialldastadir af bruna. Var sua mikit vikrakast at slo hest til bana. Auskufall sua mikit at margr fenadr do af. Færdi sik ræsin elldzvppkomunnar or sialfu fiallinu ok i skogana litlu fyrir ofan Skard ok kom þar vpp med sua miklum bysnum at þar vrdu eftir .ij. fioll ok gia i milli. kom vpp elldrinn æ fyrra æri enn sloknadi a þessu. Vrdu þar i nændir huerar ok heit votn. Voru .vij. skip þau æ Jsland(i) at her hofdu verit ædr. Regn sua mikit vm haustid at or hofi geck eftir Marteins messo. Vatnavextir sua miklir at engi mundi slika. sua at þar fyrir drapz saudfe vida i Skagafirdi ok i Desey i Nordrærdal. Hlupu skridur nær vm allt land sua at vnyttuz bædi skogar eingiar tǒdur ok wthagar. Tok bæ allann æ Hiallalandi i Vatzdal ok sex menn. komz þar eingi lifs vndan sa er i bænum var. Tok ok bæ i Budarnesi ok onduduzst .xij. menn enn einn lifdi i husbrotunum ok hafdi heitid a þord Jonsson. Tok skrida allann manna bæinn i Longuhlid ok sua kirkiuna. letuzst þar .xvj. menn enn vndan komuzst konur .ij. ok karlmadr er foru i fios. enn lifs funduzst pilltar .ij. i skridunni eptir vm morgininn. þar voru inni Rafn Botholfsson laugmadr ok Jngibiorg þorsteinsdottir kona hans ok born þeirra .ij. þorsteinn kusi ok adrir heimamenn. fanz hustruin þegar vm morgininn. liggr hon i kirkiu a Modruvollum. var gert testamentum hennar hælfr fimti tugr hundrada med þeim .xv. hundrodum er fadir hennar lagdi til. fanz nær ecki af gozsi ok leitadi meirr enn .c. manna. tok þar ok naut ok nockud af heyium. Wrdu þessi tidendi fimtadags kuelldit eptir dagsetr fyrir Clemens messo. Stodu þessir bæir i Horgardal. Var þa logmannzlaust vm Nordlendinga fiordung ok Vestfirþinga fiordung. Topuduzst .iij. skip æ Skaga ok et fiorda fyrir Oslandzhlid ok .iiij. menn a hueriu.[1]

*a f.* Andadiz[2] papa tekinn til pafa[2] vigdr æ pafagardi til

[1]) *Aabent Rum i Codex for 2 Linier.* [2]) *Aabent Rum i Codex.*

[1391] byskups Petrus danskr prestr til Hola ok lifdi þa Jonn byskup skalli. Kom vt þorsteinn Snorrason[1] ok vigdr til abota i Danmork af Michele byskupi til Helgafellz ok skipadr officialis vm allt Skalholltz byskupsdæmi. Kom vt sira Halldorr Loptzson ok hafdi þegit af herra Michieli profastzdæmi milli Botzaar ok Geirolfs[2] fanz likami Rafns Botholfssonar logmannz ok færdr til Hola ok grafinn hia Smid Andressyni frænda sinum. Skipadr af hirdstiora aa alþingi med samþycki almughans þorsteinn Eyiolfsson lôgmadr yfir Nordlendinga ok Vestfirdinga ok sagdi engan orskurd i logrettu. Andadiz Jonn byskup at Holum Laurentius messo dag. Landskialfti sua mikill fyrir sunnan land vm Grimsnes Floa ok Aulfos sua at fiortaan bæi skok nidr at nockuru leiti. enn Mideingi Burfell ok Laugardælar braut at ollu nema kirkian stod i Laugardælum ok do vndir nockurir fatækir menn. Rifnadi vida iordin ok komu vpp votn. tok þessi landskialfti allt til Holltavorduheidar. Saa ein kuinna i Suartardal drottinsdags morgininn i fostu inngang tua(u) tungl full bædi i vestri. Vetr godr sumar gott. Haust sua gott framan til Magnus messo at naaliga fraus huorki ne sniofadi enn ofanfaull mikil fyrir sunnan land sua at onyttuzst hey manna. Hellt sira Einar officiolatus starfi vm allt Hola byskupsdæmi enn sira þordr Hola raadum. Vann Aarni Einarsson maal þeirra sira Einars fôdur sins ok þorkels sæls fyrir erchibyskupi. Fangadr Sæmundr Stephansson vt af þyckuabæiar klaustri ok tekinn af eftir domi. Komu vt Biorn Einarsson. þordr Sigmundarson ok þordr Aarnason med sira Halldori ok hofdu allir gengit til Roms. Sott mikil i Noregi. Vtanferd sira Paals sira Gudmundar Orms. þorsteinssona. Jons Gudmundarsonar. Andadiz sira Paall litlu sidar enn hann kom fram. hafdi Hakon Jonsson kyrrsett allt hans gozs enn sialfr vm sagdr. Hellduz oll drottningar volld aa Jslandi. Kalladi hirdstiori til Skoga enn Sumarlidi hellt fodursins vegna. Vô Hallr Eireksson þoruard Jonsson ok voru þeir manni firnari enn brædrungar. Feck þordr kollr [902] Valgerdar Jonsdottur. Topuduzst þriu skip med monnum i Vestfiordum

[1]) *Tilföiet senere men med samme Haand.* [2]) *Aabent Rum for ¾ Linie.*

enn onnur þriu sunnan landz. Kom vt Vigfus Flosason ok hafdi ecki farit til Roms sem hann var skylldugr þui hann hafdi tekit lausn allra sinna mæla af Heinreki Grænlandz byskupi. Vrdu auerkar med Sumarlida þorsteinssyni ok Runolfui Palssyni ok pilltum þeirra. tok meir S(umarlida) ok hans monnum. Tekinn til konungs sa madr er Eirekr heitir barn at alldri. gaf honum konungsnafn Hakon Jonsson ok andadiz litlu sidar. var þessi madr sagdr systurson drottningar Margretar en faderni hans veri i þyduerskulandi. fanzst ollum Noregs monnum litid vm þa breytni ok einkanliga i skattlondunum. Sigldi Jonn Gudmundzson[1]

[1392] *gf .e* Kom vt herra Petr Nichulasson ok brotnadi skipit fyrir Krysuvik ok tapadiz mestr luti goz enn hellduzst menn allir. þar kom vt Arni Einarsson ok hafdi gengit sudr. Reid byskup heim til Hola þegar vm haustid ok med honum Jonn prestr Magnusson. brodir einn danskr er Enis het. herra Sueinn prestr. Matheus skylldr byskupi. Sueinn diakn Petr[2] gammi steikari[2] smasueinn. allir danskir. þorsteinn klerkr noręnn mann Jonn slettr ok Ormr hialltlenzskr mann. Hellt sira Einar Haflidason officiolatus starfui ok allri sinni makt ok var i mestum kærleikum vid byskup. Hellt sira þordr Hola rædum. var helldr faatt med byskupi ok sira Steinmodi þorsteinssyni þess at hann hellt ollum sinum heidri ok storfum. leet byskup alla presta hallda sinum vaulldum. Hellt herra þorsteinn aboti ollum sinum volldum ok þotti þa byskupsdæmit helldr vel standanda. Hellt sira (þordr) rædum i Skælhollti. Hellt Vigfus Juarsson hirdstiorn enn þorsteinn Eyiolfsson lögsogn ok sua Narfui. Kom þiodbiorn vt med bref drottning Margretar huert er hon beiddi med skylldu at huerr madr gæfi henni hælfmork forngillda ok lagin vid landræd. var þui fyst þungliga suarad nær af ollum monnum. Hofuzst mælaferli milli Pæls þoruardzsunar ok Runolfs Pæls-

[1]) *Aabent Rum for 3½ Linie i Codex.* [2]) *Skrevet over Linien.*

[1392] sunar vm peninga er fallnir voru eftir sira Pæl þorsteinsson. Gifti Biorn Einarsson Kristinu dottur sina Joni Guthormssyni ok hellt brudkaupit vm haustid vm vetrnattaskeid i Vatzfirdi. Hafdi hirdstiori þar fyst vppi bônarbref drottningar. iattudu þa þegar margir enir betri menn. Sat sira Halldor Loptzson æ Heynesi þuiat hann hafdi leigt iordina fyrr af Micheli byskupi. hellt hann ok volldum sinum sudr þar. hafdi hann ok profastzdæmi vm Eyiafiord ok halldit þui alla stund siþan herra Jonn byskup veitti honum þat ok sua meþan hann var vtan. Reid Gisli Andresson heim i Krosshollt at heimta peinga sina at Vigfusi Flosasyni. skildu þeir sua at Gisli handlagdi Vigfus kvittan ok þotti flestum þat hælfkugan verit hafa sakir orda ok ofrikis þui at Vigfus var mannfleiri. Vrdu vpplaup ok astaudur milli þeirra fedga Vigfusar ok Narfa a Kolbeinsstodum. var Halldorr kægill særdr er hann hliop i milli þeirra. Sott mikil i Noregi ok manndaudi. Andadiz Jonn Gudmundzson Ormr þorsteinsson Jonn muli. Grimr paui. þorkell prestr Sælssun. Asbiorn prestr. Arni angelus. Sigmundr prestr. þorgils prestr. Biorn. Gudmundr prestr. Einarr prestr. Augmundr prestr. þordr prestr. Rafn. Suartr prestr. Grimr prestr. voru þessir allir or Skalholltz byskupsdæmi. þorgils Magnus prestar. Hallr Magnusson kiarni. Helgi son hans. þorkell hæll. Olafr Skeggiason. Sturli Boduarsson. Suartr þorleifsson ok son hans Pæll. Narfi þordarson. Hiallti Benedictson þorarinn Kodransson. Jonn Klofabiarnarson. þorleifr Gudmundzson. þorleifr Marteinsson ok þorleifr nef. Sigurdr Groson. Hiallti Gudmundz(son). þorkell rutr. Oddr Karason. Hallr Eyiolfsson. Oddr þorsteinsson gullsmidr. Asmundr þorsteinsson. Olafr profastr Jonsson. Gudmundr Loptzson. Bragi Hallzson. Einar dampr. Pæll grænlendingr. Halla Snorradottir. Helga Loptzdottir. Margret Jonsdottir. Helga Philippusdottir. þora Sueinsdottir ok margir adrir badi islendzskir ok norænir. Andadiz Arngrimr þordarson i langafostu. Veitti herra þorsteinn sira Vermundi Selærdal. Oddi þorsteinssyni Stafafell.[1]

[1]) *Aabent Rum for 4 Linier.*

[1393] *e r.* Skipadi Petr byskup vm vorit sira Joni Magnussyni officiolatus starf þuiat sira Einar villdi þa af leggia. Lagdi þordr af Hola ræd þui at hann villdi eigi leingr hafa af þij at fætkadizst helldr med þeim byskupi. Tok þa radin sira Jon Magnusson. Sættuzst þeir sira Steinmodr ok Gunnar Petrsson. Hellduzst oll onnur enu stærri volld bædi lærdra ok leikmanna a Jslandi. Vo[1] i Eyiafirdi[2] vo[2] Olaf knapa enn Eyiolfr hafdi adr vegit brodur hans ok lukt eigi allar bætr. Andadiz sira Einar Haflidason decimo kalendas octobris. var hann vetri einum fætt i niutighi æra gamall enn halldit Breidabolstad einu æri fatt i fimtigi. enn verit officialis[2] enn Hola ræd[2] Var hann ollum monnum harmdaudi. Hann feck ok alla þionustu þa cristnum monnum til heyrir. var hann færdr til Hola med sæmiligri likfylgiu. var AArni son hans formadr þeirrar ferdar ok kostadi likmenn bædi [903] at mat ok mungati. var hann iardadr i kirkiu at Holum i Hialtadal. stod þar yfir greftri hans herra Petr byskup ok mikit fiolmenni. Var veittr Breidabolstadr sira Joni Magnussyni. saung byskup sina fyrstu messo a Michaelsmesso. vard þar þa mikit fiolmenni ok veitti byskupinn hardla sæmiliga. Resigneradi Hallr aboti stettinn ok beiddiz af(t)ur i þingeyraklaustr var þa æbotalaust at þuera. For vtan Sumarlidi þorsteinsson i Austfiordum a sneckiunni. Komu fiogur skip til Jslandz eitt i Talknafiord. annat i Hualfiord. tua(u) a Eyrarbacka ok braut annat. vard biargat monnum ok mestum luta goz. Sagdi Narfui logmadr Pæli þoruardarsyni goz þat allt sem þeir Runolfr deilldu vm ok hellt Runolfr sem adr. Vard samkuoma vndir Gnupi i Dyrafirdi milli Biarnar Einarssunar ok þordar Sigmundarsonar ok sueinum þeirra. voru þar i hel slegnir tueir menn af Birni Hromundr Jmason ok Oddr Jonsson enn flestir allir menn hans lamdir ok sua hann sialfr. lysti Gudmundr Jonsson a sik vigi Hromundar. enn Halldor Kristiforusson fothauggi Hromundar. Stackagrimr lysti handarhauggi Hromundar ok vigi Oddz enn Brandr Sigurdarson at hann hefdi slegit Jon blaber. Jon þoralfsson hefdi slegit þorstein

[1]) *Aabent Rum for Navnet.* [2]) *Aabent Rum.*

[1393] purku en Arni Was(on) hefdi lagit til Liotz Jonssonar griss. Gengu þessir .viij. vt fimtadags natt fyrir Ceciliu messo Kraki formadr a Cristiforussudinni Brandr Sigurdarson Grimr Ketilsson Halldor Cristiforusson Gudmundr Jonsson Jngialldr Arnorsson. Arni Was(on) ok Jonn þoralfsson. þa sogdu sumir menn at Olafr Margretarson hefdi vt gengit. hafdi Hromundr .vij. sær enn Oddr eitt æ fætinum vinstra vm knelidinn. en Liotr mikit sær æ bakinu fyrir ofan miodm. Aunundr litid sær fyrir ofan kne enn Gizsorr þordarson litla ben i andliti en Blaber ækuomu i andliti. Jnni i stofunni feck Kraki sær i hofud af þorsteini purku med sleddu. enn Ærni Was(on) skemdizst æ knifi er Biorn ætti. Var þordr bondi inni medan samkuoman vard vti ok kom eigi fyrr vt enn Biorn var i kirkiu kominn ok hans menn. baud þordr þa Birni vt enn Biorn villdi ecki til. Var Biorn ok hans menn i kirkiunni vm nattina ok nockud fram æ fostudaginn. Tok Sigurdr bondi Kollzson milli þeirra mænadardag ok for Biorn þa inn til Myra med sina menn. ok eftir þat heim i Vatzfiord. Hromundr do þa þegar vm nattina enn Oddr lifdi fram æ jol ok lysti þij adr at hann dæi af sott ok þotti monnum su lysing ecki afl hafa. Reid Gisli Suartzson vestr til motz vid þord mæg sinn ok sat þar miok fram til fostu. enn Biorn sat heima i Vatzfirdi ok fiolgadi ecki sinn flock. reid hann nordr vm land vm vetrinn fyrir fôstu ok siþan sudr vm land ok kom sua vndir sik flestum ollum enum bezstum monnum æ landinu. Druknudu fiortan menn i Vtskælaosi var Eyiolfr Eyuindzson formadrinn. Hofuzst Lundarmæl. Grasvoxtr mikill. vrdu litt todur enn vel vthey. Vetr godr framan til iola. Spurdizst or Noregi mikil tiþendi at þyduerskir hofdu komit inn i Biorguin vm vorit i paschauiku med[1] skipa ok kolludu kong Albrikt allann Noreg. enn hann var i fanghelsi i Danmork med drottninginni ok Eirekr son hans. foru þeir med hernadi enn ok geingu vpp a fimtadaginn eftir enn bæiarmenn rucku vid ok borduzst. fell margt manna af huorumtueggium ok þo fleira af þyduerskum fengu

[1]) *Aabent Rum.*

[1393] bæiarmenn vsigr. hofdu þyduerskir niu hundrat skytta. het sa Enis er fyrir þeim var þyduerskr herra skylldr Albrikt. Annarr het Mækinborg enn herra næinn Albrigt ok fell hann i bardaganum ok var iardadr inn at brædra ok gerdi Enis hans vtferd hardla sæmiliga enn let taka allt annat sitt folk þat er fallit hafdi ok roa med vt æ voginn ok sockua þar nidr. Jonn darri var fyrir bæiarmonnum þuiat hann var fehirdir ok dugdi hardla karlman(n)liga ok vard fangadr af þyduerskum. þessir fellu af landzmonnum Heinrikr Aslaksson. hann bar merki þeirra ok bardizst agæta vel. var hann skotinn i andlitid ok vt vm hnackann er hann lypti fra blikinu sakir hita ok var þa miok vti bardaginn. Jfuar treyia[1]

ok fioldi mannz annat nær[2] het sa Eirekr er skaut Mækinborg nordrfaramadr. gerdu enir þyduersk(u) þar et mesta heruirki bædi i rænum ok manndrapum. sua rauskudu þeir kirkna rett ok kuenna. ræntu þeir sua ramliga at þat sem þeir kuomuzst eigi med soktu þeir i siofar diup. hofdu brottu skip ok ackeri sem þeir kuomuzst med vtan Langbein ackerit er Olafr konungr hefir ætt þat gætu þeir huergi or stad fært. Let herra Enis sueria landit Albrigt ef hann væri rettr konungr. Suoru þessir menn[3]

fengu margir menn orkyml ok stor sær þo eigi felli ok hofdu dugat hardla vel. sem þordr biarki Eirekr spadfotr[4]

[904] [5]Andadiz sira Haflidi Magnusson. Kuomu vt a Brotaskipinu æ Eyrarbacka tueir menn danskir. het annar Jussi enn annarr nefndiz Ormr ok foru heim til Hola ok sætu hia byskupi. Halldinn skoli at Holum. Var Boduar diakni skolameistari. gerdi Hola byskup vigslur

[1]) *Aabent Rum for 3¾ Linie.* [2]) *Aabent Rum.* [3]) *Aabent Rum for 1¾ Linie.* [4]) *Aabent Rum for 4¾ Linie.* [5]) *Aabent Rum for ¾ Linie.*

af Skalholltz byskupsdæmi. Veitti herra þorsteinn aboti Olafi prest Kolbeinssyni Stad æ Olldurygg ok hellt þo Reykih(ollt) einu[1] æri fyrr enn Gunnari Gilssyni Reykiahollt Pæli Grimssyni Gilsbacha Vigfusi Sueinbiarnarsyni Mela. Steinmodi þorsteinssyni Garda. Joni þordarsyni skrepp Kælfafell. Joni ref Miklahollt. Oddi prest rædsmanni Breidabolstad ok hellt þo Vallanes sua at hann tok æuoxtu af enn Sigurdr prestr Sigurdarson hafdi. Hafdi hirdstiori vppi a þingi drottningarbôn ok iattudu allir enir bezstu menn at gefa atta alnar hafnarvodar fyrir Vigfus skylld ok skilldu fra at þat skylldi skattr heita ne optar krefia vtan Eyfirþingar þeir villdu eigi gefa. Druknadi Olafr toni i Steinolfsdalsæ.[2]

[1394] *d .k* Kom vt Vilkin byskup[3] son i Hualfirdi vigdr af Vinallda erchibyskupi ok kom heim i Skalhollt Bartolomeus messo. kom vt med honum Jonn prestr þordarson ok hafdi vtan verit sex ær ok halldit Crosskirkiu ok Gudmundr prestr þorsteinsson. Hauskulldr prestr Jonsson ok veittr Breidabolstadr af byskupi. þar kom ok vt a Heinreksskipinu sem byskupinn var i þorbiorg Ormsdottir enn formadrinn var Ketill ribbr. þar kom ok Postulasudin var Andres kaffall fyrir þui. settuzst þeir aftr a smiorskipinu. sigldu þeir ecki i Talknafirdi. Let vt Lysubuzsan æ Eyrarbacka fôstudaginn fyrir Mariumesso sidarri. foru þar i sueinar Peturs byskups Sueinn prestr Matheus ok þorsteinn klerkr.[4]

Let vt i Hafnarfirdi[5] Reid Biorn Einarsson vestr yfir Glæmu miduikudaginn eftir þorlaksmesso ok med honum Vigfus Jfuarsson hirdstiori þorsteinn Eyiolfsson lôgmadr. sira Halldor Loptzson. sira þordr þordarson. Jonn Hakonarson. Sigurdr huitkollr. Sæmundr þorsteinsson. Einarr Dalksson Jonn Sighuatzson Benedikt Gizor-

[1]) *eller* en. [2]) *Aabent Rum for 16 Linier.* [3]) *Aabent Rum.* [4]) *Aabent Rum for 1½ Linie.* [5]) *Aabent Rum for Navnet.*

[1394] arson Steingrimr Sigurdarson. þordr Sturluson. Eirekr þorleifsson ok nær niu tigum mannz ok flestir allir tyiadir panzserum iarnhattum ok vopnhanzskum. Stefndi hirdstiori þordi Sigmundarsyni ok ollum hans pilltum vm vijgamæl Hromundar ok Oddz fyrir sik ok lögmenn til Mosualla fimtudag ok föstudag næsta. Kom þordr i stefnuna ok med honum Sigurdr bondi Kollzson Gisli Suartzson. þordr kollr Sigurdarson. Oddr leppr þordarson Sigurdr skalli ok nær fimm tigum manna vel tuttugu tygiadir. tok þordr kollr dag af hirdstiora ok Birni fyrir þord ok hans menn. sotti þorsteinn purka ok Jme med styrk Biarnar þord Sigmundarson Brand Sigurdarson. Halldor Kristiphorusson Jngialld Arnorsson Jon þoralfsson ok Arna Was(on) ok alla til vtlegdar eftir domi ok urskurdi sua landzvist þeirra væri vndir konungs miskunn. enn Grimr ok Gudmundr voru rettir vegendr. Sættuzst þeir siþan Biorn ok þordr med atgangi enna besztu manna. skylldi Biorn einn gera þeirra æ milli sem hann villdi ok honum yrdi mestr heidr i þordi forsmanarlaust i alla stadi nema hann villdi helldr nefna menn til sem Biorn gerdi. Nefndi Vigfus hirdstiora. lögmann. Sira Halldor. sira þord. Jon Hakonarson. Sigurd Kollzson. Gisla Suartzson. þord koll. Sigurd huitkoll. Einar Dalksson. Sæmund þorsteinsson. Jon Sighuatzson. Odd lepp. ok þord Sturluson. gerdu þeir at þordr skylldi bioda Birni ok Solueigu husfru hans ok ollum þeirra sueinum sæmiliga veizslu ok gefa Birni til fimtigi hundrada i gripum ok sæmiligum þingum. Veitti Biorn hardla sæmiliga sinum monnum fyrri dagana ok leysti alla ena bezstu menn vt med sæmiligum giofum. Gifti þordr Sigmundarson Olofu dottur sina Ara Gudmundarsyni. Var sættzst æ Lundarmæl. Veitti Oddr Sigurdarson Gudmundi Gizsorarsyni auerka milli iola ok faustu. Andadiz hann þar [905] af vm vorit eftir pascha. Gaf sira Einar þoruardzson vpp Grimstungnastad enn hann var veittr þorsteini prest þorfinnzsyni af herra Petri byskupi. Veitti byskup ok Joni þorualldzsyni Hola i Vestrhopi enn Birni Aslakssyni Hof a Skagastrond. atti hann eignarlut i Spaakonufelli enn hellt kirkiunnar luta af byskupi enn

[1394] þorsteini Skeggiasyni [Stad][1] i Rutafirdi enn þorsteini teskli Laufæs. Tok sira Steinmodr þorsteinsson Hola ræd ok profastzdæmi vm Skagafiord. Hellt hann ok Greniadarstad ok profastzdæmi vm þingeyiarþing. Lystr Vigfus Flosason bannsettr af herra þorsteini abota ok officialis fyrir sin fyrri mælaferli ok þotti hann enn ecki gerazst spakr. Vrdu averkar i Hualfirdi fyrir Mariumesso sidarri. Vann Jonn kollr æ Teiti Kolbeinssyni ok sua Teitr æ Joni. Vann Pæll Gudmundarson a Ketli Einar(s)syni en prikadi Einar kaupsuein ok blakadi Ketil ribb formann. Sagdi herra Vilkin sina fyrstu messo a Crossmessodag[2]

[3] Vigdi byskup Hall[4] til abota at þueræ. Gerdizst mikil audn i stadargozsinu æt Holum. Let byskupinn efna til hafskipsgerdar skip er hann tok af Þorsteini lôgmanni fyrir .lx. hundrada. let byskupinn ok ganga Holaferiu a Sniofellznes. Var hon forn ok lestizst fyrir Beruvik ok þar uppsett etc. .ij. ackerum. Druknudu .v. menn a Sniofellznesi. Vo Ormr danski sueinn byskupsins Gizsur Jonsson bosa saklausann drottinsdaginn næsta fyrir Mariumesso sidarri fyrir framan byskupsstofuna i klaustrinu æ Modruvollum var Gizsor ok sueinn byskups. nefndi hann sik þa Nichulas Ormsson er lysti viginu ok sagdiz med þui skirdr hafa verit enn medr Ormsnafni fermdr. Var Petr byskup þa nordr þar i visitatione. Nu attu menn þetta haust at vinna eida at fe sinu ok minkudu fleiri sina peninga. Hallæri mikit til kostar ok skreidar nær vm allt land. Vôr kallt. grasuoxtr litill. fellir nockur.[5]

[1]) *Hul paa Membr.* [2]) *Aabent Rum for 2 Linier, den tredie udraderet.* [3]) *udraderet* $\frac{1}{6}$ *Linie.* [4]) *Aabent Rum.* [5]) $1\frac{2}{3}$ *Spalte tilbage ubeskreven.*

